# FORNMANNA SÖGUR,

EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AÐ TILHLUTUN HINS

KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

Urðar orði
kveðr engi maðr.

*Fjölsvinnsmál.*

SJÖTTA BINDI.

Saga Magnúsar góða ok Haralds harðráða
ok sona hans.

Kaupmannahöfn, 1831.

Prentaðar í enni *Poppsku* prentsmiðju.



# SÖGUR

# MAGNÚSAR KONÚNGS GÓDA, HARALDS KONÚNGS HARDRÁDA OK SONA HANS,

---

EPTIR GÖMLUM SKINNBÓKUM

ÚTGEFNAR

AÐ TILHLUTUN HINS

KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

---

Kaupmannahöfn, 1831.

Prentaðar í enni *Poppsku* prentsmiðju.



# Formáli.

Hit 6ta bindi af Fornmannasögum, sem hèrmeð á prent útgeingr, inniheldr þrjár sögur, náskyldar hver annarri ok með nokkru móti samanhángandi; eru þær ok at öllum líkindum eins höfunds verk.

1. Fyrst er *Saga Magnúsar konúngs góða*; nær hon ekki til dauða hans, heldr einúngis til heimkomu Haralds Sigurðarsonar. . . .

2. *Saga Haralds konúngs harðráða*; segir þar fyrst frá herförum hans í útlöndum ok heimferð til Noregs, síðan frá samstjórn þeirra Magnúsar konúngs góða, en seinast frá ríki hans, er hann var orðinn einvaldskonúngr at Noregi, eptir fráfall Magnúsar Ólafssonar allt at dauða Haralds, er hann fèll á Einglandi.

3. *Saga af Magnúsi ok Ólafi Haraldssonum*; er hon styzt þeirra, ok í velflestum handritum óaðgreind frá Haraldssögu harðráða; en óhentugt þótti at kalla Haraldssögu, eptir þat búit er at segja frá falli hans, ok aptrkomu liðsins, þess er eptirlifði. Í Morkinskinnu er yfirskriftin: *Ólafs kyrra saga*, en þá er eins ok ekki væri sagt frá Magnúsi konúngi Haraldssyni, sem er þó raunar í sömu sögu; þykir því þessi yfirskrift betr samsvara efninu.

Þessar þrjár sögur eru úr hinum sömu handritum teknar, nefniliga:

1) Til grundvallar hefir lögð verit kálfskinnsbókin, Nr. 66 í arkarformi, tilheyrandi Árna Magnússonar nefnd, ok hèr *A* kölluð; er hon skrifuð með

fastri ok ágætri hendi, meðallagi bundin, orðuð með stakri nákvæmni, ok víðast hvar allvel læsilig; þó hefir skrifari hennar stundum hlaupit yfir línu eðr klausu, stundum, þó mjök sjaldan, tvítekit stöku orð eðr misskrifat. Rèttritun hennar er líka ágæta góð, ok því sjaldan frá henni vikit hèr í útgáfunni: sèrílagi er þar *y* ok *ey* nákvæmliga aðgreint frá *i* ok *ei*, einnig optast *au* frá *ö*, ok ð frá *d*, eptir *lg* og *ng* er venjuliga *d* brúkat; t. d. *fylgd*, *teingdir*; *qv* er ekki brúkat í A, en allstaðar *kv*; fyrir *è* er skrifat *ie*, t. d. *iel*, *hiellt*, ok fyrir *kk* allstaðar *ck*; framan fyrir *ng*, *nk*, allstaðar *ei*, t. d. *feingum*, *geingit*; áherzlumerkin mjök sjaldan brúkuð, en *ö* regluliga skrifað eins ok *o* með beygðum hala neðan til vinstramegin; *i* ok *j*, *u* ok *v* eru hvörgi aðgreind, en þetta ok þessháttar er í útgáfunni lagat eptir viðteknum rithætti. Nr. 41 í arkarformi er afskrift af *A*, ok hèr ekki hagnýtt nema framan til, ok þá merkt *B*; einnig Nr. 316 í fjögrablaðaformi.

2) Næst A geingr *Hrokkinskinna* svo kölluð, en hèr merkt *H*; þat er kálfskinnsbók á konúngsins stóru bókahlöðu, Nr. 1010 í arkarformi heldr breiðu, skrifuð á tveimr dálkum, en miklu nýrri ok óvandaðri, ok allvíða hlaupit yfir stöku orð, svo at varla er skiljandi meiníngin, nema önnur bók sè viðhöfð. Stundum þykir skrifarinn stytt hafa málit með ásettu ráði, án þess þó at breyta meiníngunni; at öðru lagi er orðfæri hennar ok frásögn mjök samhljóða A, hefir hon því komit okkr í góðar þarfir, til at fylla upp þat sem vantaði í A, bæði at framanverðu ok líka innan um. Þegar þessháttar uppfyllíng var nokkut leingri, ok þótti nokkut áríðandi, er allstaðar getit, at þat vantar í A, en þegar einstakt orð, sem stendr í H, þótti vanta í A, er þat innsett í ( ). Rèttritun

þessarrar bókar er eigi sú bezta, er hèr opt samansleingt *ur* ok *r* í niðrlagi orða, einnig *t* ok *d*, en ekki brúkat ð, opt er *e* skrifat fyrir *i* ok *o* fyrir *u* í endíngum, líka *aa* fyrir *á*; *gh* er opt brúkat, t. d. í *dagh*, *vegh*, *migh*, þ*igh* o. s. fr. Nokkurskonar afskrift af *H* er Nr. 304 í 4blaðaformi í Arna-Magnússonarnefndarinnar safni með fljótaskrift ok lítt merkilig; einnig, þó nokkru fjær, pappirsbók Próf. Rask tilheyrandi, sem hèr er notuð á stöku stöðum ok merkt *R*.

3) Í þriðja stað er sú alþekkta *Flateyjarbók* (*F*) á konúngsins stóru bókahirzlu, inniheldr hon Magnúsar góða og Haralds harðráða sögur, ásamt nokkrum þartil heyrandi þáttum, í öðrum parti á 755. til 840. dálks, skrifaðar með annarri lakari hendi enn mestallt hitt í bókinni, en þær eru þar mjök öðruvísi orðaðar, þó at mestu leiti komi í sama stað niðr; er hon því hèr lítt hagnýtt nema til orðamunar í vísunum. Af sonum Haralds finust ekki sagt í Flateyjarbók, en Haraldssaga harðráða endar þar á 821. dálki með 122. kapítula, ok taka þá við þættirnir, sem standa hèr flestir á sínum stöðum í textanum.

4) Nær F kemr *Morkinskinna*, kálfskinnsbók samastaðar Nr. 1009 í arkarformi af því eldra handritasafni (hèr merkt *M*), er hon mjök gömul ok merkilig en víða ólæsilig, ok sumstaðar vantar stóra kafla í; hefði elligar vert verit at leggja hana til grundvallar. Í nokkrum af vísunum kemr hon at öllu leiti saman við *A*, en annars er frásögnin öðruvísi, ok jafnvel vísunum ok efninu yfir höfuð allopt öðruvísi niðrraðat. Rèttritanin er hèr góð, en heldr fábreytilig; t. d. allvíða er hèr *c* fyrir *k*, ok jafnvel *ce* fyrir *kk*, *þ* fyrir ð í miðjum orðum, þó stundum sè ð brúkat; *e* fyrir *i*, og *o* fyrir *u* allviða, sèrílagi í endíngum,

þar sem ekki er hljóðstafabreytíng fyrir framan; *ø* ekki einúngis fyrir *œ* (eðr *œ* þat er dregit er af *ói*), heldr einnig fyrir *ö*, *sc* fyrir *st* í líðandi sögnum, einnig *zc* fyrir *zt*, t. d. *hann lèzc*, *þó at þeirra yrði minnzc*. Af þessari bók er Nr. 44 í arkarformi á Arna-Magnússonar-safninu afskrift lítt merkilig, einnig Nr. 315 í 4blf. Er hon hèr hagnýtt litlu fremr en *F*, þar ómöguligt var at innfæra allan hennar orðamun ok frásagnar.

Er nú eptir frá því at segja, hverir unnit hafa at þessari útgáfu. Hra. kateket ok yfirkennari Þorgeir Guðmundsson hefir útskrifat allan textann úr A, ok borit hann saman við H, F og M framm at bls. 384, þarnæst hefir próf. ok bókavörður R. Rask, eptir tilmælum próf. Dr. Rafns, samanlesit textann við A, ok samanburðinn við hinar, einkanliga við H ok M, en niðrlagit frá bls. 384 hefir hann einn samanborit. Af próförkunum hefir kateket Guðmundsson lesið þá fyrstu, próf. Rask þá aðra eptir aðalbókinni, svâ ok líka þá þriðju. Registr mun fylgja næsta bindi.

Kaupmannahöfn þ. 27 apríl 1831.



# Saga Magnúsar konúngs ens góða.

1. Svâ er sagt, at Jarizleifr konúngr rèð fyrir Garðaríki ok Íngigerðr drottníng, dóttir Ólafs konúngs svænska, hún var allra kvenna vitrust ok fríð sýnum. Jarizléfr konúngr lèt gera sèr eina ágæta höll, ok prýða með gulli ok gimsteinum; þá er höllin var algjör, skipaði konúngr hana hraustum dreingjum ok vel búnum at vâpnum ok klæðum; höllin var tjölduð með dýrum pellum, ok allr var hennar búnaðr hinn virðuligasti. Konúngr bauð til sín öllum hinum ágætustum höfðíngjum um sitt ríki, ok gerði dýrliga veizlu; en er höllin var skipuð hæverskum höfðíngjum ok reyndum, settist konúngr sjálfr í hásæti, skrýddr tignarklæðum sínum. Íngigerðr drottníng gekk í höllina með fagrligri kvennasveit; konúngr stóð upp í mót henni, ok kvaddi hana blíðliga, ok mælti síðan: hvar sáttu, drottníng! slíka höll, ok svâ vel búna, fyrst at sveit slíkra dreingja, sem hèr eru samankomnir, þarmeð prýði hallarinnar með miklum kostnaði?

Drottníng svarar: þessi höll, herra! er víst vel skipuð, ok fá dæmi munu finnast til, at slík finnist, ok svâ mikill fèkostnaðr, eðr jafnmargir höfðíngjar ok hraustir menn komi saman í eitt hús; ėn betr er sú höll skipuð, er Ólafr konúngr Haraldsson sitr í, þótt hún standi á súlum einum. Konúngr reiddist orðum hennar, ok mælti: svívirðing er í slíkum orðum, ok sýnir þú enn meiri ást þína við Ólaf konúng enn oss, ok sló hana pústr. Drottníng sagði: miklu mun yðar meiri munr, enn ek megi orðum tilkoma[1], sem vert væri. Gekk hún þegar út or höllinni, í reiðum hug; segir hún vinum sínum at hún vill í braut or ríki Jarizleifs konúngs, ok taka eigi optar af honum slíka skömm. Vinir hennar báðu hana sefast, ok snúa hug sínum til konúngs. Hún sagði konúnginn fyrr skyldu bæta henni þetta. Nú er konúngi sagt at hún vill burt; þá eiga hlut í góðgjarnir menn, ok biðja hann vægja til; hann gerði svâ, ok bað hana sátta vera, ok sagðist þat mundu tilvinna, at veita henni þann hlut, sem hún beiddi hann; en hún játti þeim kosti, ok segir svâ: þú skalt senda skip norðr í Noreg til Ólafs konúngs, því ek hefi spurt at hann á einn úngan son[2], bjóð honum híngat til fóstrs ok uppfæzlu! því þat er satt með (ykkr) Ólafi konúngi, sem fornmælt

[1]) tilscipa, *M.* [2]) laungetinn, *b. v. M.*

er, at sá er úgöfgari sem öðrum fóstrar barn. Konúngr segir: þat skaltu þiggja, sem þú biðr hèrum, ok una megu vær við þat, at Ólafr konúngr sè oss meiri maðr, ok eigi met ek til óvirðíngar, þó ek fóstri honum barn. Eptir þat sendi konúngr skip ok menn til Noregs; ok þá er þeir komu á fund Ólafs konúngs, sögðu þeir honum orð konúngs ok drottníngar. Hann svaraði: þetta boð vil ek gjarna þiggja, því mèr þikir minn son hvergi betr kominn, enn hjá Jarizléfi konúngi ok Íngigerði drottníngu, er ek veit mestan kvennskörúng, ok mèr bezt viljaða. Fèkk hann Magnús, son sinn, í hendr sendimönnum, ok tóku þau Jarizleifr konúngr ok Íngigerðr drottníng feginsamliga við honum; fæddist hann þar upp eigi með minni ást enn sjálfra þeirra synir.

2. Eigi leið lángt, áðr nokkvorir menn höfuðu hann í öfund, ok tjáðu fyrir konúngi, at óviðrkvæmiligt væri at fæða þar upp konúngsson útlendan; en þat kom fyrir ekki, því konúngr hlýddi ekki (á) þær fortölur. Magnús vandi sik við leika, ok var kænn við marga leika ok íþróttir þegar á únga aldri; hann gekk[1] eptir borðum, sem þá var títt úngum sveinum, með miklum fimleik, ok sýndi í því sem öðru sína atgerfi; voru þeir flestir, er þat þótti gott at vita[2]. Einn hirðmaðr, nokkut hniginn at

[1]) á höndum, *b. v. M.* [2]) at hann var svà brádgjör, *b. v. M.*

aldri, óþokkasæll, óþokkaði fyrir honum. Svâ bar til einn dag, er sveinninn gekk eptir borðum, sem hann kom fyrir hirðmanninn, skaut hann við honum hendi, ok hratt honum, ok kvaðst eigi villia ágáng hans; Magnús fèll fram af borðinu; lögðu menn þar misjafnt til, mæltu sumir með sveininum, en sumir með hirðmanninum. Magnús hafði fátt um; en á því sama kveldi, er konúngr var sofa genginn, var sveinninn eptir í höllinni, hirðmenn sátu ok drukku, þá gekk Magnús at þeim sama hirðmanni, er hann hafði fellt um daginn, ok hjó hann banahögg með lítilli öxi; [sumir lögunautar hins vegna vildu hefna hans ok taka sveininn, en sumir hlífðu hânum, ok vildu vita hve mikit konúngr ynni honum; tók þá einn hirðmaðr sveininn, ok hljóp[1] til þess herbergis, er konúngr svaf í, ok kastaði honum í sængina til hans, ok mælti: varðveit betr fól þitt öðru sinni! Konúngr segir: opt velìt þèr honum ill orð ok úsæmilig. Hirðmaðrinn mælti: ærit hefir hann nú til þess unnit, hann hefir drepit hirðmann yðvarn. Konúngr spyr, hversu at hefði borizt um hann. Sveinninn segir, sem var. Konúngligt verk, fóstri minn! segir konúngr, ok hló at, ek skal bæta fyrir þik; sættist konúngr við frændr [hins vegna, ok hèlt bótum upp fyrir vígit; en Magnús fæddist þar upp, ok var

[1]) *frá [ sèst ekki í M.*

öllum því hugþekkri, sem aldr hans ok vitsmunir drógust fram[1].

3. Eptir fall Ólafs konúngs ins helga gerðist mikill úfriðr millum Jarizleifs konúngs ok Sveins Alfífusonar, er þá var konúngr yfir Noregi, því Jarizleifr konúngr virði, sem var, at Noregsmenn höfðu nízt á Ólafi konúngi, var þá eigi kaupfriðr þeirra í milli, því hvorir drápu menn fyrir öðrum, svå sem þeir kvomust með[2].

4. Maðr er nefndr Kårl, en bróðir hans Björn, þeir voru lítilsháttar at burðum, en framkvæmdarmenn þó miklir, [höfðu fyrr verit saltmenn, en nú grædt penínga, ok gerzt kaupmenn, ok mikilmenni í skapi, en þó var Karl fyrir þeim; var nú svå komit þeirra ráði, at þeir lágu í kaupferðum, ok hèldu þeir ýmist til Saxlands eðr í Suðrríki, ok þótti öllum gott við þá at eiga. Eitthvert sumar er þeir kvomu til Danmerkr, ok ætluðu þá vestr til Einglands, þá mælti Karl við sína skipverja: kunnigt vil ek yðr gera, hver mín fyrirætlan er, ek ætla at fara í Austrveg kaupferð, en sakir ummæla Jarizleifs konúngs ok Sveins konúngs, ok þess annars úfriðar, er í millum þeirra er, þá má þat kalla eigi varligt; nú segir ek yðr af því til, at ek ætla þessa ferð at fara at sönnu, en ek vil gefa yðr orlof at gánga hèr á önnur skip, er búin eru til ýmissa

[1]) *frá* [ *sèst ekki í M.* [2]) við, *M, R.*

landa, ok (fara) hvert er yðr bezt líkar, en kunna öllum þökk, þeim er mèr vilja fylgja, heldr enn fara annan veg. Þá svarar einn norrænn maðr: mjök kemr oss þetta á óvart, (ok eigi) mundu vær með yðr farit hafa, ef vær hefðum vitat í fyrstu, en fyrir því at þú ert framkvæmdarmaðr, ok líkt at þèr fylgi gipta, þá munu vær þinni forsjá hlíta. Fóru þeir nú allir með honum, er sèr höfðu þar skip ráðit; þeir kvomu í Austrríki við eitt kauptún, ok vildu kaupa sèr þar nauðsýnliga hluti, en þegar landsmenn vissu, at þeir vâru Norðmenn, þá heituðust þeir at veita þeim atgaungu, ok hèlt við bardaga. Nú sem Karl sá at í óvænt (efni) var komit, þá mælti hann til landsmanna: þat man yðr metit til mikillar hvatvísi, ef þèr takið fyrir ráð konúngs yðvars, at meiða eðr drepa útlenda menn, þó híngat fari með kaupeyri sinn, ok geri yðr engan úfrið, ok er yðr vitrligra at bíða konúngs atkvæða um slíkt. Varð þá eigi at þeim gengit með öllu, en þó sèr Karl at þeim mun eigi duga at halda kyrru fyrir; gerir hann þá ferð sína á fund Jarizleifs konúngs, ok er hann kom þar, gekk hann fyrir konúng ok kvaddi hann. Konúngr spyr, hver hann væri. Hann svarar: ek em norðmaðr einn lítilsháttar, kom ek híngat til lands með góðum friði. Konúngr mælti: því vartu svâ djarfr at sækja híngat, eðr hyggr þú þína gæfu meiri enn annarra manna, at þú munir bèr draga fram kaupeyri þinn, en aðrir hafa

eigi haldit lífinu: ok hafi þèr, Norðmenn! (eigi) svâ þúngan hlut af oss, at þèr værit eigi verra verðir. Karl svarar: ek hefi verit einn saltkarl lítilsháttar, þó mèr hafi nú dregizt penníngar; hefir ek mátt litlu orka, en aldri var ek í hug eðr verki í móti Ólafi konúngi. Þat hygg ek (segir konúngr): at þú munir illa reynast sem aðrir Norðmenn, ok bað taka hann ok setja í fjötra, ok svâ var gert. Síðan segir konúngr Magnúsi, fóstra sínum, ok spyr hann ráðs um, hversu með Norðmenn þessa skal fara. Magnús svarar: lítt hafi þèr, fóstri minn! sótt mik at ráðum hèrtil, en þess þikkir mèr von, at seint verði Noregr unninn, ef drepa skal alla þá, sem þaðan eru ættaðir, ok at rèttu megu kallast mínir þegnar[1]; öðruvísi hygg ek [at verði (at) fara, ef ek skal þess á leit fara, at fá ríki í Noregi[2], enn hatast við þá alla, er þaðan eru. Þá segir konúngr: þetta er vel mælt, ok segir sik skyldu hans ráði fylgja. Um morgininn eptir lèt konúngr leiða Karl fyrir sik, ok mælti til hans: svâ lízt mèr á þik, at (þú) sèrt giptuligr maðr, ok þat vill Magnús, fóstri minn, attú hafir grið; nú eru þèr 2 kostir af minni hendi: annar attú farir til skips yðvars, ok fáig þèr vín ok vist, farit með kaupeyri yðvarn sem yðr líkar, ok ábyrgizt yðr sjálfir, hvort þèr hafið grið af

[1]) *frá [ er máð og ólesandi í M.* [2]) værma munu at orka, *M.*

öðru landsfólki, þó ek gefi yðr frjálsa; sá er annar, at þú far til mín, ok ver með mèr í vetr, ok vit fyrir víst, þá er vorar, at koma mun á þinn hlut vandkvæði. Karl svarar: mjök er ek vanfær fyrir því at sitja, en þó vil ek mik eigi frákjósa vegligu boði, ok skal hèr tilhætta með yðvarri giptu, kann þá enn vera at vel reiði af, þó nokkur vandi liggi á. Karl ferr nú til hirðar Jarizleifs konúngs, ok á konúngr opt ræður við hann, ok virðist hann vitr maðr.

5. Svâ bar til einn dag um vârit, at þeir konúngr ok Karl eru á tali; þá mælti konúngr: hèr er fè, þat er þú skalt viðtaka, ok þarmeð man fylgja nokkur vandi, þú skalt þetta fè bera undir lenda menn í Noregi, ok alla þá, er [nokkurs trausts er at von[1], ok vinir vilja vera Magnúss konúngs Ólafssonar, því þú ert vitr maðr, þó þú sèrt lítillar ættar. Karl svarar: þetta er ekki mitt, sá maðr skyldi vera mikilsháttar ok stórvitr, er slíkra erinda færi, ok slík stórræði (á) með höndum at hafa, svâ mikit ofrefli sem við er at eiga. Konúngr mælti: þú þikir mèr vel tilfallinn at mínum dómi, en von þiki mèr at þú komir í mikla raun, ok eigi mantu í milli sjá, hvârt þú kemst undan eðr eigi; en ef þú villt þetta eigi, þá kann vera, at þú þurfir eigi leingi at bíða bráðari vandræða. Til man ek hætta,

[1]) nokkorr miðmundi er at, *M.*

segir Karl, at taka við þessu erindi með yðvarri hamíngju ok ráðagerð. Karl fór austan um vorit til Danmerkr, átti hann þá skiparastefnu, ok segir svâ til sinna kumpána: þat er yðr kunnigt, at vèr höfum ekki leyfi haft, til at sigla í Austrveg, er mèr mikil von, at Sveinn konúngr gefi oss sakir á þessi ferð, er vær komum í Noreg; því er þat mitt ráð, vær skiljumst hèr, fari þèr til Einglands eðr í aðra kaupstaði, ok högum svâ til, at hverr vor komi í Noreg, man þá síðr fráðit um vâra ferð, ella höfum vær í hættu bæði fè vârt ok fjör; en ek man fara hèr fyrst á land upp til eins fèlaga míns, er hèr er fyrir, en ek vil at þèr farit með fjárhlut minn ok annizt. Björn, bróðir hans, brá honum á eintal, ok mælti: aldri vissa ek, at þú ættir hèr vin, ok munu önnur brögð ívera, ok leyn mik eigi. Karl segir honum þá allan málavögst, ok bað hann annast fè þeirra. Björn kvaðst eigi vilja skilja við hann í slíku vandkvæði. þat sýnist mèr ráðligra, (sagði Karl), at ek fari einn með sendifènu, en þó má vera at þat dugi, ef við förum báðir, ok höfum dreingskap við. þeir fara nú báðir samt, ok skynja skjótt, er þeir koma í Víkina, hverir höfðíngjar vâru vinir [Magnúss konúngs Ólafssonar[1], ok hverjum minna fannst um hans athæfi. þvínæst fóru þeir til Upplanda, ok lèttu eigi fyrr enn þeir kvomu norðr í þrándheim; þeir fundu Einar þambarskelfi, ok báru fram fèit, ok þar-

[1]) Sveins konúngs *M.*

með skírar jarteignir ok orðsendíng Magnúss konúngs Ólafssonar. Einar svarar: jafnan er mèr mikill óþokki á slíkum fjárburð undir ríkismenn, síðan Knútr hinn ríki gerði svâ, en fúss væra ek at þjóna Magnúsi konúngi, ok því vil ek at vísu heita fyrir mína hönd, at koma austr þángat at vori fyrir hvíta daga. Fóru þeir nú þaðan út til Niðaróss, ok koma fyrir pálmsunnudag, ok tóku sèr herbergi í húsum þess manns, er Grímr inn grái hèt, en þá var kominn kvittr nokkur fyrir ena stærri menn af för þeirra; tók Grímr þá tal við þá bræðr, ok mælti: viti þið nokkut til þessara manna, er hèr hafa farit um hríð huldu höfði yfir land, ok bera fè undir höfðíngja? en ek tala þetta af því, at þið eruð þeim mönnum mjök líkir á vögst ok viðbragð. Þeir lètust ekki kunna til þeirra at segja.

6. Enn næsta dag eptir var móts kvadt, ok talaði gjallkeri konúngs, ok sagði at þeir höfðu njósn af um menn þá, er svíkja vildi land undan honum, at þeir væri þá komnir í bæinn, ok hefði verit í garði Gríms hins grá, sagði hann þeim mundu líf viðliggja, er þeim leyndi. Grímr kom heim, ok segir þeim bræðrum hvat talat var: ok ef þið erut þeir menn, þá mun ykkr þat vel ráðit, at segja mèr satt til, því jafnan hefir ek verit vin Ólafs konúngs, ok svâ vil ek vera Magnúsar, sonar hans. Karl svarar: þú ferr sjándi eptir, at við erum þeir menn. Þá farit í

braut sem skjótast, en ek man sitja fyrir svörum[1]. Karl svarar: ekki dugir at hafa þik í þessi hættu, ok skal eptir annar okkar, því aungu varðar um vâra aptrkvomu, ef Magnús konúngsson yrði viss, hvat sýst væri, eðr hverir hans vinir væri hèr í landi. Björn mælti: hvort sem þú villt hèr vera eða fara í burt, þá mun ek eigi við þik skilja. Svâ má eigi vera, segir Karl, ok skal fara annar okkar[2], ok vertu eptir ef þú villt. Þat er mèr enn síðr hent, segir Björn, því þú ert okkar vitrari, ok meiri framkvæmdarmaðr. Karl taldist ok eigi undan at vera eptir, þó hvorki væri rífligt. Fór Björn austr leyniliga, ok gat hann framkomit ferðinni með tilsjá hins heilaga Ólafs konúngs, ok giptu Magnúss, sonar hans, sagði Jarizleifi konúngi ok Magnúsi hvat at var sýst, hverir höfðíngjar höfðu viðtekit fè hans, ok Magnús mátti vináttu afvænta. Konúngr sagði (at mikit væri) atgert, ok mikit [vangert[3].

7. Litlu síðar enn Björn fór úr Niðarósi, var sagt at Sveinn konúngr kom í bæinn, var þá blásit út á Eyrar öllum húsföstum mönnum or bænum, ok sett þíng. Sveinn konúngr stóð upp, ok segir svâ: þat sama sem fyrr gladdi oss, kann nú verða at styggi oss, ek hefi spurt at þeir menn sè komnir til bæjarins, er fè bera undir höfðíngja ok lenda menn, ok vilja svíkja landit undan oss; er mèr sagt at þeir menn muni hafa herbergi

[1]) í snörunni, *M.* [2]) at segja Magnúsi konúngssyni, því honum er nauðr á at vita, *b. v. M.* [3]) enn með vanlyktum, *M.*

í garði Gríms hins grá, ok ef svâ er, þá er nú bezt at selja fram, því vèr hyggjum at sá einn hafi þá innhýst, at eigi mun vita með hverjum svikum þeir fara. Grímr segir, at þeir væri eigi í hans húsum. Konúngr svarar: nú er verr enn ek ætla, því vær vitum fyrir víst at þeir eru þar; mun nú verða svâ, at þú munt vera píndr til sagna. Grímr segir: vald muntu til þess hafa at sinni, en ek mun mæla ekki fleira enn ek vil. Nú sem Karl sá at þat mundi framfara, sem konúngr heitaðist, þá stóð hann upp ok mælti: hèr er sá, (Sveinn konúngr!), er þín orð munu tilkoma, en þó er minna tilhaft um þat, sem þèr hafið tilmælt, enn orði er ákomit, eru slíkir hlutir opt mjök í vöxt færðir, ok svâ er hèr. Konúngr svarar: ek veit gerla hverr þú ert framkvæmdarmaðr hinn mesti [um marga hluti; nú ef þú segir mèr hverir við hafa tèkit fènu, þá mun ek gefa þèr upp sökina. Karl svarar: ef smámenn einir hafa viðtekit fènu, þá skiptir þat eingu; en ef ríkir menn hafa viðtekit, þá horfir þat til mikillar mannauðnar, ok vil ek því eigi segja. Konúngr svarar: þú munt segja verða með stórum harmkvælum, ef þú villt eigi ónauðigr; lèt hann þá taka Karl ok setja í járn, ok fèkk til fjóra menn at geyma hans í einu húsi; ok sleit þá þínginu; gaf konúngr eingan gaum at Grími hinum grá; en Karl sat í fjötri. Þá mælti hann til varðmanna: ill ok ónýt er yður æfi, er þèr vakið yfir mèr, ok hafið[1] ekki til skemtanar,

1) *fra [ sést ekki í M.*

eðr hvort er konúngrinn fèsparr við yðr, at þèr fáit ekki at drekka? þeir segja: ekki viljum vèr[1] honum sneiða, en ekki er von at hann gefi öllum fèit nógliga. Mèr þikir vera mega, at oss komi nú lítt fèit at gagni, segir Karl, takit hèr nú penninga fá, ok kaupit með munngát; þeir gerðu svâ, ok settust til ok drukku; þeir bjóða honum at drekka, hann kendi drykkinn ok mælti: þetta er illr drykkr, takit hèr silfr, ok kaupit yðr mjöð; svâ gerðu þeir, ok mæltu, mikill skaði væri, er slíkr (maðr) skal svâ skjótt deyja; en (er) stund leið, mælti Karl: vín er drykkr beztr, njóta skal fjárins meðan kostr er, farit nú, sveinar! ok kaupit oss vín. Þeir sögðu fám bregða svâ við dauðann sem honum; tóku síðan at drekka vín, ok lèttu eigi fyrr enn varðmenn fèllu allir sofandi niðr; hendr Karls voru bundnar á bak aptr, en fjötr á fótum, hann gat færzt þarat, sem öx eins þeirra lá, ok fèkk snúit upp egginni, færði hann þarvið bakit, ok gat svâ skorit af sèr streinginn af höndunum.

8. Eptir þat leitaði hann á braut ok ofan á sjófarbryggjurnar ok í garðhús eitt, þar sem flóð gekk undir, en með því at fjötrinn var rúmr, fèkk hann komit honum af sèr, með því móti at hann hjó af sèr hælbeinit, ok smeygði af niðr, batt þá upp fjötrinn við fótinn, síðan tók hann fjöl eina or gólfinu, ok hljóp þar niðr á sjóinn, og lagðist út undir skipin, er lágu fyrir

[1]) *hèr v. 6 blöð í skinnbókarbrotið M.*

bryggjunum, ok lá þar um náttina. Einn af varðmönnum vaknaði, ok sá at bandínginn var í bruttu, hann hljóp út ok ofan á bryggjurnar, kom hann í þat sama garðhús, ok sá fjölina or gólfinu, ok grunaði at hann mundi þar hafa niðrhlaupit; hljóp hann þá upp í garðinn, ok segir mönnum at bandínginn er í bruttu; þvínæst kvomu saman menn, ok kvoðu við lúðrar, ok var hans leitat um allan bæinn, (ok) svâ út til skipanna. Sveinn konúngr lagði þá fè til höfuðs honum, ok setti hvervetna fyrir hann gisla, hvar sem hann kynni framkoma; en (er) morna tók, hætti þysnum í bænum, sá Karl mann á báti út á ánni Nið, lagðist hann þartil, ok fann sá eigi fyrr, enn hann var kominn upp í bátinn, ok keyrði hann útbyrðis, en rèri í burt skipinu; skildi svâ með þeim, ok spurðist ekki til Karls fyrst í stað; var nú leingt nafn hans, ok kallaðr Karl hinn vesæli.

9. Um morgininn eptir átti konúngr þíng í bænum, ok segir mönnum vandræði þat í var landinu ok svikræði við sik, lýsti konúngr ferð sinni úr landi suðr til Danmerkr, nefndi hann til þeirrar ferðar Kálf Árnason ok aðra höfðíngja, þá sem þar vâru. Kálfi hafði hétit verit jarldæmi af Knúti ríka, ef hann feldi Ólaf konúng frá landi, var (hann) nú mest virðr allra lendra manna af Sveini konúngi, svâ hann skyldi leggja næst konúngs skipi, hvar sem þeir

lágu í höfnum. Svâ bar til einn dag, (er) konúngr sigldi at höfn einni ok lendir menn, at Kálfr var seinna búinn, bar konúng undan fram; þá fèll af byrinn, ok tóku menn Kálfs til róðrs. Þeir sá hvar bátr einn flaut, ok lá feldr í bátinum; þar ljóp Karl inn vesæli upp undan, ok lagðist til lands. Kálfr stýrði at bátinum, ok slè þar á, ok rèri at landi; Karl var á land kominn, ok ljóp frá sjónum; Kálfr rann eptir honum, ok bað hann bíða sín; Karl mælti: eigi man ek trúa þèr, sveiktu þann, er þèr var meiri vandi á enn við mik. Kálfr svarar: þó man ek eigi þik svíkja, þat sverig við guð ok hinn heilaga Ólaf konúng. Til þess skal nú hætta, segir Karl, því þú lætr nú meira enn ek, ef þú drepr mik. Tók Kálfr hann þá á sitt vald, ok kvaðst mundu halda hann: en eigi trúi ek mönnum mínum til fulls, at þeir segi eigi til þín, ef vèr leggjum í lægit hjá konúngi, ok munum vèr leggja skipi vâru firr enn vant er. Þeir gerðu svâ; konúngr sendi þá menn eptir Kálfi, ok rèri hann at konúngsskipinu; konúngr mælti: legg fram skipi þínu, sem vant er. Kálfr svarar: þat er ofvirðíng, herra! at göfgir menn leggi or lægi fyrir oss, en þat má vel vera, ef vèr komum jafnsnemma. Konúngr mælti: hefir þú fundit Karl inn vesæla í dag, ok er þat mikit happ, sem þèr var von? Kálfr lèzt hann eigi fundit hafa. Bregzt þú oss nú eigi, segir konúngr.

Víst eigi, herra! (segir) Kálfr. Konúngr mælti: sèr þú öxina þá hina gullreknu út við borðit, far nú ok fær mèr slíka af Einglandi! Kálfr reiddist ok mælti: þetta (er) forsendíng, en mikil von þiki mèr, at þik skorti eigi exar áðr lángt líði, hvaðan sem þær koma, þó eigi sè allar gullreknar. Fór Kálfr þá til skips síns, ok mælti til sinna manna: nú munum vèr snúa stafni (at) hafi, ok höfum vèr full-lengi legit í illum ráðum, ok þjónat konúngi þessum, en tekit lítil (laun) í staðinn, hjá því sem oss var heitit af Knúti konúngi: skulum vèr nú, Karl! njóta þíns formælis við Magnús konúng Ólafsson, skulum nú allt bæta honum, þat við föður hans var brotit. Þeir fóru nú allt austr í Garðaríki á fund Jarizleifs konúngs ok Magnúss, urðu þeir glaðir við kvomu Karls; segir hann þeim sínar ferðir; þvínæst tjáði hann fyrir Magnúsi málit Kálfs, hversu hann hefði honum veitt. Magnús segir: þetta mál er miklu meira, enn þat megi skjótt ráðast, ok nokkut þèr um megn með at fara; því Kálfi er kennt, at hann hafi veitt föður mínum líflát; ok nú með því at þess sè von, at Einar komi austr híngat skjótt, ok aðrir vârir vinir af Noregi, þá (skal) við þá ráðast um heitit við Kálf, alls vèr megum ríki öðlast með þeirra trausti ok framkvæmd; veit ek eingan mann slægra í Þrændalögum enn Kálf, mun oss vangætt til við honum at sjá. Karl mælti: þat vill Kálfr sverja, at hann

vann eigi á föður þínum; nú með því at [þèr eru traust ok trúnaðr stórmennis í Noregi[1], þá væntir mik at yðvar styrkr verði mikill. En með því at þeir konúngr ok Magnús þóttust eiga Karli gott at launa fyrir för sína ok þær mannraunir, er hann hafði þolat, þá vâru Kálfi grið gefin fyrir bæn Karls, með því skilorði, at hann sór þann eið, at hann hefði eigi unnit á Ólafi konúngi, ok þat með at hann skyldi veita Magnúsi allt sitt traust ok trúnað.

10. Nú er þar til at taka, at þíngs (var) kvadt í Niðarósi, ok vildu Þrændir nær eingvir koma, ok grunuðu þá menn Sveins konúngs, at Þrændir mundu vera í svikum við hann í annat sinn; fór þá Sveinn konúngr suðr með landi, en Þrændir báru saman ráð sín, ok var þat afráðit, at hinir beztu menn völdust til at fara or landi, þar var Einar þambarskelfir ok Sveinn bryggjufótr; ok margir aðrir ríkismenn rèðust til þessarar ferðar, at sækja Magnús, son Ólafs konúngs, austr í Garðaríki, þvíat nú sem guð birti heilaglék Ólafs konúngs, fundu þeir menn misræði sín, ok iðruðust er þeir höfðu fellt hann frá landi, ok vildu nú bæta þat á hans syni, er þeir höfðu á honum sjálfum misgert: hættu þeir sinni ferð ei fyrr, enn þeir kvomu í Garðaríki; en er þeir fundu konúng, báru þeir fram orðsendíngar ok jarteignir stórmennis or Noregi, at þeir vildu halda þar til ríkis Magnús,

[1]) þú takir við trausti í Noregi, *F.*

son Ólafs konúngs. Jarizleifr konúngr tok því vel, kvað eingan þann mann í Noregi, at hann tryði betr enn Einari: en þó eru vèr hræddir um, segir konúngr, hversu Norðmenn munu halda trúnaðinn við Magnús, svâ illa sem þeir reyndust föður hans. Bar konúngr nú þetta mál fyrir Íngigerði drottníngu, ok segir svâ: hèr eru komnir menn margir mikilsháttar af Noregi, ok vilja fylgja Magnúsi heim í sitt erfðaland, ok halda hann til ríkis. Drottníng svarar: unna mundu vèr Magnúsi konúngdóms í Noregi, en svâ grimmliga sem þeir gerðu við föður hans, þá höfum vèr þá grunsama, hvort þeir munu unna Magnúsi ríkis við mótgöngu Knytlínga ok Alfífu, ok leingr skolum vèr ræða þetta, ok meirum fastmælum binda, áðr vèr fám þeim Magnús í hendr. En er Norðmönnum þótti seinkast úrskurðrinn, gengu þeir fyrir konúng, ok beiddu at hann fengi þeim Magnús konúngsson í hendr, svâ sem hann hafði sjálfr ráð fyrirgert í fyrstu. Konúngr mælti: þetta er sannliga mín orðsendíng, ok gjarna vilda ek, at Magnús, fóstri minn, fengi sinn sama, en mjök er ek hræddr um við illsku Alfífu, en ríki Knúts konúngs, þó þèr villð vel, at Þrændir svíki hann sem föður hans. Einar svarar: vorkunn er, herra! at þèr sèð hræddir um vora fyrirætlan, en nauðsyn væri á ok sómi sveinsins, at hann fengi sína föðurleifð; þat er ok vill allra landsmanna í Noregi, at hrinda af sèr því illa

ánauðaroki, er þar liggr á öllu fólki. Þá mælti drottníng: fyrir ástar sakir við svein þenna, mundum vèr ekki við hann skilja, ef honum lægi eigi slík sæmd við: en þú, Einar! ert kunnr at dreingskap, ok vart eigi í landi, þá Ólafr konúngr fèll, hefir þú ok styrk mikinn; nú ef þú villt sverja þess eið, ok 11 inir beztu menn af yðru liði, at þú skalt gerast hans fóstrfaðir, ok þèr skuluð halda (honum) til ríkis í alla staði, þá munu vèr tilhætta, at fá hann yðr í hendr, heldr enn þat flytìst, at vèr sitjum fyrir sæmd hans, svâ þarfyrir nái hann eigi sínu ættlandi. Einar svarar: þó at nokkurum mönnum sýnist þetta með freku sett, at beiða oss svâ sterkra eiða í ókunnu landi; nú hverja virðíng sem hèr landsmenn eðr annarsstaðar leggja á, þá viljum vèr gjarna eiða vinna Magnúsi til sæmdar, ok öllum oss til sambands ok allra góðra hluta. Ok (at) svâ settu ok svörðum eiðum dvöldust þeir í Hólmgarði um hríð, ok sömdu ráð sín. Höfðu þeir nú Magnús Ólafsson með sèr or Garðaríki[1], ok fóru um vetrinn [af Eyrum[2] austan til hafsins, tóku þar skip sín, ok sigldu [austan um vorit[3] til Svíþjóðar, þeir hèldu skipum sínum allt upp til Sigtúna, ok fóru svâ landveg til Helsíngjalands; svâ segir Arnór jarlaskáld:

> Nú hykk rjóðanda[4] reiðu[5]
> rögaurs þvíat veit gjörfa

[1]) Rögnvaldr Brúsason fór þá austan með þeim *b. v. F.* [2]) at fravrum *F. rèttara.* [3]) yfir hafit, *F. rèttara.* [4]) rjóðande *F.* [5]) ráða, *F, Hk.*

þegi seimstafir[1] segja
seggjum hneitis eggjar[2];
[var at ellifu allra
ormsetrs hati vetra[3],
hraustr[4] þá er herskip glæsti[5]
Hörða vinr or Görðum.

Hèr vísar svå til, at Magnúsi konúngi var sá hinn ellefti (vetr), er hann kom austan. Þat var á öndverðum vetri, hèlt hann þá liði sínu allt upp til Sigtúna, sem Arnór segir:

Þíng bauð út hinn úngi
eggrjóðandi þjóðum,
fim bar hirð [í hömlur[6]
hervæðr[7] ara bræðir[8];
salt skar [húfi hveltum[9]
hraustr þjóðkonúngr austan,
báru brimlogs[10] rýri
brún veðr at[11] Sigtúnum.

Gekk Magnús konúngr þar á land, ok bjóst at fara landveg norðr í Noreg; svå segir Arnór:

Gekk á Svíþjóð sökki
Sveins, er fremd vann eina,
fýstist Ólafs austan
afkart sonar hjarta;
nótt beið ok dag drottins
dygg ferð Jaðarbyggja

---

1) seimstaðar, *F.* 2) eggja, *F.* 3) *frá [v. í H; tekit úr F, Hk.* 4) hraust, *F.* 5) glæstu, *F.* 6) at hömlu, *Hk.* 7) herveðrs, *F.* 8) breðja, *B*, *F.* 9) húfum heltum, *B.* húfi heltum, *F.* 10) heimlogs, *F.* 11) af, *F.*

fyst bað gramr í geystu
gífrs veðr sèr hlífa.

Þess getr í Hrúnhendu, at Magnús Ólafsson hèlt herskipum sínum austan or Garðaríki, fyrst í Eystrasalt ok svâ til Svíþjóðar; þar segir svâ:

Herskip vantu af harða stinnum
hlunni geyst í Saltit eystra
skjöldúngr stètt á skorum hveldan
skeiðarhúf með girzku skrúði;
vafðir lítt, en vendir bifðust,
verða hrökk, en niðr nam sökkva,
geystist hlýr, en hristist bára
hrími stokkinn bunar grímr.

En er hann kom til Svíþjóðar, dreif til hans landsfólk, ok bauð honum sína fylgð; svâ segir Arnór í Hrúnhendu:

Rauðar bárut randir síðan,
rimmu Yggr, í svænskar bygðir,
eigi gaztu liðskost lágan,
landherr sótti þèr til handa;
austan þorðut úlfa ferðar
öldum kuðr við hvíta skjöldu
túngu rjóðr til tírar þínga
teknir menn ok dörr hinn reknu[1].

11. En er spurðist til Noregs austankvâma Magnúss, þá sótti í móti honum mikit lið, var þar formaðr Kálfr Árnason, fóru með honum margir aðrir menn, þeir sem verit (höfðu) í mótgángi við Ólaf konúng, gjörðust þeir Kálfr ok

[1]) rekna *Hk*; *þessar vísur v. í B, F.*

Einar þá ráðgjafar Magnúss konúngs, þeir voru menn ríkastir í Þrændalögum. Einar var harðr í sóknum ok hinn mesti fullhugi, en Kálfr var spekíngr at viti; þeir fóru austan um Kjöl, ok kvomu ofan (í) Þrándheim, dreif þá enn lið til þeirra af hèruðum, en óvinir stukku undan; þess getr Arnór:

Austan komtu með allra hæstum[1]
Yggjar máss í þrænzkar[2] bygðir,
fiðri rjóðr, en fjandmenn yðra
fálma kvoðu, ægis hjálmi[3];
úngr fráig öðlíngr þraungva
úlfa gráðr þeirra ráði
skjöldúngr stökk með skæðan þokka
skeiðarbrands fyrir þèr or landi[4].

Fór Magnús konúngr þá með lið sitt út til Niðaróss, var þá þegar stefnt Eyra þíng, kom þar til fjölmennt or öllum hèruðum í Þrændalögum; á því þíngi var Magnúsi Ólafssyni gefit konúngsnafn, tók hann sèr hirð, ok sat þar í bænum með mikilli gleði ok skemtan ok fjölmenni miklu.

12. Þessi tíðindi spurði Sveinn konúngr ok Alfífa, móðir hans, suðr í land, lètu þegar skera upp herör, ok stefndu þíng, sagði konúngr á þínginu, at Þrændir höfðu tekit konúng annan, bað síðan liðs at verja land sitt, nefndi hann leiðángr or hèruðum, ok lauk svâ sínu máli, at

[1]) *þannig Hk*; hraustum, *H.* [2]) *þannig Hk*; Svænskar, *H.* [3]) *þannig Hk*; hjálma, *H.* [4]) *vís. v. í. F.*

hann bað alþýðu veita góð andsvör sínu máli; en þat var mjök misjafnt, hversu menn rómuðu hans mál: voru þeir margir at eigi lètust vilja berjast móti Magnúsi Ólafssyni; sumir kvoðust gera mundu Sveini konúngi leiðángr, sem þeir voru skyldir, en fara hvergi sjálfir; en sumir lögðu ekki til. Þá tók konúngr til máls í annat sinn: ek er æskumaðr, ok kann ek fátt at tala, en (eigi) þarf ek mèr liðs at vænta af þeim mönnum, er sjálfir segja, svâ at (ek) heyri, at eigi muni berjast í móti Magnúsi konúngi; nú þegja sumir, ok skil ek at þeir hafa jafnan vilja sem hinir; nú er oss ekki þetta fólk til liðs at telja, sem hèr er samankomit, ok eigi berjumst ek við Magnús konúng, ef ek fæ eigi traustara her. Eptir þat töluðu danskir höfðíngjar, þeir sem vâru með Sveini konúngi, hverr at öðrum, en kom fyrir ekki, veittu þeir harðar átölur Noregsmönnum, at þeir hefði nízt á Sveini konúngi, kölluðu honum þat eitt ráð at fara suðr til Danmerkr, ok eflast þaðan með her á hendr Norðmönnum, með styrk Hörðaknúts bróður síns, eðr gamla Knúts föður síns: var þat þá tekit ráðs, at Sveinn konúngr ok Alfífa, móðir hans, ok allir Danir, þeir sem með honum höfðu verit í Noregi, fóru suðr til Danmerkr.

13. Magnús konúngr lagði þá undir sik allan Noreg, svâ vítt sem faðir hans hafði átt, ok fèkk landit orrustulaust með fagnaði landsmanna ok

allrar alþýðu, því allir vildu heldr þjóna Magnúsi konúngi frjálsliga, enn þola leingr Danskra ofsa ok yfirgáng; svâ segir Arnór í Hrúnhendu:

Eignast [namtu óðal þegna[1]
allan Noreg gotna spjalli[2]
mangi ryðr[3] þèr mildíngr annar
mæra[4] gramr til [landa æru[5].

Þess getr ok í Magnúsardrápu, at Sveinn konúngr flýði or Noregi, þegar Magnús kom í land; þar segir svâ:

Flýði[6] fylkir reiði
framr þjóðkonúngr rama
stökk frá öðrum[7] okkrum
armsvells[8] hati gellir[9];
leitat Noregs[10] njóta
nýtr þeingill gram[11] leingi,
þat[12] rak Svein af sínum[13],
sókndjarfr, föður arfi.

Á næsta ári eptir þetta tók Sveinn konúngr sótt í Danmörk, þá hann leiddi til bana.

14. Þat segja menn, þá er Knútr ríki spurði at Magnús konúngr var kominn í Noreg, ok þar til konúngs tekinn, at hann hafi svâ sagt: vera kann at vèr eigum enn eigi setuefni í sumar, ef kynit hans Digrbeins er komit í Noreg. Þann sama vetr andaðist Knútr gamli vestr á Einglandi, tók þá ríki eptir hann Hareldr, son hans,

[1]) nam þjóð ok þegna, *B*; nam þú odd ok þegna, *F*. [2]) spjalla, *F*. [3]) er yðr, *F*. [4]) mæta, *F*. [5]) Landamæri, *F*. [6]) fylldi, *F*. [7]) óðum, *F*. [8]) arnsvelgr, *F*. [9]) hersir, *F*. [10]) liet at Noreg, *F*. [11]) *þannig*, *F*; gramr, *H*. [12]) hann, *F*. [13]) sínu, *F*.

en annar son hans Hörðaknútr var þá at nýju tekinn til konúngs yfir allt Danaveldi. Hafði Hörðaknútr síðan ósætt mikla við Magnús konúng, ok hèlt ófrið við hann; taldi hann þat til saka, at Magnús konúngr hefdi sezt í erfðaland hans, því hann kallaði gamla Knút, föður sinn, hafa átt allan Noreg: en Magnús konúngr lèzt eiga at hefna Dönum, ok einkanliga Knytlíngum, landrán ok ófrið, er gamli Knútr hafði gjört Ólafi föður hans, er hann stökkti honum or landi, en lagði (undir) sik ríki hans með rángindum, ok (var hann) af hans svikræðum feldr frá landi, lèzt þessa alls hefna skyldu með hamíngju ok fulltíngi hins helga Ólafs konúngs, föður síns, ok trausti landsmanna í Noregi. Gjörði þá hvorr konúnganna öðrum mikinn mannskaða í hernaði ok manndrápum, meðan missætti var þeirra í millum, en (er) þessi ófriðr leiddist landsmönnum í hvorutveggja ríkinu. Þá var leitat um sættir með ráði hinna vitrustu manna af hvorutveggja ríkinu; kom þá svâ, með því at konúngar vâru báðir úngir ok ráðþægir sínum ráðgjöfum, at sættarfundr var lagðr millum þeirra í Elfi, þar sem fyrri konúngar höfðu átt friðarstefnur; kvomu til þeirrar (stefnu) báðir konúngar Magnús ok Knútr, ok sömdu sætt sína með ráði hinna beztu manna, með því móti at þeir sóru báðir eiða, at (hvorr) skyldi vera öðrum í bróður stað í öllum hlutum, meðan þeir lifði báðir; þarmeð var þat skilit undir eiðinn, at hvorr sem andaðist barnlauss, þá (skyldi sá)

sem eptirlifði taka allan arf eptir hinn sem sambróðir, bæði land ok lausa aura; þar unnu eiða 12 hinir ríkustu menn af hvâru ríkinu, at þessi sætt ok friðr skylði haldast, meðan nokkur þeirra væri á lífi, þeir skyldu ok styrkja þann þeirra konúnganna, er leingr lifði, en jafnt báða þángat til; var (sætt) þessi ger í eptirlíkíng þeirrar, er þeir gerðu á Einglandi, Knútr ríki ok Játmundr konúngr. Eptir þat fór Hörðaknútr suðr til Danmerkr, en Magnús konúngr aptr í Noreg.

15. Svâ er sagt at þeir voru báðir með Magnúsi konúngi á einni veizlu í Vík austr, Kálfr Árnason ok Einar þambarskelfir; Einar skipaði mönnum, en Kálfr settist í sæti hans meðan it næsta konúngi, ok er Einar sá þat, settist hann á öxl honum Kálfi, ok mælti: fyrr á gömlum uxanum at bæsa enn kálfinum; linaði Kálfr þá svâ til, at Einar komst niðr í millum þeirra konúngs, ok var þetta kyrt.

Þat bar til enn, at þeir fóru fyrir land fram, ok gengu frá skipi með miklu liði; þeir sá [mikit fjölmenni[1] fór fyrir í móti þeim, ok þóttust þeir eigi vita, hvort þat vâru friðmenn eðr eigi; höfðíngjar báðu eigi dreifast lið sitt, ok þínguðu um hvat at skyldi gera: Einar segir at fylkja skyldi ok vera viðbúnir, hvat sem at höndum kæmi; konúngr bað Einar ráða, ok er fylkt var, svipaðist Einar um, ok sá eigi Kálf í fylkíngu; hann leitar hans ok

[1]) at flokkr ekki mikill, F.

fann hann í runni einum, ok hafði brugðit sverðit, ok batt við hönd sèr sem fastast með taug. Einar mælti: því gerir þú þetta? Hann svarar: eigi skulu þeir at því hlæa, landsmenn, at ek renna frá vopnum mínum, ok þar skal ek leggja líf á. Einar mælti: meiri von at yðr skorti eigi kapp, ok víst hyggig at efnd muni fylgja orðum; en þat våru friðmenn, er móti þeim fóru, ok játuðu konúngi sína hlýðni.

16. Hárekr or Þjóttu sat heima at búum sínum eptir fall Ólafs konúngs, þartil er Magnús konúngr hafði tekit ríki í Noregi, þá fór Hárekr suðr til Þrándheims á fund Magnúsar konúngs. Ásmundr Grankelsson var með konúngi, hann sá er hann gekk af skipi, ok kendi hann; Ásmundr gengr þegar fyrir konúng ok mælti: nú, herra! vil ek gjalda Háreki dráp föður míns. Ásmundr hafði í hendi litla öxi þunneggjaða, konúngr sat ok tefldi hneftafl, ok nefndi maðrinn töfl konúngs, er Ásmundr gekk at; konúngr hèlt á annari öxi, sú var þykk ok hvöss; konúngr leit eigi til Ásmundar, svå at hann sæi, en mælti svå: viltu mína? Taflmaðrinn ætlaði at konúngr mundi tala til taflsins, er hann hafði drepit, en Ásmundr tók öxi or hendi konúngi, en lèt hina eptir, ok gekk þegar út, ok mætti Háreki á bryggjunum, hjó Ásmundr með öxinni í höfuð honum, svå stóð í heila, lèt Hárekr þar líf sitt,

en Ásmundr gekk aptr í garðinn ok inn fyrir konúng, en egg öll var fallin or öxinni; ok er konúngr sá þat, mælti þann: þat hugða ek at hörð mundu vera höfuðbein karls þess, hvern veg mundi nú hafa dugat in þunna öxin, því mèr sýnist sjá ónýt. Síðan gaf Magnús konúngr Ásmundi lèn ok sýslu á Hálogalandi, ok eru þar margar ok miklar frasagnir um skipti þeirra Ásmundar ok sona Háreks.

17. Magnús konúngr gerðist ríkr ok vinsæll, var hann fyrr fullgjörr at afli ok vitrligri stjórn enn vetratali; hann var manna fríðastr, hlýðinn vinum sínum um öll góð ráð, en við róg vándra manna var hann daufheyrðr. En svâ mikla stygð höfðu þeir menn, er fylgt höfðu Ólafi konúngi hinum helga, við Þrændi ok aðra landsmenn, þá er honum höfðu mótgöngu veitt, at Magnúsi var virt til lítilræðis, er hann gerði þá suma sèr at ráðgjöfum, svà sem var Kálfr Árnason; kom þá svâ þeirra manna fortölum, at konúngr lagði fæð á Kálf ok aðra, þá sem fremstir höfðu verit í (því), at (fella) föður hans frá landi.

18. Þorgrímr hèt maðr, ok var Halla son, hann var íslenzkr maðr; Þorgrímr var ríkr at penníngum ok vinsæll, hann bjó á Brúnastöðum í Fljótum; hann hafði verit hirðmaðr Ólafs konúngs hins helga, ok þegit af honum góðar gjaf-

ir. Á énu sumri keypti hann skip (hálft) at norrænum mönnum, en hálft áttu (íslenzkir) bræðr 2, synir Hallbjarnar (skefils) or Laxárdal, hèt annar Bjarni, en annar Þórðr; bjóst Þorgrímr þá til utanferðar ok með honum[1] son hans, er hèt Illugi, ok 2 fylgðarmenn Þorgríms, hèt annar Galti, mikill maðr ok styrkr, annar Kolgrímr, lítill ok fráligr. Svâ hafði tilborit áðr um vetrinn á ymbrudögum fyrir jól, at Þorgrímr fór með konu sína ok börn at erindum sínum, þá gerði at þeim hríð svâ mikla, at hríðin drap til dauðs son hans frumvaxta, er Ásbjörn hèt, en Þorgrímr kostgæfði svâ mjök at hjálpa föruneyti sínu, at hann fanst úti dauðvâna ok örviti, var hann fluttr til bæjar, ok nærðr við heita mjólk. Nú er þar komit at þeir bjuggu skip sitt um sumarit, sem fyrr er sagt, ok lètu í haf, er þeir voru búnir; þeir Bjarni ok Þórðr flimtu[2] Þorgrím, ok voru illa til hans, en hann lèt sem hann vissi ekki; þeim gaf vel byri, ok komu norðr við Þrándheim. Magnús konúngr góði hafði ríki í Noregi, en þó var hann þá suðr í Danmörku. Kálfr Árnason hafði þá mest völd í Þrándheimi, var hann í bænum, ok bauð hann Íslendíngum til sín, voru þeir með honum um vetrinn, Bjarni ok

---

[1]) *hèr byrjar sú næst fyrsta bl. síða í A, sú fyrsta er svâ máð að ólesandi er; það undangengna er tekið eptir skinnbókinni H.*
[2]) flimtuðu, *H.*

þórðr ok þorgrímr með sína fèlaga; Kálfr skipaði þorgrími gagnvart sèr, en þeim bræðrum hit næsta sèr.

19. þorgrímr var hljóðr um vetrinn, ok jafnan með áhyggju yfirbragði, minntist hann opt hinnar fyrri æfi, ok vináttu Ólafs konúngs hins helga; en þeir bræðr voru hávaðamiklir ok orðmargir of mart; þeir lofuðu Kálf mjök, en voru illa við þorgrím, ok rægðu hann mjök. þeir töluðu einn tíma við Kálf, ok sögðu svâ: hefir þú nokkut fundit þat, Kálfr! at þorgrímr er yðr[1] eingi alúðar-maðr, ok er öll hans alvara til Ólafs konúngs, en vèr munum heldr þiggja vetrvistina eptir því sem þú veitir? Kálfr svaraði: fundit hefir ek þat, at þorgrímr er eingi vinr vâr. Bjarni mælti: kvæði hefir ek ort um yðr, ok vildi ek fá hljóð til at flytja; hlýða skal kvæði þínu, skáld! sagði Kálfr, því at vân er at vel sè ort. Bjarni færði kvæðit fyrir fjölmenni, ok var þar mjök getit bardagans á Stiklastöðum, ok hrósat þeim tíðindum, er þar gerðust til lofs Kálfi. En er lokit var kvæðinu, mælti þorgrímr: undarligt er þat, Kálfr! svâ vitr maðr sem þú ert, er þèr þykkir sæmd í slíku, at menn kveði um glæpi þína ok níðíngsverk, er þèr [geinguð í mót[2] Ólafi konúngi. Bjarni mælti: þegi þú, skemdarmaðrinn! þú slótt á þik skrópasótt til þess, at hellt var í þik mjólk á ymbrudögum útá Íslandi. þorgrímr gekk út ör stofunni, þar til sem hann var vanr at sofa,

[1]) til yðvar, *H.* [2]) níddust, á *H.*

hann mælti: mikit er slíkt at heyra lastanarorð til Olafs konúngs, en skemdarorð við mik; nú gakk inn, Illugi! ok drep Bjarna! Sveinninn svaraði: eigi ber ek traust til, þann veg sem vèr erum viðkomnir. Þorgrímr snaraði þá inn í stofuna, ok hjó Bjarna banahögg. Þórðr, bróðir hans, hljóp til vâpna, ok stóðu menn þá í milli þeirra. Kálfr mælti: þetta er íllt verk, ok hvârki hlíft í sæmd vârri nè vetrgestinum, en þó skal þetta mál fara allt at lögum; lèt hann þá þíngs kveðja, ok bað alla menn vâpnlausa til þíngs koma. Galti hinn sterki, fylgðarmaðr Þorgríms, greip upp bolöxi, ok lèt koma í milli klæða sèr, er hann gekk til þíngsins. En er þíng var sett, þá var sleginn mannhríngr um Þorgrím. Kálfr mælti: hvat býðr þú fyrir þik, Þorgrímr? Hann segir: ek býð allt mitt mál á konúngs dóm. Kálfr svaraði: fjarri er nú konúngr [at dæma[1] þetta mál. Veit ek, sagði Þorgrímr, at þú vildir dæma, en ek játti því eigi, ok sè ek gjörla þinn áhuga, at þú kant mik mest vinganar við Ólaf konúng. Þat er eigi satt, sagði Kálfr, en þó mun nú málið dæmt vera, nema Þórðr játti öðru. Þórðr kveðst eingum boðum hans játta mundu. Kálfr mælti: dæmi hann þá sekan ok útlægan! ok var svâ gert at ráði umboðsmanns konúngs fyrir dráp Bjarna. Þorgrímr mælti: nú fór svâ sem mik varði, ok þykkist þú nú, Kálfr! hafa fyrirsèð, at eigi skal til

[1]) ok dæmi, *H.*

bóta mega komast eptir mik, en þat er þó vant at sjá, ef veitendr koma til. Þórðr hljóp þá at, ok veitti [honum bana[1]; þá mælti Kolgrímr hinn litli, fylgðarmaðr Þorgríms: hefn þú hans, Galti! þú hefir öxina! Hann kvaðst eigi þora. Mæl þú manna armastr! sagði Kolgrímr, ok er þú eigi meðal-skræfa, svâ mikill ok sterkr, er þú hefir eingan hug í brjósti, ok fá mèr öxina! Þat þori ek eigi, sagði hann. Þá skaltu ok eigi þora á at halda, sagði Kolgrímr, ok kippti af honum öxinni, ok hjó til Þórðar mikit högg á hrygginn, ok var þat sár banvænt. Kolgrímr var þá handtekinn, ok lèt Kálfr varðveita hann í járnum, en vildi eigi láta drepa hann, fyrr enn vitað væri hvârt Þórðr rètti við; en þat var mjök jafnfram, at Magnús konúngr kom sunnan or Danmörk norðr til Þrándheims, ok Þórðr dó af sári því, er Kolgrímr veitti honum.

20. Kálfr hafði búit veizlu konúngi. Magnús konúngr hafði frètt nökkura af vígum þessum, áðr hann kom til veizlunnar. Kolgrímr sat í fjötri í forstofunni, er konúngr gekk inn, hann mælti til konúngs: dirfð mun yðr þykkja, herra! er bandínginn biðr yðr ásjá, en ek tel þat helzt til, at ek hefi ort kvæði um Ólaf konúng hinn helga, föður yðvarn. Konúngr nam staðar ok svaraði: varþú með Þorgrími Hallasyni? Já, herra! sagði hann. Hefndir þú hans? sagði konúngr. (Við-)leitaði ek, sagði Kolgrímr, ok þótti

[1]) Þorgrími banasár *H.*

mèr verða hefndin alls til lítil eptir slíkan mann, enda stóðum vèr eigi jafnt at vígi, ok þeir sem til móts voru. Vera má svâ, sagði konúngr, ok rými á honum fjötrunum, svâ at hann megi gánga inn í stofu; en er hann var innkominn, bað konúngr hann flytja kvæðit; hann gerði svâ, ok bar fram sköruliga; en er áleið kvæðit, var nökkut ávikit, hvat tildró um líflát Þorgríms, ok þau mál öll saman, ok voru þessi [orð í einni vísu:[1]

Herstillis þarf ek hylli;
hálf eru völd und Kálfi.

Þá mælti konúngr: ekki er nú meir enn svâ, skáld! En er lokit var kvæðinu, mælti konúngr: þau munu fyrst kvæðislaun mín við þik, Kolgrímr! at þú skalt vera lauss, ok er þat þó satt, Kálfr! at eigi vill þú oss frændhollr[2] vera; en þótt þú lètir dæma Þorgrím útlægjan ok sekan, þá skal hann nú svâ bæta, sem hann hafi sýkn drepinn verit; skal Illugi taka þat fè af þeim penníngum, sem þeir hafa átt Bjarni ok Þórðr[3]; en þú, Kolgrímr! skalt hafa umsjá á fè Illuga með honum, þartil er hann kemr til Íslands, en ek vil gefa þèr fyrir þinn röskleik hálft skipit við Illuga. Kolgrímr svaraði: nú hafið þèr, herra! sem jafnan sýnt stórmensku yðra; en þat verðr segja sem áliggr, at ek hefi heitit suðrgaungu, ok skal hana at vísu af hendi

[1]) *v. í A.* [2]) frændum hollr, *H.* [3]) ok skal ek dæma þessi manna gjöld, *b. v. H.*

inna. Kolgrímr gekk suðr, en Illugi beið í Noregi með umsjá konúngs; en er Kolgrímr kom aptr, bjó hann skip þeirra til Islands; lètu þeir í haf, er þeir voru búnir; þeir komu skipi sínu í Kolbeinsár ós, settist Illugi í bú á Brúnastöðum, en seldi Kolgrími sinn hlut í skipi, for hann landa í milli, ok þótti hinn bezti kaupdrengr.

21. Litlu síðar sat Magnús konúngr at veizlu at Haugi í Veradal, þá var með honum Einar, fóstri hans, ok Kálfr Árnason; ok einn dag mælti konúngr til Einars: við skulum fara í dag á Stiklarstaði, at sjá merki þeirra tíðinda, sem þar hafa gerzt. Einar svaraði: herra! lítit kann ek þaraf at segja, þvíat ek var þar eigi nærstaddr: látið Kálf ríða með yðr, hann mun þar kunna glöggliga frá tíðindum at segja. Þá mælti konúngr til Kálfs: þú skalt fara með oss á Stiklarstaði, ok segja oss inniliga frá þeim atburðum, er þar hafa vorðit. Kálfr svaraði: þèr munuð ráða, herra! en einga þörf ætla ek mèr á því; helzti hugkvæmt er[1] um þau tíðindi, þótt eigi sè nú endrnýjuð í frásögn, ok væri nú betr fallit, at þèr hèldið trausti vina yðvarra, þeirra sem nú eru fullkomnir, sem vert er, í öllum trúleika ok þjónostu við yðr, heldr enn ýfast við þá. Konúngr mælti: fara skaltu, Kálfr! Kálfr mælti þá hljóðliga við skósvein sinn: þú skalt fara sem hvatligast út á Eggju, ok bið mína menn búa lángskip mitt,

[1]) mèr, *b. v. H.* mun yðr umvera *F.*

svå skjótliga, at þeir hafi hvert fat á skipi í kveld. En er þeir Magnús konúngr komu á Stiklarstaði, þar sem bardaginn hafði verit, mælti konúngr til Kálfs: hvar fèll Ólafr konúngr, faðir minn? Kálfr rètti fram spjótskaptit, ok mælti: þar lá hann. Konúngr spurði: hvar varþú þá? Kálfr svarar: hèr sem nú stend ek. Konúngr mælti: taka myndi þá öx þín til hans; var konúngr þá rauðr mjök í andliti. Ekki tók öx mín til hans, segir Kálfr; hljóp hann þá á hest sinn, ok reið í brott; en konúngr snèri aptr til Haugs með sína menn; en Kálfr fór heim á Eggju, ok stè þegar á skip sitt albúit, ok hèlt út eptir firði, ok svå vestr um haf til Orkneyja, ok sást þeir Magnús konúngr aldri síðan.

22. Eptir þetta harðnaði konúngr við Þrændi, svâ at sumir göfgir menn stukku ör landi fyrir ofríki hans, en sumir guldu fè. Þat þoldu bændr illa, ok höfðu stefnur fjölmennar sín í milli, ok mæltu svâ: hvârt mun konúngr sjá ekki hóf at kunna um álögur ok harðleik[1] við menn, eðr mun hann ekki þat muna, at Þrændir munu hafa gert stórræði um minni sakir, enn brotin sè lög á oss, þau sem setti Hákon konúngr hinn góði? Nú mun hann hafa farir föður síns, ef hann lèttir eigi af, ella eru mjök aldauða vârir forellrar, er eigi lètu konúngum hlýða

[1]) harðleikni, *H.*

slík ólög; því at þat eru mikil firn, sem nú ferr fram, at Þrændir hafa verra rètt enn annat landsfólk. Þrándheimr hefir lengi verit kallaðr höfuð Noregs, en nú eru þessi hèruð gjör at herlandi; forðum daga þóttu Þrændir formenn annars landsfólks, en nú eru þeir gjörfir þrælar konúngs þegna hèr í Noregi. Á þessi stefnu voru staddir nökkurir vinir konúngs, þeir tóku tal sín á milli; leizt þeim öllum einn veg, at úvíst væri hvârt Þrændir þyldi atgerðalaust, ef konúngr hèldi [slíkri herðu[1] fram við þá; þótti þeim nauðr tilbera, at konúngr vissi sem fyrst þenna kurr Þrænda, en þó bar eingi þeirra traust til at segja konúngi, ok skaut því máli hverr þeirra til annars; vurðu þeir á þat sáttir um síðir, at hlutat var, hverr þetta eyrindi skyldi frambera, ok var svâ tilsýst, at Sighvatr skáld hlaut at segja konúngi, hann var þá með Magnúsi konúngi vel virðr, ok honum handgenginn. Orti Sighvatr þá kvæði þat, sem kallat er [ Bersöglisvísur[2], ok hefr hann svâ kvæðit, at hann víkr til Ólafs konúngs, ok segir frá hans harðfengi ok snildarverkum; þar segir svâ:

Var ek með gram þeim's gumnum
goll bauð drottin[3]-hollum
vâpn[4] fèkk hann en hröfnum
hræ þess konúngs æfi;
fullkerskum[5] sá ek falla

[1]) slíku hörðu, *H.* [2]) Berfygligi flokkr, *F.* [3]) *eða* drottni, *A.* [4]) nafn, *F.* [5]) fullkeskum, *H.* fullköskum, *F.*

fráneygjum son gránum
gaf margan val vargi
verðúng[1] konúngs sverðum.

Vâttar Sighvatr ok, at hann var í bardögum með Ólafi konúngi:

Fylgða ek þeim er fylgju
fèmildum gramr[2] vildi
nú ero þegnar frið[3] fegnir
feðr þínum vel mína;
varat á[4] hal með hjörvi
hlið þar ek stóð í*) miðjum
hræsinn[5] skal[6] með hrísi
hans flokki við[7] þjokkra[8].

Ok enn kvað hann:

Gekk við[9] móðinn mikla
Magnús allt í gegnum
ferð þar [er flokkar[10] börðust
faðir þinn liði sínu;
varði hart en hjörtu
hugfull við þat†) skullo[11]
Ólafr rèð[12] svâ jöfra
erfðir[13] fram at hverfa.

Þessu næst víkr Sighvatr kvæðinu til þeirra fyrri höfðíngja, er vel hèldu lög sín við bændr, ok vurðu fyrir þat ástsælir af alþýðu:

Hèt sá er fèll á Fitjum
fjölgegn ok rèð hegna

1) verðund, *F.* 2) gram, *F.* 3) friðar, *F.* 4) þar, *H.* *) *v. í. H.* 5) þræsinn, *F.* 6) ek, *b. v. H.* 7) vel, *H.* 8) þokka, *F, H.* 9) með, *F.* 10) er flotnar, *F;* Fjónar, *H.* †) því, *H.* 11) sýslu, *F.* 12) lèt, *F.* 13) erfviðr, *F.*

heiptarrán en hánum
Hákon fírar undu[1];
þjóð hèlt fast á fóstra
fjölblíðs[2] lögum síðan
en ero af því minni[3]
Aðalsteins búendr[4] seinir[5].

Segir hann ok, at því varð landsfólkit fljótt til at taka Ólaf hvårntveggja til konúngs, at þeir lètu bændr halda í friði ok frelsi eignum sínum, meðan þeir hèldu lögum, er þeir settu. Sighvatr kvað:

Rètt hygg ek kjósa knáttu
karlfólk ok svâ jarla[6]
af því at eignum lofða
Ólafar[7] frið gáfu;
Haralds arfi lèt halda
hvardyggr[8] ok sonr[9] Tryggva
lög þau er lýðar þágu
laukjöfn[10] at þeim nöfnum.

Sighvatr segir í sínum kveðskap, hversu allt landsfólk varð fegit í fyrstu Magnúsi, er hann kom í Noreg; þvíat landslýðrinn vænti sèr frelsis, ef hann tæki ríki, undan því illa ánauðaroki, er þeir höfðu þá þolat um stund af Sveini konúngi ok Alfívo. Hann segir svâ:

[Úngr var ek[11] með þèr þeingill
þat haust, er komt austan,

1) undar, *F.* 2) fjöldrif, *F.* 3) inni, *F.* 4) bændr, *F, H.* 5) seinni, *F.* 6) jarlar, *Hk.* 7) Olafi, *F.* 8) hvarfdyggr, *F.* 9) son, *F, H.* 10) logjöfn ok, *F.* 11) vorum, *F.*

einn[1] stillir máttu alla
jörð hegna svâ fregnist[2];
himin þóttumst[3] [þá heiðan[4]
hafa, er landa krafðir[5]
lofðúngs burr ok[6] lifðir,
landfólk, tekit höndum.

Eptir þetta segir Sighvatr skáld í kvæðinu, at þá fyrr, er hann var með Ólafi konúngi, gerði hann konúng varan við svikræði manna, er hann varð viss:

Föður Magnúss lèt ek fregna
fólgin jöfurs[7] dólga[8]
orð, þau er eyru heyrðu,
ör á[9] svik hve fóru;
mál bar ek hvert af heilum
hug, þvíat eigi brugðumst,
ek vissa þó[10], ossum[11],
ótta[12], lánardrottni.

Síðan bað Sighvatr konúng ok ráðgjafa hans eigi reiðast við, þótt hann talaði bert, ok segði orðræður bónda, at þeim þætti konúngr eigi halda lög, þau er hann hèt þeim í fyrstu, er hann kom í land. Hann kvað:

Skulu-t ráðgjafar reiðast
ryðr þat[13], konúngr! yðrir[14],
drottinsorð til dýrðar,

---

1) úngr, *F.* 2) fregnar, *F.* 3) þóttust, *F*; þáttist, *H.* 4) heiðar, *F.* 5) krafði, *F.* 6) er, *H.* 7) jöfur son, *H.* 8) bólga, *F.* 9) *þannig*, *F*, *H*; or á, *A.* 10) þá, *F.* 11) ossa, *F.* 12) ott á, *H.* 13) því at, *F*, *H.* 14) yðvar, *H.*

döglíngr! við bersögli;
hafa kveðast lög, nema ljúgi
landherr, búendr verri
endr í Úlfa[1]-sundum
önnur enn þú hèzt mönnum.

Biðr hann ok konúng varygð við gjalda þeim kvitt, er bændr höfðu, ef hann hèldi slíku fram um heipt ok harðindi við þá; segir honum þat hæfa, at vera fastorðr, ok halda vel frið þann, er hann hafði landsmönnum heitit, en fara eigi með rán ok rifs, þótt nökkurir heiptúðgir menn eggjaði hann þess. Hann segir svâ:

Gjalltu varhuga[2] veltir
við þeim, er nú ferr hèðra,
þjóf skal hönd í hófi,
hölda kvitt, of stytta;
vinr em[3] ek varma[4] bemja[5]
vörnuð býðk, en hlýðið
tár mútaris[6] teiti
til hvat búmenn vilja.

Hverr eggjar þik höggva
hjaldrgegna búþegna?
ofrausn er þat jöfri[7]
innanlands at vinna;
aungr[8] hafði svâ úngum
áðr bragníngi ráðit,

[1]) úlba, *F.* [2]) varöga, *F.* [3]) *v. í H.* [4]) varmra, *F.* [5]) *þannig*, *A*; benja, *F, H.* [6]) múteris, *F*; materis, *H.* [7]) ræsi, *F.* [8]) áugr, *F.*

rán hygg ek rekkum þínum,
reiðr er herr, konúngr! leiðast[1].

Ok enn kvað hann:

Hætt er þat er allir ætla,
áðr skalt[2] við því ráða,
hárir[3] menn er ek heyri
hót skjöldúngi á móti;
greypt er[4] höfðum hnepta[5]
heldr ok niðr í feldi,
slegit hefir þögn á[6] þegna,
þíngmenn nösum stínga.

Hverr eggjar þik harri
heiptarstrángr at gánga,
opt [rýðr þegnum þýðum[7]
þunnsta[8], á bak málum?
fastorðr skyli fyrða
feingsæll vera þeingill,
hæfir heit at rjúfa,
hjaldr-magnaðr! þèr[9] aldri.

Segir Sighvatr at einn er allra manna orðrómr, at úvíst sè hvârt konúngr mun fá haldit ríkinu, ef hann heldr slíku fram, sem hann kveðr:

Eitt er mál þat mæla
minn drottinn lèt[10] sína
eign á óðal þegna[11]
öflgast[12] búendr göfgir;

[1]) leiðar, *F.* [2]) skaltu, *F.* skal, *H.* [3]) Haralds, *F*; hárr, *H.* [4]) þat er, *b. v. F*, *H.* [5]) hneypta, *H.* [6]) yfir, *F.* [7]) þínum, *F*: reynir þú þínum, *frá* [ *Hk.* [8]) þunn stál, *F*, *H*, *Hk.* [9]) *v.* í *F.* [10]) leggr, *Hk.* [11]) *þannig*, *F*, *Hk*; þinu, *A*, *H.* [12]) öfgast, *F.*

rán mun seggr ef[1] sína
selr út í því dvelja[2]
fráns[3] at fellidómi
fulleið[4] konúngs reiði[5].

Magnús konúngr hugleiddi þessi áminníngarorð Sighvats; vurðu þá ok margir menn til göfgir ok góðgjarnir at styðja þessi heilræði með honum, ok minna konúng á, at hann hafði alla menn í frið tekit í fyrstu, þá er hann var til konúngs tekinn; báðu þeir hann halda heit sín við landsmenn, ok lög þau, er Ólafr konúngr, faðir hans, hafði sett. Nú með því at konúngr var vitr, ráðþægr góðgjörnum vinum sínum ok stiltr vel, þá tók hann vel þessum áminníngum ok heilræðum, setti hann þá fjölment þíng við bændr, á því þíngi talaði konúngr heldr harð-

[1]) er, *Hk.* [2]) telja, *Hk.* [3]) fárs, *F*; flaums, *Hk.* [4]) fulleiðr, *F*; full-leið, *H*; föðrleifð, *Hk.* [5]) konúngr greifum, *F.* Ok enn kvað hann:

Syni Olafs bið ek segja *a*)
síð kveða aptans bíða
óframs sök meðal okkar
allt hagligt *b*) svâ máli *c*);
erum Magnús vèr vegnir
vilða ek með *d*) mildum
Haralds varðar þú hjörfi
heyk [ei lifaat *e*) deyja.

Ok nú segir hann hversu mikinn sóma Olafr konúngr gerði honum, þá er hann var með honum.

Olafr lèt mik jöfra
órýr framast dýrða
urðu drjúg ens dígra
drottins þíng með hríngum;
gull bar ek jafnt um allan
aldr ok herverk sjaldan
hrygg á hvorutveggju
hendi flotna sendis.

Ok enn kvað hann:

Sigvaz hugir er hittig
Hörða-Knúts í garði
mildr nema mjök vel skáldi
Magnús konúngr fagni;
fór ek með feðrum þeirra,
fèkk ek mèr úngan túnga
gulls, var ek enn með öllu
óskeggjaðr þá, beggja. *b. v. B, F.*

*a*) snúðar, *Hk.* *b*) er háligt, *Hk.* *c*) mála, *Hk.* *d*) þèr, *b. v. Hk.* *e*) æ lifa ok, *Hk.*

liga[1] í fyrstu við þá menn, er honum þótti mest í sökum við sik, ok nökkut með frekum álögum við bændr. Þá stóð upp einn bóndi þar á þínginu, er Atli hèt, ok mælti: svâ skorpnar skórr at fæti mèr, at ek má hvergi or stað gánga; hann settist niðr, ok talaði eigi fleira. Þessi orð hugleiddi konúngr ok hans ráðgjafar; lauk með því þínginu þann dag, at konúngr bað þá alla þar finnast um myrgininn eptir. Annan dag, er þíng var sett, sýndist mönnum konúngr blíðligr, hann stóð upp ok talaði allt mjúkara til landsmanna enn hinn fyrra dag, fundu menn at guð hafði svâ snúit lyndi[2] konúngs, at frekum harðindum veik hann til vægðar við bændr, hèt hann þá öllum landsmönnum enn friði ok góðum sæmdum ok rèttarbótum, ok svâ gerði hann, eðr betr; varð hann síðan svâ ástfólginn ríkismönnum ok alþýðu, at hann var þaðan af kallaðr Magnús hinn góði.

23. Magnús konúngr gaf Rögnvaldi Brúsasyni jarlsnafn, ok sendi hann til ríkis vestr í Orkneyjar; fèkk konúngr honum lið ok skip, sem hann þurfti; settist hann í eyjarnar, ok hafði í ró ríki um hríð, 2 hluti Orkneyja ok Hjaltlands, þartil er Þorfinnr jarl, föðurbróðir Rögnvalds jarls, kallaði til landa þeirra, er Magnús konúngr hafði veitt honum. Gerðust þaðan af missætti ok úfriðr milli þeirra frænda, sem segir í jarla sögum, þartil er Rögnvaldr jarl

[1]) hæðiliga, *H.* [2]) harðlyndi, *H.*

stökk úr eyjunum, fyrir ofríki Þorfinns jarls, austr til Noregs á fund Magnúsar konúngs; efldi konúngr hann þá enn at skipum, ok fèkk honum hit bezta mannval af hirðsveitum sínum. Hann sendi ok brèf sín ok innsigli til Kálfs Árnasonar, hann hafði verit vestr þar, síðan hann flýði land í Noregi, með Þorfinni jarli, mági sínum; hann átti Íngibjörgu jarlamóður, dóttur Finns Árnasonar: stóð þat á brèfum Magnúsar konúngs, at Kálfr skyldi ná eignum sínum öllum í Noregi, ok þarmeð hafa vingan Magnúsar konúngs, ef hann vildi veita lið Rögnvaldi jarli í skiptum þeirra Þorfinns jarls. En er Kálfr hafði heyrt brèfin, lèt hann sèr fátt umfinnast, en svaraði þó: mèr þykkir, segir hann, með mikilli hættu, hversu staðfastr Magnús konúngr er í skapi; þá fyrr er ek lagða mik í öllum hlutum til vinganar við hann, var ek í róg borinn, svâ at ek flýða or Noregi, þvíat lífi var at forða. Rögnvaldr jarl mælti: spurt munþú þat hafa, at konúngr hefir nú enn öllum mönnum uppgefit þat mikla mál, er honum þótti landsmenn mest við sik sakaðir, ok er nú vorðinn hverjum manni ástfólginn, ok þaðan af er þat víst, at þú munt nú fá miklar virðíngar af konúngi, ef þú kemr á hans fund, þvíat hann er fastr í öllum góðum heitum. Svâ var sem Kálfi færi (um) annat eyra út, þótt hann heyrði slíkt talat. En er Þorfinnr jarl spurði, at

Rögnvaldr jarl var kominn í eyjarnar, safnaði hann at sèr miklu liði, ok fór í mót honum; þeir fundust þar sem heitir Rauðabjörg, ok börðust, ok gekk Rögnvaldi jarli betr; lagði Kálfr þá til um síðir 6 eðr 7 stórskip með Þorfinni jarli, mági sínum, fyrir eggjan hans ok umtölur; fèkk Þorfinnr þá sigr, ok fóru síðan skipti jarlanna, sem segir í sögu þeirra. Eptir þenna bardaga lagðist Kálfr Árnason í hernað, ok gerðist víkíngr þar fyrir vestan hafit.

24. Nú er frá því at segja, at Magnús konúngr bjó á einu sumri skip sín ok lið norðan or Þrándheimi; hann fór fyrst suðr með landi, sem Arnór jarlaskáld kvað:

Síðan [var þat er[1] suðr með láði[2]
siklíngr ýtti flota miklum
skíði var þá skriðar of auðit
skorðu rendi Vísundr norðan;
safnast bað til hverrar hömlu
hræðast menn við ættarklæði
Gjúka[3] þótti göfugt eiki
gerzkum[4] málmi, Peitu[5] hjálma.

Í þeirri ferð sigldi Magnús konúngr suðr til Danmerkr; svâ segir Arnór:

Ljótu[6] varp[7] á lyptíng utan
lavðri, bifðist[8] gullit rauða,
fastligr[9] hneigði furu geystri[10]

---

1) vann þá, *F.* 2) landi, *F*, *H.* 3) gjúku, *F.* 4) girzkum, *H.* 5) petu, *F.* 6) ljótir, *H.* 7) dreif, *Hk.* 8) lavðir bifðust, *H.* 9) fastliga, *F*, *H.* 10) glæstri, *Hk.*

fýris ángr[1] ok skeiðar stýri[2];
stirðum hèlt[3] fyrir Stafángr[4] norðan
stálum bifðust [fýri álar[5]
uppi glóðu elmars[6] typpi
eldi glík[7] í Danaveldi.

Magnús konúngr lagði liði sínu út til Limafjarðar, en er Hörðaknútr spurði kvâmu hans, fór hann þegar í mót honum með alla hina beztu höfðíngja sína ok hirð, ok bauð Magnúsi konúngi til veizlu með öllu sínu liði, ok þat þá hann blíðliga; riðu þá allir samt með glaum ok gleði; en er þeir nálguðust höll Danakonúngs, fóru út móti þeim, sem þeir höfðu ráð fyrir gert, marghâttaðir streingleikar, með hinni mestu skemtan. Tók Danakonúngr við Magnúsi konúngi með mestu sæmd ok góðvilja, ok er þeir komu at höllinni, mælti Knútr konúngr: þèr, herra Magnús konúngr! skuluð fyrri gánga, ok yðr skal fyrr veitast öll þjónusta ok tign. Magnús konúngr svarar: ek sè hversu þetta mál skal fara; þá er ek er í Noregi, ok sæki þèr mik heim, þá skal ek fyrri gánga, ok fyrri taka alla þjónustu, en nú, er ek em hèr kominn í Danmörk, skuluð þèr fyrri gánga, sitja innar, ok drekka fyrri, ok taka alla þjónustu ok tign fyrr, því at mèr sýnist svâ öfundlausast gert, því at hvârs okkars fólki mun mest ástúð á sínum konúngi. Knútr konúngr bað hann

[1]) garmr, *Hk.* [2]) stýra, *F.* [3]) hèltu, *F*, *Hk.* [4]) Stafángr, *F*, *H.* [5]) fýrisálar, *F.* [6]) elmds, *F*, *H.* [7]) glíkt, *F.*

ráða. Gengu inn síðan; settist Knútr konúngr í hásætit, en Noregs konúngr hit næsta honum utar frá; þvínæst kom Alfíva inn í höllina, hon fagnaði Magnúsi konúngi, ok kvaðst alla sæmd vilja honum veita; hon skeinkti honum með fríðu horni velbúnu, ok bað hann drekka. Magnús konúngr mælti: fyrr skal skeinkja Knúti konúngi, ok svâ veita alla þjónustu. Alfíva fèkk þá Hörðaknúti hornit, ok drakk hann af; hann kastaði horninu, ok mælti við: eigi skyldi; ekki gat hann fleira mælt, ok æpti síðan til bana; sýndist þá hver svik Alfíva hafði ætlat Magnúsi konúngi. Magnús konúngr gaf þegar upp veizluna, ok bjóst til skipa sinna, ok áðr hann gekk út, stóð hann upp ok mælti: þat viti guð ok hinn helgi Ólafr konúngr, at næsta sinn, er ek kemr til Danmerkr, skal ek eignast allt Danaveldi, eðr falla at öðrum kosti. Þess getr Arnór jarlaskáld:

Afkárlig[1] varð árla[2]
orðgnótt, sú er hlaut drottinn;
fylgdi[3] efnd því[4] er[5] ylgjar
ángrtælir rèð mæla:
at framm í gný grimmum[6]
grafníngs und[7] kló[8] hrafni
fúss lèt[9] falla ræsir
feigr eða Danmörk eiga.

---

[1]) ákaflig, *F.* [2]) jarla, *F*, *Hk.* [3]) fyldi, *F.* [4]) sú, *F.* [5]) at, *H.* [6]) grimman, *F.* [7]) odd, *F.* [8]) fló, *H.* [9]) lèzt, *F*, *H*, *Hk.*

Fór Magnús konúngr þá norðr í Noreg, ok sat þar um vetrinn.

25. Þessi atburðr, er Hörðaknútr lèt líf sitt, varð á 6ta ári ríkis Magnúsar konúngs; tveim vetrum fyrr hafði andazt vestr á Englandi Haraldr, bróðir hans, er þar var tekinn til konúngs eptir Knút hinn ríka, föður sinn; tók þá Hörðaknútr ríki í Englandi eptir Harald, ok rèð 2 vetr bæði ok Danaveldi. En eptir andlát Hörðaknúts hit sama vàr, var tekinn til konúngs í Englandi Játvarðr ,góði, son Aðalráðs konúngs; hann var bróðir Hörðaknúts sammæðri, móðir þeirra var Emma, dóttir Rikarðs Rúðujarls, systir Roðberts lángaspjóts, föður Vilhjálms bastarðs. Játvarðr var vígðr til kórónu páskadaginn fyrsta. Þat sama sumar fór Magnús konúngr með miklu liði suðr til Danmerkr; Magnús konúngr hafði þat skip, ok stýrði sjálfr, er átt hafði Ólafr konúngr, ok Vísundr var kallat; hann sigldi flota sínum suðr til Jótlands[1]; svâ segir Arnór:

Segja mun ek[2] hve Sygna
snarfenginn[3] bar þengil
hallr [varð hrími[4] sollinn
hlèborðs Vísundr norðan;
sètti blíðr[5] at breiðu[6]
brynþíngs[7] meginhrínga[8]

1) Sjólands, *H.* 2) *v. í H.* 3) snarfengan, *F, H, Hk.* 4) var hríme, *H*; ok hreti, *Hk.* 5) bjóðr, *Hk.* 6) heiðu *H.* 7) brymþíngs, *B*; byrðings, *F.* 8) meginþinga, *F*; fetilstínga, *Hk.*

fús tók öld við æsi
Jótlandi gramr branda[1].

Magnús konúngr hèlt til Vebjarga, ok stefndi þar þíng; á því þíngi var hann tekinn til konúngs; fór hann þá víða um landit, siðaði fólkit, ok setti höfðíngja til landsgæzlu með sèr, sat hann í Danmörku um vetrinn, ok gekk allt landsfólk undir hann; þess getr Arnór:

Náði siklíngr síðan
snjallr ok Danmörk allri
(máttr óx, drengja drottins)
dýr Norvegi at stýra;
öngr hefir annar þengill
áðr svå nógu láði
(brásk-at bragníngs þroska)[2]
barnúngr und[3] sik stúngit.[4]

Um sumarit eptir fór hann norðr til Noregs.

26. Þá er Magnús konúngr lá í Elfi við Konúngahellu, kom til hans ofan af Gautlandi[5] einn júngherra; þessi maðr hèt Sveinn, son Úlfs Sprakaleggssonar ok son Ástríðar, systur Knúts konúngs ríka, ok Ólafs konúngs sænska. Faðir Ástríðar var Sveinn konúngr tjúguskegg, en móðir hennar Sigríðr hin stórráða, dóttir Sköglatosta[6]; hana átti fyrr enn Sveinn konúngr Eiríkr hinn sigrsæli, Svíakonúngr, og var þeirra son Ólafr sænski. Sveinn Úlfsson hafði

1) brandi, *H.* 2) þroski, *H.* 3) við, *H.* 4) þrúngit, *F.* 5) landi, *B, H.* 6) Sköglartosta, *H.*

dvalizt með Önundi konúngi, frænda sínum; hann fór með fagrmælum, ok heimti sik svâ í vináttu við Magnús konúng. Sveinn tjáði konúngi, at Úlfr, faðir hans, hafði leingi verit jarl í Danmörk, ok haft vald mikit af Sveini konúngi, mági sínum, en sagði sik hafa fengit einga sæmd af Knúti konúngi, frænda sínum, fyrir dráp föður síns; hèt hann nú Magnúsi konúngi fullum trúnaði ok vinfengi, ef hann vildi sæma hann í nokkuru lèni, ok mælti eigi frekliga til. Magnús konúngr hlýddi á vinmæli hans, ok fann at hann var vitr maðr ok fríðr sýnum; hugði konúngr at Sveinn mundi vera svâ fastorðr sem fagrmáll[1], ok svâ tryggr í trúnaði, sem hann var sæmiligr at sjá, átti konúngr laungum tal við hann.

27. Einn dag er menn sátu við drykk, gaf konúngr Sveini skikkju sína, nýskorna af hinum dýrasta guðvef, þarmeð sendi hann honum eina skál, fulla mjaðar, ok bað hann drekka mótsminni[2]: hèrmeð, segir konúngr, vil ek gefa þèr, Sveinn! jarlsnafn ok slíkt af landsgæzlu í Danmörk, sem þá viljum vèr ákveða, er vèr komum þar. Sveinn roðnaði[3] mjök, er hann tók við[4] skikkjunni, ok gaf hana þegar einhverjum manni, [en hann tók gráfeld einn[5]. Einar þambarskelfir sá þetta, ok mælti: ofjarl, ofjarl, fóstri! Konúngr svarar styggliga: lítill-

[1]) fagrmæltr, *H.* [2]) njótsminni, *B*, *H.* [3]) við, *b. v. H.*
[4]) með, *H.* [5]) *v. í H.*

ar skynsemdar ætli þèr mik, ok einga mannraun kunna; kann ek ekki við því, at yðr þykki sumt ofjarl[1], en sumt ekki at manna. Hinn næsta dag eptir, áðr messa var súngin, lèt Magnús konúngr taka skrín með helgum dómum, ok bað Svein til gánga, at sverja sèr trúnaðareiða; hann gerði sem konúngr beiddi. Magnús konúngr innti svâ eiðstafinn, þá er Sveinn lagði hönd sína á skrínit, at hann skyldi halda trúnað við Magnús konúng, ok hans ríki auka í alla staði, en hvergi mínka, vera undir hann skyldr [ok skeyttr[2] í öllum hlutum, meðan þeir lifði báðir. Svâ segir Þjóðólfr skáld:

Sjálfr var austr í[3] Elfi
Úlfs[4] mögr, ok hèt fögru
þar rèð Sveinn at sverja
sínar hendr at skríni;
rèð Ólafs sonr eiðum,
(átt hafa þeirra sáttir
skemra aldr enn skyldi)
Skánúnga gramr hánum.

Var Sveinn þá með Magnúsi konúngi; ok er áleið sumarit fóru þeir suðr til Danmerkr, fèkk Magnús konúngr þá jarlinum vald ok ríki á Jótlandi; þat er first Noregi, en næst Vindum og Söxum, er jafnan veittu mikinn úfrið Dönum í þann tíma. Jótland er megin Danaveldis. Síðan um haustit fór Magnús konúngr aptr til Noregs, og allt norðr með landi, kom hann

[1]) of jarla, *H.* [2]) *v. í H.* [3]) við, *B*, *H.* [4]) Ulfs, *F.*

norðr til Þrandheims litlu fyrir jól, ok sat í Niðarósi um vetrinn. Þann sama vetr eptir jól stefndi Sveinn jarl Vebjarga þíng í Danmörk, ok er þíng var sett, stóð jarl upp ok talaði: þat sýnist mèr, sagði hann, eigi úsannligt, at þèr Danir þjónið mèr heldr enn Norðmanna konúngi; þvíat þèr vitið at hèr er ætt mín og óðal, svâ ok eigi síðr er yðr kunnigt um siðu mína ok skapferði; en oss Dönum verðr erfitt at þjóna Norðmönnum. Þótt Magnús konúngr sè vel at sèr, þá á hann einga ætt til þess, at vera konúngr yfir Danaveldi; en þótt ek sè eigi konúngs son, þá er (ek) hèr óðalborinn, dóttur-son Sveins konúngs ok systurson Knúts konúngs ríka. Nú vil ek beiða ættarnafns af yðr, en veita yðr þarímót mitt traust, viðrkvæmiligar sæmdir, rèttarbætr ok fègjafir. Lauk svâ þíngi, at þeir gáfu Sveini konúngsnafn yfir Danaveldi.

28. Magnús konúngr spurði þessi tíðindi, er áleið vetrinn; sendi hann þegar boð um [allan Noreg[1], ok bauð út hálfum almenníngi at liði ok vistum, fór hann með her þann suðr til
1044 Danmerkr á öndverðu sumri; en er Sveinn frètti til fara hans, treystist hann eigi liðsafla sínum, fór hann ör landi upp í Svíþjóð á fund Önundar Svíakonúngs, frænda síns, ok efldist þaðan at liði um sumarit. En er Magnús konúngr kom til Danmerkr, veitti hann landsmönnum stórar refsíngar, er þeir höfðu tekit sèr konúng annan;

[1]) allt sitt ríki, *B*, *H*.

tók hann fè af mörgum, sumir flýðu eignir sínar, suma lèt hann drepa. Síðan sigldi hann með flotann yfir til Vindlands, ok kom með herinn utan at Jómi; gekk Magnús konúngr þar á land ok herjaði, brendi bæði bygðir ok menn, gerði hann Vindum mikinn hernað, ok vann mörg stórvirki. Þess getr Arnór:

Vann, þá er Vindr um minnir,
vâpnhríð konúngr síðan;
sveið ófám[1] at Jómi
illvirkja hræ stillir[2]:
búk dró bráðla steiktan
blóðugr [vargr af glóðum[3];
rann á oskrið[4] enni
allfrekr bani hallar.

Þvínæst snèri konúngr aptr herinum til Danmerkr; en er þeir komu fyrir [Re á Vestlandi[5], þá lágu þar fyrir víkíngaskip mörg, ok lögðu þegar til bardaga við þá, ok lyktaðist með því at Magnús konúngr fèkk sigr; þarum er þetta kveðit:

Fúss lèt á Re hræsir[6]
rammþíng háit glamma
[virðum rautt[7] fyrir víðu
Vindlandi[8] gramr branda.

---

1) *þannig H*; of ám, *A*; *en F hefir vísuorðit svo:* svefns ofan af Jómi. 2) stilli, *F.* 3) vargi glóðum, *F.* 4) oskirð *eða* okskirð, *H.* 5) Vestland, *H.* 6) ræsir, *H; en þetta ok* rammþing *sèst varla í A.* 7) virðum rauð, *H*; valska rauð, *Hk.* 8) Vínlandi, *F;* Vestlandi, *Hk.*

En er konúngr kom í Smálönd, sendi hann aptr hinn norræna herinn, en hann sjálfr dvaldist þar eptir með ekki mikit lið.

29. Þat sama haust var Magnús konúngr staddr á Jótlandi, þá kom honum njósn, at Vindaher gerðist á hendr honum, þvíat þeir vildu hefna hernaðar þess, er hann hafði þeim gert um sumarit. Magnús konúngr sendi þegar boð um allt Danaveldi, ok bauð at sèr liði, en hann sjálfr fór með þat fólk, er hann fèkk, í mót Vindum, náliga bæði nótt ok dag; en því skundaði hann svâ mjök sinni ferð, at Vindr gerðu hinn mesta hernað, þegar þeir komu í hans ríki, brendu bygð alla ok drápu hvern mann, er þeir feingu[1].

30. Nú verðr hèr fyrst at standa sagan, en segja þat sem fyrr varð. Einn hertogi í Saxlandi hèt Ottó, hann var ríkr ok stórauðigr at lausafè, hann var bæði frændi ok fóstri Saxlands keisara, ok hinn kærasti vin; hertoginn var mikill bardagamaðr ok hinn bezti riddari. En Magnús konúngr í Noregi átti systur, er Úlfhildr hèt, hon var skilgetin dóttir Ólafs konúngs, hon var forvitra ok fríð sýnum. Ok eitt sinn, er þeir ræddust við keisarinn ok hertoginn, lèzt hertoginn hafa spurt at dóttir Ólafs konúngs hins helga var hinn [fríðasti maðr[2] sýnum, ok kallaði slíkt sæmdarráð Saxlands keisara, ef hon væri slík

[1]) fiengu, *H.* [2]) fríðasta mær, *H, B.*

sem frá var sagt, fyrir vits sakir ok vænleiks; ok eptir hans fortölum ok fýsi sjálfs síns sendi keisarinn hertogann norðr í Noreg á fund Magnúsar konúngs, at leita þess máls, ef honum virðist mærin jafn vitr ok hæversk, þá er hann sæi hana, sem frá var flutt. Hertoginn bjó sik skjótt, ok fór þartil er hann kom í Víkina, var Magnús konúngr eigi þar, en Álfhildr, móðir hans, var þar þá í Víkinni, ok gerði hon veizlu í móti hertoganum; ok einn dag at veizlunni við drykkju spurði hertoginn, ef systir Magnúsar konúngs væri þar í Víkinni, en Álfhildr sagði hana víst þar vera; hertoginn lèzt vilja sjá hana, en hon mælti því ekki ímót. Ok einn dag lèt Álfhildr búa dóttur sína vegliga, sú var eigi samfeðra við Magnús konúng, hon var leidd inn í stofuna, þá er hertoginn sat at borðum, hon var sett hit næsta honum, leit hann þá á hana, ok átti tal við hana, ok virðist honum svâ, sem hvârki væri mjök dásamanda orðfæri hennar nè vitrleikr, ok ekki svâ fríð sýnum, sem hann hugði; leizt honum þetta kvânfáng ekki svâ virðuligt, sem keisaranum hæfði; fór hann við þat aptr, at hann bar ekki þat eyrindi upp, er hann var með sendr; ok er hann finnr keisarann, segir hertoginn honum, at mær þessi, er hann hafði sèt, væri ekki svâ búin at vænleik ok vizku, sem þeim var sagt, ok fyrir þá skyld hafði hann eigi borit upp

bónorð keisarans, at honum þótti þat ráð [til lítillar sæmdar svâ ágætum höfðíngja[1]. Keisarinn svaraði: fyrir sakir þinnar dygðar, ok okkarrar kæru vináttu ok skyldrar frændsemi, þá vil ek at þú farir enn, ok biðir konunnar sjálfum þèr[2], með vârri orðsendíng til Magnúsar konúngs, kann vera at konúngr unni þèr þessa ráðs. Hertoginn fór, ok er hann kom í Noreg, fann hann Magnús konúng, ok fagnaði hann vel hertoganum, þvíat hann var frægr víða um lönd af sinni hreysti ok hamíngju; lèt konúngr búa honum hina beztu veizlu. Ok einn dag er þeir sátu saman gladdir af drykk, spurði hertoginn, ef konúngr ætti nökkura systur. Konúngr svarar: ek á víst systur, er heitir Úlfhildr, hon er dóttir Ólafs konúngs hins helga, föður míns, ok Ástríðar drottníngar. Hertoginn mælti: beiða vil ek, herra! at þèr látið mik sjá þá konu, ok tala við[3] hana. Konúngr svarar: þar skal þèr gefa gott orlof til. Annan dag gekk Magnús konúngr ok Ottó hertogi þángat, sem konúngsdóttir drakk; hon stóð upp í móti Magnúsi konúngi, bróður sínum, ok fagnaði honum vel; hertoginn settist hjá henni, ok töluðust þau við; fann hann þat skjótt, at þessi kona var at vænleik ok viti lángt umfram hina, er honum var fyrr sýnd; sitja þeir

---

[1]) eigi til svo mikillar sæmdar sem honum heyrði, *H.* [2]) til handa, *b. v. H.* [3]) með, *H.*

þar slíka stund, sem þeim líkaði, gengu brott síðan. Hertoginn skilr nú at Álfhildr konúngs móðir hefir ætlat at beita hann brögðum hit fyrra sinn; hann hugsaði með sèr, hvârt hann skyldi þessarrar meyjar biðja til handa sjálfum sèr eðr til handa keisaranum, þvíat hann sèr at þetta kvânfáng var keisaranum sæmiligt í alla staði; en þat staðfestist með honum, at fyrirmuna eigi sjálfum sèr þvílíks kostar, ef hann næði; vekr þvínæst þetta mál við Magnús konúng. Magnús konúngr svarar svâ: seint mun systir vâr fá jafnræði at vârri virðíngu, en þó fyrir sakir þinnar hreysti ok ríkdóms, þarmeð flutníngs[1] ok orðsendíngar Saxlands keisara [þèr til fulltíngs[2], þá er á slíkt lítanda, ef mærin samþykkir ok móðir hennar ok annat vârt hit æzta ráð, þvíat ekki bregðr okkarri samvistu, utan þetta eðr eitthvert annat virðuligt ráð sjáist fyrir henni. En hvârt sem yfir þessum málum var setit lengr eðr skemr, þá kom þar um síðir, at júngfrú Úlfhildr var gipt hertoganum með mikilli sæmd ok virðíng. Fóru þau þvínæst suðr til Saxlands, settist hertoginn þá í ríki sínu, en fór ekki á fund keisarans; hann var allra manna auðgastr at fè, manna mildastr, hinn snarpasti í orrustum ok öllum sóknum, hógvær í friði, glaðr[3] í máli ok hinn vinsælasti af öllum góðum mönnum, stjórnsamr ok harðr

[1]) fulltíngs, *B*, *H*. [2]) *v. í H*. [3]) blíðr, *H*.

við illmenni. Litlu síðar komu til hans sendimenn keisarans með þeim eyrindum, at hann bauð hertoganum til sín með vingan, ok lèzt vilja finna hann; en hertoginn kveðst eigi fara mega fyrir fjölskyldu sakir og nauðsynja sinna manna, þvíat víkíngar gerðu mikinn ófrið í ríki hans. Sendimenn fóru aptr, ok sögðu keisaranum hver svör hertoginn veitti þeirra eyrindi. En Ottó hertogi sat heima í Brúnsvík, ok friðaði ríki sitt.

31. Svå bar til eitt kveld, at Ottó hertogi sat með hirð sinni ok höfðíngjum, gladdr af drykk; frú Úlfhildr sat á aðra hönd honum; hann var fyrir skömmu kominn or bardaga, hafði hann orðit sár mjök, þvíat hann var manna snarpastr í orrostum, ok úhlífinn í öllum mannraunum; var í höllinni gleði mikil. Þeim sýndist sem maðr gengi í dyrnar, ok hafði danskan hatt á höfði, hann nam lítt stað[1], ok hvarf þegar. Þá mælti hertoginn: kendir þú manninn? konúngsdóttir. Þat veit ek eigi víst, sagði hon, en líkt þótti mèr kampinum föður míns, er niðr tók undan skugga hattarins, kann vera at Magnús konúngr, bróðir minn, þurfi liðs við. Hertoginn svarar: vèr skulum ok veita Magnúsi konúngi slíkt lið, sem vèr megum. Hún svarar: þèr eruð nú lítt tilfærir fyrir sára sakir, nema hinn heilagi Ólafr konúngr græði yðr. Ekki

[1]) staðar, *H*; *en F kveðr svo að:* ok gekk innar mjög at hásætino, ok síðan utar aptr ok í brutt.

skulu sár fyrir því standa, sagði hann; spratt hann þegar upp ör sætinu, ok bað riddara ok ríkismenn [vâpna sik[1], ok svâ allt folk, þat er með honum var vâpnfært. Konúngsdóttir tók þá einn linda, er átt hafði faðir hennar, ok lagði um sár hertogans, ok tók þegar ör verk allan ok vanheilendi; fór hann þá sem hvatligast með lið sitt í Danmörk norðr, þartil er hann fann Magnús konúng á Hlýrskógsheiði[2] suðr frá Heiðabæ; tók konúngr sem bezt við mági sínum, ok varð glaðr við hans kvâmu. Vindr sóttu þá ok mjök í mót þeim, höfðu heiðíngjar her svâ mikinn, at eigi voru færri enn 60[3] heiðíngja um einn konúngsmann. Danir tóko at kurra illa, ok sögðu at konúngr vildi leiða þá í úfæru, ok sögðu honum þat eitt til at flýja undan. Konúngr gerðist mjök hugsjúkr, er hann sá hrygð ok hræzlu á liði sínu, sagði hann sik aldri flýja skyldu, ef honum vildi nökkurir samþykkja[4]. Ottó hertogi fýsti at berjast skyldi. Einar þambarskelfir var þar með Magnúsi konúngi, hann mælti einsliga til konúngs: hugsið vandliga, herra! orð ok athæfi Dana, hversu traustir þeir munu yðr til bardagans. Tóku þeir þá þat ráð at leynast í herinn, ok hafa höttu síða ok annan dularbúnað, svâ at menn kendu þá eigi; þeir heyrðu at einn danskr maðr mælti til fèlaga síns: hvar munu þeir berjast? Annarr

---

[1]) herklæðast, *H.* [2]) Hlýskógsheiði, *F, H.* [3]) þrír, *H. þó mjög óglöggt.* [4]) fylgja, *H.*

svarar: hèr rètt við ána. Þá mælti hinn, er spurt hafði: hèr vildi ek þá vera, sem nú erum vèr við skóginn; sá berst þá, er berjast vill, en hinn [föktir, sem fökta[1] vill. Þá mælti Einar: þar megið þèr nú heyra, herra! at þessi hinn danski segir margra vilja; nú er þat mitt ráð, at þèr setið svâ yðrar fylkíngar, at þeir þýðist eigi svâ skjótt skóginn, sem þeim er títt[2] til. Skamt frá herinum var einn lítill bær; Einar bað konúng at þeir myndi gánga til bæjarins, ok sjá um at bónda væri eingi úskil gjör af liðsmönnum; þeir gerðu svâ; bóndi tók við þeim vel, hann gaf þeim gott ok nógt at drekka, voru þeir þar um nóttina; konúngr var hugsjúkr, ok svaf lítit um nóttina, hann saung bænir sínar, ok sofnaði móti deginum; hann þóttist þá sjá hinn heilaga Ólaf konúng, föður sinn, á hvítum hesti, ok mælti hann: statt þú upp skjótt, ok fylk liði; gnógan her hefir þú at berjast við heiðíngja; ek mun koma at berjast með þèr, [þá er þú heyrir lúðr minn[3]. Konúngr vaknaði, ok sagði Einari fóstra sínum, at þeim var sigri heitit; fóru þeir þegar til hersins, vakti konúngr þá liðit, ok bað menn sína búast til bardaga, þvíat Ólafr konúngr er oss liðsinnaðr[4], sagði hann. Sá maðr íslenzkr var þar með

[1]) flýr er flýja, *H*; felr sik er feltmta vill, *F*. [2]) ant, *H*. [3]) þá er þú heyrir hríngt Glöð norðr í Þrándheimi, ok þá mun eigi leingr þurfa at bíða mín; því at hûn skal vera lúðr minn í dag, *F*. [4]) *þannig*, *A*, *H*.

Magnúsi konúngi, er Oddr hèt, hann var Gellisson, hann hefir sagt flest út higat frá þessum tíðindum.

32. Allr herr Magnúsar konúngs hafði legit með vâpnum um nóttina, þvíat Vindr[1] voru komnir nær þeim; en er Magnús konúngr hafði fylkt liði sínu, þá eggjaði Magnús konúngr herinn til bardaga, ok sagði þeim draum sinn, ok þvínæst heyrðu allir þeir, sem þar voru, klokkuhljóð, í loptit upp, ok kendi Magnús konúngr ok allir Norðmenn hljóðit, sem hríngt væri Glöð, sú klokka var norðr í Þrándheimi at hins heilaga Ólafs konúngs í Niðarósi. Við þessa [sýn alla saman[2], hrinda allir menn ugg og ótta, þeir sem áðr voru hryggir ok hræddir, ok gengu glaðir til bardaga við heiðingja, af slíkum fyrirburðum[3], ok eggjaði hverr annan. Í þessum þys kom þar einn bóndi, ok brauzt fram milli manna, hann kvaðst eiga skylt eyrindi við konúng, sumir menn hrundu honum, en sumir beindu ferð hans; Einar kendi manninn, ok bað konúng heyra, hvat hann segði. Konúngr spurði, hvat hann vildi. Hann svarar: ek vil segja þèr draum minn; ek þóttumst sjá Ólaf konúng á hvítum hesti í konúngs skrúði; hann sagðist yðr skyldu lið veita, hann bað yðr setja lánga fylkíng, [at Vindr[4] kríngdi eigi um yðr, bað hann yðr vera í miðri fylkíng, ok fylkja þar þykkast; hann kvaðst ok mundu

[1]) Vindir, *H*, [2]) heyrn, *H*. [3]) fyrirheitum, *H*. [4]) svâ Vindir, *H*.

sýna merki sitt fyrir liðinu. Karl sannaði með jarteignum sögn sína, svâ at konúngr mátti eigi við dyljast; varð hann við þetta glaðr, ok gaf bónda góðar gjafir; skipaði hann þá Ottóni[1] hertoga með sitt lið í annan fylkíngararminn, en konúngr sjálfr var í miðju liðinu. Nú nálgaðist heiðíngjaherinn, ok var þat svâ mikill múgr, at heiðar voru víða þaktar af. Þessi fundr var við Skotborgará fyrir sunnan Heiðabæ, sem Þjóðólfr skáld segir:

Minn[2] vâ[3] sigr fyrir sunnan
snjallr Heiðabý spialli
(nær frá ek skarpa skæru
Skotborgará) gotna[4].

Tókst þá hin snarpasta orrusta, þegar þeir mættust; Magnús konúngr var hinn ákafasti, ok drap svâ margan mann, at eigi var skjótt at telja. Svâ segir Þjóðólfr:

Undi ótal Vinda
ellukonr at fella;
hvar hafi gumnar gerfa
geirhríð fregit[5] meiri?

Magnús konúngr steypti af sèr brynjunni, áðr bardaginn hófst, ok hafði ekki klæða nema silkiskyrtu; hann tók öxi þá, er faðir hans hafði átt, ok Hel var kölluð, ok hjó tveim höndum hvern heiðíngja, er hann náði til. Svâ segir Arnór:

---

[1]) Otto, *H.* [2]) Unnt, *máske H.* [3]) var, *F.* [4]) gjörvar, *F.* [5]) framit, *F.*

Óð með öxi breiða
ódæsinn framm ræsir,
varð um hilmi Hörða
hjördyn[1], ok varp brynju[2];
þá er of [skapt, (en[3] skipti
skapvörðr himins jörðu),
(Hel klauf hausa fölva),
hendr tvær jöfurr spendi.

33. Sá var einn maðr í Vindaherinum, at var meiri ok styrkari enn aðrir menn; þessi maðr hafði þat ráð gefit Vindum, at þeir skyldi heldr berjast um nótt enn um dag við kristna menn; hann var svâ fjölkunnigr, at eigi festi vâpn á honum; þessi maðr gekk fram í fylkíng Magnúsar konúngs, ok hjó á 2 hendr, svâ at eingi þurfti sèr lífs at vænta, ef[4] hann náði höggi[5] til. Þessi maðr hèt Regbus, hann vakti fyrstr víg á mönnum Magnúsar konúngs; ok er hann hafði drepit marga menn, sótti hann fast framm, ok spurði hvar konúngr Norðmanna væri. Þá mælti til Magnúsar konúngs einn maðr, er stóð í hjá honum, mikill vexti ok vænn [í ásjánu[6] ok þó nokkut aldraðr: hví láti þèr, herra! þenna óvin drepa niðr menn þína? Konúngr svarar: ek veit eigi hversu ek má hann skjótt afráða. Þá mælti hinn aldræni maðr: [fyrrum fýsizt[7]

[1]) hjördyr, *F*; hjördynr, *Hk*. [2]) brynjum, *H*. [3]) *v. í H.* [4]) er, *H*. [5]) höggum, *H*. [6]) at álite, *H*. [7]) fyrre girnizt, *H*.

þèr á vald ok herstjórn, enn þèr kunnið með at fara. Vera kann at svå sè, sem þú segir, en þiggja man ek at þèr heilræði, ef þú kant at kenna. Hann mælti þá: högg þú hann nú þá með öxinni Hel við minn atbeina. Heiðínginn hafði stutta brynju, ok hjálm á höfði; þessi hinn fríði maðr snaraði þá fram fyrir konúng, ok sló hinn mikla heiðíngja mikit högg utan á hjálminn. Hann hrataði við, en fèll eigi; Konúngr sá at brynjuna bar upp af mjöðminni, er hann hallaðist undan högginu, ok hjó konúngr hann með öxinni nærr sundr í miðju, því at hon beit hann, þótt eigi biti önnur våpn. þess getr Einar Skúlason í Ólafsdrápu, at Ólafr konúngr sýndist Magnúsi konúngi í svefni fyrir þenna bardaga, ok hèt at veita honum lið; hann segir svå:

Gekk sínum bur sökkvir
sólarstraums í drauma
valdr kvaðst fylgja foldar
framlyndum gram myndu;
áðr á Hlýrskógsheiði[1]
[harðfengr jöfurr[2] barðist
(góðs[3] eldis fèkk gyldir
gnótt) við heiðnar dróttir.[4]

Eptir fall Regbuss gerðist Magnús konúngr svå ákafr, at hann var fremstr sinna manna, ok beið eigi merkjanna, hann hjo á 2 hendr, ok

[1]) Hlýskógsheiði, *allstaðar*, *H.* [2]) harðlyndr gramr, *H.* [3]) góð, *H.* [4]) *vís. v. í F.*

drap heiðíngja niðr sem búfè; sá Vindr[1] þá eingan sinn kost vænna enn flýja, þeir sem því komu við[2]. Dreifðist þá herrinn víðs vegar, en Magnús konúngr rak flóttann fyrstr; varð þá svâ mikit mannfall af heiðíngjum, at þat var víða um heiðina, at [menn Magnúsar konúngs náðu[3] eigi á bera jörð at stíga fyrir búkum Vinda, ok stóra læki stemdi uppi af valfalli, svâ at eigi náðu sinni rás. Þess getr Þjóðólfr skáld:

Hykk í hundraðs flokki
Haralds bróðurson stóðu,
hrafn vissi sèr hvassast
húngr-bann, framast manna:
vítt lá Vinda flótti
varð[4], þar[5] er Magnús barðist,
höggvinn valr at hylja
[heiði rastar breiða[6].

34. En er flóttinn kom fram at Skotborgará, þá námu Vindr enn við um stund, en er allt lið konúngs var eptirkomit, þá lètu heiðíngjar rekast út á ána; varð þar svâ mikit valfall, at konúngsmenn hlupu á valköstum þurt yfir ána. Svâ segir í Hrýnhendu:

---

[1]) Vindir, *allstaðar, H.* [2]) svâ segir Einar:

Lèt jarpleitan áto
arnar jóðs hinn góði
munn rauð mildíngr innan
Magnús hugan faga (fagna *B*):

hrætt var fólk á flótta
frán beit egg á leggi
sorg hlutu víf en vargar
vindvesk um hræ gíndu, *b. v H.*

[3]) Magnús konúngr náði, *H.* [4]) var, *F.* [5]) þá, *Hk.* [6]) heiður rastir breiðar, *H.*

Skjöldúngr lèzt[1] við skíra valdit[2]
Skotborgará Vinda sorgum
ýngvi var sá frægr er fenguð
[förnuðr þeim[3] við helmíng minna;
vare[4] lá þar valköstr hærri
var þèr sigr skapaðr[5] grams hins digra
virðum kunn en víða runninn
[varga ætt[6] of[7] klifa mætti.

Magnús konúngr fylgdi þá enn Vindum, en lið hans dvaldist eptir, rak hann þá einn flóttann, en sumir segja, at hann ræki við annan mann, ok drap þá enn svâ margan mann, at svâ lágu þykt mannabúkar á báðar hendr þeim sem undvörp[8] væri. Þess getr Arnór:

Svâ hlóð siklíngr háfan
snarr af úlfa barri[9],
hrósag[10] hugfulls vísa,
hræköst, fíraræfi;
[at áleggjar[11] yggja[12]
all nátt [förut máttið[13]
öld lá vítt [þótt vildi[14]
vífmar[15] yfir klifa.

Sögðu ok svâ síðan þeir, er með fjörvi komust undan af heiðíngjaherinum, at eingi þeirra hefði þaðan lífs komizt, ef fleiri kristnir menn

[1]) lèt, *H.* [2]) valdi, *F.* [3]) fornauðr þinn, *F*; förnuð þinn, *H.* [4]) vorru, *F*; vaxi, *H.* [5]) skaptr, *H.* [6]) vargaættum, *F.* [7]) ef, *H*; *v. í F.* [8]) unnvörp, *H.* [9]) baurri, *F.* [10]) hrósig, *H.* [11]) aðáleggjar, *F.* [12]) hyggjar, *F.* [13]) förull máttuð, *H.* [14]) en valdi, *H.* [15]) vífmár, *H*; vifsmark, *F.*

hefði svå barizt, sem så hinn fríði maðr í silki-skyrtunni. En er konúngr hugsaði til, hvar hann var kominn, fann hann sik farit hafa heldr úvarliga, hvarf hann þá aptr til liðs síns; urðu hans menn honum allfegnir, þvíat þeir voru áðr mjök hugsjúkir, at hann mundi fallinn, er þeir sá hann hvergi. Þakkaði Magnús konúngr guði sigr sinn, ok sínum mönnum drengiliga fylgd; þá var Mikaelismessu aptan, er orrostan tókst, ok var ekki laung áðr heiðíngjar flýðu. Þessi orrosta hefir frægust verit í kristni á Norðrlöndum af því mikla mannfalli, er þar varð af Vindum, þvíat engi maðr mátti telja, hversu margr heiðíngi þar lèt sitt líf. Var þat eigi undarligt, þvíat með guðligri forsjá[1] varð Vindum at því mikit ólið, er þeir höfðu ætlat sèr til mikils styrks ok stoðar, (at) þeir höfðu skipat miklum fjölda yxna í framanverðar fylkíngar sínar, ok bundit á bak þeim spjót stór ok styrk, en fjalar fyrir augu; en er herrinn kom saman, ok bardaginn hófst, lagði lið Magnúsar konúngs allt annan veg at, enn þeir höfðu ætlat; stóðu nautin þá á bak þeim, er þeir tóku at flýja, urðu þeir í kvínni, ok hlupu á spjótin, þvíat yxnirnir stóðu við fast, svå at flóttinn gekk ekki framm leingi[2]: fèllu þá sumir fyrir sjálfra sín[3] våpnum ok vígvèlum, en sumir fyrir Magnúsi konúngi ok hans mönnum, er þá neyttu hæfiligra höggstaða á þeim. Ok enn heldr

[1]) var um sèð, *b. v. II.* [2]) leingra, *II.* [3]) sinna, *II.*

er þessi orrosta ágæt af jarteignum hins heilaga Ólafs konúngs; þvíat eigi myndi Magnús konúngr svâ djarfliga hafa gengit einnsaman hlífalaus í gegnum fylkíngar sinna úvina, ok koma þó aptr til sinna manna úsárr ok alheill, utan hann væri verndaðr [föðurligu fulltíngi[1]. Þat gaf ok öllum vel skilja, at eigi mátti hann sigra við svâ lítit lið jafnmikit ofrefli heiðíngja, en fèkk sjálfr lítit manntjón, nema sá sigr væri honum veittr af vârum herra drottni Jesú Kristó, háleitum himnakonúngi, fyrir verðleika síns ástvinar Ólafs konúngs, sem Einar prestr Skúlason segir:

Raun er at sigr gaf sínum
snjallr lausnara-spjalli
(hrósa ek verkum vísa
vígdjarfs) frömum arfa.

Eptir þat skiptu þeir herfángi sínu, ok tók konúngr til sín af því mikla fè nökkura hrínga, er hann hafði tekit af hinum heiðna Regbus, þat eitt sinn sá menn fègirni hans. Konúngr gaf virðuligar gjafir hertoganum, ok mörgum öðrum liðsmönnum mikit fè; en þann mann, er honum gaf ráð til at vinna Regbus hinn mikla[2], bað hann vitja sín, þá er hann kæmi heim í ríki sitt, ok kvaðst þá myndu ömbuna honum. Þar skildust þeir mágar með hinum mesta kærleik, fór hertoginn þaðan suðr til Saxlands.

35. Ottó hertogi kom heim í ríki sitt, ok

[1]) föðurligri forsjá, *H.* [2]) víkíng, *b. v. H.*

settist í Brúnsvík, en fór ekki á fund keisarans; en er keisarinn skilr at Ottó hertogi mun ekki vilja sækja hans fund, þá sendi hann menn til hertogans, ok segir at hann mun skjótt þar koma; þeir fóru ok fluttu eyrindit, hann lèt sèr fátt umfinnast, en bjó þó veizlu í mót honum. Keisarinn kom þar í ákveðinn tíma, ok var honum vel fagnat; en er keisarinn leit konúngsdóttur, fanst honum mikit um fegurð hennar, hugsaði, sem var, at þareptir myndi fara hennar vit, siðir ok hæverska; sýndist honum hertoginn eigi hafa rètt frá flutt, er hann ágætti ekki hennar vænleik: þaðan af gerðist keisarinn úglaðr ok svâ allir hans menn, var þá lítil skemtan í höllinni um kveldit. Hertoginn þjónaði at borði keisarans; hann þóttist vita hvat keisaranum mislíkaði, ok gaf sèr þó ekki um at sinni. En er þau Úlfhildr konúngsdóttir komu í sæng sína um nóttina, mælti hon: hvat ætli þèr, herra! at valdi úgleði keisarans, vèr hugðum at hèr mundi vera vinasamkvâma, þvíat þèr sögðuð oss í Noregi, at hvârr ykkar væri öðrum mjök ástfólginn, ok þèr væri at engum manni jafnmikill vegr, sem at keisaranum; seg nú ef þat er, sem mik grunar, at nokkut [komi til vâr af[1], ok hafir þú eigi í alla staði með því máli farit, sem honum líkar, ok hafi mèr eigi vorðit gæfu til auðit þeirra ráða, sem fyrst var tilætlat, nökkut af

[1]) (standi) af oss til, *II.*

þínu tilstilli. Nú ef svâ er, þá er þat mitt ráð, at þú talir við hann á morgin, ok spyr, hví hann er úglaðr, ok þótt hann taki úmjúkliga þínu máli, þá legg allt á hans vald þitt ráð ok mitt. Nú vill hann vel gera, sem mik varir, þá er gott, vill hann öðruvís gera, þá er þat hans, ok mest vân at hann hljóti at ráða, þótt eigi sè þetta gert at, en þetta berr þèr betr at gera svâ af þinni hendi. Hann sagði, at þetta hafði allt farit, sem hon gat: ok skal svâ meðfara, sagði hann, sem þú leggr ráð til. Um daginn eptir mælti hertoginn til keisarans: hví eru þèr svâ hljóðir, herra? vèr vildim þessa veizlu yðr veita með öllum blíðskap ok ástsemd. Keisarinn svarar: furðu djarfr maðr erþú, spyr at því, þar er þú sjálfr veizt þínar gerðir, er þú hefir svikit mik. Hertoginn svarar: illa er þá, herra! en þó eigi þèr þar dóm á; þèr senduð mik til Noregs á fund Magnúsar konúngs at biðja systur hans yðr til handa, en þat sinni hitta ek eigi Magnús konúng. Þar sá ek mey þá, sem mèr var sögð systir Magnúsar, ok svâ ætla ek verit hafa; sagði ek þar satt af, at mèr sýndist hon ekki hæfa yðvarri tign. Öðru sinni senduð þèr mik at biðja hennar mèr til handa, ok er ek kom til Noregs, fann ek Magnús konúng, ok sýndi hann mèr þessa konu, er systir hans var samfeðra. Var þá bæði, herra! at mèr þótti mikit at missa slíks ráðahags, enda þóttumst ek hafa yðvart orlof til þessa kvânfángs:

en nú, svâ sem vorðit er, legg ek allt á yðvart vald, bæði mitt ráð ok konúngsdóttur. Keisarinn svarar[1]: ek ætla þat ok satt, at því hafi svâ tilborit, at þat sè bæði guðs vili ok forsjá, at þú njótir þessarrar gersimar; [ok nú fyrir þína dygð, ok þessa meðferð, skal ek í eingum hlut þèr þýngja, heldr í hvern stað auka þína sæmd ok ríki; hèlt hertoginn Brúnsvík ok öllu sínu ríki til dauðadags. Ottó hertogi ok Úlfhildr áttu[2] þann son, er Magnús hèt, hann var snimma mikill vexti ok manna vænstr, [hann tók ríki eptir föður sinn, ok er frá honum komin hertogaætt í Brúnsvík á Saxlandi[3].

36. Eptir orrustu á Hlýrskógsheiði lèt Magnús konúngr kanna lið sitt, ok hafði ekki mart fallit af hans liði, en mart var sárt; lèt hann þá binda sár manna sinna, en læknar voru ekki svâ margir í herinum, sem þurfti. Þá gekk Magnús konúngr til sinna manna, þeirra er honum sýndist, ok þreifaði um hendr þeim, ok strauk um lófana; nefndi hann síðan til 7 menn, þá er honum þótti sem mjúkhendastir myndi vera, ok sagði at þeir skyldi binda sár

[1]) er stund leið, *b. v. F.* [2]) er nú ok mest von at ek muna hafa haft ríkit, meðan at mèr var yndi at; nú með þína meðferð alla jafna saman, þá vil ek gefa þèr allt ríkit, þarmeð keisara nafn ok alla virðínginina, en ek vil nú ráðast í þeirra manna sveit, er hafna þessa heims lífi, ok taka þá slíkan hlut af guði, sem hans stendr miskun til. Svâ er sagt at Otta yrði nú keisari í Saxlandi, ok áttu þau konúngsdóttir *F.* [3]) en þessi maðr, er keisari hafðe verit, gjörði slíkt af sínu mále, sem hafðe hann áðr rædt, ok er nú lokit frá honum at segja. *F.*

manna, en engi þeirra hafði fyrr um sár bundit, en allir þessir vurðu hinir mestu læknar. Tveir af þeim voru íslenzkir: var annar Þorkell Geirason af Lýngum, annar Atli, faðir Bárðar[1] í Selárdal, ok komu frá þeim margir læknar síðan. Varð Magnús konúngr allfrægr víða um land, af sigri þeim er hann fèkk þar, ok var þat alþýðu ætlan ok orðrómr, at eingi konúngr myndi þurfa at berjast við Magnús konúng Ólafsson, ok Ólafr konúngr væri honum svâ nákvæmr, at úvinir hans mætti honum einga mótstöðu veita fyrir þá sök.

37. Magnús konúngr snèri þá herinum móti Sveini Úlfssyni, er hann kallaði jarl sinn, þótt Danir kallaði hann konúng, rèð Magnús konúngr sèr til skipa ok bjó herinn; fjölmentu þá hvârirtveggju, voru þá margir höfðíngjar í liði Sveins, Skánúngar, [Hallandsfarar ok Fjónbúar[2], en Magnús konúngr hafði mest Norðmenn ok Jóta. Hèlt hann þá liði sínu til móts við Svein, varð fundr þeirra fyrir vestan Aren[3], þar varð orrosta mikil, flýði Sveinn aptr á Skáney, þvíat hann átti hæli uppi á Gautlandi, ef hann þyrfti til at taka, en Magnús konúngr fór aptr til Jótlands[4], ok sat þar fjölmennt um vetrinn, ok hafði gæzlu á skipum sínum. Þessa getr Arnór:

---

[1]) svarta, *b. v. H*. [2]) ok Fjónbúar, Hallands ok úr Fránz, *H* [3]) *þannig A, H*. [4]) Sjólands, *H*.

Fúss lèt á Re ræsir
rymþíng hátt[1] glymja
valska hrönn fyrir víðu
Vestlandi[2] gramr branda.

38. Sveinn Úlfsson fór þegar á skip sín, er Magnús konúngr var genginn af skipum; dró Sveinn þá lið at sèr, allt þat er hann fèkk, ok fór þá um vetrinn um Sjóland ok Fjón ok eyjar[3]; en er dró at jólum, hèlt hann suðr til Jótlands, ok lagði til Limafjarðar; gekk þar margt fólk undir hann, en hann tók gjöld af sumum, sumir fóru á fund Magnúsar konúngs; en er Magnús konúngr spurði hvat Sveinn hafðist at, þá fór hann þegar til skipa sinna, ok hafði með sèr Norðmannalið, þat er þá var í Danmörk, en sumt Danalið, hèlt hann sunnan fyrir Jótland. Sveinn var þá í Árósi, ok hafði mikit lið; en er hann 1044 spurði til hers[4] Magnúsar konúngs, þá lagði hann liði sínu framm ör bænum, ok bjóst til orrostu. En er Magnús konúngr vissi, at skamt var í milli þeirra, þá átti hann húsþíng, ok talaði við lið sitt, ok sagði svâ: nú höfum vèr spurt, at jarlinn með lið sitt [mun hèr liggja fyrir[5] oss, er mèr svâ sagt, at hann hafi lið mikit, ok vil ek yðr gera kunnigt um ætlan mína: ek vil leggja til fundar við jarl, ok berjast við hann, þótt vèr hafim

1) háit, II. 2) veldi, II. 3) Færeyjar, II. 4) v. í II, 5) er nær, II.

lið miklu færra; munum vèr traust vârt eiga enn sem fyrr, þar sem guð er sjálfr ok hinn heilagi Ólafr konúngr, faðir minn; hefir hann oss nökkurum sinnum fyrr gefit sigr, þá er vèr höfum barizt, ok höfum vèr optast haft minna lið enn úvinir vârir. Nú vil ek at menn búist svâ við, at vèr skulum leita þeirra, ok þegar fund vârn berr saman, skulum vèr atróa, ok taka þegar til bardaga: veri þá allir menn búnir at berjast. Síðan herklæddust þeir, ok bjó hverr sik ok sitt rúm, reyru þeir Magnús konúngr þartil, er þeir sá lið jarls, ok greiddu þegar atróðrinn; en Sveins menn vâpnuðust ok teingdu saman skip sín, tókst þá þegar hörð orrosta, sem segir Þjóðólfr skáld:

Lögðu glæðis glóðar[1]
gramr ok jarl fyrir skömmu[2]
þar kom [bitr á[3] börva
brandlækr[4], saman randir;
svâ at mannþúnga[5] mundut
merkendr Hèðins serkjar
herr náði[6] gný geira[7]
geirs orrustu meiri.

Þeir börðust um stafna, ok máttu þeir einir höggum viðkoma, er í stöfnum voru, en þeir lögðu kesjum, er [í fyrirrúmum voru; en allir þeir sem[8] aptarr voru, skutu snæris-

[1]) glóða, *Hk.* [2]) skammu, *H.* [3]) bitra, *H.* [4]) brandlæk-ir, *H.* [5]) mannþínga, *Hk.* [6]) háði, *Hk.* [7]) gjörfa, *Hk.* [8]) *v. í H.*

spjótum eða gaflökum[1], en sumir börðu grjóti eðr skeptiflettum; en þeir sem fyrir aptan siglu voru, skutu bogaskotum; þess getr Þjóðólfr:

Skotið frá ek skeptiflettum
skjótt ok mörgum spjótum,
bráð fèkk hrafn þar er[2] háðum
hjaldr, á breiðum skjaldi;
neyttu mest[3] sem máttu
menn at vâpna sennu[4],
baugs en barðir lágu
börvar, grjóts ok örva.

Ok enn kvað hann:

Báru[5] böslar fleiri
bogmenn [at hjörtogni[6]
mundit þann dag þrændi
þreyta fyrr at skeytum;
svâ þykt flugu síðan
snæridörr um skæru[7]
ótt varð[8] ördrif látit,
illa sátt[9] á milli.

Hèr segir Þjóðólfr hversu áköf var skothríðin. Magnús konúngr var fyrst öndverða orrostona í skjaldborg, en er honum þótti seint áorkast, þá hljóp hann framm ör skjaldborginni eptir skipinu, kallaði hátt ok eggjaði sína menn; gekk hann þá allt framm í stafninn í

[1]) gaflaukum *skrifar A*, *H.* [2]) *v. í H.* [3]) næst, *H.* [4]) spennu, *H.* [5]) bárut, *Hk.* [6]) af hör tognum, *Hk.* [7]) skjærur, *Hk.* [8]) var, *H.* [9]) sáttu, *Hk.*

höggorrosto; en er þat sá hans menn, eggjaði hverr annan, ok varð kall mikit um allan herinn. Svâ segir Þjóðólfr:

Mjök bað Magnús rekka
[mjúklyndr á mar synda[1]
hörð þrifust borð er[2] börðust
bavðský framan[3] knýja[4].

Gerðist þá hin ákafasta orrosta; í þeirri hríð[5] hrauðst skipit Sveins framan um stafninn ok söxin; þá gekk sjálfr Magnús konúngr með sína sveit uppá skip Sveins, ok síðan hans maðr hverr at öðrum; gerðu þá svâ harða atgaungu, at Sveins menn hrukku fyrir, ok hrauð Magnús konúngr þat skip, ok síðan hvert at öðru. Flýði þá Sveinn, ok þat lið sem undan komst, en fjölði fèll hans manna, ok mart fèkk grið[6]. Þessi orrosta var drottinsdaginn næsta fyrir jól; svâ segir Þjóðólfr:

Römm varð hilðr, sú er hramma
harðèls viðir börðust,
herr gekk snart at snerru[7]
sunnudags, of unnin;

---

[1]) mannr röskliga annan, *Hk.* [2]) en, *H*; þars, *Hk.* [3]) framar, *Hk.* [4]) hnýja, *H.* [5]) svipun, *H.* [6]) svâ segir Þjóðólfr:

Varðr gekk mætr at morði
Magnús kjalar vagna
þá vâ frægr í fagran
framstafn varar nafne, (hrafni, B);
gjörði þar svâ at þorði
þengils ern vóx gengi
skæðr nam herr at hrjóða
húskarla lið jarli.
Aðr svanfoldar seldi
tós rýrandinn (sól rýrandinn, B) dýri
jarla ferð at fèlli
fjörgrið stöfum hjörfa. *b. v. H.*

[7]) snæru, *H.*

flaut þá er feigir lètu
fjör [gnýs stafir[1] hjörva
þjóð sökk niðr af nöðrum[2]
nár á hverri báru.

Magnús konúngr tók þar 7 skip af Sveins mönnum; svâ segir Þjóðólfr:

Rauð Ólafs mögr áðan
jöfurr vá sigr hins digra
fregnat slíkt or Sogni
7 skip konur hnípnar.[3]

Ok enn kvað hann:

Mist [hafa Sveins ok sinna[4]
sverð [gotu förunautar[5]
hörð er heldr of horðin[6]
heimkvámu för beima[7];
[sjór þýtr auðs um árum
unnr á sandagrunni[8].

Sveinn flýði þegar um nóttina til Sjólands með því liði, sem undan hafði komizt, en Magnús konúngr lagði at landi skip sín, ok lèt þegar menn sína fara á land; en snimma eptir um myrgininn komu þeir ofan með strandhögg mikil; þess getr Þjóðólfr:

Gær[9] sá ek grjóti stóru
gein haus fyrir steini
færa[10] fylkíng þeirra

---

[1]) *gnýstafir*, *Hk.* [2]) *nauðum*, *H.* [3]) *nípnar*, *H*, [4]) hefir Sveinn enn sína, *H.* [5]) gütur förunauta, *H*; gautar förunauta, *Hk.* [6]) orðin, *H.* [7]) hrærir hausa þeirra hreggi æst ok leggi *b. v. Hk.* [8]) *frá* [ *v. í H.* [9]) geir, *H.* [10]) fór á, *Hk.*

fast harðliga kastat;
ofan heyrandum[1] orðum
jörð muna Sveins of verða
staðr hefir stafni[2] miðjum
strandhögg numit landi.

Magnús konúngr hèlt þegar sunnan liði sínu til Sjólands eptir Sveini; en þegar lið Magnúsar konúngs kom á Sjóland, þá flýði Sveinn undan ok allt lið hans, en Magnús konúngr sótti eptir þeim ok rak flóttann, ok drap af þeim slíkt, sem hann náði; svâ segir Þjóðólfr:

Spurði einu orði
öld blóðroðna[3] skjöldu
satt er at svâ mörg átti
[Selund mær hve[4] bæri;
auðtróðu varð auðit
yfir um skóg at spróga,
títt bar týmargr flótti
til Hríngstaða illra.[5]

Ok enn kvað hann:

Saur-stokkinn bar svíra
snarr [Skánúnga harri[6]
[vâtr sem veigðu skauti
valdruðr[7] fyrir haldi;
gær[8] flugu mold ok mýrar
merki jarlsins[9] sterka

---

1) keyrðu vèr, *Hk.* 2) stafn í, *H.* 3) blóðrauða, *H.* 4) Sælund mær hver ve, *H.* 5) *þannig Hk*; illrar *A*; ilja H. 6) harri mjök fjarri, H. 7) undr nema allvaldr Lundar aldrprúðr, *Hk.* 8) geir, *H.* 9) jarls hins *H.*

stoð dreif fram at flóði[1]
flauga[2] dörr um auga.[3]

Sveinn flýði þá yfir á Fjón, en Magnús konúngr fór herskilði um Sjóland, ok brendi víða fyrir þeim mönnum, er um haustit höfðu slegizt í flokk með þeim Sveini; svâ segir Þjóðólfr:

Náði jarl at eyða
jöfra setr á vetri,
lèzt eigi þú litla
landvörn af þèr standa;
mátti Magnús hitta
mildr [í flokk[4] und skildi
næfa Knúts[5] var þa[6] nýtum
nær sem hann[7] ráðinn væri.

Ok enn segir hann svâ:

Rönd[8] [lèzt þú[9], ræsir Þrænda!
reiðr þorðir þú meiða
hús namtu hvert ok[10] eisu
hyr feld gefa eldi;
gjörr vildir þú gjalda
[greiðlendínga skeiðum[11]
austr[12] rendu þeir [undan
jarls fylgara dylgat.[13]

39. Þegar er Magnús konúngr spurði til

1) flæði, *H.* 2) flaugar, *H.* 3) hauga, *H.* 4) ok fólk, *Hk.* 5) nefa-Knúts, H. 6) þar, *H.* 7) *v. í H.* 8) röun, *Hk.* 9) lèt, *H.* 10) at, H. 11) gæðínga vinr skæðar *Hk.* 12) ört, *Hk.* 13) unda jall fylgjarar dylgju, *H*; *en Hk. hefir* fylgjörum dylgjur.

Sveins, þá hèlt hann sínu liði til Fjóns; en þegar Sveinn spurði þat, þá gekk hann á skip, ok sigldi til Skáneyjar, fór hann þaðan upp á Gautland, ok síðan á fund Svíakonúngs; en Magnús konúngr gekk upp á Fjóni, lèt þar ræna ok brenna fyrir mörgum; allir Sveinsmenn, þeir sem þàr voru, flýðu brott víðs vegar; svâ segir Þjóðólfr:

Hrindr af Hrokalandi[1]
hregg af eikieggjum,[2]
suðr leikr eldr of unninn
óðr, í lopt upp[3] glóðum;
bærr logar hálfu hærra
hjónum nærr á Fjóni,
ræfr þola[4] nauð ok næfrar,
Norðmenn sali brenna.

Ok enn kvað hann:

Menn eigu þess at[5] minnast
manna Sveins ok[6] kanna
víga freys sízt vágu[7]
vefgefn[8] [þar at stefnur[9];
[at eigu[10] fagrs á Fjóni
fljóðs, dugir vâpn at rjóða,
verum með fylktu fólki
framm í vâpna glammi.

En eptir þat gekk allt fólk í Danmörk undír Magnús konúng; en er á leið vârit fór hann herliði

[1]) Hörðalandi, rokalandi, *Hk.* [2]) eikileggjum, *H*; eikiveggjum *Hk.* [3]) af *H.* [4]) þolir, *H.* [5]) *v. í H.* [6]) at, *Hk.* [7]) voru, *Hk.* [8]) vegefn, *H.* [9]) þeirrar stefnu, *H*; þrennar stefnur, *Hk.* [10]) von er, *H*, *Hk.*

sínu norðr í Noreg, ok dvaldist þar mjök lengi um sumarit. En er Sveinn spurði þat, þá reið hann þegar útá Skáney, ok hafði lið mikit or Svíaveldi, tóku Skánúngar vel við honum, efldist hann þá enn vel at skipum ok liði, [hèlt hann síðan útá Sjóland, og lagði undir sik, ok svå Fjón ok allar eyjar.

40. En er Magnús konúngr frètti þat, 1045
efldist hann þegar at liði ok skipum[1], ok hèlt síðan suðr til Danmerkr; hann varð þá viss, hvar Sveinn lá með lið sitt, hèlt Magnús konúngr þegar til móts við hann; varð fundr þeirra þar sem heitir Helganes, þat var at kveldi dags, ok er orrostan tókst, hafði Magnús konúngr miklu minna lið en skip stærri, ok skipuð miklu betr; svå segir Arnór:

Vítt[2] hefi ek heyrt at hèti
Helganes, þar er elgi
[vågs hinn[3] víða frægi
vargteitir[4] hrauð marga[5];
[rökkr[6] öndvert [bað randir[7]
Regbus saman leggja
[rógskýja hèlt[8] Rýgjar
regni haust[9] nótt gegnum[10].

Orrosta varð hin snarpasta; en er áleið nótt-

[1]) *þannig H; en í A vantar allt frá* [ *línu* 5. [2]) *þannig H;* títt, *Hk; sèst ekki í A.* [3]) vox ens, *F.* [4]) vargteitr, *H.* [5]) margan, *F.* [6]) rekkr, *H.* [7]) *þannig H;* báðir, *A.* [8]) rogskýjara lèt, *H.* [9]) *þannig H, Hk;* hírust, *A.* [10]) *frá fyrra* [ *v. í F.*

ina, varð mikit mannfall. Magnús konúngr skaut handskoti alla nóttina; þess getr Arnór:

Dörr lèt drengja harri
drjúgspakr af þrek fljúga
glæddi eldr af oddum
álmi skept[1] á hjálma;
lètat hilmir[2] hneiti
Högna[3] veðr í gegnum,
járn flugu þykt sem þyrnir,
[þjel harðara[4] sparðan[5].

Svâ segir þjóðólfr:

Hitzsik[6] hlaut[7], er heitir
Helganes, fyrir kesjum
sukku sárir rekkar
Sveins ferð bana verðir
mætr hèlt[8] mörgu spjóti
mæra gramr í snæri,
odd rauð aski studdan
ára[9] landreki döprum[10].

þat er skjótast at segja af orrostu þessi, at Magnús konúngr hafði sigr, en Sveinn flýði, var skip Sveins hroðit stafna í milli; svâ segir þjóðólfr:

Flýði[11] jarl af auðu[12]
otvin[13] skipi sínu,

---

1) skeyttr, *F*; skeptur, *H*. 2) hilmi, *F*. 3) hugnar, *F*. 4) þel barðara, *H*; þel arð aðra, *F*. 5) sparðar, *H*. 6) hitt ek, *F*. hizig, *H*; 7) laut, *H*, *Hk*. 8) hlaut, *H*. 9) örr, *F*, *H*, *Hk*. 10) dörrum, *F*, *H*. 11) hlýði, *F*. 12) öðru, *F*. 13) ættvin, *F*. ottvin, *H*.

morð þar er[1] Magnús gerði
meinfært þaðan Sveini;
rèð herkonúngr hrjóða[2]
hneitis egg í sveita,
sprændi blóð á brýndan
brand[3], vâ gramr til landa.

Voru þá hroðin öll skip Sveins, ok tók Magnús konúngr þau, svâ sem segir í Hrýnhendu:

Keppinn vantu þatz æ mun uppi
Yggjar veðr, meðan heimrinn byggist,
valgammr[4] skók í vâpna-rimmu
viðr Helganes blóðugt fiðri;
ýngvi fèkktu öll með hríngum
jarl vissi sik foldar missa
þjóðum kunnt[5] en þú tókt síðan[6]
þeirra flaust við sigri meira[7].

Svâ segir Arnór:

Skeiðr tók Bjarnar bróður[8]
[ballr Skánúngum[9] allar,
þjóð reyri þeirrar tíðar
þíngat, gramr með hríngum;

Þar fèll mikit lið af Sveins mönnum, en sumir hlupu fyrir borð ok týndust; svâ segir Arnór:

Sveinsmanna rekr sunnan[10]
söndug lík at ströndum[11],
vítt sèr öld fyrir[12] utan

1) *v. í H.* 2) rjóða, *F.* 3) brandi, *F.* 4) vargr, *F.* 5) kuðr, *H*; kyrr, *F.* 6) síðar, *F.* 7) *Sjá Knytl.* 22. *Kap.* 8) bróðir, *F.* 9) hallr kann úngum, *F.* 10) *v. í F.* 11) ströndu, *H.* 12) til, *H.*

Jótland, hvar hræ fljóta;
vitnir dregr or vatni
vann Ólafs sonr bannat,
(búk slítr vargr í víkum),
valköst ara föstu[1].

Magnús konúngr ok hans menn fengu[2] þar mikit hlutskipti í vâpnum ok klæðum; svâ segir Þjóðólfr:

Skjöld bar ek heim frá hjaldri,
hlauzt mèr til þess, gauzkan,
(rammr varð suðr[3] á sumri
sverð-dynr), ok þó brynjur;
vâpn gat ek fríð, en fljóði
fyrr sagða ek kyrru,
þar fèkk ek hjálm, er[4] hilmir
harðfengr Dani barði.

Sveinn flýði þá uppá Skáney, ok allt lið hans, þat er undan komst, en Magnús konúngr ok hans menn ráku lengi flóttann á land upp, ok varð þá lítil viðtaka af Sveins mönnum ok bóndum; svâ segir Þjóðólfr:

Baud Ólafs sonr áðan
upp á land at standa,
gekk með mann dýrð mikla
Magnús reiðr af skeiðum;
snarr bað hilmir herja,
hark vóx í Danmörku,

---

[1]) árafköstum, *F.* [2]) fjengu, *H venjuliga.* [3]) *þannig H, Hk; máð í A.* [4]) en, *H.*

fleygir hart um hauga
hestr fyrir Skáney vestan.

Síðan lèt Magnús konúngr fara herskildi allt um bygðina; svâ segir Þjóðólfr:

Nú taka Norðmenn knýja,
nær gaungum [vèr staungum[1],
berkak[2], Magnúss merki,
minn skjald á hlið sjaldan;
skýtrað[3] skeifum fæti
Skáney yfir sláni,
(fár vegr er mèr fegri
fundinn), suðr til Lundar.

Þessa getr ok Arnór, at Magnús konúngr gekk af skipum sínum á Skáney ok herjaði:

Uppgaungu vann ýngvi
[ítr logandi[4] nóga
gerði hilmir Hörða[5]
hjörþey á Skáneyju.

Síðan tóku þeir at brenna bygðina, flýði þá fólkit víðs vegar undan; svâ segir Þjóðólfr:

Bárum[6] járn at æru[7]
ísköld á[8] lið vísa,
skjótt ríða nú skeyttar
Skánúnga, lok vánir;
rauðr [rann bekkr um breiða[9]
bráðr at vâru ráði

1) vær staungu, *H.* 2) berkað ek, *H.* 3) ek *b. v. H*; skýtr, *Hk.* 4) týr log, *F.* 5) harða, *H.* 6) báru, *H.* 7) ærnu, *H.* 8) í, *H.* 9) leikr of bý breiðan, *Hk.*

eldr, en ernir valda
atblásendr því vási.

Ok enn kvað hann:

Svíðr um seggja búðir,
siklíngr í her miklum
eyðir bygð sem bráðast,
bjartr eldr, Danaveldi;
móðr berr höltum[1] heiði
hjaldrs Danmarkar skjöldu,
vèr hlutum sigr, en sárir
Sveins menn[2] fyrir renna.

Ok enn kvað Þjóðólfr:

Fjörð lèt fylkir verða
forntraddan[3] mó spornat
leynist[4] lítt á Fjóni
lið[5] skjöldúnga miðli;
munat fyrir Magnús synja
menn Sveins þeir er nú renna,
upp fara mörg í morgin
merki, stórra verka.

Sveinn flýði austr á Skáni, en Magnús konúngr fór þá til skipa sinna, ok hèlt austr eptir honum, ok var búizt mjök af skyndíngu; þá kvað Þjóðólfr:

Ekki hefik at drekka
annat enn sjó þenna,
[sýg ek[6] or söltum ægi

---

[1]) hölt um, *H*; halr of, *Hk*. [2]) *þannig H*, *Hk*; Sveins-mönnum, *A*. [3]) forntroðna, *H*. [4]) leynumst, *Hk*. [5]) liðs, *Hk*. [6]) sýkr, *H*.

sylg, er ek jöfri fylgi;
liggr fyrir oss, en uggum
allítt Svía körlum,
drýkt[1] höfum vás fyrir vísa,
víð Skáneyjar síða.

Sveinn flýði uppá Gautland, ok sótti síðan á fund Svíakonúngs, dvaldist hann þar um vetrinn í góðu yfirlæti.

41. Magnús konúngr snèri aptr ferð sinni, þá er hann hafði siglt af Skáneyju, hèlt hann þá fyrst í Falstr[2], veitti þar uppgaungu ok herjaði, drap hann mikit lið, þat er áðr hafði gengit undir Svein; þess getr Arnór:

Svik rèð eigi eklu
allvaldr Dönum gjalda,
lèt fullhugaðr falla
Falstrbyggja[3] lið tiggi[4];
[hlóð, en hæla[5] tæðu
hirðmenn ara grenni,
auða[6] þorn fyrir örnu[7]
úngr valköstu þúnga[8].

Síðan hèlt Magnús konúngr liði sínu til Fjóns, ok herjaði þar, ok vann mikit hervirki; svå segir Arnór:

[Næst rauð frán[9] á Fjóni
fold sótti gramr dróttar
ráns galt herr frá hánum

1) drjúgt, *Hk.* 2) Flastur, *H.* 3) Flastrbyggva, *H.* 4) tyggja, *F.* 5) hála, *H.* 6) auðar, *H.* 7) örnum, *H.* 8) *frá* [ *v. í F.* 9) En bar fram, *Hk.*

hríngserks lituðr merki;
minnist[1] öld hverr[2] annarr[3]
jafn þarfr blám hrafni,
ört gat hilmir hjarta,
herskyldir[4] tög[5] fylldi.

Hèr vísar á þat, at þessi vetr fylldi annan tög aldrs Magnúsar konúngs, ok var hann hit næsta vâr eptir tvítogr at aldri; gerðist hann þá mjök frægr víða um lönd af ríki ok vinsæld, örleik við alþýðu, ok stórgjöfum við höfðíngja ok ríkismenn; þaðan af mátti þat rètt segja, at allt fólk unni honum hugástum. Magnús konúngr sat þann vetr í Danmörk, ok var þá góðr friðr; hann hafði átt í Danmörk margar orrostor ok haft í öllum sigr. Oddr Kikína skáld sagði frá því, at Magnús konúngr átti orrostu við Vindr[6] á Hlýrskógsheiði, en þarnæst litlu fyrir jól við Svein Úlfsson. Oddr kvað:

Var[7] fyrir Mikaels messu
manngrimm[8] háið[9] rimma,
fèllu Vindr, en vöndust
[valtafni þar hrafnar[10];
en fyrir jól varð önnur
óhlitulig[11] litlu
upphófst grimm[12] með gumnum
gunnr fyrir Árós sunnan[13].

[1]) minti, *F.* [2]) hvert, *F.* [3]) annan, *H, Hk.* [4]) herskyldi, *H, Hk.* [5]) tögr, *H.* [6]) Vinde, *H.* [7]) vas, *H, Hk.* [8]) marg grimm, *F.* [9]) háin, *H, Hk.* [10]) vâpnhljóði mjök þjóðir, *Hk.* [11]) æhlitulig, *F.* [12]) *v. í F.* [13]) *v. í H.*

Svå segir Arnór:

Hefnir fenguð yrkis efni
Ólafs (geri ek slíkt at málum)
(Hlakkar lætr þú hrælög drekka
hauka), nú mun kveðit[1] aukast;
fjórar hefir þú, randa rýrir!
reyrar setr[2] á einum vetri,
allvaldr er þú ofvegr[3] kallaðr,
örva hríðir[4] frækinn gervar[5].

Þessar orrostur átti Magnús konúngr vid Svein Úlfsson, ok fèkk í öllum sigr, (sem hèr segir):

Háðist heilli góðu
hildr, sem Magnús vildi,
selr um sigr at þylja
[sóknsterkr framarr merkjum[6];
brand rauð buðlúngr Þrænda,
bar [síðan iðula[7]
hann ept hervíg þrennan[8]
hærra sköld, at[9] gjöldum.

Rèð Magnús konúngr þá bæði fyrir Danmörku og Noregi[10].

42. Eptir þat er Magnús konúngr hafði eignazt Danaveldi, þá gerði hann sendimenn vestr til Englands, fóru þeir á fund Játvarðar konúngs, ok fluttu honum brèf ok innsigli

---

1) kvæðit, *H.* 2) setrs, *Hk.* 3) ofvægr, *H.* 4) *eða hirðir, A.* 5) *Sjá Knytl. 22. Kap.* 6) sóknsterkum jöfurr merkjum, *H*; sóknstærir mèr færi, *Hk.* 7) iðula síðan, *H.* 8) þrennin, *H, Hk.* 9) á, *H.* 10) *þessi kapítuli er miklu styttri í F, ok allar þær vísur vanta þar, af hvörjum enginn orðamunr finnst með F merktr í ashugasemdunum neðanundir.*

Magnúsar konúngs; en þat stóð á brèfum með kveðjusendíng Magnúsar konúngs: þèr munuð spurt hafa einkamál þau, er vèr Hörðaknútr gerðum með oss, at hvârr okkar sem lifði eptir annan sonlausan, þá skyldi sá taka lönd ok þegna, þar sem hinn hafði átt, til eignar ok forráða; nú er þat svâ vorðit, sem þèr munuð spurt hafa, at ek hefi tekit allt Danaveldi eptir Hörðaknút; hann átti, þá er[1] hann andaðist, eingu síðr England enn Danmörk, því köllumst ek nú eiga England eptir rèttum máldögum; vil ek at þú gefir upp ríkit fyrir mèr, en at öðrum kosti mun ek sækja ríkit með styrk hers, bæði af Danmörku ok Noregi, mun sá okkar þá ráða landinu, er sigrs verðr auðit. En er Játvarðr konúngr hafði lesit brèf þessi, þá ritaði hann önnur brèf í móti, ok sagði svâ: þat er öllum mönnum kunnigt hèr í landi, at ek mista (úngr) föður míns, Aðalráðs konúngs, er óðalborinn var til ríkis þessa bæði at fornu ok nýju; en sakir æsku minnar tók Játmundr, bróðir minn, konúngdóminn fyrr enn ek, eptir því sem ek vissa til standa lög lands þessa, þvíat hann var okkar ellri. Þvínæst kom til landsins gamli Knútr með Danaherr, ok barðist til ættleifðar vârrar, kom þá svâ, at hann varð konúngr í Englandi með Játmundi bróður mínum; ok eigi leið lángr tími, áðr Játmundr konúngr fèkk bana, tók þá undir sik allt ríkit Knútr

[1]) *áðr, II.*

konúngr, stjúpfaðir minn; en þótt ek væri son Aðalráðs konúngs ok drottníngar Emmu, þá var ek tignarlauss, buðust mèr liðveizlur at berjast til landsins, en ek vildi heldr trúa, at guðs miskun myndi mèr fyrir hafa hugat þat ríki, er ek væri makligr at hafa, en eigi vildi ek þartil spilla sálum eðr líkamum kristinna manna. Þá liðu enn stundir ok ríki þessarar veraldar Knúts konúngs, ok at honum önduðum komu í konúngs kosníng synir hans, fyrst Haraldr, ok var ek enn sem fyrr tignarlauss, ok af allri eign vârra forellra, ok unda ek því meðan guð vildi, at [hann hefði ríki[1]; var þat eigi löng hríð, áðr Haraldr andaðist. Þá var tekinn til konúngs Hörða-Knútr, annar son gamla Knúts ok bróðir minn sammæðri, hann var konúngr yfir Danaveldi, ok eigi þóttist hann svâ mikill maðr, sem hann vildi, áðr enn hann gerðist konúngr bæði at Danmörk ok Englandi, þótti þat eitt þá rètt bræðraskipti með okkr; var nú hit fjórða sinn þat, at svâ var konúngr tekinn í Englandi, at ek hafði einga nafnbót, heldr enn einn riddara sveinn, ok mun eingi þat kunna segja, at ek þjónaði verr [eðr stórligar[2] Knúti konúngi, bróður mínum, enn þeir menn, er at [allri ætt[3] voru úríkbornir. Litlu síðar andaðist Hörða-Knútr, bróðir minn, var þat þá ráð allra landsmanna at taka mik til konúngs, var ek stólsettr ok vígðr konúngsvígslu, vann

[1]) svâ væri, *H.* [2]) *v. í H.* [3]) öðru, *H.*

ek þau særi í vígslu minni at halda guðsrètt ok landslög, ok deyja fyrir lögum ok rèttindum, heldr enn þola vândra manna yfirgáng; er ek nú svâ settr fyrir land þetta af guðs hálfu ok landslaga, at dæma hverjum sinn rètt ok lægja úfrið. Nú með því, Magnús konúngr! at þú vill taka af mèr land þetta, sem mitt erfðaland er, fyrir þá sök at þú þykkist eigi til víðlendr, ok ræðr þú einn fyrir Noregi, föðurleifð þinni, ok nú hefir þú eignazt Danaveldi; vilr þú nú girnast mitt ríki, ok farir með her á hendr mèr, þá er meiri vân at ek safna eigi liði á móti þèr, en eigi muntu þó konúngr mega heita í Englandi, ok eingi þjónkan mun þèr þar veitast, áðr þú hefir afhöggit mitt höfuð. Nú fara sendimenn aptr til Magnúsar konúngs, ok færa honum þessi brèf. En er Magnús konúngr heyrði hversu mikla hörmúng ok lánga nauð Játvarðr konúngr hafði þolat til sinnar sæmdar, áðr hann vyrði konúngr, ok Magnús konúngr skildi hversu mikill guðs vin hann var; þá lattist hann þeirrar ferðar, ok sagði þat vera sannligast, at hans ríki var þá ærit mikit, ef guð ynni honum njóta, ok þat eina myndi viðaukast, þótt hann legði á þat stund, at hann myndi því týna þar í mót, er miklu var meira vert, er hans var sáluhjálp ok vân til almáttigs guðs, ef hann dræpi svâ ágætan höfðíngja ok mikinn guðs vin, sem Játvarðr var. Stýrði síðan hvârr kon-

únganna sínu ríki með mikilli sæmd til dauðadags.

43. Svâ er sagt, at sá maðr var borinn i róg við Magnús konúng, er hèt Þorkell dyrðill, hann var sýslumaðr konúngs ok frændi; honum var kent, at hann hefði eigi greidt konúngi landsskyldir svâ miklar sem hann átti. Konúngr fór til bæjar Þorkels með fjölmenni, svâ at hann vissi einga vân í, þvíat konúngr vildi at honum yrði veizluföll[1], en þat fanst ekki á. Tók Þorkell hit bezta við konúngi, ok fór veizlan framm sköruliga; konúngr var heldr úkátr; ok einn dag[2] er borð voru brottu, gekk Þorkell fyrir konúng ok mælti: íllt þykki mèr, herra! er þèr eruð úglaðir, þvíat ek vildi yðr veita af góðvilja; nú vildi ek at þèr gengið til, ef yðr þætti gaman, at höggva yxn eðr hafra, er slátra þarf til veizlunnar. Konúngr svarar: hvat varðar þótt vèr reynim. Gengu þeir þá út, ok þar til sem stóð einn mikill bukkr; konúngr hjó á hálsinn hafrinum, ok beit sverðit lítt[3], en mönnum þótti kynjum við-bregða, þar hrutu ör silfrpenníngar nökkurir. Konúngr varð við þetta mjök reiðr, ok mælti: þat mun þó sannast, Þorkell! at mjök viltu mik úvirða bæði í smám hlutum ok stórum, ok er þetta gert til spots við mik. Þorkell svaraði: eigi er svâ, herra! ek er nú gamall ok grár fyrir hærum, hefi ek þjónat nökkurum konúngum af allri minni kunnastu, fyrst

[1]) veizlufall, *II.* [2]) veizlunnar, *b. v. H.* [3]) á, *b. v. II.*

Ólafi konúngi Tryggvasyni, frænda mínum, er ek unna mest allra manna; síðan var ek með föður þínum, ok myndi hann eigi þess til mín geta, at ek myndi svíkja son hans. Nú með því at mart reynist öðruvísu[1], enn orði verðr ákomit, þá má vera, at ek reynumst[2] eigi svâ údyggr, sem öfundsjúkir menn hafa yðr flutt; því at eptir fall föður þíns, herra! kom yfir oss ill öld af ríki Alfívu, svâ at hvers manns fè var í úfriði, þá hræddumst ek at ek myndi eigi fá gætt þeirra konúngs eigna. er ek varðveitta, en vissi at þèr áttuð at rèttu skuld ok skatt af at taka, þá var þat mitt ráð at fylla hafrstöku þessa af silfri, ok fèkk ek svâ haldit fènu fyrir Alfívu ok hennar hernaði; takið nú, herra! landskyldir yðrar, ok þykkjumst ek eigi hafa dregit yðvart fè mèr í sjóð, sem rógsmenn hafa yðr sagt. Konúngr sá at þetta var stórmikit fè, ok mælti til hans: haf þú þökk fyrir þína dygga ok drengiliga meðferð; vil ek at þú hafir mitt umboð ok sýslu sem áðr, því at úsýnt er at annar jafnröskr maðr setist í þitt rúm, ok þat sönnuðu allir konúngs menn. Skildu þeir sáttir, ok slitu eigi sinn vinskap, meðan þeir lifðu báðir[3].

44. Svâ bar til á nökkurum tíma, at einn mikill maðr ok nökkut aldrænn gekk fyrir Magnús konúng, ok bað ef hann vildi gefa honum fè nökkut, af því at hann var kallaðr mildr af

[1]) *þannig A, II.* [2]) reynimst, *H.* [3]) þorkell var þá gamall, ok var jafnan taldr með góðum drengjum, *b. v. II.*

penníngum. Hvat vanda er mèr á við þik? sagði konúngr. Hann svarar: ekki mikill, herra! nema fyrir tign yðra. Konúngr bað taka hálfa mörk vegna, ok fá honum. Hann tók við, ok mælti: vel er þetta gefit, herra! en þó ætlaði ek enn til meira á Hlýrskógsheiði. Konúngr mælti: erþú sá maðr, er mèrgaft ráð til at vinna Regbus hinn mikla heiðíngja? Hann kvað svâ vera. Konúngr mælti: þigg þá af mèr hríng þenna. Hann dró gullhrínginn af hendi sèr, ok rètti at honum. Maðrinn mælti: konúngliga er gefit, herra! en eigi berr mèr nauðsyn til at þiggja. Hann dró þá af hendi sèr 3 gullhrínga ágæta, ok mælti til konúngs: nú vil ek biðja, herra! at þèr þiggið af mèr þessa hrínga, ok gef ek yðr fyrir þat, er þèr tókuð svâ vel ok lítillátliga ráð mín, er ek gaf yðr með helzti miklum beryrðum; en ek hafði lengi verit með feðr yðrum í hernaði, ok unna ek honum sem sjálfum mèr; en síðan heyrði ek [margan dag[1] þitt nafn, ok fýstumst ek til þín, af því at ek vildi vita, hversu mikit þú hefðir af hans skaplyndi; vildi ek vera í þinni vináttu, ok synir mínir, en fè skortir[2] eigi. Konúngr tók blíðliga málum hans ok gjöfum, ok hèt honum sinni fullkominni vináttu, ok skildu þeir at því.

45. Þorsteinn hèt maðr, son Síðuhalls,

[1]) dagliga, *H.* [2]) mik, *b. v. H.*

hann fór af Íslandi til Noregs á dögum Magnúsar konúngs góða, ok gerðist hans hirðmaðr, ok var konúngr vel til hans. Svâ bar til eitt sinn, at hann fór kaupferð til Dýflinnar, svâ at hann hafði ekki konúngs leyfi til, hann hafði ok eigi goldit landaura, er gjallkeri konúngs hafði heimt. Þorsteinn kvað sik eigi skyldan at gjalda landaura, nè sína förunauta, er hann var konúngs hirðmaðr, var þá ok eigi fast atgengit; fór hann við þat út til Islands, ok fann ekki konúng at því sinni; settist hann í bú sitt. Magnús konúngr spurði þetta allt, ok sagði sik veitt myndu hafa Þorsteini sjálfum landaura, en eigi mönnum hans: ok ekki man ek at ek (hafi því heitit[1], sagði konúngr; en hitt þykki mèr meira vert, er hann tók Dýflinnar-ferð á sik, svâ at hann hafði ekki vârt leyfi til: skal Þorsteinn fyrir þetta vera útlagi, ok leiða svâ öðrum at brjóta lögin, þótt mikils sè verðir. Annat sumar eptir fór Þorsteinn utan, ok hafði stóðhross með sèr ágæta góð, þeir tóku Þrándheim. Landsmenn stygðust mjök við Þorstein, sakir ummæla konúngs, sat Þorsteinn jafnan einn í herbergi með sínum mönnum; stóðhrossin voru í haga fyrir utan bæinn [á Iluvöllum[2], gekk Þorsteinn þagat til um dögum. Þeir voru þá í bænum Einar þambarskelfir ok Eindriði son hans. Einn dag gekk Einar úti um bæinn at skemta sèr,

[1]) hafa (svâ áðr) gjört, H [2]) *v. í H.*

hann snèri út á Iluvöllu, kom at hrossunum, leit á ok lofaði mjök; ok er þeir ætluðu brott at snúa, kom þar Þorsteinn, ok heilsaði Einari, ok spurði ef honum þætti góð hrossin; honum kveðst vel álítast; þá vil ek at þú þiggir at mèr hrossin, sagði Þorsteinn. Einar sagðist eigi þiggja vilja. Veit ek þó, sagði Þorsteinn, at þiggja muntu gjafir [at slíkum svâ mönnum[1]. Satt er þat, sagði Einar, [en mikit liggr nú á þínu máli, ok berjum vèr þar augum í[2]. Svâ verðr þá at vera, sagði Þorsteinn, ok skildust þeir at því. Litlu síðarr gekk Eindriði til at sjá hrossin, ok lofaði mjök, kveðst eigi sèt hafa [vænligra hest[3], ok spurði hver eiga myndi. Þorsteinn kom at í því, ok mælti: ef þèr lízt vel á hrossin, þá vil ek gjarna, at þú þiggir at mèr; Eindriði þá, ok þakkaði honum gjöfina. En er þeir feðgar fundust, sagði Einar, at hann vildi mikit hafa gefit til, at hann hefði eigi tekit við hrossunum. Eindriði [kvað ekki svâ[4], lèt sèr þikkja gott mannkaup í Þorsteini. Einar mælti: eigi veizt þú allglögt kapp Magnúsar konúngs, fóstra míns, ef þú ætlar auðsótt at sætta Þorstein við hann, en þó máttu þat prófa. Eindriði bauð Þorsteini til sín, ok sat hann

[1]) af slíkum mönnum, *H.* [2]) en eigi beru vèr traust til fyrir því at konúngr hefir reiði á þèr, *H.* [3])vænligri gripi þesskyns *H.* [4]) kvaðst ekki svâ lítast, H.

hit næsta Eindriða um vetrinn í góðu yfirlæti. Einar lèt sèr fátt um finnast við Þorstein, sagði hann Eindriða góða sætt myndu[1] bjóða fyrir hann, ok kvað þetta ekki nú til sín koma. Magnús konúngr frètti skjótt, hvar Þorsteinn var niðrkominn, ok fundu menn at honum mislikaði; vurðu þá menn til at tala þat fyrir honum, at þeir feðgar gerði þat eigi makliga, er þeir hèldu útlaga hans, svâ sem hann virði þá meira enn nökkura menn aðra í Þrændalögum. Konúngr svarar þeim fá, er slíkt ræddu. Þeir feðgar voru vanir at drekka jól með Magnúsi konúngi, ok sagði Eindriði feðr sínum, at hann myndi enn svâ gjöra. Einar svaraði: þú munt því vilja ráða, en heima mun ek sitja, ok ráðligra þætti mèr, at þú gerðir svâ. Eindriði bjóst eigi at síðr, ok Þorsteinn með honum; þeir fóru 12 saman, ok komu á einn bæ, ok voru þar um nótt. Um myrgininn snemma hafði Þorsteinn út sèð, hann kom inn ok mælti: menn ríða hèr at garði, eigi allfáir, ok er formaðrinn líkr feðr þínum, Eindriði! ok svâ var; kom Einar þar, ok mælti til Eindriða: allundarlig er þín ætlan, ef þú ferr til fundar við Magnús konúng með Þorstein; farið heldr heim á Gimsar, en ek mun finna konúng, ok mun þó alls viðþurfa, at sættir verði teknar; en ek kann hvârntveggja ykkarn konúngs, at ekki munþú svâ stilla orðum

[1]) skulu, *H.*

þínum, at þat muni hlýða, ok er mèr þá ekki betra um at mæla, [ef enn gerist meira í[1] með ykkr. þeir gerðu svâ, at Eindriði ok þorsteinn snèru aptr, en Einar fór út til bæjar; tók konúngr við honum blíðliga, setti hann hit næsta sèr, ok töluðu mart. Hinn fjórða dag jóla vakti Einar til við konúng um málit þorsteins, lèzt vilja sættum viðkoma, sagði gott mannkaup í þorsteini, kvað sik ekki vildu til spara; þat er í hans valdi væri, at hann hefði lífsgrið ok landsvist. Konúngr svarar: ekki þurfum vèr um þat at tala, þvíat mèr þykkir mikit fyrir at gera þik reiðan; lètti Einar þá af [2], ok var konungr þegar kátr, er þeir töluðu annat. Leið nú til átta dags, þá vakti Einar til öðru sinni, ok fór allt á sömu leið sem fyrr. Hinn þrettánda dag jóla mælti Einar til konúngs: biðja vil ek enn, herra! þess, sem ek hefi fyrr (orði) ákomit, at þèr takið sættum af þorsteini, vænti ek at þèr munuð þar til virða mín orð. Konúngr svarar: ekki er þarum at tala; veit ek eigi, hví þèr varð þat fyrir, at halda þannmann, sem ek hafði reiði á. Einar mælti: ek ætlaði at þèr munduð (láta) stoða minn bænarstað um einn mann, en yðra virðíng viljum vèr gera í öllum hlutum, ok svâ þykkjumst ek jafnan gert hafa, var þetta meir ráð Eindriða enn mitt; en þat hygg ek at mart muni ígerast, fyrr enn hann sè drepinn.

[1]) er meira er aforðit, *H.* [2]) ok tók annat mál, *b. v H.*

Er ek þá, herra! vant viðkominn, ef þið eigið saman, son minn ok þú, ef þèr villð ei taka fè fyrir Þorstein, ok berjazt heldr við son minn, en þó mun ek eigi berjast móti yðr; ok eigi þykkir mèr þèr þá mjök á þat minnast, er ek sótta yðr austr í Garðaríki, ok gerðumst fósturfaðir yðvar; hefir ek síðan studt ok styrkt yðvart ríki, ok hugat at því hverja stund, hversu ek mætti yðra sæmd mesta gera; en nú skal ek fara brott ör landi, ok veita þèr aldri síðan lið; munu sumir menn mæla, at þú vinnir þèr lítit í þessu öllu saman. Einar spratt (þá) upp reiðr, ok (snèri) utar eptir höllinni; konúngr reis þegar upp, ok snaraði utar eptir honum; lagði konúngr hendr um háls Einari, ok mælti: kom heill ok sæll, fóstri minn! þat skal aldri verða, at okkra vináttu skili: tak manninn í frið, sem þèr líkar bezt. Sefaðist Einar þá; en Þorsteinn var tekinn í sætt ok kærleika við konúng.

46. Þorgrímr hèt maðr, hann bjó at Stað í Hrútafirði, hann var fèríkr, en lítill búþegn; Þorgerðr hèt kona hans; synir þeirra voru Kálfr ok Grímr, mannaðir at hófi, [ágángsamir ok[1] útrúir í skapi, sem faðir þeirra. Maðr hèt Sighvatr, hann bjó á Melum í Hrútafirði; Guðrún hèt kona hans, skýr ok sköruglynd; Hrafn hèt son þeirra úngr at aldri, vænn ok mikill vexti. Sighvatr hafði fè sitt mjök í kostnaði, hann átti land gott, en eyddust lausafè. Á einu sumri sagði hann konu sinni, at selja myndi

[1]) *v. í H.*

verða land þeirra til skulda ok búfjár. Hon svarar: þar liggr fyrir annat ráð; sel heldr gullhríng minn til skulda, en eigi landit. Sighvatr svarar: þá mun verða at finna Þorgrím, hann skortir eigi kvikfè. Hon svarar: letja vil ek þik at eiga kaup við Þorgrím, hann er slægr ok úheill. Sighvatr fór allt at einu til fundar við Þorgrím, ok mælti: þat er mitt eyrindi at kaupa at þèr kvikfè[1]. Þorgrímr svarar: þat er vel fallit. Sighvatr mælti: gullhríngr þessi er til verðs látinn. Þorgrímr svarar: þat er údrengiligt[2] at selja gripi konu sinnar; sel mèr heldr eing[3] þat, er þú kallar Grænateig, ek þarf bæði hey ok útbeit, en þú hefir þó meirr enn nógar eingjar eptir. Sighvatr svarar: selja mun ek þèr teiginn, en einga[4] vil ek annarra manna beit í land mitt. Sè þessu nú keypt, segir Þorgrímr. Sighvatr kom heim, og sagði húsfreju kaupit. Hon svarar: ókeypt myndi þessu, ef ek hefða ráðit; brátt mun hann beita upp land vârt, þegar hann þykkist [nokkurn spotta í[5] eiga. Annan dag var þagat rekit kvikfè, þat er Sighvatr hafði keypt; en er áleið sumarit mælti Þorgrímr: nú höfum vèr heldr aukit eingjar vârar, en ek heyri þat af konum, at málnytu verði hagfátt, ok dugi lítt; nú skal reka búfè vârt í land Sighvats til beitar, mèr hefi ek nú helgat þat land; var nú svâ gert.

[1]) nokkur, *b. v. H.* [2]) bragð, *b. v. H.* [3]) *þannig A, H.*
[4]) eingra, *H.* [5]) nokkura ítölu, *H.*

En er Guðrún sá þat, mælti hon: eigi fór fjarri getu minni, mèr var lítit um kaup þetta, hefir ok illa gefizt, þvíat Þorgrímr fær nú til þræla sína, at beita upp eingjum vârum ok heyjum. Sighvatr svarar: optreynt er þat, at Þorgrímr launar illu gott. Einn dag gekk Sighvatr til, ok keyrði naut Þorgríms or [sæti sínu[1]. Þorgrímr kom þá at, ok mælti: djarfr gerist þrælsjafnínginn nú; hann lagði með spjóti í gegnum Sighvat, svâ at hann fèkk þegar bana. Þorgrímr fór þegar heim. Guðrún varð skjótt vör við þessi tíðindi, ok lèt veita gröft bónda sínum, ok fór með hljóðliga; Hrafn son þeirra var þá fjögurra vetra, hann nafntogaði[2] opt föður sinn, ok spurði hvar hann væri. Móðir hans sagði at hann var dauðr, ok hafði vorðit bráðsjúkr[3]. Litlu síðar kom Þorgrímr til fundar við Guðrúnu, ok mælti: þèr mun ek þykkja hafa gert þèr nökkut skjótræði, nú vil ek bæta manninn, ok gjalda mik í mót, ok ef þú vill mína umsjá þekkjast, þá mun þik fátt skorta. Hon svarar: þat er líkast, at sèr búi hvârt okkart, er ek ekki svâ manngjörn, at ek myndi[4] taka til mín bóndabana minn, þótt þú værir kvânlauss.

47. Hrafn vóx þar upp með móður sinni, hann var mikill ok sterkr, blíðr ok vinsæll við alþýðu, ok gleðimaðr mikill; hann fór opt til

[1]) heyi síno ok sæti, *H.* [2]) nefndi, *H.* [3]) bráðdauðr, *H.* [4]) vile, *H.*

leika til Staðar; Þorgrímr var vel við hann, en Hrafn þektist þat vel. Þeir Kálfr, son Þorgríms[1], lèkust jafnan við; þá var Hrafn 15 vetra, Kálfr var[2] ellri ok ústyrkari, fèkk hann þúngt af Hrafni, þvíat hann var kappgjarn í leikinum. Einn dag, er þeir höfðu viðleikizt, mælti Kálfr: illa kantu, Hrafn! at stilla afli þínu, ok munþú hafa farir föður þíns. Hrafn svarar: margtítt er þat at menn deyi, ok svâ man mèr verða[3]. Kálfr mælti: leyndr erþú hvat honum varð at bana: hann var drepinn, ok gerði þat faðir minn, en ek man drepa þik. Hrafn snèri þá brott, ok svaraði eingu; hann kom heim[4] úkátr; móðir hans spurði, hverju þat gegndi[5]. Hann svarar: þú sagðir mèr at faðir minn hefði vorðit sóttdauðr[6], en Kálfr brá mèr því í dag, at hann hefði verit drepinn, en mèr þikkir undarligt, er þú leyndir mik því. Hon svarar: þat gekk mèr til[7], at mèr þóttir þú úngr, en ríkir menn til móts; en nú varðar eigi þótt sá seyðir rjúki, er þeir hafa hreyft. Hrafn mælti: hvar er búit um föður minn? Hon kvað þar nú vallgróit yfir. Hrafn mælti: koma skal ek þó þar til, ok man ek nú vera glaðr, er ek veit hit sanna, ok væri mikit undir, at hann ætti harðan son. Fór hann nú til leika sem áðr, ok fann eingi maðr á honum úgleði. Liðu nú

1) ok Hrafn, *b. v. H.* 2) nokkut, *b. v. H.* 3) fara, *H.* 4) um kveldit, *b. v. H.* 5) sætti, *H.* 6) bráðdauðr, *H.* 7) son minn! *b. v. H.*

stundir framm, þartil er hann var 18 vetra; þá var þat einn dag, er Hrafn var kominn í klæði sín eptir leik, at Kálfr mælti: betra þykkir Hrafni at herða knúa at knetti, enn hefna föður síns. Hrafn svarar: nú skal brátt; snaraðist hann þá í mót Kálfi, ok hjó hann banahögg. Þorgrímr mælti: þetta fór sem vân var, en þó hæfir oss eigi at láta kyrt. Hrafn kom heim, ok sagði móður sinni vígit. Hon sagði þetta mundu verða dýrgilt: mun ek nú, sagði hon, láta soninn sem fyrr bóndann; far nú brott, því at ek má þèr einga hjálp veita; gekk hon þá út með honum, ok bað hann fara með sèr í útibúr, er stóð í túninu, þar var jarðhús mikit ok vel umbúizt[1]; gekk hann í jarðhúsit, ok skorti hann ekki þat er hann þurfti. Um morgininn eptir kom Þorgrímr þar við 12ta mann, en Guðrún hafði safnat at sèr mönnum um nóttina af næstum bæjum, ok hafði hon mannfleira fyrir, en Þorgrímr [kom til[2]. Þorgrímr mælti: þat er eyrindi vârt at leita eptir Hrafni, syni þínum, ok sel þú hann framm. Guðrún svarar: þat er vârkunn at þú leitir eptir sonarbana þínum, en eigi er hann hèr; var eigi þess vân at ek myndi hafa afla eðr dirfð til at halda hann [fyrir þèr í næsta húsi[3]. Hann svarar: vân þykki mèr at þú segir ekki í hávaða, þótt hann sè hèr, ok viljum vèr ransaka bæ þinn. Hon svarar: ekki var ek hèrtil með þjófum talin, ok

[1]) umbúit, *H.* [2]) *v. í H.* [3]) hèr í næsta húsi þèr, *H.*

munþú eigi ransaka, meðan þú hefir færri menn til, enn ek hefi fyrir; lèt hon þá drífa út mannfólk sitt. Þorgrímr mælti: eigi er þú ráðlaus; reið hann brott við svâ búit. Á næsta sumri gerði Þorgrímr Hrafn sekan skógarmann á alþíngi. Kaupskip var búit í Hrútafirði til hafs[1], er áttu norrænir menn, hèt annarr Einar, naumdælskr maðr, annarr hèt Bjarni; Einar var auðigr[2], drengr góðr, ok kærr vinr Magnúsar konúngs góða; bróðir Einars hèt Sigurðr er á skipi var með honum; Sigurðr var á úngum aldri ok hinn mannvænligsti. Þorgrímr reið til skips, þegar hann kom af þíngi, þá voru kaupmenn mjök albúnir, hann mælti til þeirra: ek vil yðr kunnigt gera, at ek á einn skógarmann, er heitir Hrafn, ok vil ek vara yðr við, at þèr flytìð hann eigi um Íslandshaf, þótt hann sè yðr boðinn. Þeim kvaðst þykkja sèr vandalaust, at vísa af höndum öllum illmennum. Litlu síðar komu þau mæðgin til skips, ok kölluðu á land Einar stýrimann, ok er þau hittust, mælti Guðrún: hèr fer ek með son minn, er hitt hefir í vannkvæði, ok munu sumir menn kalla honum dreingsbót í sínu tiltæki, en ek verð þó nú vanafli[3], til at halda hann fyrir Þorgrími, þvíat hann er sekr vorðinn; vildi ek at þèr flyttið hann útan, vænti ek at þèr virðið meira í þessu máli frændr hans göfga í Noregi

[1]) er þetta gerðist, *b. v. H.* [2]) at fè, ok, *b. v. H.* [3]) vanafla, *H.*

ok málaefni, heldr enn ofrkapp ok úsæmd Þorgríms, er hann drap saklausan bónda minn, föður Hrafns, ok lagði úgildan. Einar mælti: lítt er þessi maðr leyfðr fyrir oss, ok er mèr ekki um at flytja seka menn. Þá mælti Sigurðr, bróðir hans: hví sýnist þèr þat ráð at vísa honum af hendi? hyggr þú ekki at, hversu vænligr maðrinn er, eðr hversu drengiliga hann hefir hefnt[1] sinna harma? Nú farþú til mín, Hrafn! þótt þat sè minna traust enn með bróður mínum, ok gakk þegar út á skip, þvíat vèr erum albúnir, en veðr byrvænligt; eðr hverja áttu frændr í Noregi? Hrafn svaraði: þat segir móðir mín, at Sighvatr skáld sè bróðir hennar. Sigurðr mælti: njóta skalþú hans frá mèr; hratt hann þegar út bryggjunni, drógu síðan upp akkeri, [ok sveif skipinu[2] frá landi. Í því bili kom Þorgrímr af landi ofan, ok kallaði á kaupmenn svâ segjandi: þat hygg ek at þèr hafið[3] nú lausmálir orðið. Sigurðr mælti: sýn þú þik nú, Hrafn! hæfiliga er Þorgrímr[4] nær. Hrafn hljóp upp á búlkann[5] ok mælti: þá væri hann hæfiliga nær, ef öx mín tæki til hans. Bjarni bað þá flytja Hrafn til lands. Sigurðr mælti: þat myndi ek vilja, ef hann væri fenginn nauðigr í vald Þorgríms, at nökkurir[6] gengi stopalt at því starfi, ok sýnist mèr meiri nauð-

---

1) rekit, *H.* 2) sveif þá skipit, *H.* 3) mèr, *b. v. H.* 4) nú, *b. v. H.* 5) búnkann, *H.* 6) nokkut, *H.*

syn at vinda segl, ok var svá gert. Þeim byrjaði vel, ok tóku Þrándheim.

48. Ketill hèt maðr ok kallaðr rípr, er þar hafði bæjarsýslu af hendi konúngs; Signý hèt kona hans, en Helga dóttir, hon var væn ok vel at sèr. En er kaupmenn drifu frá skipi, hverr til síns heima[1], þá mælti Einar til Hrafns: þat mun tilliggja at gera vel til þín, þótt ek hafi eigi verit svá bráðfengr[2] sem Sigurðr; villþú at ek taki þèr hèr vist í bænum, en ek skal gefa fè fyrir þik, þykki mèr þetta nú auðveldra fyrst, enn þú farir með mèr. Hrafn svaraði: ek vil vera auðráðr þinni forsjá, ef þú vill mèr vel, ætla ek á engan mann at leita fyrri, en gjalda grimmliga mótgerðir ok vansæmd. Eptir þetta hittu þeir Ketil, ok mælti Einar: þenna mann fæ ek þèr í hendr, ok gjör vel til hans, en þú kom til mín, Hrafn! þá er þèr líkar, ok tími er til. Hrafn var með Katli, hann var hljóðr ok fáskiptinn, en þó kátr við menn, þá er orða ortu á hann; laungum talaði hann við Helgu, dóttur Ketils, lèt hann sèr þat vel líka um hríð, þvíat Hrafn fór með sèr vel. Nú leið eigi lángt áðr Ketill snèri sínu skapi eptir sinni údygð ok eiginligri hugarlund, hann tjáði þá fyrir konu sinni ok dóttur, at Hrafn væri úskapgæfr[3], en nenti ekki at starfa, ok væri við þær of fjölræðinn. Þær svöruðu báðar at þat væri hæfiliga ok meinalaust: eru hans hættir

[1]) héma, *H.* [2]) bráðskeyttr, *H.* [3]) óskaphægr, *H.*

þvílíkir nú, sögðu þær, sem þá er þèr [líkaði vel til hans[1], kann hann vel at vera með góðum mönnum. Ketil kvað þær heillaðar[2], lagði hann fæð á Hrafn, ok orti um hann heldr hæðiliga. Hrafn lèt sem hann vissi þat eigi. Þar voru komnir kaupmenn til bæjarins vestan um haf, ok voru þá mjök brottbúnir; einn dag kom Ketill til þeirra, ok kvaðst hafa þræl einn at selja þeim; þeir lètu sèr þat vel gegna. Hann mælti: ekki skal ek pretta yðr í þessu kaupi, hann er bæði lýginn, ok at mörgu öðru annmarkafullr, ok þurfi þèr í fyrstu at taka hann fast[3], ok láta kenna harðinda. Mörgu keyptu þeir öðru; gekk Ketill þá heim í garð sinn, ok mælti til Hrafns: villþú gánga til skips með mèr, ok skemta þèr. Hrafn svarar: fúss er ek at fylgja þèr, ef þú ert í góðum hug[4]. En þegar er kaupmenn sá Hrafn, runnu þeir móti honum, ok gripu til hans; Hrafn hafði hendr fyrir sèr, ok spurði hvat sjá leikr skyldi; þeir sögðu hann varan myndo við verða; hann varð þeim harðr fyrir, ok sópaði þeim[5] af sèr; þeir sögðu þenna þræl ofkátan. Hrafn svarar: er nú svâ þá, þetta er mèr þrælsverkit skapfelt[6] at glíma, ok hefi ek þó eigi fyrr jafnmikit atunnit; tók hann þá einn þeirra, ok varðist með; þartil er sá vissi ekki til sín. Ketill snèri þá upp í bæinn. Hrafn hljóp upp eptir honum, ok veitti honum

[1]) gazt vel að, *H.* [2]) *þannig A, B.* [3]) hart, *H* [4]) til mín, *b. v. H.* [5]) saman, *b. v. H.* [6]) skapfeldast, *H.*

banasár; en er kaupmenn sá þetta, bjuggust þeir brott sem hvatast, þvíat þeir hræddust, at þeim myndi kent vígit. Hrafn lýsti víginu sèr á hendr, gekk hann eptir þat upp í garðinn, er ketill hafði átt, ok fann þær mæðgur, ok sagði nú þat atgert, at þeim myndi lítit um samvistur[1] við hann; þær sögðu illa hafa tilborit, en lètu þó slíkt helzt vârkunnar verk; fengu þær honum bæði klæði ok vist, ok báðu hann meirr forðast konúngs reiði enn sína. Síðan gekk hann á merkr ok skóga huldu höfði.

49. Magnús konúngr kom litlu síðar til bæjarins, ok spurði þessi tíðindi; hann varð reiðr við ok mælti: slíkt eru firn mikil, at Íslendíngar skulu til þess fara higat í land at drepa umboðsmenn vâra eðr sýslumenn[2], ok skal þann mann gera útlægan, sem verkit hefir unnit. Einar naumdæll var þá með konúngi ok mælti: búa má maðr, herra! svâ illa sína sök til, at hann hafi fyrirgert sèr. Litlu síðarr var þat, at konúngr fór á veiðar einn dag með haukum ok hundum, ok dreifðust menn frá honum, svâ at hann varð einn saman staddr, þá kom at honum or skóginum maðr mikill í loðkápu, ok bað hann ásjá. Konúngr mælti: hver vandi er mèr á við þik? Hann svarar: eingi annar enn frændr mínir eru vinir þínir, ok enn drengskapr þinn, at þú synjar engum manni ásjá, er þik biðr. Konúngr mælti:

[1]) *þannig A*; samvistir, *H*. [2]) hirðmenn, *H*.

Kolr heitir maðr, er býr suðr í Þauskadal, þagat skal þik[1] senda til vistar, eðr hverr er-þú? Hann svarar: spellvirki hefir ek verit, en ek vil nú af því láta; á ek sökótt við fólkit, ok beiði ek því ásjá; nú ef þèr villð mik þagat senda til Kols, þá fáið[2] skýrar jarteignir, at hann taki við mèr, ok mun ek þar vera í vetr. Konúngr mælti: gjör þú svâ, ok mun ek þar koma [viku eptir páska[3]; tók konúngr þá fíngrgull af hendi sèr, ok dró á spjótsoddinn, ok rètti svâ at honum, þvíat hann gekk ekki nærri. Konúngr mælti til (hans): hvat hyggr þú at hann Hrafn, útlaginn, geri af sèr? Hann svarar: herra! hann mun sækja á fund Einars hins naumdælska, vinar þíns, ok hafi þèr þá þegar vald á honum; tók hann þá gullit af spjótsoddinum, ok hvarf jafnskjótt í skóginn. Þá mælti konúngr: lèk hann mik nú, Hrafn, ok gabbaði. Hrafn kom til Kols, ok sýndi honum jarteignir konúngs til viðtöku. Kolr mælti: þetta mál ferr undarliga, þú hefir sannar jarteignir konúngs[4], en hefir áðr úvingazt við hann. Hrafn var þar um vetrinn, ok líkaði hverjum manni vel við hann, en eigi vildi hann þar bíða konúngs, ok fór brottu laugardag í páskaviku. En er konúngr kom þar, mælti hann til Kols: hvar er Hrafn Guðrúnarson, hann verð ek at finna? Kolr svarar:

[1]) manninn, *H.* [2]) mèr, *b. v. H.* [3]) í páskaviku, *H.* [4]) til viðtöku, *b. v. H.*

brottu er hann nú, herra! Konúngr mælti: þat er illa, en viti þat allir menn, at hann er nú útlægr ok friðlaus; þykki mèr [meiri vera[1] svívirðíng mín, er hann hefir gabbat mik, enn vígit, ok því legg ek nú 3 merkr silfrs til höfuðs honum; skal nú ok eingum manni tjá, at biðja honum líknar eðr lífsgriða. Hèlt konúngr þá miklum her suðr með landi, ok ætlaði til Danmerkr, því at í þenna tíma var hit mesta stríð með þeim Sveini Úlfssyni.

50. Þá er hálfr mánaðr var af sumri, kom Hrafn ör mörkum framm til sjófar einshvers staðar, hann sá þar skipaflota mikinn, hann snèri þarat, sem sveinar bjuggu mat á landi, hann gekk heldr úframliga, ok spurði: hverr á þenna mikla skipaflota? Þeir svöruðu: þú munt vera úfróðr maðr, ok heimskr; Magnús konúngr liggr hèr, því at honum gefr eigi byr at sigla til Danmerkr. Hrafn spurði: [hvat er hèr virðíngamanna[2] með konúngi? Þeir sögðu at þar var fyrir Einar hinn naumdælski, vinr konúngs, ok Einar þambarskelfir með 13 skipum, en Sighvatr skáld er á konúngs skipi. Hrafn mælti: segið þèr Sighvati, at maðr á skylt eyrindi við hann á landi. Þeir gerðu svâ. Hrafn stóð[3] við skóginn meðan. Sighvatr kom á fund hans ok mælti: hverr er þessi hinn mikli maðr? Sjá heitir Hrafn, segir hann.

[1]) meira verð, *H.* [2]) hvör er virðíngamaðr, *H.* [3]) beið, *H.*

Sighvatr mælti: forða þèr, eigi mun ek taka fè til höfuðs þèr, ok eigi vil ek segja til þín, þótt ek hafi fundit þik. Hrafn svarar: eigi er þat svâ einsætt, þú ert kallaðr maðr fègjarn, en mèr er lítit lífs at missa, ok verðr margr maðr meira at vinna til minna fjár, enn þótt þú segir til mín; ok (þótt) öx konúngsins sè lángskept, þá mun hon þó eigi taka í skóginn til mín; en ef þú vill mèr gagn gera, þá samir þèr þat ok allvel, þvíat þú ert móðurbróðir minn. Hann svarar: [við könnumst ek[1] frændsemi þína, en eigi hefir ek traust til at veita þèr lið; nú bíð þú mín hèr[2]. Hrafn svarar: ek vil gánga með þèr á skipit út, þykki mèr betra at vera þar drepinn hjá þèr, ok eigi munþú minna leggja til við mik. Sighvatr svarar: þú ert vandræða maðr, [eigi hæfir at ek selì þik svâ undir öxi: þetta[3] mætti okkr eigi endast, þótt ek hefði hèrtil allra manna lið ok bænafulltíng; gjör nú sem ek beiði, bíð mín hèr, meðan ek hitti vini mína. Hann svarar: gera skal sem þú beiðir um litla stund, þó mun ek skjótt koma eptir þèr, þvíat eigi skal bæði bíða þúngan banann, ok hyggja leingi til. Sighvatr hitti Einar hinn naumdælska, ok mælti: nu er svâ, fèlagi! at í vannkvæði er slúngit, hèr er nú kominn Hrafn, ok vill ekki annat enn gánga á vald úvina sinna, eðr hvat skal ek þar eiga, er þú ert? Hann svar-

[1]) við kennumst ek ætt ok, *II.* [2]) við skóginn, *b. v. II.*
[3]) því þetta, *II.*

ar: úgiptumaðr er hann, en skyldir erum vèr at forða honum við bana, en berjast eigi[1] móti konúngi við lítinn afla; mun konúngr síðan aldri vârt lið þiggja, ef vèr gaungum nú í móti honum. Því næst gekk Sighvatr fyrir Einar þambarskelfir, ok mælti: skal ek nökkut traust eiga, þar sem þú ert? Einar! Hann svarar: hvers þarftu við? Sighvatr mælti: hèr er kominn Hrafn, frændi minn. Einar mælti: eigi er ek þess búinn at berjast við konúng fyrir hann; þat var einn tíma, er ek hèlt þann mann, sem konúngr hafði reiði á, ok var við sjálft at ek myndi eigi í þrift komast; nú höfum við Eindriði hèr 12[2] skip til forráða, ok ætlum til bardaga við Dani með konúngi; nú vísa þú manninum á brott, at hann forðist, ok lát hann eigi komast á vâr skip, at hann sè þar drepinn, þvíat ek kann kapp Magnúsar konúngs, at heldr mun hann missa vârs liðs, enn taka af oss afarkosti. En meðan þeir áttu þetta við at talast, gekk Einar hinn naumdælski á land til fundar við Hrafn, ok mælti: gjör svâ vel, fèlagi! snú eigi öllu fólki í vanda, far heldr brott at mínu ráði, ek vil senda þik norðr til Hítar til búss míns, þar mun þú hólpinn um hríð. Hann svarar: finna vil ek Sighvat áðr; gekk Einar brott, en Sighvatr kom þar litlu síðar. Hrafn mælti:

[1]) fyrir hann, *b. v, H.* [2]) 13, *H.*

hversu gefst nú höfðíngja traustit? Hann svarar: ekki mjök, ok erþú eigi gæfudrjúgr, eðr hvat munþú nú ráða taka? Hann svarar: slíkt sem ek hefi aðr sagt, gánga út á konúngsskipit með þèr. Sighvatr mælti: hví villþú svâ hrapa til dauðans? Hrafn svarar: þvíat mèr þykkir betra at deyja, enn fella konúngs reiði á yðr alla, er varir hafið vorðit við mik, sem viss vân er, þegar hann spyrr at þèr hafið mèr undanskotið. Sighvatr svarar: drengiliga er slíkt talat; er ok enn eptir fulltrúinn minn, ok skal nú þagat leita traustsins, sem enn hefir aldri bilat, en þat er hinn heilagi Ólafr konúngr; lagðist hann þá til bænar, ok hèt á Ólaf konúng; eptir þat gengu þeir út á konúngsskipit. Magnús konúngr hafði sofnat í lyptínginni, ok vaknaði í því, er þeir Sighvatr voru komnir í fyrirrúmit; hann spratt upp hart ok kallaði: upp allir vârir menn, byrr er ákominn, en viss sigrinn, er vèr komum til Danmerkr. Bjó þá hverr sitt skip, ok sigldu þegar þeir voru búnir; en er þeir komu til Danmerkr, gekk allt fólk á land af skipum, var þar fyrir mikill Danaherr, ok tókst hin mesta orrosta; Magnús konúngr var í framanverðri fylkíng, en Hrafn Guðrúnarson gekk framm fyrir konúng, ok barðist allfræknliga, en eingi maðr mælti orð við hann. Í þeim bardaga sá nökkurir menn hinn heilaga Ólaf

konúng með liði Magnúsar konúngs, ok fèkk hann þann dag fagran sigr.

51. Þeir komu aptr til skipa um kveldit, ok þökkuðu guði sigr sinn; en er þeir voru á skip komnir, mælti konúngr: hvar er hann nú Hrafn[1], gángi hann nú framm ok [felist eigi[2]! Einar ok Sighvatr mæltu til konúngs: gefið manninum frið, herra! svâ frækn sem hann er. Konúngr svarar: [ekki heit ek því enn[3], en sjá vil ek hann. Þá gekk Einar hinn naumdælski til Hrafns ok mælti: nú skalþú gánga fyrir konúng, ok ger þik við hann mjúkorðan, ok þó djarfmæltan, seg honum satt ok greiniliga, þat sem hann spyrr þik. Hrafn gekk fyrir konúng, ok kvaddi hann. Konúngr mælti: hví fluttir þú, Einar! sekan mann af Íslandi? Hann svarar: herra! þvíat hann var um þat sekr gjörr, er hann hefndi föður síns, er drepinn var meirr enn saklauss. Konúngr mælti: hví draptu Ketil? Hrafn! Hann svarar: því, herra! at hann níddi mik í kveðskap, en síðan seldi hann mik í þrældóm; ok þá er ek hafði drepit hann, kvað ek um hann erfiflokk lítt vandaðan. Lát heyra hann, sagði konúngr. Þat skal svâ sem þèr villið, sagði Hrafn, en hlýða verði þèr þá ok öðru kvæðinu. Konúngr mælti: hvert er þat kvæði? Þat er ort um yðr, herra! sagði Hrafn. Kveð þú þá, sagði konúngr. Hann gerði svâ; ok er

[1]) *þannig hin*; framm, *rángt skrifað í A.* [2]) leynist eigi leingr, *H.* [3]) eingu heit ek um þat, *H.*

lokit var báðum, mælti konúngr[1]: misjöfn kvæði, hví kvattu um mik svâ gott kvæði, en ek vildi bana þèr? þvíat þú vart góðs kvæðis verðr, segir Hrafn. Konúngr mælti: hví komtu til mín á skóginum? Hrafn svarar: þvíat ek vænti þaðan gæfunnar, sem nú gafst, er þèr vâruð, en áðr mjök þraungt kostinum, er mèr var eingi dugnaðarmaðr hèr í ókunnu landi, en hitt í þúng tilfelli at drepa ríkan mann, þótt mèr þætti eigi[2] sakleysi. Konúngr mælti: nú er ransakat allt þitt mál; en nú skal segja þat er til mín heyrir: þá er ek var sofnaðr á skipinu, kom at mèr Ólafr konúngr, faðir minn, ok mælti stygt: þar liggr þú, Magnús konúngr! ok gefr meira gaum at drepa frænda skálds míns fyrir litla sök, enn at fá fagran sigr á Dönum, úvinum þínum, þvíat byrr er ákominn; taktu við öllum þeim vel, sem nú eru á skipinu, ella mun liggja á þèr víti þessa heims, svà at þèr mun eigi duga. Ok þegar ek vaknaði, sá ek þá báða í fyrirrúminu, Sighvat ok Hrafn, en miklu vár ek hræddari vorðinn við heitanarorð föður míns, enn ek geymdi þá drápsins Ketils, eðr annarra saka Hrafns. Nú skal þú, Hrafn! vera hèr með oss vel kominn, svâ vill faðir minn, ok til yfirbóta við þik, er ek hefi þèr únáðir gert, skal ek gipta þèr Helgu Ketilsdóttur með miklu fè. Hrafn svarar: þetta vil ek með þökkum þiggja; en út vil ek í sumar til Íslands, ok frelsa mik und-

[1]) þat (eru), *b. v, H.* [2]) fyrir, *b. v, H.*

an sekt ok sökum, en sækja síðan yðvarn fund [sem skjótast, ok fara tvívegis í sumar[1], ef svâ vill takast. Konúngr bað hann svâ gera. Þá sagði Sighvatr skáld konúngi, at hann hafði heitit á Ólaf konúng til fulltíngs Hrafni, þá er hann hafði ekki traust af fèlögum sínum. Konúngr mælti: mikils virðir faðir minn vingan þína, er hann veitir þèr slíkt ok annat, þat er þú biðr hann, svâ nú sem þá er hann lifði hèr í heimi. Hrafn fór út um sumarit, ok kom til Íslands um alþíngi, var þá þegar færð framm sýkna hans. Síðan fór hann utan ok móðir hans, gekk Hrafn at eiga Helgu[2], ok gaf konúngr þeim miklar eignir. Hrafn var jafnan síðan með Magnúsi konúngi, meðan konúngr lifði, þótti Hrafn röskr maðr í öllum raunum, ok lýkr þar nú frá honum at segja.

52. Þá er Magnús hinn góði var konúngr í Noregi, bjó austr í Vík, þar sem á Stokkum heitir, lendr maðr ágætr, er hèt Þrándr; dóttir hans hèt Margrèt, [kvinna vitrust ok vænust[3], svâ at mikit orð var á víða um fríðleik hennar. Sigurðr hèt maðr, ok var kallaðr konúngs frændi, því at hann var skyldr mjök Magnúsi konúngi; Sigurðr hafði sýslu skamt frá Þrándi; Sigurðr var á úngum aldri, fríðr sýnum, ok atgjörfimaðr mikill. Svâ bar til á einu sumri áliðnu, at mannboð fjölmennt var at Þrándar; þat var vandi hans at hann

[1]) *v. í II.* [2]) Ketilsdóttur, *b. v. II.* [3]) kvenna vænst ok vitrust, *II.*

kvaddi dóttur sína náliga at öllum ráðum ok vandamálum. Þess er getit einn dag, þá er veizlan var at Þrándar, at menn voru úti staddir á haugum nökkurum, þar sem víðsýnt var, ok höfðu þar margskonar skemtan ok leika, en er áleið daginn, sá þeir fara eitt lángskip at landi, þat var frítt ok vel búit, gyldir ennispænir ok veðrvitar, skjaldat allt milli stafna, ok er skipit nálgaðist, sá þeir at þat var skipat fríðum drengjum, ok höfðu fagran róðr; var þá umræða, hverir vera myndu. Þrándr gekk til dóttur sinnar, ok segir henni þessa nýjúng: vitum vèr nú, sagði hann, ekki higat vân Magnúsar konúngs, en þat er öllum auðsætt, at nökkurir tignir menn eru á skipinu. Hon svarar: þat er þó eigi úvænt[1], at Magnús konúngr sè, ok væri mèr mikil þökk á, at hans kvâma frestaðist higat. Þrándr svarar: hví mælir þú svâ, þar sem allir menn leggja til hans ástúð, ok skulum vèr honum vel fagna. Þú ræðr því, sagði hon, en hitt sama mun mitt hugboð þar um, at mèr þætti betr, at hann kæmi hèr eigi. Skipit lagði til lægis, ok var þar Magnús konúngr; gekk Þrándr í móti konúngi ok fagnaði honum, ok bauð heim til bæjar, veitti hann konúngi með allri alúð; var konúngr allglaðr; en er áleið kveldit, gengu konur í skálann, ok var Margrèt fyrir þeim, hon gekk til sætis ok kvaddi ekki

[1]) örvænt, *H.*

konúng. Konúngr spurði Þránd, hver sú væri hin fríða kóna, er fyrirgekk. Þrándr sagði at sú var dóttir hans. Konúngr mælti: ok ekki vill hon oss kveðja, allstórliga lætr hon, enda er hon fríð kona, hjá henni vil ek rekkja í nótt. Eigi hæfir yðr þat, herra! segir Þrándr. Konúngr sagði, at þat myndi frammfara. Þrándr segir dóttur sinni ætlan konúngs. Hon svarar: ekki kom mèr þat á úvart, at hann [byggist við því um, sem í móti er[1] mínum vilja, þykki mèr þat þúngt, at leggja ást við hann, ok týna honum svâ brátt. Þessi orð hennar sagði Þrándr Magnúsi konúngi. Hann svarar: ekki er ek kendr við údreingskap af flestum mönnum, má ok svâ umbúast, at henni verði at þessu gæfa; en eingi hæfindi munu á verða, nema ek ráði. En er Þrándr sá hvar komit var, þá lèt hann búa eina skemmu vandliga, ok var þar gjör sæng konúngs; síðan var Margrètu þagat fylgt, ok er hon var komin í sængina, gengu allir menn á brott, svâ at hon var ein eptir mjök hrygg, húsit var tvídyrt[2]; litlu síðar var kvadt annarra dyranna tysvar, ok hit þriðja sinn hraut upp hurðin, gekk þar inn maðr virðuliga búinn, ok hafði hatt síðan á höfði; hann spurði, ef þar væri nökkut manna. Hon svarar eingu. Hann gekk at hvílunni, ok tók á henni, ok mælti: hyggr þú, Margrèt! íllt til ráða við konúnginn? Víst er þetta ekki at mínu ráði, segir hon; þá munþú vilja eiga kaup við mik, segir hann,

[1]) búist við því at gjöra í mót, *H*, [2]) *þannig A, H.*

at ek komi því á leið, at konungr eigi ekki við þik þat er þèr mislíki, en ek vil þá eiga vald á ráði þínu. Hon segir sik þat heldr vilja. Þá er vel, segir hann, brá hann þá fíngri sínum á brjóst henni, ok kvaðst merkja hana sèr; henni varð við þat kalt nökkut; hann mælti þá: þegar Magnús konúngr kemr í sængina hjá þèr, seg-þú honum, at þú hefir sèt Sigurð frænda hans, ok vitum þá hvers hugar honum færr[1]; svâ mun ek tilsnúa, at eigi mun meira viðþurfa. Maðrinn snèri þá brott; en Magnús konúngr kom litlu síðar, ok er hann var kominn í sæng hjá henni, bað hann menn brott gánga, en hann snèrist at henni blíðliga, ok sagðist myndu gera sæmd hennar, ef hon vildi honum samþykkja. Hon svarar: þat er með nökkurri hættu, ef þú ættir[2] lag við mik, svâ ágætr höfðíngi sem þú ert, ok vel at þèr um alla hluti; þvíat vita skal-þú þat, at sèzt höfum við Sigurðr, frændi þinn. Konúngr spratt þegar upp, ok mælti reiðuliga: eigi mun þá hæfa, sagði hann, at byggja þessa sæng; gekk hann út ok at því lopti, er Þrándr svaf í, ok knúði hurðina, Þrándr spratt upp, ok gekk til dyra, hann sá þar Magnús konúng, ok svâ þat at hann var mjök reiðuligr. Þrándr spurði, hvat um væri. Konúngr bað hann fá til menn, at fara eptir Sigurði sem skjótast. Þrándr kvað þat þegar til reiðu; bauð konúngr þeim at segja svâ Sigurði, at hann[3] myndi fara

[1]) lèrr, *H.* [2]) átt nokkut, *H.* [3]) *þannig H*; þat, *A.*

verða, hvårt hann vildi eðr eigi. Sendimenn fundu Sigurð, ok sögðu ekki spakligar[1] konúngs orð, enn hann hafði talat, báðu hann búast sem ákafligast, ok fara með (sèr). Sigurðr svarar: með mikillri ákefð beri þèr þetta eyrindi, skal mik ok ekki dvelja, þvíat ek vona at góð verði þessi ferð, at hitta svå ágætan minn frænda. Sigurðr fór með sendimönnum, en er hann fann Magnús konúng, var hann reiðr mjök, ok spurði þegar, hvar fundi þeirra Margrètar hefði samanborit. Sigurðr svaraði glaðliga: herra! verit hefi ek at veizlum með Þrándi, ok sèð Margrètu, en talat við hana harðla fátt, er ek búinn at sverja, ef þarf, (at) saurugligt samlag[2] hefi ek ekki við hana átt. Konúngr lèt þá Margrètu tilkalla, ok spurði hana inniliga, hversu farit hefði; hon sagði þá greiniliga um kvomu mannsins í skemmuna, ok allt þeirra viðtal, ok svå hversu hann merkti[3] hana. Konúngr mælti: lát oss sjá þat merki! hon gerði svå, ok sýndist þvílíkast, sem bjartr silfrpenníngr lægi á brjósti hennar, þar sem hann hafði fíngrinum ábrugðit. Þá mælti konúngr: er svå tilfarit? þessi maðr hefir verit faðir minn, þetta er hans mark, ok því varð mèr svå mikit í skapi, ok skjótt álitit, at guð ok hinn heilagi Ólafr konúngr, faðir minn, vildi eigi, at ek tæki þessa konu til lags mèr. Nú skalþú, Sigurðr! fá hennar, því man faðir

[1]) ófrekligar, *H.* [2]) samblund *H.* [3]) sèr, *b. v. H.*

minn þik hafa tilnefnt, at hann mun þat vilja, ok þar með skalþú hafa mína vináttu, ok þit bæði. Nú fór þetta framm, at Sigurðr fèkk Margrètar, ok sat Magnús konúngr at þeirri veizlu. Sigurðr gerðist síðan ríkr maðr ok góðr drengr, en Margrèt þótti ágæt kona at viti ok mörgum góðum hlutum; voru samfarar þeirra góðar, ok lýkr þar [þeirri frásögn[1].

[1]) þessi sögu, *H.*

# Saga Haralds konúngs harðráða Sigurðarsonar.

1. Sigurðr hrísi hèt son Haralds konúngs hárfagra, hann var faðir Hálfdánar, föður Sigurðar sýrs. Sigurðr sýr átti Ástu Guðbrandsdóttur, móður Ólafs hins helga. Þau Sigurðr konúngr ok Ásta áttu fimm börn eðr fleiri: Guðröðr var elztr, þarnæst Hálfdán, þá Íngibjörg, þá Gunnhildr, Haraldr var ýngstr, hann var snimma mikill ok styrkr, ok vænn at áliti. Svâ er sagt, at þá er Ólafr konúngr hinn helgi flýði af Noregi fyrir ríki Knúts Danakonúngs, fór hann austr í Garða, ok var [með Jarizleifi konúngi[1]; síðan, eptir því sem guð háfði fyrirhugat, fýstist hann aptr at venda til síns ríkis, rèð hann þá fyrst til Svíþjóðar, ok efldist þaðan at liði. En er þat spurðist í Noreg, at Ólafr konúngr var austan kominn til Svíþjóðar, þá söfnuðust (saman) allir vinir hans, þeir sem honum vildu lið veita; var í þeim flokki tignastr maðr Haraldr Sigurðarson, bróðir Ólafs konúngs, hann var þá 15 vetra gamall; margt var þar annarra göfugra manna; þeir fengu alls 6 hundruð manna.

[1]) þar einn vetr, *H.*

Þeir fóru af Upplöndum, ok stefndu með þat lið austr um Eiðaskóg; síðan stefndi Haraldr austr um markir á leið til Svíþjóðar, spurðist þá fyrir um ferðir Ólafs konúngs. En er Ólafr konúngr hóf ferð sína ör Svíþjóðu, fór hann þær leiðir, er Svíar kunnu fyrir, stefndu þeir upp á land til marka, ok komu þar framm, sem kallat er Járnberaland; kom þar í mót konúngi lið þat, er farit hafði af Noregi til móts við hann, sem nú var áðr sagt; hitti Ólafr konúngr þar Harald bróður sinn, ok marga aðra frændr sína ok vini, varð þar hinn mesti fagnafundr, höfðu þeir þá allir saman 12[1] hundruð manna. Síðan fóru þeir austr um Kjölu, ok komu ofan í Veradal, ok fluttu herinn út til Stafs; en er þeir komu á Stafsmýrar[2], spurði konúngr til sanns at bændr fóru með her móti honum, ok þat at hann mun brátt eiga orrostu. Konúngr flutti herinn þartil er hann kom á Stiklarstaði, þá sást herinn bónda; stöðvaði þá konúngr lið sitt, ok bað menn stíga af hestum sínum, ok búast við orrosto; síðan var skotit á fylkíngu ok sett upp merki. Þá mælti konúngr: þat þykki mèr ráð, at Haraldr, bróðir minn, sè eigi í orrostu, þvíat hann er barn at aldri. Haraldr svarar: [ek skal at vísu vera í orrostu, en ef ek er svâ ústyrkr, at ek má eigi valda sverðinu, þá kann ek þar ráð til[3], at binda skal höndina

[1]) 15, *H.* [2]) Stafamýrar, *H.* [3]) ef ek er ofúngr í orrostu, þá kannig þar gott ráð til, *H.*

við meðalkaflann[1]; eingi skal viljaðr betr til enn ek, at vera úþarfr bóndum; vil ek fylgja sveitúngum mínum. Svâ segja menn at Haraldr kvæði þá vísu þessa:

Þora mun[2] þann arm verja
þat er ekkjumun[3] nökkur
rjóðum vèr af reiði
rönd er ek [í hlýt[4] standa;
geingr-at greppr hinn úngi
gunnblíðr þar er slög ríða
herða menn at morði
mót[5] á hæl fyrir spjótum.

Haraldr rèð því at hann var í orrostu, ok fèkk þar góðan orðstír, hann var þá 15 vetra, sem áðr er sagt. Þess getr Þjóðólfr skáld í drápu þeirri, er hann orti um Harald konúng, er sexstefja er kölluð.

Hvast frá ek Haugi hit næsta
hlífèl[6] á gram drífa,
en Bolgara brennir
bróður[7] sínum vel tæði;
skildist hann, ok huldi
hjálmsetr[8], gamall vetra
tiggi tólf ok þriggja,
trauðr við Ólaf dauðan.

Haraldr varð sárr í orrostunni mjök, en Rögnvaldr Brúsason flutti hann til bónda nökkurs

[1]) á sverðinu, ok mega ek eigi öðruvís valda, *b. v. H* [2]) ek, *b. v. H.* [3]) ekkjumunr, *H.* [4]) hlýt í at, *H.* [5]) móts *eðr* morð, *H.* [6]) hlífeld, *Hk.* [7]) bræðr, *H, Hk.* [8]) hjálmsetrs, *H.*

um nóttina eptir bardagann, þessi bóndi bjó lángt frá öðrum mönnum. Bóndi tók við Haraldi, ok hèlt hann þar á laun, ok lèt græða, þartil er hann var heill; síðan fèkk hann til son sinn frumvaxta, at fylgja honum brott austr um Kjöl til Jamtalands. Þeir fóru[1] um fjöll ok eyðimerkr, en ekki almanna vegu, vissi bóndason ekki til, hverjum hann fylgdi, en þó sagði hann síðan til, þat sem hann vissi: at eptir bardagann, er Ólafr konúngr fèll, sagði hann, komu 12 menn til föður míns, ok fluttu þagat sáran mann, [sá er fyrir þeim mælti[2], var manna fríðastr sýnum, ok hvítr á hár; síðan hurfu þeir á brott; en stundu síðar á því sama sumri sendi faðir minn [til mín einn dag, at ek skyldi[3] búa 2 hesta til reiðar, ek gerði sem hann beiddi; þá kom þar faðir minn, ok leiddi með sèr mann mikinn vexti í rauðri kápu, ok hafði steypt hetti fyrir andlit sèr, svá at ek mátti ekki [sjá í andlit honum[4]; faðir minn bað mik fylgja þeim manni, þartil er hann bæði mik aptrhverfa. Við fórum báðir saman, ok einn dag, er við riðum milli eyðiskóga nökkura, snèri hann hestinum í mót mèr, ok kvað þetta hlæjandi:

[Nú læt ek skóg af[5] skógi
skreiðast lítils heiðar,

[1]) huldu höfði, *b. v. H.* [2]) fyrirmaðr þeirra, *H.* [3]) migh at, *H.* [4]) kenna hann, *H.* [5]) Hèr lætig skóg af, *H*; verð ek skóg ör, *F.*

hverr veit nema ek verði
víða frægr um síðir.

Við fórum þá enn, þartil er við komum austr af mörkum í bygð nökkura, þá sem mèr var úkunnig, ok þvínæst fundu við þá sömu menn, er hinn sára mann höfðu flutt til föður míns; þeir heilsuðu rauðkápumanni með Haralds nafni, þá sá ek yfirlit hans: hann var vígligr maðr, fölr í ásjánu ok þó stórmannligr, skolbrúnn ok nökkut grimmligr í viðbragði, ok þó hæverskligr; hann gaf mèr þá belti ok kníf, ok bað mik aptrsnúa; fór ek þá, þartil er ek kom heim til föður míns. Þessa frásögn bóndasonar heyrði Magnús konúngr, son Ólafs konúngs hins helga, ok margir menn aðrir í Noregi; en hèðan frá er sú frásögn um farir Haralds, sem hann sagði sjálfr, ok þeir menn, er honum fylgdu.

2. Þá er Haraldr kom á Jamtaland, fann hann þar Rögnvald Brúsason, ok enn fleiri menn, þá er komizt höfðu ör bardaga á Stiklarstöðum; fóru þeir þaðan til Svíþjóðar um haustit, ok dvöldust þar um vetrinn. Annat sumar fóru þeir austr í Garðaríki til Jarizleifs konúngs, ok tók hann vel við þeim; dvaldist Haraldr þar lengi síðan; svå segir Bölverkr skáld í drápu þeirri, er hann orti um Harald konúng:

Mildíngr straukt[1] um mækis

[1]) strauk *F*; strauktu *H*, *Hk*.

munn er lèzt af gunni[1],
holds vant þú[2] hrafn of fylldan
hrás, þaut vargr í ási;
[en gramr[3] nè ek frá[4] fremra
friskerðir[5] þèr verða
austr varþú[6] [árin næstu[7]
örðuglyndr[8] í Görðum.

Gerðist Haraldr þá höfðíngi mikill, ok hafði landvörn fyrir Jarizleifi konúngi, ok annarr Eilífr, son Rögnvalds[9], sonar Úlfs, sem Þjóðólfr segir:

Eitt höfðust at,
Eilífr þar er sat,
höfðíngjar tveir,
hamalt[10] fylktu[11] þeir;
austr Vindum ók
í öngan krók
varat Læsum[12] lèttr[13]
liðsmanna rèttr.

Haraldr fór víða um Austrveg, ok vann mörg stórvirki, þarfyrir virði konúngr hann mikils. Jarizleifr konúngr ok Íngigerðr drottníng áttu dóttur, er hèt Elísabet, þá kalla Norðmenn Ellisif. Haraldr vakti þat mál við konúng, ef hann vildi gipta honum júngfrúna, sagði hon-

1) *þannig A, H.* 2) *v. í F.* 3) eingan mann, *H.* 4) freg, *F.* 5) fólkherðir, *F*; friðskerðir, *H*; fólk-herði, *Hk.* 6) vantu, *H.* 7) árit næsta, *F.* 8) öröglyndr, *F.* 9) jallz, *b. v. H.* 10) um allt, *F.* 11) fylgdust, *H.* 12) *v. í H.* 13) *þannig F, H, Hk*; tjetr, *A.*

um kunnigt um frændr sína ok forellri, ok svâ nökkut um sjálfs síns framferði.[1] Konúngr svarar því máli vel, ok sagði svâ: þess er vel leitat, þykki mèr í mörgu lagi dóttur minni fullboðit, þat er til þín heyrir; en þat mun hèr talat af landshöfðíngjum, at þat sè nökkut skjótræði, ef ek gipti hana útlendum manni, þeim sem ekki ríki hefir til forráða, ok þó eigi mjök auðigr at lausafè. En ek vil þó eigi þèr frávísa þessum ráðahag, heldr unna þèr þeirrar sæmdar á hæfiligum tíma, þótt þú bíðir um hríð; nýtr þú þartil af oss bæði hins heilaga Ólafs konúngs[1], ok svâ sjálfs þíns atgerfi, þvíat þú hefir svâ hèr dvalizt, at þú hefir sjálfum þèr unnit frama, en oss sæmd ok mikinn framgáng vâru ríki; er þat ok vænt, at af þessu upphafi aukist lengi þín frægð ok virðíng; skildu þeir svâ sína ræðu.

3. Eptir þat fýstist Haraldr at fara út í lönd, bjó hann þá mikla sveit manna, skildust þeir Jarizleifr konúngr með hinni mestu vináttu. Er svâ sagt at Haraldr færi austan ör Görðum með lið sitt, fyrst til Vindlands, þaðan til Saxlands, ok allt vestr í Frakkland; svâ segir Illugi Bryndælaskáld:

Opt gekk á frið Frakka
fljótrent[2] at bý snótar
vara döglíngi duglum[3]
drottinn minn fyrir[4] ótta.

[1]) bróðr þíns, *b. v. H.* [2]) fljótreið, *F*; fljótteitt, *H.* [3]) dólgar, *F* [4]) *v. í H.*

Þaðan fór hann á Lángbarðaland, sem Þjóðólfr segir:

Sá er við lund á landi
Lángbarða rèð gánga.

Þá fór hann til Rómaborgar, ok síðan út á Púl, ok rèð sèr þar til skipa, ok fór þaðan til Miklagarðs með miklu liði, sem Bölverkr segir:

Hart knúði[1] svöl svartan
snekkju brand fyrir[2] landi
skúr en skautla[3] báru
skeiðr brynjaðar reiði;
mætr hilmir sá málma[4]
Miklagarðs fyrir barði
mörg skriðu beit[5] at borgar
barm[6] fögr hám armi.

Þá rèð fyrir Miklagarði Zóe drottníng hin ríka, ok með henni Mikael katalaktus. En er Haraldr kom til Miklagarðs á fund drottníngar, gekk hann þar á mála með sína sveit; þat sama haust fór hann á galeiðr með hermönnum, fóru þeir út í Grikklandshaf, hèlt Haraldr sveit af sínum mönnum. Þá er Haraldr kom til Miklagarðs, kallaðist hann eigi rèttu nafni, hann nefndist Norðbrikt, ok ekki var þat í vitorði alþýðu, at hann væri konúngborinn maðr; þvíat þat var þar at viðsýnd[7] gert, at útlendir konúngasynir skyldu þar ekki líðast eðr vald hafa. Þá er þeir hèldu af Miklagarði, var sá

1) bnúði, *H.* 2) frá, *Hk.* 3) skrautla *F*, *H*, *Hk.* 4) *eða* mála, *F.* 5) beitt, *Hk.* 6) bran, *F.* 7) viðrsýnd, *H.*

höfðíngi fyrir herinum, er Gyrgir hèt, hann var frændi Zóe drottníngar; þar var mikill fjöldi Norðmanna, er þeir kalla Væríngja. Þar var þá einn sveitarhöfðíngi, íslenzkr maðr, Márr Húnröðarson, faðir Hafliða; honum var grunr á, hverr vera myndi höfðíngi þessa[1] nýkomnu Norðmanna[2]; fór hann til fundar við Halldór Snorrason, er þar var með Norðbrikt, ok [vildi tala við hann[3], en Halldór vildi ekki við hann eiga, fèkk Márr ekki af honum, ok rèðst Márr í brott frá herinum, ok svâ ör Miklagarði. Skamma hríð hafði Norðbrikt verit með herinum, áðr Væríngjar [alþýddust mjök[4] til hans, ok fóru þeir allir saman, þegar bardagar voru, kom þá svâ at Norðbrikt gerðist höfðíngi yfir öllu Væríngjaliði; fóru þeir Gyrgir víða um Grikklandseyjar, ok gerðu þar mikinn hernað; svâ segir Bölverkr:

Snjallr rauð í styr stillir
stál, ok gekk á mála,
háðist hvert ár síðan
hildr, sem [sjálfir vilduð[5].

4. Þat var eitthvert sinn, er þeir fóru með her sinn á landi, ok skyldu taka sèr náttból milli sjófar ok skóga nökkurra, komu Væríngjar fyrri til náttstaðar, ok völdu sèr tjaldstaði, þá er þeim þóttu beztir ok hæst lágu. Þvíat þar er svâ háttat, at landit er blautt, ok

[1]) hinna, *H.* [2]) manna, *H.* [3]) frètti hann eptir því, *H.*
[4]) þýddust, *H.* [5]) sjálfr vildi, *H.*

þegar regn koma, þá er úvært at búa, þar sem lágt liggr. Þá kom Gyrgir, höfðíngi hersins, ok er hann sá hvar Væríngjar höfðu tjaldat, bað hann þá brott fara, ok tjalda í öðrum stað, segir at hann vill þar tjalda. Norðbrikt svarar svâ: ef þèr komið fyrr til náttbóls, þá taki þèr yðr náttstað, munum vèr þá tjalda í öðrum stað, þar sem oss líkar; gerið þèr nú ok svâ, tjaldið þar sem þèr villð í öðrum stað. Gyrgir svarar: þvíat[1] ek er höfðíngi hersins, á ek fyrst at setja mitt tjald, þar sem mèr líkar, ok þar útífrá allt mitt lið. Þá svarar Norðbrikt: ef þú ert höfðíngi Grikkja, þá er ek hertogi Væríngja, ok erum vèr ekki skyldir at flytjast í dalverpi undir fætr Grikkjum; hugða ek at þat væri rèttr Væríngja hèr í ríki Grikkjakonúngs, at þeir skulo vera sjálfráði um alla hluti fyrir hverjum manni, en vera konúngi einum ok drottníngu þjónustusamir[2]. Þreyttu þeir þetta með kappmælum, þartil hvârirtveggju vâpnuðust, var þá við sjálft búit, at þeir myndi berjast; komu þá til hinir vitrustu menn, sögðu svâ, at betr var fallit, at þeir sættist um þetta mál, ok gerði skipan á með sèr glöggliga, svâ at þeir þyrfti eigi optar (at þreyta) slíka deilu; var þá stefnulagi ákomit með þeim. Á þeirri stefnu kom þat ásamt með þeim, svâ at öllum líkaði, at hluti skyldi bera í skaut, ok hluta með Grikkjum ok Væríngjum, hvârir fyrri skyldi ríða eðr róa, til hafna leggja,

1) fyrir því, *H.* 2) lýðskyldir, *H.*

ok kjósa tjaldstaði, skyldu því hvârirtveggju una, sem hlutr segði; voro þá hlutir markaðir. Þá mælti Norðbrikt til Gyrgis: lát mik sjá, hversu þú markar þinn hlut, at við markim eigi báðir einnveg; hann gerði svâ. Síðan markaði Norðbrikt sinn hlut, ok kastaði í skaut, ok svâ báðir þeir; síðan gekk sá maðr at, er til[1] skyldi taka, ok tók upp annan hlutinn milli fíngra sèr; hann hèlt upp hendinni ok mælti: þessir skulu fyrri ríða ok róa, til hafnar leggja, kjósa sèr lægi ok tjaldstað. Norðbrikt greip til handar mannsins, tók hlutinn ok leit á: þessi er vârr hlutr, segir hann, ok fleygði þegar á sjó út. Gyrgir mælti: hví lèzt þú eigi aðra menn sjá hlutinn? Sè nú, sagði Norðbrikt, þann sem eptir er, munþú þar kenna á þitt mark. Síðan var athugat þeim hlutinum, ok kendu þar allir mark Gyrgis; var þá dæmt at Væríngjar skyldu hafa kjörna kosti af öllu því, er þeir höfðu þrætt um. Fleiri hlutir voru þeir, er þeim varð at missætti, ok hafði Norðbrikt jafnan sitt mál. Fóru þeir um sumarit allir samt, ok herjuðu víða. Þá er allr var saman herrinn í orrosto, lèt Norðbrikt sína menn vera náliga fyrir utan bardaga, eðr í fylkíngu þar sem minst var mannhætta, ok varaðist svâ at hann týndi liði sínu, en sparði eigi Grikki til, at þeir hefði sik á viðborða; en þá er Norðbrikt var einn saman með sínu liði, þá lagðist hann svâ fast til at berjast,

[1]) upp, *H.*

at annathvårt skyldu þeir fá sigr[1] eðr bana; bar ok svâ jafnan til, þá er Norðbrikt var höfðíngi fyrir liðinu, þá vann hann sigr, er[2] Gyrgir vann ekki. Þat fundu Grikkir, og sögðu betr mundu fara sitt mál, ef Norðbrikt væri einn höfðíngi fyrir herinum öllum, ámæltu þeir mjök Gyrgi, ok sögðu ekki atvinnast fyrir honum ok hans liði. Hann svarar í móti, sagði at Væríngjar vildi honum ekki lið veita, bað hann þá fara í annan stað, ok vynni þá hvârir slíkt er mætti. Fór þá Norðbrikt frá herinum, ok með honum Væríngjar ok allir Látínumenn, en Gyrgir fór með Grikkjaher; sýndist þá brátt hvat hvârir máttu; fèkk Norðbrikt jafnan bæði sigr ok fè mikit, en Gyrgir fór heim til Miklagarðs með sitt lið, nema þeir úngir drengir af Grikkjum, er fá vildu sèr fjár, söfnuðust til Norðbrikz, ok höfðu hann fyrir hertoga.

5. Norðbrikt lagðist þá með her[3] sinn vestr í Affríkam, er Væríngjar kalla Serkland, efldist hann þá mjök at liði á Serklandi, ok gerði þar svâ mikit hervirki, at hann eignaðist á Serklandi 80 borga, voro sumar gefnar í vald hans, sumar vann hann með hernaði, sem Þjóðólfr segir:

Tögu má tekna[4] segja
tandrauðs[5] á Serklandi,

[1]) bót, *H.* [2]) en, *H.* [3]) hernað, *H.* [4]) tegna, *F.* [5]) tand raudt, *Hk.*

úngr hætti sèr, átta,
ormtorgs hötuðr[1], borga;
áðr herskorðuðr[2] harðan
Hildar leik und skildi
Serkjum hættr í slèttri[3]
Sikileyju gekk heyja.

[Svâ segir Illugi[4].

Brauztu und Mikjal mestan[5]
mágum heim sem frágum
sonr Buðla bauð sínum
sunnlönd[6], Haraldr! röndu.

Hèr segir þat, at í þann tíma var Mikael Grikkjakonúngr. Norðbrikt dvaldist marga vetr í Affríka, fèkk hann þar of lausafjár í gulli ok silfri ok allskonar dýrgripum; en allt fè, þat sem hann fèkk, ok hann þurfti eigi at hafa til kostnaðar sèr ok liði sínu, sendi hann með trúnaðarmönnum sínum norðr í Hólmgarð í vald ok gæzlu Jarizleifs konúngs. Dróst þar saman ógrynni fjár, sem líkligt má þykkja, er hann herjaði þann hluta heimsins, er auðgastr var[7] at gulli ok dýrgripum, ok svâ mikit sem hann gerði at, sem nú var áðr at sönnu sagt, at hann myndi eignazt hafa 80 borga í Affríka, umframm allan þann hernað, sem hann gerði í Grikklandshafi ok í Sikiley, sem síðarr mun sagt verða. Barðist hann ok eigi at eins við búkarla á Serklandi, heldr við

[1]) hrautoðr, *F.* [2]) herskoðuðr, *F.* [3]) slektri, *F.* [4]) *v. í H.* [5]) mætstan, *Hk.* [6]) sund lönd, *H.* [7]) er, *H.*

sjálfan konúng í Affríka, ok fèkk sigr, ok eignaðist víða veldi hans, sem Þjóðólfr segir:

Dólglauss hefir dasi
darrlatr staðit fjarri
endr þar er eljö Rindar
ómynda tók skyndir;
varat Affríka jöfri
Ánars[1] mey fyrir hánum
hagfaldinni at halda
hlýðisamt nè lýðum.

Svâ segir Bölverkr:

Súð varð, þar er blèzt blóði
borð rendust[2] at jörðu
vâttu drengliga drottinn
dreyrafull við eyri;
vann und sèr[3] fyrir sunnan
Sikiley liði miklu
sand þar er sveiti skyndi[4]
sokkit[5] lík of stokka.

Síðan sigldi Norðbrikt með allan herinn til Blálands í stormi miklum ok stórum sjá, sem Bölverkr kvað:

Rèttu við rausn at hætta
reiðmæltr jöfurr skeiðum
prýddr lá byrr at[6] breiddu
Blálands á[7] vit stáli;
laust en lauka[8] reisti

[1]) Annars, *H.* [2]) reyndust, *H.* [3]) sik, *H.* [4]) *máske* ekyndi, *H.* [5]) *eða* sokkat, *H.* [6]) á, *H.* [7]) at, *H.* [8]) lokka, *H.*

lofðúngr við sjó þúngan[1]
skúr á skjaldrim[2] dýra
skokz[3] mjöll á þröm stokkinn.

En er hann kom til Blálands herjaði hann þar sem annarsstaðar, en hvar sem hann barðist, hafði hann sigr í hverri orrosto; þess getr Bölverkr:

Gramr nenninn hefir gunni
gekk ferð ok hjó sverðum,
snörp háðist þá síðan
snerra, gagn ör hverri[4].

Eptir þat snèri Norðbrikt aptr til Miklagarðs, ok dvaldist þar um hríð í góðri virðíngu af konúngi ok drottníngu. Þat var einn dag at Norðbrikt ok Væríngjar sátu úti at skemtan sinni á völlum nökkörum, þá gekk Zóe drottníng þaríhjá, ok sá hversu þeir lètu ríkmannliga ok hugaðliga, er þeir sást ekki um. Hon gekk at Norðbrikt ok mælti: þú, norðmaðr! gef mèr lokk ör hári þínu. Drottníng! sagði hann, þú skalt þetta eigi með öllu at gjöf þiggja, miðla mèr í mót lepp[5] ör magaskeggi þínu. Þetta þótti mönnum hlægiliga mælt; skildu þau at því, ok gekk hon leið sína.

6. Erlendr hèt maðr, hann var væríngi þar í garðinum, kona hans fèkk vitfirríng. Erlendr bað Norðbrikt gefa nökkut ráð til heilsubótar henni, þvíat hann var kallaðr spakr maðr.

[1]) þúnga, *H.* [2]) skjöldum, *H.* [3]) skokks, *H.* [4]) *fimm fyrirfarandi vísur v. í F.* [5]) hár, *F.*

Norðbrikt kvaðst skyldu viðleita fyrir bæn hans; fór hann síðan til herbergis hennar, ok átti tal við hana; hon tók því ekki illa. Þar kom hans tali, at hann bað hana sýna sèr gripi sína ok gersimar; hon gerði svå. Þá mælti Norðbrikt: hvaðan hafa þèr komit svå ágætir gripir ok fágætar gersimar? Hon lèzt eigi mikit af vita. Hann mælti: ek þykkjumst vita at gefnir munu þèr hafa verit þeir gripir, sem ágætastír eru. [Hon segir svå vera. Hann spurði, hverju hon hefði launat þeim, er henni gaf gersimar[1]. Hon kveðst eingu launat hafa. Þat samir þó eigi, segir hann, ok mun ek gefa þèr einn ágætan grip, at þú launir þessar gersimar. Hon játti því. Gekk (hann) þá í brott, ok lèt þegar gullkross einn gera, ok síðan vígja; eptir þat gekk hann til fundar við hana í annat sinni, ok færði henni krossinn, ok mælti: nú vil ek at þú segir mèr glöggliga, hversu háttat er um hag þinn. Hon svarar: maðr sá vitjar mín til rekkju um nætr, at mèr verðr vel fyrir augum, ok hann hefir gefit mèr alla þá gripi, er ek á bezta. Þá mælti Norðbrikt: nú gerðir þú vel, er þú sagðir mèr hit sanna, skalþú nú hafa þenna hjá þèr, er ek færði þèr, ok gefa honum, þá er hann kemr til þín. Gekk Norðbrikt síðan brott, ok sagði Erlendi hvat um var: ok skulum vèr halda vörð á, ef þessi maðr vitjar hennar. Litlu síðarr var þat eitt kveld, at þeir sá mann

[1]) *v. í H.*

gánga til herbergis hennar, sá maðr var bæði mikill ok vænn, ok svâ sýndist þeim allsstaðar, þar sem þeir máttu sjá bert hörund hans, sem gullslitr væri á, ok þegar stè hann í rekkju hjá henni; sýndi hon honum krossinn ok mælti: nú vil ek eigi þiggja at eins at þèr svâ margar gjafir, sem þú hefir mèr fært, svâ at ek launa eingu, vil ek gefa þèr þessa gersimi; en er hann sá krossinn, varð honum íllt við, ok hvarf þegar, en hon lá eptir í sænginni mjök máttfarin. Þeir Norðbrikt ok Erlendr hèldu vörð á henni, ok nærðu hana, sem þeim þótti vænligast. (Þá mælti Norðbrikt:) þess get ek at þessi hafi verit forðum daga einn vândr maðr, ok hafi síðan tryllzt ok vorðit at ormi, ok mun liggja á gulli; eðr viti þèr nökkur ormabæli hèr í nánd? Honum var sagt, at þat var víst. Norðbrikt fór þagat til með marga menn; en þar sem þeir sögðu ormabælit, voro björg svâ brött ok há, at þeir máttu ekki tilkomast; báru þeir þá saman við mikinn, ok gerðu bál á bjarginu; en er eldrinn tók mjök at sækja bálit, kom framm ör helli þeim, er var í bjarginu, trjóna mikil, ok eigi þekkilig; þá mælti Norðbrikt: ekki fám vèr hèr meira atgert at sinni, munum vèr snúa aptr til borgarinnar; en mèr þætti vera mega, at þessum dólg hefði leiðst eldrinn, ok myndi leita at færa á brott bygð sína. Ok á næstu nótt eptir þetta dreymdi bónda einn, at maðr kom at honum, ok bað

hann ljá sèr skip, at flytja föng sín, ok sagðist skyldu leggja leigu eptir. Bóndi þóttist ljá honum, ok um myrgininn, er hann vaknaði, fór hann til skips síns, ok sá at þat hafði nýliga haft verit, ok í stafni skipsins var mikit staup af gulli; en ekki varð síðan mein at þessu kykvendi; fèkk kona Erlends eptir þetta heilsu sína. Var Norðbrikt hinn vinsælsti af Væríngjum, ok fanst öllum mönnum mikit um spekt hans, ok þóttust skilja, at hann var mikilsháttar maðr i allri atgerfi ok ráðum.

7. Nú er þat at segja þessu næst, at Garðskonúngi kemr njósn, at allmikill heiðíngjaherr er kominn í ríki hans, ok eyðir með oddi ok eggju[1] bæi ok borgir, hvar sem þeir fara. Þá mælti Gyrgir til konúngs: nú er gott, herra! at taka til Væríngja ok Norðbrikts, höfðíngja þeirra, at þeir reyni sik nú, þvíat þeir vildu oss ekki lið veita, þá er vèr fórum allir samt; er ok mörgum mönnum grunr á, at þèr munið þar um konúngborinn mann eiga at vèla, sem Norðbrikt er, hann lætr svå stórliga, at hann vill yfir öllum mönnum vera, en þèr vitið, at þat er eingi siðr, at þeir menn gángi hèr á mála. Konúngr svarar: þat er mælt, en eigi sannreynt, at hann sè konúngborinn; en þat er vitað, at sjá maðr er afbragð annarra manna í ráðum ok harðfengi, ok þeir eru oss vænstir til land-

[1]) ok eldi, *b v. H.*

varnar, er svå er háttat. Átti konúngr þá stefnutal við höfðíngja, ok bað Væríngja fara í móti heiðíngjum: er þat yðvar rèttr ok skylda, at verja ríki vårt. Norðbrikt játti því, bjó sik ok sitt lið, fóru síðan þar til, er þeir sá heiðíngjaherinn, ok höfðu Væríngjar ekki liðs við. Heiðíngjar höfðu vagna járnvarða, mikinn fjölda á hjólum, at hleypa á fylkíngar sinna úvina, ok marghátlaðar höfðu þeir aðrar vígvèlar Væríngjum skaðvænar. Norðbrikt átti þá tal við lið sitt, ok mælti: nú mun þat birtast, at Grikkjum er öfundkent við oss Væríngja, hafa opt [gildrur til verit settar[1], at vèr værim frammeggjaðir í úfæru, munum vèr eiga við þat ofrefli at etja, ef vèr ráðum til bardaga við heiðíngja, at vèr megum með eingu móti með vårum styrk sigrast; vil ek nú at vèr heitim á guð at upphafi, ok þarmeð á hinn heilaga Ólaf konúng, bróður minn, at vèr skulum láta gera kyrkju í Miklagarði, ok láta vígja honum til dýrðar, ef hann gefr oss þessu sinni at sigrast á heiðíngjum. Þessu játtu allir, ok handfestu heit sitt, fylktu síðan sínu liði móti heiðíngjum. Heiðíngjar höfðu marga konúnga fyrir liði sínu, ok var þó einn yfirkonúngr þeirra, sá var vitrastr, en þó var hann blindr. En er fylkíngar nálguðust, ætluðu heiðíngjar at hleypa fram hjólvögnum sínum

[1]) *þannig II*; gildrar tilsett, *A.*

á Væríngja, en allir vagnar vurðu svâ fastir, at þeir fengu eigi framhleypt; þá mælti sá hinn blindi konúngr: þetta er mikit undr, en þó fylgir hèr annat eigi minna, þar sem ek er blindr, at ek sè mann ríða á hvítum hesti fyrir liði þeirra, þann er mikil ógn stendr af. Við þetta allt saman vurðu [þegar margir konúngar[1] felmsfullir ok flýðu, en 6[2] voru eptir, ok hèldu orrosto; lauk þar svâ at Væríngjar fengu sigr, ok fóru heim til Miklagarðs með miklu herfángi ok frama. Síðan lètu þeir gera virðuliga kyrkju; en af rógi ok fyrirtölum vândra manna bannaði konúngr, at vígð væri kyrkjan. Norðbrikt lætr gera allt at einu virðuliga veizlu; en konúngr bannaði eldivið til veizlu-búnaðarins, ok sagði svâ, at Norðbrikt gerði sik svâ stóran, at konúngar hafa eigi rètt sinn eðr sæmd fyrir hans ofrkappi; en eigi því síðr hitti Norðbrikt brögð til, at búin varð veizlan, þótt konúngr vildi eigi. Fór hann þá, ok bað biskup tilkoma, at vígja kyrkjuna, [en hann lèzt eigi traust ábera fyrir konúngi. Norðbrikt kvaðst því á leið mundu koma, at konúngr bannaði eigi, at kyrkjan væri vígð[3]. Fór hann þá á konúngs fund, ok tjáði fyrir honum, hversu úsannligt var, at hann tefði eðr tálmaði, at Ólafi konúngi væri sæmd veitt, slíkan krapt sem hann hafði þeim sýnt, ok slíka vernd sem hann veitti

[1]) heiðíngjar, *H.* [2]) konúngar, *b. v. H.* [3]) *v. í A.*

Grikkjaríki með fulltíngi síns heilagleiks; kom hann svâ um síðir sínum fortölum, at konúngr sjálfr fór með honum til veizlunnar, ok svâ biskup, ok var sú veizla hin virðuligsta. Konúngr spurði, hverju hann hafði eldt, þá er hann bannaði eldiviðinn; hann lèzt þar hafa til skip forn, ok svarðreiða ok valhnetr; var þá kyrkja sú vígð, ok fagrliga prýdd með mikilli klokku, en af fortölum ráðgjafa sinna lèt konúngr taka or kólfinn. Þeir Norðbrikt hètu þá á Ólaf konúng, ok síðan hræddi hann konúng í svefni, ok hèt honum miklu áfelli; en hann skipaðist ekki við þat öðruvís, enn sló á hann úgleði ok fáleikum; en drottníng gat alls til[1] hins sanna um hans mál, bað hon þá Norðbrikt tilkoma, ok gera ráð með konúngi. Hann gerði svâ, ok bað konúng láta aptr koma kólbinn í klokkuna, ok gefa til kyrkjunnar aðrar þrjár klokkur jafngóðar, ok fara þagat sjálfr, ok dýrka með góðvilja Ólaf konúng; konúngr hèt því ok efndi síðan. Þar í Miklagarði var svâ háttat, at þar voro tvennar hallir, er herlið ok landvarnarmenn konúngs bygðu, voru aðrar[2] yfir öðrum, ok hètu þat hin efri hús; hèrum greindi þá á, hvârir hvâr herbergin skyldi skipa, Grikkir ok Væríngjar; var þá lagt til hlutfalla, ok hlaut Norðbrikt ok Væríngjar at skipa hin

[1]) *v. í H.* [2]) hvorar, *H.*

efri húsin, ok hefir þat haldizt síðan, at Norðmenn hafa þau skipat.

8. Þessu næst fóru þeir Gyrgir enn allir samt með her af Miklagarði, ok var svâ mælt, at þeir skyldi gjalda Garðskonúnginum hundrað marka af hverju skipi, en þeir skyldu eignast sjálfir, ef þeir fengi meira í þeirri herför. Þeir hèldu herinum til Sikileyjar, gengu þar á land ok herjuðu. Sikiley er mikit ríki, þar eru stórar borgir ok styrkar; þeir settust um eina borg mikla ok fjölmenna, þar vâru svâ styrkir veggir um, at þeim þótti úsýnt at brjóta mætti; borgarmenn höfðu vist nóga ok önnur faung, þau er þeir þurftu til varnar. En er þeir höfðu þarum setit, ok barizt á borgina, nökkura daga, ok fengu ekki atgert, þá mælti Gyrgir: þat mun ráð at taka hit minna, ef eigi færr hit meira, þvíat eigi liggr sjá borg laus fyrir; mun oss betr veita, ef vèr leitum á útstrandirnar, þar sem eigi eru borgir svâ styrkar. Norðbrikt svarar: seint munum vèr fá svâ mikit fè, sem vèr eigum Garðskonúnginum at lúka, ef vèr skulum ekki vinna utan útsker ok annes, þar sem eingi fèvân er; eðr hvat vill þèr mèr gefa til, at ek [gefi þat ráð[1], at borgin verði skjótt unnin? Gyrgir spurði, hvers hann beiddi. Ek vil taka, sagði hann, 3 kostgripi[2] af úskiftu því herfángi, sem vèr fám hèr. Gyrgir segir

[1]) komi því á leið, H. [2]) kjörgripi, H.

at því vilja þeir játta; ok var þat[1] vitnum bundit. Síðan gekk Norðbrikt þar til, sem á ein fèll í gili djúpu, svâ at þagat mátti ekki sjá or borginni; þaðan lèt hann grafa gröft til borgarinnar, ok flytja alla mold út á vatnit, en lètu straum í brott bera; var þar skift[2] til sveitum, svâ at þeir voru at þessu verki bæði dag ok nótt, en meginherrinn gekk alla daga utan at borginni, en borgarmenn gengu út í vígskörð, ok skutu hvârir á aðra, en þeir sváfu hvârirtveggju um nætr. En er Norðbrikt skildi, at jarðhús þat var svâ lángt, at þá myndi gröftrinn kominn inn um borgarvegginn, þá lèt Norðbrikt vâpnast allan herinn, þat var í móti degi, er þeir gengu í jarðhúsit, svâ margir sem þar höfðu vel rúm í; en er þeir komu til enda hússins, mælti Norðbrikt: nú höfum vèr hèr haft starfa nökkurn, ok myndim vèr vilja hafa góð erfiðislaunin, en eigi er þetta með lítilli hættu; en ef vel vill tiltakast um uppkvâmu vâra í borginni, þá má vera at þeim bregði í brún, sem í borginni eru, ef menn koma vâveifliga at þeim neðan ör jörðinni; skulum vèr ok svâ hátta búnaði vârum ok sjálfum oss, at þeim megi sem mestr grunr ávera, hvat drengja vèr erum. Síðan grófu þeir at ráði Norðbrikts upp yfir höfuð sèr, þartil er steinar límsettir tóku við; en svâ hafði Norðbrikt glöggliga tilhæft um gröftinn, at þat var gólf í [steinhöll einni[3] í

[1]) eiðum ok b. v. H. [2]) skipað, H. [3]) steinhöllinni, H.

borginni. Þá mælti Norðbrikt: nú skulum vèr brjóta upp gólfit, ok ef hèr er nökkut manna fyrir, þá skulum vèr allir emja eðr grenja, er vèr gaungum upp. Þeir gengu upp í höllina, ok var þar mart fólk af borgarmönnum, snæddu þar ok drukku, þá var lýst nökkut af degi; en er dökkvir hjálmar komu upp í húminu, ok þar fylgdi ymr mikill ok ill læti, þá hlupu þeir upp óttafullir[1], ok flýði hverr, er því kom við, en sumir voro drepnir; runnu þeir um borgina, er út komust, með ópi ok hræðslu, sögðu at þat fólk var svå fjölkunnigt, er sat um borgina, at þeir sendu til þeirra fjandr neðan ör jörðu. Hermenn sóttu eptir þeim er flýðu, en sumir tóku borgarhliðin, ok luku upp, gekk þar inn allr fjöldi hersins, en er þeir komu í borgina, drápu þeir mart manna, en fjölði flýði, sumir gáfust upp ok beiddust griða, ok fengu þeir allir grið, er báðu; eignuðust þeir Norðbrikt með þessum hætti borgina, ok þarmeð ógrynni fjár. Þá mælti Norðbrikt: þat ætla ek, Gyrgir! at mjök víða vyrðim vèr at sópast[2] um útstrandir landsins, áðr vèr fengim jafnmikit fè, sem í þessi einni borg, er þèr vilduð fráhverfa; vil ek nú kjósa gripina til handa mèr, þá sem vèr urðum ásáttir. Satt er þat, sagði Gyrgir, at hèr hefir fengizt mikit fè, en þat þætti mér sem þèr semdi bezt, at taka eigi fyrr gripina til þín enn heima í Mikla-

[1]) er fyrir voru, *b. v. H.* [2]) sópa, *H.*

garði, þá er vèr skiftum öðru herfángi, ef nökkut kemr á vârn hlut. Norðbrikt svarar: til þessa fjár þykkjumst ek allvel hafa vunnit, þvíat eigi hefðim vèr vald á þessi borg í dag, ef eigi hefði (verit) minna ráða viðnotit; eðr hvat sýnist öðrum hershöfðíngjum, hvârt sannligra sè, at ek hafi þessa gripi eðr eigi? Allir sönnuðu hans mál, ok sögðu slíkan mann höfðíngja heita mega at rèttu, er svâ var bæði[1] vitr ok harðfengr. Satt er þat, sagði Gyrgir, at hèr hefir vel tekizt ok mikit aflazt, ok er nú gott heilum vagni heim at aka, ok snúa aptr til Miklagarðs við svâ búit. Norðbrikt svarar: eigi höfum vèr enn fengit svâ mikit fè, [at vèr megim allnær[2] gjalda hundrað marka af hverju skipi, ok enn skulum vèr leingr áðr glettast við landsmenn, þvíat spurt hefir ek, at enn mun vera meiri fèvân. Allr herrinn samþykti honum, ok þótti mikils vert um áhuga[3] hans ok ráðspeki.

9. Síðan lögðu þeir til annarrar borgar, ok settust þar um; sú var bæði meiri ok fjölmennari, ok styrk svâ at eingi vân var, at þeir fengi brotit. Þá mælti Gyrgir við Norðbrikt: þat ráð mun þèr verða um megn, ef þú ætlar at vinna þessa borg, ok treystist þú of framarla [af sigri þeim, er þú vant fyrr[4]; förum heldr víðara til, ok látum eigi þat hlægi henda oss,

[1]) frækn, *H.* [2]) sem vèr eigum Garðskonúngi at, *H.* [3]) harðfengi, *H.* [4]) þínum mælti, *H.*

at brjótast við þat, sem ekki verðr atgert. Norðbrikt mælti: satt er þat at sjá borg má eigi vinnast með hinu sama bragði sem hin fyrri, en þó er enn eigi þrotin vân, at hittist ráð til at vinna hana, ef í tómi er viðleikit; en gera skal þèr, Gyrgir! nú kost á, at fara á brott; þótt fèit megi eigi greiða Garðskonúnginum, svâ mikit sem mælt var, þá er þó til nökkut, en þó mun þat eigi með þèr á brott fara, þvíat vârir menn þurfa fjárins, þeir sem hèr eru eptir, þvíat eigi mun ek svâ búit frá þessi borg hverfa. Þat ætla ek, segir Gyrgir, at ekki ráð munir þú tilfinna, at vinna þessa borg. Þat er nú sem reynist, segir Norðbrikt. Gyrgir nenti eigi brott at fara við lítit[1] fè eðr ekki. Borgarmenn þóttust öruggir fyrir umsát þeirra, gengu út á borgarveggi jafnan um dögum, ok báðu hermenn sækja at fast, sögðu at þeir myndi þess þurfa: er borg þessi, sögðu þeir, mjök auðig at gulli, ok enn auðgari at fágætum klæðum ok öðrum dýrgripum. Borg vâr er svâ rammliga múruð, at þèr brjótið hana ekki; seint mun þat ok sækjast, at grafa undir hana sem hina fyrri, þvíat hon stendr öll á einu bergi; fyrri muni þèr ok svelta í hel, enn þèr sitið oss mat; töluðu þeir mart hæðiliga til hermanna, en Norðbrikt lèt sem hann heyrði eigi, ok bað sína menn ekki

[1]) *lið, b. v. H.*

skattyrðast[1] við þá. Þar voru vellir slèttir, sem þeir höfðu herbúðir sínar, ok þaðan skamt stóð einn fagr skógr; á þann skóg flugu um daga mikill fjöldi smáfugla ör borginni, er þar hreiðröðust í húsaþekjum, ok flugu um daga at leita sèr matar, en um kveldum flugu þeir aptr í borgina til únga sinna. Þá gerði Norðbrikt þat ráð, at hann lèt taka síment ok heita í katli, síðan lèt hann fara til skógarins, ok ríða því heitu á limar ok kvistu viðarins, þar sem fuglarnir voru vanir at sitja, harðnaði þat þará, þegar kólnaði; en um daginn eptir sem fuglarnir settust á skóginn[2], urðu þeir fastir við limarnar, svâ at þeir náðu eigi brott at fljúga, þvíat sólarhiti bræddi síment; lèt þá Norðbrikt taka fuglana, ok sagði at þeir smáfuglar skulu vinna þeim til handa borgina; síðan lèt hann telgja lokarspánu af tyrvitrè, ok bregða í eldi, en steypa at utan brennusteini ok vaxi; þesshállar byrðar lèt hann binda á bak öllum fuglunum, svâ smár at þeim varð ekki um afl at fljúga með; en er kvelda tók, flugu fuglarnir, þegar lausir urðu, allir senn í borgina, at vitja hreiðra sinna ok únga, er þeir áttu í húsaþekjum, þar sem þakt var reyr eðr hálmi. Þá laust eldinum af fuglunum í þekjurnar, en þótt einnhverr[3] bæri litla byrði, þá varð þat skjótt

[1]) skipta orðum, *H.* [2]) *hèr byrjar skinnbókarbrotið M, aptr.* [3]) þeirra, *b. v. H.*

mikill eldr, er margir fuglar báru í þekjur víða um borgina, ok því næst brann hvert hús af öðru, þartil er borgin öll logaði. Gekk þá allt fólk útaf borginni, ok báðu sèr miskunar með mjúklæti, þeir hinir sömu, er áðr höfðu margan dag drembiliga látit, ok háðuliga talat til Grikkjahers ok höfðíngja þeirra. Norðbrikt gaf öllum grið, er báðu; fèkk Norðbrikt svâ vald yfir þeirri borg, ok tóku þeir þar miklu meira fè enn í hinni fyrri; svâ segir Þjóðólfr:

Lèt þá er lypt var spjótum
liðs höfðíngi kviðjat[1]
en þeirs[2] undan runnu
úlfgráð friðar báðu;
hann hefir fyrir sjá sunnan,
svâ finnast til minni,
opt með oddi keyptan[3]
auð, þar er leitt var blauðum.

10. Sú var hin þriðja borg, er þeir komu til, er miklu var mest [af öllum þeim[4], ok svâ var hon styrk, at þeir sá enga vân, at hon yrði brotin. Þá mælti Gyrgir: þat sýnist mèr ráð, at hverfa heim til Miklagarðs með svâ ágætum sigri ok miklu fè; þvíat ek vænti at Garðskonúngr mun nú mega taka sinn hlut, ok mun þó hverr vârr fá gott hlutskipti eptir, ok fyrir því er einsætt at hverfa frá þessi

[1]) kviðja, *F.* [2]) þeir, *F, H.* [3]) *þannig F, H, M*; keptan, *A.* [4]) ok fjölmennust, *H.*

borg, sem víst er at vèr fám ekki atsýst; verðr þá eigi vel, ef vèr töpum þeim mikla sigri, sem vèr höfum unnit, en aflim ekki í mót nema spott ok svívirðíng. Norðbrikt svarar: nærr er nú aptr at hverfa enn fyrr, en trauðr mun ek þegar at úreindu snúa frá þessi borg, þvíat eigi munum vèr hèr minna afla í gulli ok dýrgripum, ef vèr fám þessa borg unnit, enn í hinum tveimr; en vera má at nökkut þat ráð finnist til, at þeim þykki með nökkurri hættu hversu tiltekst, sem allhræðnir[1] eru, en þó mun ek tilhætta[2], ef þat er samþykki liðsmanna. En allr fjöldi hersins eggjaði at setjast um borgina, ok sögðust vilja hans ráðum framfara. Gyrgir latti, ok kvað eigi mundu vel gefast, sagði svâ fara ofsamönnum flestum, þótt ráðugir þættist, meðan farsælan fylgir, at ofrkappit drepr fyrir þeim um síðir, þegar hamíngjan brestr. Norðbrikt mælti: fátt veit fyrr enn reynt er, en ef ek skal einn gera hèr ráð fyrir, [eðr leggja mik eigi í minsta hættu[3] þá vil ek enn hafa hinn sama kost sem fyrr. Því játuðu allir; settust þeir síðan um borgina, ok leið svâ um stund, at frestaðist atsóknin. Við þat dirfðust borgarmenn, ok báðu þá gánga svâ nærr, at þeir mætti talast við: eru þèr seinir til atsóknar með svâ mikinn her, sem þèr hafið, ok þann höfðíngja er til eingis verðr ráðlátt; munu þèr þess þurfa at gánga at djarfligar,

[1]) allhræddir, *H.* [2]) tilráða, *H.* [3]) *v. í H.*

ef þèr villð þessa borg vinna; þvíat hvårki munu þèr grafa undir hana, nè vinna hana með smáfuglabyrðum eðr lokarsspánum, við munum vèr sjá slíkum brögðum; eigi skortir oss ok mannfólk, ok annan viðbúnað innan borgar í móti vâpnagáng yðrum eðr vígvèlum, þeim sem hermanna siðr er til at brjóta borgir með; þat skulu þèr ok fyrir víst vita, at meira fjár eigi þèr hèr at vitja í gulli ok gersimum, enn í þeim tveim borgum, sem þèr hafið áðr unnit. Herrinn gnuddi[1] nú illa, er þeir heyrðu slíkt spott ok eggjan borgarmanna, ok sem kveldaði herklæddist allt lið þeirra, ok veittu atgaungu borginni, ok vildu prófa hvårt vörn borgarmanna væri jafnsnörp sem orð þeirra ok háðulig eggjan; en þegar þeir komu nærr borginni, skorti þar eigi fyrir valsslaungur ok aðra grjótflaug[2] ok skot, svâ at þeir máttu ekki viðhaldast, ok snèru við þat aptr til herbúða sinna. En litlu síðarr fèkk Norðbrikt sjúkleika svâ mikinn, at hann lagðist í rekkju af; lèt hann þá setja landtjald sitt brott frá öðrum herbúðum, þvíat honum þotti sèr þat helzt til róar, at heyra eigi gný ok glamm til hersins; var um þat tjald virðuliga búit, settar upp háfar steingr, ok þaraf upp gyldir veðrvitar; menn hans gengu jafnan til hans um dögum með stóra flokka, at spyrja hann ráðagerða, ok voru jafnan hryggir, er þeir gengu brott. Þat sá borgarmenn at nokk-

1) nuddi, *H.* 2) *þannig A, H.*

ur nýlunda var með her Grikkja, gerðu þeir til njósnarmenn leyniliga, at forvitnast hverju slíkt gegndi; en er njósnarmenn komu aptr til borgarinnar, kunnu þeir segja þau tíðindi, at höfðíngi Væríngja var sjúkr, ok lá í því fagra tjaldi, er þeir sá eitt saman, ok fyrir þá sök varð eingi atsókn til borgarinnar. En er svâ hafði liðit framm um hríð, þá mínkaði mátt hans, gerðust hermenn þá hugsjúkir ok dapr-ir. Slíkt allt spurðu borgarmenn; þar kom at svâ þraungdi sótt Norðbrikt, at andlát hans var sagt um allan herinn; síðan fóru Væríngjar til tals við borgarmenn, ok sögðu þeim líflát höfðíngja síns, báðu kennimenn veita honum gröft í borginni. En er borgarmenn spurðu þessi tíðindi, voru þeir margir, er þar rèðu fyrir klaustrum, eðr öðrum stórstöðum, at hverr vildi hafa þenna líkama til sinnar kyrkju, þvíat þeir vissu, at þar mundi fylgja offr mikit; skrýddist þá allr fjöldi kennimanna, ok fóru út or borginni með skrín ok helga dóma, ok gerðu fagra prócessíónem. Væríngjar gerðu þá ok mikla líkferð, var þá kistan borin hátt, ok tjaldat yfir purpura, borin þar fyrir merki mörg. En er líkit var borit inn um borgarhliðit, skutu þeir niðr kistunni um þvert hliðit fyrir hurðirnar, blèsu þá Væríngjar í lúðra sína herblástr, ok brugðu sverðum; þursti þegar allr Grikkjaher alvâpnaðr ör herbúð-

um í borgina; en þeir sem fyrstir fóru[1], ok merkin höfðu borit ok kistuna, höfðu brynjur undir sloppum, ok hjálma undir höttum. Hafði Norðbrikt sjálfr borit kistuna með öðrum mönnum, en hon var tóm, en múnkar ok aðrir kennimenn, sem áðr höfðu keppzt at gánga fyrstir ok fremstir móti líkinu, ok taka við offrinu, kostgæfðu nú eingum mun miðr at vera sem first Væríngjum, þvíat þeir drápu hvern þann sem þeir náðu, hvårt sem var klerkr eðr úvígðr maðr. Þat er sagt at Norðbrikt hafði brynju undir sloppi sem aðrir, þeir sem kistunni fylgdu, enn höggvâpn hafði hann ekki í fyrstunni; ok er þeir skutu niðr kistunni í hliðinu, mælti hann til Halldórs Snorrasonar, at hann skyldi djarfliga bera framm merkit. Halldór svarar heldr styggliga: [beri hèri[2] merki fyrir þèr rögum! Norðbrikt svarar: þat er bæði at þú gengr vel framm, svâ at þik þarf eigi at eggja, enda er nú mjök mælt. Þá varð Halldórr höggvinn í andlit, ok allir voru þeir nökkut sárir, er með kistunni höfðu farit, ok fyrstir gengu inn í borgina, ok mest af grjóti, er kastat var ör turnum ofan. Kom þá í móti þeim jarl, er fyrir var borginni, hann var úngr maðr ok frækn, ok hinn djarfasti til vâpna; hann brá sverði, ok ætlaði at höggva til Norðbrikts, en hann rann

[1]) Halldór Snorrason og Ulfr stallari, *b. v. M.* [2]) tröll beri hèr, *H.*

í mót honum, ok greip til sverðsins, ok snaraði af jarlinum, en tók höndum sjálfan hann, ok fèkk í vald sínum mönnum. Þat sverð var hinn bezti gripr, ok bar Norðbrikt þat síðan; gáfust borgarmenn þá ok upp, þeir sem áðr höfðu til varnar snúizt[1]. Norðbrikt spurði jarlinn, ef hann vildi þiggja líf[2]. Hann svarar: [fyrir víst, eða[3] [hverr erþú? víst[4] erþú konúngborligr maðr. Norðbrikt sagði honum í hljóði allt hit sanna til, hverr hann var. Jarlinn þá grið öllum borgarmönnum, þeim sem eptir lifðu; tók Norðbrikt þar allmikit gull ok gersimar margar, en skipaði jarlinum síðan borgina. Marga staði ok mörg ríki vann Norðbrikt undir Grikkjakonúng bæði í þessi ferð ok hinni fyrri. [Segist svå at í þessum hernaði öllum samt hafi hann átt 18 fólkorrostor; svå segir Þjóðólfr:

Þjóð veit at hefr háðar,
halir[5], grimmligar rimmur,
rofit hafa opt fyrir jöfri,
átján Haraldr, sáttir;
hauss arnar [rauð þú[6], hvassar[7]
hróðigr konúngr blóði,

---

1) *þessi frásögn um sjúkleika og líkferð Norðbrikts er nokkuð fjölorðari í M, en þó sama innihalds; í M segir umfram frá, hvörsu Norðbrikt setti ráðin til síns sjúkdóms, dauða og líkferðar, ok þarnæst er, líkt og hèr stendr, sagt frá, hvörsu allt þetta hafi farit að orðum hans.* 2) grið, *H.* 3) *v. í A.* 4) *v. í H,* 5) hvar, *Hk.* 6) nauztu, *rángt í H.* 7) hvassan, *H.*

imr gat kárs[1], hvar komu[2],
klær, áðr higat færir[3].

Norðbrikt sagði þá Gyrgir, at hann vill hafa gripina, þá sem dýrstir voru af herfángi, svå sem hann átti skilit; en Gyrgir sagðist vilja færa þá stólkonúnginum. Norðbrikt svarar: allvel þykkjumst ek tilkominn at hafa þann kost, sem mèr var jáð, ok seint mun ek þat láta aftakast þrautarlaust; máttu, Gyrgir! á þat minnast, at þú hefir aldri slíkt fè öðlazt í þínum hernaði, eðr vunnit slík stórvirki; þvíat fyrir laungu myndim vèr komnir aptr í Miklagarð með úsæmd ok öreigð, ef eingi hefði verit hvatari höfðíngi í her þessum enn þú. Slíkt varð þeim til sundrþykkis. Síðan fóru þeir heim til Miklagarðs með her þenna, ok dvaldist Norðbrikt þar skamma hríð, áðr hann byrjaði ferð sína út í Jórsalaheim; þá lèt hann eptir málagull Grikkjakonúngs, ok allir Væríngjar, þeir sem til ferðar rèðust með honum; fylgðu honum þá sem jafnan fyrstir ok fremstir Halldórr Snorrason ok Úlfr stallari Óspaksson, ok fjöldi annarra Norðmanna ok Væríngja, en Gyrgir var eptir, ok rægði mjök Norðbrikt við Grikkjakonúng, sagði at hann vildi allt fè ok herfáng undir sik draga, en ætla konúngi lítit af; lèzt þat ætla, at hann myndi um þat sitja, at hafa undan honum

[1]) krás, *H.* [2]) komut, *H, Hk.* [3]) færi, *H*; *frá* [ *v. í M.*

ríkit, ef hans ágirnd ok ofrkapp hefði slíkan framgáng leingi sem áhorfðist.

11. Norðbrikt sigldi af Miklagarði í Grikklandshaf út til Jórsalalands, fór síðan með liði sínu upp til Híerúsalem, ok hvar sem hann fór um Jórsalaland, voru allar borgir ok kastalar upploknar fyrir honum, ok gefnar þrautarlaust í hans vald. Þat sannar Stúfr skáld, er heyrði sjálfan Harald konúng segja frá þessum tíðindum, ok marga aðra, þá sem í þeirri ferð voru með honum; hann segir svâ at Jórsalaland kom úbrunnit ok úherjat í vald Haralds konúngs:

Fór ofrhuginn, efri[1]
eggdjarfr und sik leggja,
fold[2] var víga valdi[3]
virk, Jórsali, ok[4] Grikkjum;
ok með ærnu ríki
óbrunnu[5] kom gunnar
heimöl[6] jörð und herði
[Haralds rönd ofarr löndum[7].

Haraldr offraði til grafar drottins ok til krossins helga ok annarra heilagra dóma[8] á Jórsalalandi, svâ miklu fè í gulli ok gersimum, at

[1]) æfri, *F*; yfrin, *H*. [2]) hold, *F*. [3]) *v. í H*. [4]) ur, *F*. [5]) ór brunnan, *F*; óbrunnit, *H*; óbrunninn, *Hk*, *M*. [6]) hennis, *F*; heimil, *H*. [7]) *H*. kund óf. l., *F*; hafi ríks þars vel líkat, *Hk*; hefir ríkis þat líkat, *H*; hefir Haralds þat líkat, *M*. [8]) staða, *H*.

torvelt er mörkum at telja; þá friðaði hann veginn allt út til Jórdanar [ok drap þar reyfara[1] ok annat illþýðisfólk[2], sem Stúfr segir:

Stóðu ráð af reiði
rann þat svika mönnum
Egða-Grams á ýmsum
orð Jórdanar borðum;
enn fyrir afgjörð sanna
illa gat[3] fyrir stilli
þjóð fèkk vísan váða
vist um aldr með Kristi.

Fór hann þá til Jórdanar[4], ok laugaði sik þar í ánni sem siðr er til annarra palmara. Eptir þat fór hann aptr til Miklagarðs, ok hafði þá enn hit sama nafn, sem hann hafði fyrr haft þar; þá var sá konúngr kominn til ríkis með Zóe drottníngu, er hèt Konstantínus monomakus. María hèt ein mær þar í Miklagarði úng ok fríð sýnum, hon var bróðurdóttir Zóe drottníngar; þeirrar meyjar hafði Norðbrikt beðit, en drottníng synjaði, en þó bar opt saman fundi þeirra Norðbrikts ok júngfrú Maríu.

12. Þá er Norðbrikt var kominn til Miklagarðs af Jórsölum, gerðist Gyrgir ok margir aðrir til öfundar við hann, ok rægðu hann við konúng. Svâ bar til einn tíma, at hann var staddr hjá júngfrú Maríu í sjáfarlopti nökkuru;

1) raufara *M.* 2) hernaðarfólk, *M.* 3) *þannig M*; gatt eðr gát, *H.* 4) *þetta vantar í A, allt frá* [.

þat var sagt konúngi, ok hann beðinn tilgánga at reyna svik Norðbrikts. Mærin varð þessa vör, ok lèt hon hann síga í festi niðr undir loptit af skyndíngu, þar sem flæddi undir; konúngr kom þar jafnskjótt, ok fann ekki Norðbrikt hjá henni, ok ekki kvaðst hon vita til hans; þótti konúngi þá hrundit því máli, ok þeir hafa logit at sèr, er slíkt sögðu. Þvínæst var þat borit fyrir konúng at Norðbrikt væri ótrúr við hann í varðhaldi, en konúngr sagði at þat myndi úsatt. Þá mælti Gyrgir: gerið tilraun, herra! sendið til menn vâpnaða at reyna varðhaldit, ok var svâ gert. Norðbrikt varð varr við vâpnat lið, fór þegar í mót með sína sveit, ok voru hinir allir drepnir, lètust þar margir konúngsmenn; þóttist konúngr nú jafnan fá íllt af Gyrgi ok ráðum hans.

13. Því næst fýstist Norðbrikt at fara á Norðrlönd til óðala sinna, hafði hann þá spurt at Magnús Ólafsson, bróðurson hans, var vorðinn konúngr at Noregi, ok svâ at Danmörk; sagði hann þá upp þjónustu við Grikkjakonúng. En er Zóe drottníng varð þess vör, varð hon reið mjök, ok hóf upp sakagiptir við Norðbrikt: talaði þat, at hann myndi hafa misfarit með Grikkjakonúngs fè, því er fengizt hafði í hernaði, þá er hann hafði verit fyrir herinum; sú var önnur sakargipt drottníngar, at hann glepti júngfrú Maríu; en Væríngjar, þeir sem verit hafa í

Miklagarði á mála, hafa svâ sagt norðr higat, at sú sögn væri þar höfð af fróðum mönnum, at Zóe drottníng vildi sjálf hafa Norðbrikt sèr til manns, ok sú sök væri reyndar mest við hann, er hann vildi brott or Miklagarði, þótt annat væri uppborit fyrir alþýðu. Af þessum sökum lèt Grikkjakonúngr taka Norðbrikt höndum, ok færa til dýflissu, ok 2 menn aðra með honum Halldór Snorrason ok Úlf Óspaksson. [En er þeir komu mjök svâ til dýflissunnar, þá sýndist Norðbrikt hinn heilagi Ólafr konúngr, bróðir hans, ok sagði, at hann myndi hjálpa þeim; þar á strætinu var síðan gjör kapella, ok helguð Ólafi konúngi, ok hefr sú kapella þar staðit síðan. Dýflissa sú var þannveg gjör, at þat var turn einn opinn ofan, en dyr af strætinu inn at gánga, voru þeir þar innlátnir[1]. Þar var fyrir mikill eitrormr, ok svaf [þar við einn bekk,[2] er flaut um dýflissuna; hafði ormrinn til fæðis þá menn, er úsáttir urðu við konúng, ok þagat voru látnir; en því at orminum voru menn opt til leifa gefnir, þá skorti þar eigi mannabúka, sumir voru alfúnir, svâ at þeirra fúl þefja[3] ok bein voru eptir. En er þeir voru þar innkomnir, settust þeir niðr á búkana; þá mælti Halldór: ekki er hèr góð vist, ok kann vera at hèðan af versni, því at ormrinn mun

[1]) dýblizan var sem hellir væri í jörðu niðri, en á ofan munninn, *F.* [2]) *þessi klausa er máð mjög í A.* [3]) efja, *H.*

skamma hríð sofa, þótt oss sè eingi áfýsi[1] at-hann vakni, því þat er oss mikill háski, gerum því skjótt ráð, hvat at skal hafast, meðan hann sefr. Haraldr mælti: hvat sýnist ykkr tilliggja? Þeir báðir báðu hann fyrirsjá. Haraldr svarar: vèr skulum vona af þeim happa fulltíngs ok ráða sem nógt er til, ok heita á guð ok hinn heilaga Ólaf konúng. Ok er þeir höfðu fest heit sitt, þótt hèr sè eigi sagt, hverju þeir hètu, mælti Haraldr: nú skulum vèr skipast til, ok leita at bana orminum, þótt þat sè eigi líkligt, þvíat vâpnlausum[2] er oss hèr innskotit. Þú, Halldór! segir hann, skalt fara á hrygginn; en Úlfr er vârr sterkastr, hann skal fara á sporðinn, þvíat þar er mest afl ormanna; en ek hefi tygil-kníf eigi mikinn, mun ek gánga framan at orminum, ok vinna á honum með knífinum, þar sem mèr sýnist, þvíat ek treystumst minni hamíngju bezt ok svâ gæfunni, en þess þykki mèr vân, at á lopti hafi hann einn vârn, þá er hann brýzt um, ef nökkur verðr âverkinn. Síðan bjóst Haraldr svâ, at hann tók af sèr gráfeld, er hann var áðr í, ok bindr um vinstri hönd sèr, ok hafði kefli í innanverðri hendinni, en knífinn í hægri. Haraldr gekk þá framan at orminum ok stakk hinni vinstri hendi í ginit, en lagði hinni hægri jafnskjótt knífinum allt upp at skapti hinum vinstra

[1]) *aufúsn, H.* [2]) *þannig H; sèzt ekki í A.*

megin á orminum, þarsem hann hugði at næst skyldi gánga hjartanu; en eigi var lítil áræðisraun ok vandahlutr, at vinna með svâ litlu járni á svâ miklu ok illu kykkvendi. Við þat vaknaði ormrinn, er knífrinn stóð á honum, ok brauzt um fast, tók þá feldrinn við eitrinu, en Haraldr færðist á höfuðit, ok svâ var sá úvinr styrkr, at laungum hafði hann þá alla á lopti, en með hamíngju ok trausti hins heilaga Ólafs konúngs, en hvatleik Haralds ok fulltíngi fèlaga hans, gátu þeir orminum í hel komit.

14. Næstu nótt eptir kom ein rík húsfrú ofan á díflissuna, hon hafði gengit upp[1] eptir stigum nökkurum ok þjónustumenn hennar; þau spurðu ef þar væri nökkut lífs; þeir sögðu þat ekki til efs. Vill þèr, segir hon, þiggja leingra líf, enn Grikkjakonúngr hefir nú ætlat yðr? þeir kváðust þat gjarna vilja. Því er ek hèr komin, segir hon, at hinn heilagi Ólafr konúngr vill at þèr lifið. Þeir þökkuðu þat guði ok hinum heilaga Ólafi konúngi. Lètu þau þá síga ofan einn streing, ok lèt Haraldr sik síðast uppdraga; en er hann kom upp, spurði hann konuna vandliga eptir, með hverjum atburði hon kom at [leysa þá[2]. Hon svarar: ek hefi leingi verit þraungd (af) miklum vanmætti, en á þessi nótt kom at

[1]) ofan, *H.* [2]) hjálpa þeim, *H.*

mèr maðr í svefni, ok sagði at ek skyldi heil verða þeirrar vanheilsu, sem ek hafði, ef ek vildi fara sendiför hans. Ek þóttumst spyrja hverr hann væri, eðr hvert hann vildi mik senda. Hann svarar: ek er Ólafr norðan or Noregi, en þú skalt fara skamma leið, at leysa bróður minn ör prísund; ekki vil ek at hann sè þar, þótt mèr sè eigi allar hans tiltekjur skapfeldar. Eptir þat vaknaði ek alheil, ok eigi vissi ek at yðr væri hèr innkastat, fyrr enn hann sagði mèr, ok vísaði til hvar þèr vâruð. Haraldr þakkaði henni vel sitt eyrindi, fór hon heim til síns húss, en þeir Haraldr fóru þegar til Væríngja; þeir fögnuðu honum vel, stóðu þegar upp ok vâpnuðust allir; gengu síðan þartil, sem Garðskonúngrinn svaf, tóku hann höndum, ok stúngu ör honum bæði augu; [sem Þórarinn Skeggjason segir:

Náði gjörr en glóðum
Grikklands jöfurr handa
[stólþengill gekk[1] ströngu
steinblindr áðalmeini.

Svâ segir Þjóðólfr:

Stólþeingils lèt[2] stínga
(styrjöld var þá byrjuð)
eyðir augun bæði
út heiðíngja sútar;
lagði allvaldr Egða
austr á bragníng hraustan

1) stólþengils lèt, *H.* 2) bað, *M.*

gráligt mark, en[1] Grikkja
götu illa fór stillir.

Í þessum tveim drápum Haralds ok mörgum öðrum hans kvæðum er getit þessa stórvirkis; ok eigi þarf at gera hjá[2] því, at sjálfan stólkonúnginn blindaði hann; jafnvel mætti nefna til þess greifa einnhvern eðr hertoga, ef menn vissi at þat væri sannara, þvíat sjálfr Haraldr flutti þessa sögu, ok þeir menn sem þar voru með honum[3].

15. Á þeirri sömu nótt gengu þeir Haraldr at þeim herbergjum, er júngfrú María svaf í, tóku hana brott með valdi, ok höfðu með sèr; tóku síðan 2 galeiðr, skipuðust Væríngjar þar á, ok reyru út í Sæviðarsund; en er þeir komu þar sem járnrekendr lágu um þvert sundit, þá mælti Haraldr at menn skyldi skipast til ára á hvârritveggju galeiðinni, en þeir sem eigi reyru skyldu allir hlaupa aptr í skipit, ok hafa húðföt sín með sèr, eðr annan þúnga; rendu þá galeiðrnar uppá rekendrnar, ok þegar er festi, ok skriðinn tók af, þá bað Haraldr alla menn hlaupa framm í skipit, þá steypti galeiðinni, þeirri sem Haraldr var á[4], ok stökk sú af járnunum við riðinn, en önnur sprakk á járnum, ok týndist þar mart manna, en sumt var tekit af sundi. Með þessu komst Haraldr (í brott) af Miklagarði; fór svâ

[1]) *á, H, M.* [2]) orð *á, H; rèttara kannskè:* gángr hjá. [3]) frá [ *v. í P.* [4]) framm, *b. v. H.*

inn í Svartahaf, ok áðr hann sigldi frá landi, setti hann júngfrúna upp á land, ok fèkk henni gott föruneyti; bað hana fara aptr til Miklagarðs, ok segja Zóe frændkonu sinni, hversu mikit vald hon hafði þá á Haraldi, eðr hvârt ríki drottníngar hefði nökkut fyrir-staðit, at hann mætti fá júngfrúna ef hann vildi. Síðan sigldi Haraldr norðr í Ellipalta, fór hann þaðan allt um Austrríki. Í þessum ferðum orti Haraldr gamanvísur, ok voru 16 saman, ok eitt niðrlag at öllum, þó eru hèr fár ritnar; (þessi er ein:)

Sneið fyrir Sikil[1] víða
súð vârum þá prúðir
brúnn[2] skreið vel til vánar
vengis[3] hjörtr und drengjum[4];
vætti ek miðr at motti[5]
muni enn þannig[6] renna;[7]
þó lætr Gerðr í Görðum
gollhríngs við mèr skolla.

Þessu veik hann til Elísabet, dóttur Jarizleifs konúngs, er hann hafði beðit, sem fyrr er getit; ok enn kvað hann:

Fundr var þess at Þrændir
þeir höfðu lið meira,
varð sú er vèr of gerðum
víst[8] errilig snerra;

1) Sikiley, *H*, *M*. 2) brýnt, *Hk*. 3) vængis, *H*. 4) streingjum, *H*. 5) mátti, *H*. 6) þinnig, *H*, *M*. 7) nenna, *M*. 8) vitz, *M*.

skildumst[1] úngr við úngan
alvald í styr fallinn;
þá lèt[2] Gerðr í Görðum
gollhríngs við mèr skolla.

Senn jósum vèr svanna[3]
sextán þá er brim vexti
dreif á hlaðna húfa
húm í fjórum rúmum;
vètti ek minnr at motti
muni enn þinnig nenna;
þó lætr Gerðr í Görðum
gollhríngs við mèr skolla[4].

Íþróttir kann ek átta
Ygs fet ek lið at smíða
færr er ek hvast á hesti
hefik sund numit stundum;
skríða kann ek á skíðum
skýt ek ok ræk[5], svâ at nýtir;
[þó lætr Gerðr í Görðum
gollhríngs við mèr skolla[6].

Enn[7] munat ekkja sanna[8]
úng nè mær at værim,
þar er gerðum svip sverða
suðr[9] í borg um morgin;
ruddumst[10] um með oddi

---

[1]) skildumk, *M.* [2]) þó lætr, *H*, *M.* [3]) svanni, *M.* [4]) *þessa vísu v. í H.* [5]) ræig, *H*; røg, *M.* [6]) hvârttveggja kann ek hyggja harpsloti ok bragþátto, *í stað þess frá* [, *M.* [7]) ein, *H*; oss, *M.* [8]) *þannig H*; *v. í A*; kenna, *M.* [9]) sið, *M* [10]) ruddumk, *M.*

eru merki þar[1] verka;
þó lætr Gerðr í Görðum
gollhríngs við mèr skolla.
Fæddr var ek þar[2] álma
Upplendíngar bendu,
nú læt ek við sker skolla
skeiðr búmönnum leiðar;
vítt hefi ek sízt ýtum[3]
eygarð skotit barði;
þó lætr Gerðr í Görðum
gollhríngs við mèr skolla[4].

16. En er Haraldr kom til Hólmgarðs, fagnaði Jarizleifr konúngr honum forkunnar vel; dvaldist hann þar um vetrinn; tók hann þá í sína varðveizlu gull þat allt, er hann hafði þagat sendt af Miklagarði, ok margskonar dýrgripi; var þat svâ mikit fè allt saman, at engi maðr á Norðrlöndum hafði sèt þvílíkt komit saman í eins manns eigu. [Haraldr hafði þrysvar komit í Pólótasvarf, meðan hann var í Miklagarði; þat eru þar lög at hvert sinn er Grikkjakonúngr deyr, þá skulu Væríngjar hafa Pólótasvarf, þeir skulu þá gánga um allar Pólótur konúngs, þar sem fèhirzlur hans eru, ok skal hverr þá hafa at frjálsu, ok eignast, þat er höndum kemr á[5]. Þann sama vetr gipti Jarizleifr konúngr Haraldi dóttur sína Ellisif; þess getr Stúfr skáld: 1044

[1]) þess, *H.* [2]) þars, *M.* [3]) ýttum, *H*, *M.* [4]) *þessar* 6 *vísur v. í F.* [5]) *frú* [ *v. í M.*

Mægð gat öðlíngr Egða[1]
ógnarmildr, þá er vildi,
gulls tók Gauta spjalli
gnótt[2] ok bragníngs[3] dóttur.

17. En at vâri byrjaði hann ferð sína [ör Hólmgarði, ok fór ofan til Aldeigjuborgar[4], fèkk hann sèr þar skip, ok sigldi austan um sumarit; snèri fyrst til Svíþjóðar, ok lagði til Sigtúna[5]; svâ segir Valgarðr af Velli:

Skauztu und [farm hinn fríðsta[6]
frami veitist þèr beiti
færðir þú gull ör Görðum
grunnlaust Haraldr austan;
stýrðir hvatt í hörðu
hugdyggr jöfurr glyggi[7]
sáttu þá er sædrif lètti
Sigtún en skip hnigðu[8].

[Þar fann Haraldr Svein Úlfsson, þat haust hafði hann flýit fyrir Magnúsi konúngi við Helganes, sem fyrr er ritat; en er þeir fund-

---

1) eiga, *F.* 2) gnógt, *F.* 3) bragníngi, *F.* 4) Alþekjuborgar, *H.* 5) austan, og segir jarl konúngi, at hann mun vilja hitta Magnús konúng frænda sinn, ef hann vildi nokkvat ríki miðla honum, þar sem hann ræðr fur tveggja konúnga ríkjum, ok kallaði honum þat vel sama, at gera sæmd svâ nánum frænda sínum. Konúngr bað hann ok svâ drottníng at hann skyldi fur hvetvetna framm þyrmast við Magnús konúng, ok lètu sèr undir því mest þykkja, at hann væri honum sem trúastr ok traustastr með sinni vizku ok styrkleik. Fór Haraldr nú austan frá Hólmgarði ok hafði eitt skip til Svíþjóðar, *í stað þess frá* [ *F, M.* 6) farminn fríða, *H* 7) glyggvi, *H, M.* 8) hnigði, *M*; *vís. v. í F.*

ust, fagnaði hvârr öðrum vel. Ólafr sænski Svíakonúngr var móðurfaðir Elísabet, konu Haralds, en Astríðr, móðir Sveins, var systir Ólafs Svíakonúngs. Gerðu þeir Sveinn ok Haraldr fèlag sitt, ok bundu einkamálum. Allir Svíar voru vinir Sveins, þvíat hann átti hina stærstu ætt þar í landi; gerðust þá ok allir Svíar vinir Haralds ok liðsinnismenn, var þar mart stórmenni bundit í mægðum við hann; svâ segir Þjóðólfr:

Reist eikiöls[1] austan
örðigt vatn ör Görðum,
Svíar rèðu[2] því[3] síðan
snjallr landreki allir;
gekk með gullit mikla
(glygg fèll ótt um tiggja)
höll á hlæborð sollin
Haralds skeið und vef breíðum.

Síðan rèðu þeir sèr til skipa, Haraldr ok Sveinn, ok dróst þeim brátt mikill her, ok er lið þat var búit, þá sigldu þeir austan til Danmerkr, sem Valgardr segir[4]:

---

[1]) *þannig A*; eikjolar, *H*; eiki kjölr, *Hk.* [2]) tjóðu, *Hk.* [3]) þèr, *H*, *Hk.* [4]) þar finnast þeir Haraldr ok Sveinn jarl, er hann hafði flýit or Danmerk fyrir Magnúsi konúngi, ok beiddi Sveinn at þeir mondi binda saman lag sitt um vandræði þau, er þeir væri báðir ættbornir mjök til ríkis þess, er Magnús konúngr sat yfir, ok taldi til mágsemdir við Harald. (Sveinn var í frændsemi víd Ellisíf, konu Haralds, dóttur Jarizleifs konúngs ok Ingigerðar, dóttur Olafs konúngs; systir Olafs konúngs var Astríðr, móðir Sveins, þvíat Sigríðr en stórráða var móðir þeirra beggja, Olafs konúngs ok Astriðar, ok slíka luti telr

Eik slaung und þèr, ýngvi
ógnblíðr! í haf síðan,
rètt var yðr[1] of ætlat
óðal, frá Svíþjóðu;
[hynd bar rif þars[2] rendi[3]
rètt á stag[4] fyrir slètta
[skeiðr en skelktut[5] brúður[6]
Skáney Dönum vánar[7].

[Þeir lögðu fyrst til Sjólands, ok herjuðu þar víða; síðan lögðu þeir til Fjóns[8], sem Valgarðr segir:

---

Sveinn til við Harald); en Haraldr svarar á þá leið, at hann lèzt eigi vilja synja Sveini sinnar vináttu, en þó kvazk hann fyrr vildo hitta frænda sinn, Magnús konúng, en óvingast við hann, eðr hylla sik fjandmönnum hans, ok ferr Haraldr nú þaðan til Danmerkr, sem hèr segir: *í stað þess frá* [ *F*, *M*; *þat sem milli* () *stendr v. í F.*

[1]) yðrum, *F.* [2]) bund bar rif þá er, *F*; hynd bar ríks þar *H*; *sèst eigi í M.* [3]) reyði, *F.* [4]) stig, *Hk.* [5]) skelduð, *F*; skelkr en brúðir skeiðr, *H.* [6]) brúðir, *F*, *H*, *M.* [7]) nánar, *F*, *H*; *sèst ekki í M.* [8]) þar hitti Haraldr konúngr Magnús konúng frænda sinn, ok hafa tal milli sín, spyr Haraldr konúngr hversu Magnús konúngr mun þá jafna vilja ríkit milli þeirra. Magnús konúngr svarar blíðliga frænda sínum, ok lèzt þat gera vilja eptir ráði stórmennis ok fýsi landsmanna; síðan eru tilheimtir ríkir menn, ok uppborit af Magnúsi konúngi hvers Haraldr beiddist. Þá segir Einar þambarskelfir fyrst ríkismanna: fjarri vartu þá, Haraldr! er vèr unnom land af Knytlíngum, ok eigi fýsomst vèr at twískiptast millom höfðíngja, höfum vèr jafnan einum senn þjónat, ok svâ man enn vera, meðan Magnús konúngr heldr ríkinu, ok lífi sínu. Eptir þessi ræðo hneigjast allir ríkismenn í sínom svörom, ok þóat á sína lund bæfi hverr sitt mál, þá kom þó í einn stað niðr um annsvör, at þeir vilja hafa Magnús konúng einnsaman yfir ríki. Skilst nú Haraldr frá við ósæmd, víkr nú aptr, ok stefnir fund

Haraldr gerfa lèztu herjat
hnyggr þú andskotum[1] tiggi
hvatt rann vargr at vittia[2]
valfalls Sælund alla;
gekk á Fjón en fèkkat
[fjölmeðr konúngr[3] hjálmum
brast ríkula ristin
rít erfiði lítit.

Þeir fóru víða með[4] herskildi um landit, drápu menn en brendu bygðir, en allt fólk, þat er því kom við, flýði á merkr ok skóga; svâ segir Valgarðr:

Brann í bæ fyrir sunnan
bjartr eldr Hróiskeldu
rönn lèt ræsir nenninn
reyk vell ofan fella;
lögðu[5] landsmenn gnógir
[ló hel[6] sumum frelsi
dróst harmvesalt hyski
hljótt til skógs á flótta.

Þeir fengu herfáng mikit, ok ráku fjölda kvinna ok annat hertekit fólk bundit til skipa, sem Valgarðr segir:

---

við Svein jarl Ulfsson, ok gera nú ráð sín ok fèlagskap á þá lund, at Haraldr leggr Noreg til af sinni hendi, en Sveinn Danmörk, skulu nú báðir vinna bæði löndin af Magnúsi konúngi, eflast nú at skipum ok liði, ok fóru víða um Sjólönd, herja þar víða ok brenna bæi, ok taka fólk mikit; *í stað þess frá* [ *F*, *M.*

1) annskoti, *H.* 2) vitja, *H*, *M.* 3) fjölmeiðr konúngs, *H.* 4) *v. í H.* 5) lágu, *H*, *M.* 6) lóhels, *H.*

Dvöldu daprt of[1] skilda
drifu þeir sem eptir lifðu
ferð en fengin vurðu
fögr sprund Danir undan;
lás hèlt líki drósar
leið fyrir yðr til skeiða
bittu[2] fíkula fjöttrar[3]
fljóð mart hörund bjartir[4].

18. [Magnús Ólafsson hèlt um haustit norðr í Noreg eptir Helganess bardaga, þá spurði hann þar þau tíðindi, at Haraldr Sigurðarson, frændi hans, var kominn til Svíþjóðar, ok þat með at þeir Sveinn Úlfsson höfðu gert fèlag sitt, höfðu úti her mikinn, ok ætluðu at leggja undir sik Danaveldi (fyrst) en síðan Noreg. Magnús konúngr bauð út leiðángri af Noregi, ok dróst honum brátt mikill herr; spurði hann þá, at þeir Haraldr ok Sveinn voru komnir til Danmerkr, brendu þar allt ok bældu, en landsmenn gengu þegar undir þá. Var þat ok sagt með, at Haraldr væri meiri enn aðrir menn ok styrkari, ok svâ vitr, at honum væri ekki úfært; hann hafði ok sigr í hverri orrostu, við hvern sem hann barðist, hann var ok svâ auðigr at gulli, at eingi maðr vissi markatal. Bjó Magnús konúngr nú her sinn, ok ætlaði at sigla suðr til Danmerkr at móti þeim Haraldi; svâ segir Þjóðólfr:

[1]) ok, *H.* [2]) bitu, *H, M.* [3]) fjötur, *H*; fjötrat; *M.* [4]) bjartar, *H*; bjarta, *M*; *þessar þrjár vís. v. í F.*

Nú er valmeiðum víðis
veit drótt mikinn ótta
skeiðr hefir hann fyrir hauðri
hætt góðs[1] friðar vètta[2];
mildr vill Magnús halda
morðs hlymgotum[3] norðan
ítr en önnur skreytir
unnvig[4] Haralds sunnan[5].

Menn Magnúsar konúngs, þeir er voru í ráðagerð með honum, (töluðu þat) at þeim þótti nú í vant[6] efni komit, ef þeir Haraldr frændr skyldi berjast; buðust þá margir menn til, at leita um sættir með þeim; ok af þeirra fortölum samþykktist konúngr því. Voru þá menn gjörfir á hleypiskútu, ok fóru þeir sem skyndiligast suðr til Danmerkr, þeir sem voru fullkomnir vinir Magnúsar konúngs, at bera þetta eyrindi til Haralds, fór þat mál þó mjök af hljóði. En er Haraldr heyrði þá sögn, at Magnús konúngr, frændi hans, myndi bjóða honnm sætt ok fèlagskap, ok Haraldr myndi skulu hafa hálfan Noreg við Magnús konúng, ok hvárr þeirra við annan hálft lausafè beggja þeirra; þá játtadi Haraldr þeirri sætt af sinni hendi; fóru þessi einkamál þá aptr til Magnúsar konúngs.

19. Litlu síðarr töluðu þeir Haraldr ok

[1]) gott, *H.* [2]) vætta, *H.* [3]) hlunngotum, *Hk.* [4]) unnvigg, *H.* [5]) *frá* [ *v. í F, M.* [6]) óvænt, *H.*

Sveinn eitt kveld við drykk, spurði Sveinn, hverja gripi Haraldr hefði, þá er honum væri mest virkt á; hann sagði, at þat var merki hans Landeyðan. Þá spurði Sveinn, hvat merki því fylgdi þess, er þat var svâ mikil gersimi. Haraldr svarar: þat er mælt, at sá mun sigr hafa, sem merkit er fyrir borit, ok svâ hefir mèr vorðit, síðan ek fékk þat. Sveinn mælti: þá mun ek trúa at sú náttúra fylgi merkinu, ef þú átt 3 orrostor við Magnús konúng, frænda þinn, ok hafir þú sigr í öllum. Þá svarar Haraldr styggliga: veit ek frændsemi okkra Magnúsar, þótt þú minnir mik ekki á þat, ok eigi er þat fyrir því svâ, at við farimst í mót með herskildi, at eigi myndi aðrir okkrir fundir skapligri. Sveinn brá þá lit, ok mælti: geta þess sumir menn, at þú hafir gert þat fyrr, at halda þat eina af einkamálum, sem þinn hlut dragi helzt framm. Haraldr svarar: minni sannindi munþú á því vita, at ek hafi eigi haldit mín einkamál, heldr enn Magnús konúngr mun kalla, at þú hafir haldit við hann. Gekk þá sína leið hvârr þeirra. Um kveldit er Haraldr gekk til svefns í lyptíngu á skipi sínu, mælti hann til skósveins síns: nú mun ek eigi sofa í hvílunni í nótt, þvíat mèr er grunr á, at eigi muni allt svikalaust við oss, fann ek í kveld at Sveinn mágr minn varð mjök reiðr við bermælgi mína: skaltu halda vörð á, ef hèr verðr nýlunda

nokkur. Gekk Haraldr þá í annan stað at sofa, en hann setti trèstabba nokkurn í sæng sína, ok breiddi á klæði; en um nóttina var róit á báti hljóðliga at lyptíngunni, gekk þar upp maðr, ok spretti lyptíngartjaldinu, hjó síðan með mikilli öxi í rúmit Haralds, svâ at fast stóð í trènu; sá maðr hljóp í bátinn ofan jafnskjótt, ok reyri þegar í brott, en níðamyrkr var á, ok máttu þeir því ekki tilvita, [hvert sá maðr reyri[1]; en öxin stóð þar eptir til jarteigna föst í trèstabbanum[2]. Síðan vaknaði Haraldr, ok kvaddi upp menn sína, ok sagði þeim við hver svik þeir [voru komnir[3]: megum vèr þat sjá, segir hann, at vèr höfum ekki lifs við Svein, þegar hann slæst á svikræði við oss, mun sá vârr hinn bezti kostr, at leggja hèðan á brott, ef má; leysum nú skip vâr, ok róum leyniliga í brott. Þeir gerðu svâ, reyru norðr með landi um nóttina, fóru síðan sem ákafast bæði dag ok nótt, hvârt sem heldr gaf (at) sigla eðr róa. Haraldr hafði skip stór ok allvel búin, var ferð hans hin skrautligsta, ok mátti lángt sjá til, er sólin skein á gyld drekahöfuð ok veðrvita, er voru á skipum hans, er hann hèlt sunnan; sem Valgarðr af Velli segir:

---

[1]) hverr maðrinn var, *H.* [2]) *F* og *M lætr öru komið hafa í fótafjölina ok aðra í trèdrumbinn, er lá í sæng konúngs.* [3]) áttu at búa, *H.*

Inn var í sem brynni
iðglíkt sjó[1] miðjan
eldr þar er yðrum hèldut
ormsmunn skipum sunnan;
skeið bar[2] skolpt[3] hinn rauða[4]
skein af gulli hreinu
dreki fór dagleið mikla
dûfu braut und hûfi.

Valgarðr vísar til í sínu kvæði, at Haraldr fèkk ríki ok einvald yfir Noregi eptir þessa tilkvâmu[5] ör Suðrlöndum. Hann kvað:

Löðr var lagt í bæði[6]
lèk sollit haf golli
en herskipum hrannir
höfut ógurlig þógu[7];
ræðr þú en ræsir æðri
rístr[8] aldri[9] sjó kaldan
(sveit tær[10] sínum drottni
snjöll) Noregi öllum.

[Haraldr lètti sinni ferð eigi fyrr, enn hann fann Magnús konúng, þar sem hann lá með her[11] sínum, gekk Haraldr þegar á fund Magnúsar konúngs, frænda síns, ok varð þar fagnafundr; svâ segir Þjóðólfr:

Vatn lèzt þú vísir slitna
víðkunnr und skör þunnri,
dýr klifu flóð, þar er fórut,

1) í sjá, *F.* 2) þar er, *H.* 3) skolp, *F.* 4) rjóða, *F.* 5) hans aptrkvomu, *H.* 6) beði, *M.* 7) þvógu, *F.* 8) ríkr, *F, M.* 9) aldr, *F.* 10) þèr, *F.* 11) herskipum, *H.*

flaust[1] ör Danmörk austan;
bauð hálf við sik síðan
sonr Ólafs þèr hála
(frændr hykk at þar fyndist
fegnir) land ok þegna.

Síðan töluðu þeir frændr millum sín, fór þat allt sáttgjarnliga[2].

20. Magnús konúngr lèt þá tjalda á landi; síðan bauð hann til sín Haraldi, frænda sínum[3]. Haraldr gekk til veizlunnar med 60 manna, var þar fögr veizla; en er áleið daginn gekk Magnús konúngr út, ok kom inn aptr litlu síðarr í tjaldit, þar sem Haraldr [sat; menn hans[4] gengu með honum ok báru byrðar, þat vâru vâpn ok klæði. Þá gekk Magnús konúngr at hinum yzta manni Haralds konúngs, ok gaf þeim sverð gott, öðrum skjöld, þá klæði eðr gull, öllum gaf hann nökkurn grip, þeim stærra er tignari vâru; síðarst kom hann fyrir Harald, frænda sinn, ok hafði í hendi reyrteina tvâ, ok mælti: hvârn villþú þiggja teininn, frændi? Haraldr svarar: þann sem nærr mèr er. Þá 1046 mælti Magnús konúngr: með þessum reyrsprota gef ek yðr hálft Noregs veldi við mik, með öllum skyldum ok sköttum, ok allri eign þeirri er þar liggr til, með þeim skildaga, at þú skalt jafnrèttr Noregs konúngr sem ek í öllum stöð-

[1]) flaustr, *H.* [2]) *frá* [ *v. í M.* [3]) *F. lætr þetta skeð hafa á* Skjaldarakri, *og veizluna staðit hafa í 3 daga.* [4]) sat i ok hans menn. Menn Magnúsar konúngs, *H.*

um; en þá er vèr erum allir saman, skal ek vera fyrirmaðr í heilsan, í sæti ok allri þjónkan; ef 3 eru tignir menn, skal ek í milli sitja; ek skal hafa konúngs lægi ok konúngs bryggju; þèr skuluð styðja ok styrkja vårt ríki í þann stað, at[1] vèr gerum yðr at þeim manni í Noregi, er vèr hugðum at eingi skyldi verða, meðan [vårr hauss væri fyrir ofan mold[2]. Þá stóð upp Haraldr, ok þakkaði honum tign ok vegsemd; settust síðan niðr báðir, drukku þá ok voru allkátir. Eptir um morgininn lèt Magnús konúngr blása til þíngs öllu liðinu, en er þíng var sett, þá lýsti Magnús konúngr fyrir öllum mönnum gjöf þeirri, er hann hafði gefit Haraldi frænda sínum; á því þíngi gaf Þórir af Steig Haraldi konúngsnafn. Þann dag bauð Haraldr Magnúsi konúngi til borðs með sèr; gekk hann um daginn með 60 manna til landtjalda Haralds konúngs, þar sem hann hafði veizlu búit, voru þar þá báðir konúngar í sætum sínum, ok var þar veizla fögr ok kappsamlig, voru konúngar kátir ok glaðir; en er áleið daginn lèt Haraldr konúngr bera í tjaldit töskur mjök margar, þar báru menn hans ok klæði ok våpn ok annarskonar gripi; þat fè gaf hann ok skipti með mönnum Magnúsar konúngs, þeim sem voru í veizlunni. Síðan lèt hann leysa töskurnar; mælti hann þá til Magnúsar konúngs: Þèr veittuð oss [hinn fyrra dag[3] ríki

[1]) er, *H.* [2]) vær lifðum, *H.* [3]) í gær, *H.*

mikit, er þèr höfðuð unnit áðr af úvinum yðrum ok vârum, ok tókuð oss til samlags við yðr; var þat vel gert, þvíat þèr hafið mikit tilvunnit; nú í annan stað höfum vèr verit utanlands, ok verit þó í nokkörum raunum ok mannhættum, áðr vèr fengim þessu gulli saman komit, er þèr munuð nú sjá mega, vil ek nú leggja þetta til fèlags við yðr, skulum við eiga lausafè allt at helmíngi jöfnum höndum, svâ sem við eigum ríki hálft hvârr við annan; en ek veit at skaplyndi okkart er úlíkt, erþú maðr miklu örvari enn ek, munum við fyrir því skipta fè þessu með okkr at jafnaði, ferr þá hvârr með sínum hlut sem líkar. Síðan lèt Haraldr breiða niðr nautshúð[1] mikla, ok steypa þar á gullinu ör töskunum, síðan voru teknar skálir ok met, var þá reidt í sundr fèit ok skipt öllu með vâgum. Þótti öllum mönnum er sá mikil furða, er í Norðrlöndum skyldi svâ mikit gull saman komit í eina stað; þetta var þó reyndar Grikkjakonúngs eiga ok auðr, sem allir menn segja, at þar sè rautt gull húsum fullum. Konúngar voru þarvið ok allkátir; þá kom upp staup mikit sem mannshöfut[2]; tók Haraldr konúngr staupit (ok mælti): hvar er nú þat gull, Magnús frændi! er þú leggr móti þessum knapphöfða? þá svarar Magnús konúngr: svâ hefir ge..zt úfriðrinn ok stórir leiðángrar, at náliga

[1]) klæði, *F*; uxahúð, *H*. [2]) væri, *b. v. F*, *H*.

allt gull ok silfr gef ek þèr, þat sem í minni varðveizlu er, þvíat eigi er meira gull í minni eign enn hríngr þessi; tók hann þá hrínginn af hendi sèr, ok seldi Haraldi konúngi. Hann mælti: þetta er lítit gull, frændi! þeim konúngi, sem[1] á tveggja konúnga ríki, en þó munu sumir menn efa um, hvårt þú átt þenna hríng eðr eigi. Þá svarar Magnús konúngr alláhyggjusamliga: ef ek á eigi þenna hríng at rèttu, þá [veit ek[2] eigi hvat ek hefi rètt fengit; þvíat þenna hríng gaf mèr hinn heilagi Ólafr konúngr, faðir minn, at hinum síðasta skilnaði okkrum. Þá svarar Haraldr konúngr hlæjandi: satt sagðir þú, Magnús konúngr! at faðir þinn gaf þèr hrínginn; (en) þenna hríng tók hann af föður mínum fyrir ekki mikla sök, er þat ok satt, at þá var eigi smákonúngum gott í Noregi, er faðir þinn var sem ríkastr; fèll þá niðr þetta tal, voru konúngar kátir sem áðr[3]. Haraldr konúngr gaf Steigar-Þóri at veizlunni mavsorbolla[4], ok var girðr með silfri, ok silfrhadda yfir ok gyllt hvårtveggja; bollinn var fullr af skírum silfrpenníngum, þar fylgdu 2 gullhríngar, er stóðu mörk báðir saman; hann gaf hónum ok skikkju sína, þat var brúnn purpuri, ok

[1]) hann, *sýnist ofaukið í A.* [2]) veitigh, *H.* [3]) ditu nú síðan veizluna með því móti, at 12 menn enir ríkustu at hvors liði unnu sættareiða milli þeirra, at sjá sætt skyldi nú í alla staði haldin vera af hvorstveggja hendi, sem nú var orðin, *b. v. F.* [4]) mösulbolla, *F.*

hvít skinn undir, ok hèt honum þarmeð miklum metnaði ok vináttu sinni. Svâ sagði [Þorgils Snorrason[1], [at hann sá altarisklæði, þat er gert var ör mötlinum; en Guðríðr[2], dóttir Guthorms, sonar Steigarþóris, sagði at Guthormr faðir hennar átti bollann, svâ at hon sá. Svâ segir Bölverkr:

Heimöl[3] varð, sem[4] ek heyrða[5],
hoddstríðir þèr síðan
græn, en gull bautt hánum,
grund, er[6] Magnús fundut[7];
endist ykkar frænda
allfriðliga í milli
sætt, en síðan vætti[8]
Sveinn[9] rómoldu einnar[10].

Magnús konúngr ok Haraldr konúngr rèðu báðir Noregi hinn næsta vetr eptir sætt þeirra, ok hafði sína hirð hvârr þeirra. Þeir fóru um haustit um Upplönd at veizlum, voru stundum báðir samt, en stundum sèr hvârr. Brátt gerðust greinir í um samþykki konúnganna, voru margir svâ illgjarnir, at [þeirra gengu[11] í milli; var þat borit í eyru Magnúsi konúngi, at bóndum þætti Haraldr harðr í álögum við sik, þegar Magnús konúngr var eigi við, ok bændr

[1]) Oddr Helgason, *H.* [2]) Guðrún, *H*; vitr maðr ok sannfróðr, ok kvað sèr sagt hafa Guðríði, *í stað þess frá* [ *F.* [3]) heimil, *F*, *H.* [4]) svâ, *H*; er, *F*, *M.* [5]) hyrða, *H.* [6]) *þannig F*, *H*, *M*; en *A.* [7]) fundust, *F.* [8]) veitti, *F*, *H*, *M.* [9]) Svein, *H.* [10]) einar, *H.* [11]) þeir báru hit verra, *H.*

vildu miklu heldr flestir hallast til við Magnús konúng ok honum þjóna, en Haraldi fannst þat, at honum var öfundarkent til þeirra manna, er Magnús konúng virðu meira, svâ sem eptirkomandi atburðr vâttar.

21. Þrándr hèt maðr upplenzkr, frændi Kálfs Árnasonar; hann var maðr vinsæll ok ríkr at fè. Svâ bar til á Upplöndum um haustit, at Magnús konúngr átti þing við bændr, en Haraldr konúngr var þar eigi við; Magnús konúngr þakkaði bóndum góðvilja ok ástsemd, er þeir sýndu honum, síðan hann tók ríki í Noregi: vil ek þat ok kunnigt gera hèr sem annarsstaðar í landi, segir hann, at ek gef upp þat mikla mál, er heyrir til föður míns, öllum þeim mönnum, er halda vilja upptekinni[1] vináttu við oss. Þá stóð upp fyrrnefndr Þrándr, ok svaraði eyrindi konúngs: kunnigt er mönnum þat, herra! segir hann, at sumir vârir frændr hafa verit úvinir yðvarra frænda; en ekki var ek viðstaddr þau miklu tíðindi, sem þèr hafið viðhatazt, er faðir yðvar var felldr, var ek þá eigi í landi, en allir góðir menn munu vilja vel til yðvar gera, sem makligt er: en þótt mèr sè djörfúng í, vil ek beiða at þèr sýnið mèr yðvart lítillæti, ok skiptim[2] við yfirklæðum. Konúngr játtaði því blíðliga, var þat hin bezta guðvefjar-skikkja, ok góð skinn undir, er Þrándr fèkk konúngi; skiptu þeir ok vâpnum

[1]) uppteknum hætti ok, *H* [2]) skipti, *H*.

eptir beiðni Þrándar, ok var þeirra eigi minni munr enn yfirhafnanna; síðan bauð Þrándr Magnúsi konúngi til veizlu, ok veitti virðuliga, gaf hann konúngi þá enn sæmiligar gjafir. Litlu síðarr spurði þetta Haraldr konúngr, þótti honum Þrándr hafa gert sik opinberan at því, at hann vildi meiri virðíng veita Magnúsi konúngi enn honum, ok lagði til Þrándar mikinn úþokka. Sveinn girzki hèt maðr, hann kom í land með Haraldi, ok hafði þegit af hânum lèn nökkut, var hann búinn at gera, hvat er Haraldr vildi. Haraldr konúngr sendi Svein við 12ta mann til Þrándar, [þeir höfðu allir svört klæði, ok sögðust vera múnkar, þeir komu snemma morguns skamt frá bæ Þrándar[1], þar sem verkmenn hans voru at akrverki í þrim stöðum. Spurði Sveinn þá, er hann fann fyrsta, hvârt Þrándr væri heima; þeir sögðu at hann var eigi heima; þeir fóru ok hittu aðra akrmenn, ok sögðu þeir slíkt hit sama, sem hinir fyrri; þá mælti Sveinn við sína menn: þetta mál ferr undarliga, hèr segja hvârirtveggju eitt, en mèr þykkir þó, sem þeir muni ljúga; nú skulum vèr reyna til framarr við hina þriðju. Þeir komu þar, voru þar feðgar 2 at vinnu, þeir tóku hinn ýngra manninn ok hýddu, þartil er þeir sögðu at Þrándr væri heima. En er þeir voru at berja verkmennina, þá gekk út á bænum frændi ok fóstbróðir Þrándar, er hèt Sig-

[1]) *v. í A.*

urðr, en er hann sá athöfn þeirra, snèri hann inn ok sagði Þrándi, at menn voru komnir á akrinn í múnkaklæðum, ok börðu þá, er fyrir voru. Þat munu vera múnkar, sagði Þrándr, ok biðja ölmusu til heilagra staða. Þat má vera, sagði Sigurðr, en undarliga fara múnkar þessir með sèr; þat kann ok vera, segir Þrándr, at þat sè flugumenn nökkurir, ok vill dyljast undir múnkabúnaði, ok skulum vèr nú gera tilraun; þeir koma hèr skjótt á bæinn, ok ef múnkar eru, þá munu þeir gánga higat til svefnskemmunnar, ok biðja (fjár), en ek mun vísa þeim inn í bæinn, at þeir bíði þar þess er meirr mornar; en ef svikarar eru, þá munu þeir ekki þat vilja, heldr munu þeir bera konúngslykkil at húsinu[1], ok gánga svâ inn, ok mun þá enn nökkut verða til ráða: skalþú, Sigurðr! þegar þeir koma at dyrum, hlaupa at hurðarbaki, ok ef þeir brjóta upp húsit[2], þá munu þeir allir inngánga, svâ sem þeim er skipat; skaltu þá skjótast út, ok kippa aptr hurðu, en ek mun gera af mèr slíkt sem [verða má[3]. Því næst komu þeir á bæinn, snèru þegar at skemmunni, ok báðu fjár; en er þeir Þrándr svöruðu tómliga, ok lètu seint upp hurð, þá mælti Sveinn at þeir myndi bera konúngslykkil at svefnbúrinu, ef eigi væri upplokit. Kappsamliga fara múnkar þessir, segir Þrándr, ok vilj-

[1]) ok brjóta upp húsit, *H.* [2]) hurðina, *H.* [3]) mèr líkar, *H.*

um vèr heldr láta upp hurð enn brotin sè; skaut Sigurðr þá frá lokum. Svein skipaði sínum mönnum til inngaungu, en bað suma úti vera; en þat var sem ekki mælti, ok gengu inn allir. Sigurðr skaut sèr út hjá þeim, ok keyrði þegar aptr hurð, Þrándr kom þá ok þar; var þat reyndar, at hann átti jarðhús í svefnbúrinu, ok var annarr munni í skála hans, hafði hann þar í hlaupit, þegar þeir Sveinn gengu í skemmuna, voru þeir nú allir á hans valdi. Þrándr sendi orð næstum bygðarmönnum, síðan lauk hann upp skemmuna, lèt taka þá Sveinn alla, ok leggja fast líma á bak þeim; fóru við þat á brott förunautar Sveins, en sjálfan hann lætr Þrándr eptirdveljast með sèr vel haldinn. Sveinn var þá hljóðlyndr, þótti honum ill svívirðíng sín öll saman, ok þat er hann var nú eigi sjálfráði. Þetta spurði Haraldr konúngr, ok líkaði honum allþúngt. Magnús konúngr frètti ok skjótt þessi tíðindi, ok lèt vel yfir tiltekju Þrándar; hugsar þó at hann myndi eiga afarkosta vân af Haraldi konúngi; snèri hann þá aptr til Þrándar með miklu liði. En er Magnús konúngr var kominn í skóg nökkurn nærr bænum, stöðvaði hann lið sitt, ok vildi vita hvat Þrándi yrði fyrir, ef hann yrði við vâpnat lið varr. Því næst var Þrándi sagt, at mikit fólk var komit at bæ hans, ok þótti mönnum þat líkast, at vera myndi Haraldr konúngr. Þrándr brá við skjótt, sendi boð alla vega í bygðina frá sèr, ok stefndi

at sèr mönnum, en þvíat hann var vinsæll við bændr, voru allir búnir at veita honum lið, kom þar skjótt saman mart fólk ok vel búit. Magnús konúngr frètti at Þrándr hafði fjölda liðs, ok búit sem til bardaga, bað konúngr þá segja Þrándi at þat[1] voru friðmenn, ok hann átti við eingum úfriði at búast. En er Þrándr ok hans menn heyrðu þetta, köstuðu þeir vâpnum, ok gengu allir í móti Magnúsi konúngi með fagnaði ok blíðskap; tók konúngr þá enn veizlu með Þrándi; sagði Magnús konúngr honum, at hann hefði þat spurt, at Haraldr hefði þúngan hug á honum: ok er þat mitt ráð, sagði konúngr, at þú gefir upp búnaðinn, ok fylgir mèr, en ek mun skipa jarðir þínar. Þrándr gerði svâ, var hann með Magnúsi konúngi um vetrinn. Haraldr lèt sitja um hann, ok vildi ná honum, en Magnús konúngr geymdi svâ til, at eigi fengust færi á því; ok er vâra tók mælti Magnús konúngr til Þrándar: úsýnt þykki mèr hvârt ek fær haldit þèr[2] innanlands fyrir Haraldi konúngi; hefi ek nú látit búa þèr skip á laun, ok vil ek at þú haldir út til Grænalands. Þessu játtar Þrándr; en svâ mikinn vörð hèlt Magnús konúngr á Þrándi, at eigi skildist hann við, fyrr enn hann var á skip kominn, ok lèt undan landi. Veðr var lítit, ok tók þeim skamt frá landi, lögðu þeir skipinu undir eina ey; en er þeir komu til hafnar, var þar fyrir Haraldr

[1]) þeir, *H.* [2]) þigh, *H.*

konúngr, ok lagði þegar at þeim, tókst þar bardagi; en í annan stað íhugaði Magnús konúngr, at eigi væri örvænt, at hann hefði of skjótt skilit við Þránd, þótti við ráðgan um at eiga, þar sem var Haraldr, frændi hans; gekk hann á skip með hirð sína, ok reyri út til eyjarinnar; ok er hann sá at þeir börðust, eggjaði hann sína menn at leggja (at) djarfliga, ok duga Þrándi. En þegar Haraldr konúngr sá atróðr þeirra harðan, lagði hann frá; en Magnús konúngr lá þar, til þess er Þrándi gaf[1] í haf; fór hann út til Grænlands, ok var þar leingi síðan.

22. En nú er þar til at taka, sem áðr var fráhorfit, er konúngar fóru um Upplönd, tóku þar veizlur, ok þínguðu við bændr, stundum báðir samt, en optar sèr hvârir; kurruðu bændr mjök at þeim þótti Haraldr ágjarn ok undirdráttull, bæði um ríki ok þegna. En er þess urðu varir Einar þambarskelfir, ok aðrir vinir Magnúsar konúngs, sögðu þeir honum kurr bónda um fjárdrátt ok manna Haralds konúngs, sögðu at honum myndi verða vant, at gæta ríkis síns ok sæmdar fyrir Haraldi. Magnús konúngr svarar: slíkt mun vera kvittr ok róg úvina Haralds konúngs, vil ek ekki því trúa, at hann eignist eða dragi undir sik meira ríki, enn hann á at rèttu. Ek skal fara, segir Einar, ok vita hverra sanninda ek verði viss þar um. Haraldr konúngr hafði þá stefnt þíng við bændr, kom

[1]) ábraut ok, *H.*

þar saman fjöldi manns; þar kom ok Einar með 60 sinna manna; hann hafði áðr um nóttina verit með einni ríkri ekkju, er Íngibjörg hèt, ok fèkk hon honum flestallt þetta lið[1]; Einar hafði hjálm gullroðinn á höfði; þar var Haraldr konúngr á þínginu, ok hafði miklar kröfur ok álögur á bóndum. Þá stóð upp einn gamall maðr, er hèt Tóki, hann mælti: ek hefi lifat ok verit kallaðr bóndi um nökkurra Noregs konúnga æfi, nú þótt einnhverr maðr komi í land, ok beiðist at taka ríki ok konúngsnafn, ok sè annarr fyrir áðr vel til ríkis kominn, ok til konúngs tekinn yfir allt land á Eyraþíngi, með ráði höfðíngja ok samþykki allrar alþýðu, þá er þat mín ætlan, at sá konúngr eigi mest vald á oss þegnum sínum; er þat mitt ráð, at vèr bíðim bændrnir atkvæða Magnúsar konúngs [um álögur ok pyndíngar Haralds konúngs, ok gerim sóma Magnúsar konúngs[2] um alla hluti. Settist hann þá niðr, en Einar stóð upp, ok þakkaði Tóka sín orð, ok öllum bóndum sína þarkvâmu, þeim er Magnúsi konúngi vildu virðíng veita. Þá mælti Haraldr konúngr: hátt berr þú nú hjálminn, Einar! ok mjök sýnir þú þik[3] í mótgaungu við mik, væri sá dagr góðr, er [steypti hjálminum þeim hinum gullroðna[4], ok svâ sem nú erþú höfði hærri enn aðrir menn,

[1]) til fylgðar, *b. v. H.* [2]) *v. í H.* [3]) jafnan, *b. v. H.*
[4]) þinn ofsi steyptist, *F.*

skyldir þú brátt höfði lægri[1]. Slitu þeir með þessu þíngit[2], ok fór Einar aptr til Magnúsar konúngs.

23. Nú er frá því sagt, at konúngar báðir, Magnús ok Haraldr, þágu veizlu at þeim manni, er Áslákr hèt; sat Magnús konúngr ok sumir hans menn á þverpallinn, en Haraldr ok hans lið skipaði lángbekkinn; en Þórir, bróðir Magnúsar konúngs[3], sat á annan bekkinn gegnt Haraldi konúngi. Þórir var fámálugr, ok ekki mjök orðhittinn; Haraldi konúngi þótti úvirðíng í, at sitja fyrir hans ádrykkju, ok kvað þetta optliga til hans, ef hann heyrði hann nokkut tala:

Þegi þú, Þórir!
þegn erþú úgegn,
heyrða ek at hèti
Hvinngestr faðir þinn.

Þórir var maðr skapmikill, þótti honum illr kviðlíngrinn, reiddist hann mjök, en þóttist þó eingu kunna at svara, ok gerðist af þessu úglaðr. Einnhvern dag veizlunnar fundust þeir Magnús konúngr ok Þórir; Magnús konúngr spurði: hví erþú svá hljóðr, bróðir? Þórir sagði sem var, ok kvað sèr illa þykkja flimtan Haralds ok hróp. Konúngr mælti:

[1]) Einar segir: guð á vald á því, en ekki muntu hræða mik með orðum einum saman, *b. v. F.* [2]) þínginu, *H.* [3]) sammæddr, *b. v. F, H.*

ek sè þar ráð í mót, þvíat eigi er víst at hann flimti þik leingi síðan; kvettu þetta í mót, ef hann kastar [á þik[1]:

[En þótt hèti
Hvinngestr faðir minn[2],
[þá gerði hann aldri[3]
garð um hestreðr,
sem Sigurðr sýr,
sá var þinn faðir.

Ok eptir um daginn kastaði Haraldr hinum sama kviðlíngi til Þóris, sem hann var vanr, en Þórir þagði þá eigi við, ok kvað í móti þat er honum var tilkent. Haraldr konúngr reiddist, ok brá sverði, ok vildi höggva til Þóris, en Magnús konúngr hljóp til, ok bað þá eigast ekki íllt við; þóttist hann nú sjá, at Þóri myndi eigi duga at sitja gegnt Haraldi, ok lèt hann síðan sitja á aðra hönd sèr. Eptir þat var innt til um mál konúnganna, þat sem Einar hafði varr vorðit á þínginu, ok um ymt þann, er álèk, at Haraldr myndi vilja taka frekara enn skilyrði þeirra stóð til; var þá vitnisburða tilleitat, hverju Magnús konúngr hefði uppjáð, eðr hvat Haraldr gengi yfir þat framm, ok er sagt, at Áslákr, sá er veizluna veitti, bæri vitni með Haraldi konúngi. En er Magnús konúngr heyrði þat, mælti hann: víst vildi ek at þeim yrði þat

---

1) optar kallsyrðum at þèr, *F.* 2) *frá* [ *v. í F, M.* 3) gjörði eigi sá, *F.*

misráðit, ef ek má ráða, er ljúgvitni vilja bera í móti mèr. Skildu þeir svâ því sinni, ok varð mart til greina með þeim; fóru konúngar at veizlum um Upplönd, ok lèttu eigi fyrr sinni ferð, enn þeir komu norðr í Þrándheim, ok sátu þar meðan hæst var vetrar; gerðust þar þá enn nökkurir atburðir, þeir sem frá mun verða sagt.

24. Svâ bar til eitthvert sinn, at konúngarnir sátu í einni höll at matborðum norðr í Kaupángi, þá var þar kominn til bæjarins Arnórr jarlaskáld, hann hafði ort sitt kvæði um hvârn konúnginn. Ok einn dag, er Arnórr bræddi skip sitt, þá komu þar sendimenn konúnga, ok báðu hann gánga ok færa kvæðin; hann gekk þegar, ok þó ekki af sèr tjöruna; en er hann kom at stofunni, mælti hann við dyrvörðu: gefið rúm skáldi konúnganna; hann gekk inn fyrir þá ok mælti: heilir[1] alvaldar báðir! Haraldr konúngr mælti: hvârum skal fyrr færa kvæðit? Hann svarar: fyrr hinum ýngra. Konúngr spurði: hví honum fyrr? Herra! sagði hann, þat er mælt at bráðgeð[2] verði úngmenni; en þat þótti hvârum meiri virðíng, at fyrr væri kvæðit fært. Því næst hóf hann upp kvæðit, ok gat hann í fyrstu jarla fyrir vestan haf, ok síðan kvað hann um ferðir sínar; en er þar var komit, þá mælti Har-

[1]) sitið heilir, *H.* [2]) bráðgjörð, *F*; bráðgæð, *H.*

aldr til Magnúsar konúngs: hvat[1] sitl þèr, herra! yfir kvæði þessu, þótt hann hafi ort um ferðir sínar eðr um jarla í eyjum vestr? Magnús konúngr svarar: bíðum enn, frændi! mik grunar at yðr þykki ek eigi vanlofaðr, áðr enn lýkr kvæðinu; þá kvað skáldit þessa vísu:

Magnús hlýð[2] til máttigs óðar
manngi veit ek fremra annan
yppa ráðumst[3] yðru kappi,
Jóta gramr, í kvæði fljótu;
haukr rèttr erþú, Hörða drottinn,
hverr gramr er þèr stórum verri;
meiri verði þinn enn þeirra
þrifnuðr [allr unz himininn[4] rifnar.

Þá mælti Haraldr konúngr: lofa konúng þenna, sem þèr líkar, en lasta eigi aðra konúnga; ok enn kvað hann þartil er [þessi vísa[5] kom upp:

Otti kunnut elgjum[6] hætta
æðiveðrs á skelfðan[7] græði
fengins gulls eða fæðit ella
flestan aldr und drifnu[8] tjaldi;
líkan berr þik hvössum hauki
hollvinr minn í lyptíng innan
aldri skríðr und fylki fríðra[9]
[farlikt eiki vísundr[10] snarla.

---

1) því, *H.* 2) hlýttu, *F*; hlýddu, *M.* 3) ráðomk, *M.* 4) áðr heimr, *F.* 5) þetta örendi, *F*, *M.* 6) eiglum, *M.* 7) skelfan, *F*; skelfar, *H.* 8) drifu, *F.* 9) fregra, *F*, *M.* 10) *þannig A*, (*þ. e. falligt*); fagrligt eikjusund, *F*, farligth e. v. *H.*

Ok enn kvað hann um siglíng Magnúsar konúngs:

Eigi lètuð, jöfra bagi,[1]
yðru nafni mannkyn hafna,
hvârki flýr þú, hlenna þreytir,
hyr [nè málm[2] í broddi styrjar;
hlunna er sem röðull renni
reiðar búníngr upp í heiði,
hrósa ek því er herskip glæsir
hlenna dólgr eða vitar[3] brenni.

Haraldr konúngr mælti þá enn: allákafliga yrkir þessi maðr, ok eigi veit ek hvar kemr[4].
Arnór kvað enn:

Mönnum lízt er mildíngr rennir
Meitahlíðir[5] sævarskíði
unnar jafnt sem ósamt renni
engla fylki himna þengils

Ok enn er þetta þarí:

Eyðendr frá[6] ek at elska þjóðir
inndrótt[7] þín er [höfð at[8] minnum[9]
græði lostins guði hit næsta
geima vals í þessum heimi.

En er lokit var drápunni, hóf Arnórr þegar upp kvæðit Haralds, þat heitir Blágagladrápa[10], gott kvæði; ok er þeirri drápu var lokit, þá var Haraldr konúngr spurðr, hvârt honum þætti

1) bægi, *F.* 2) næmenn, *F.* 3) vita, *F.* 4) staðar nemr, *H.* 5) meiða hlíðir, *F*; Meita hliðar, *H.* 6) fregn, *F*, *M.* 7) en drótt, *F.* 8) hafðak í, *M.* 9) minjum, *H.* 10) Blagladrápa, *F*; Bágaladrápa, *H.*

betra kvæðit. Hann svarar: sjá kunnum vèr, hverr munr er kvæða þessarra, mitt kvæði mun skjótt niðrfalla, svâ at engi maðr mun kunna; en drápa þessi, sem ort er um Magnús konúng, mun kveðin meðan Norðrlönd eru bygð. Haraldr konúngr gaf Arnóri spjót gullrekit, en Magnús konúngr gaf honum fyrst gullhríng; gekk hann svâ utar eptir höllinni, at hann dró gullhrínginn á spjótsfalinn ok mælti: hátt skal bera hvâratveggju konúngsgjöfina. Þá mælti Haraldr konúngr: kom [svâ næst til Noregs[1] laungum orðinn, at þú haf kvæði mèr at færa; Arnórr hèt honum því, at hann skyldi yrkja um hann erfidrápu, ef hann lifði leingr enn Haraldr konúngr. Magnús konúngr gaf síðan Arnóri knör með farmi, ok gerðist mikill [ástúðavinr hans[2].

25. Sá hlutr barst at um son einnar göfugrar konu, at hann misti minnis[3], ok þótti nærr sem vitstolinn[4]; móðir hans kom á fund Haralds konúngs, ok bað hann leggja til nökkut ráð, hversu hann[5] skyldi meðfara. Konúngr svarar: gakk ok hitt Magnús konúng, eingan mann[6] veit hann sèr betra í landinu, þat mun hollt ráð ok heilt, sem hann leggr til. Hon fór á fund Magnúsar konúngs, ok bað hann leggja til hjálpræði. Magnús konúngr svarar: hittir þú Harald konúng? Hitta ek

[1]) sjá til nökkvars, *M.* [2]) aldavinr hans jafnan síðan, *H.* [3]) vits síns, *H.* [4]) hamstoli, *F.* [5]) hon, *H.* [6]) lækni, *H.*

hann, herra! segir hon, ok vísaði hann mèr til yðvar, ok sagði hânum hans ummæli. Konúngr svarar: hittu hann enn; eingi maðr er Haraldi vitrari í þessu landi, ok mun hann kunna hèr ráð til at leggja, ef hann vill. Síðan fór hon ok hitti Harald konúng öðru sinni, ok sagði honum orð Magnúsar konúngs. Haraldr svarar: til skal nú ok nökkut leggja; sjá þykkjumst ek hvat syni þínum er til meins; hann er draumstoli, en þat hlýðir eingum manni, þat er ekki manns eðli at hann dreymi aldri; gakk nú með hann á morgin þartil, sem Magnús konúngr hefir tekit laugar, ok lát son þinn súpa á handlaug konúngsins, síðan láttu hann hlýða messu, ok[1] þótt þúnga[2] eðr geispa[3] slái á hann, látþú hann eigi ná at sofna; eptir þat far þartil, er Magnús konúngr hefir hvílt, ok lát sveininn þar sofna, ok er meiri vân at honum birtist draumr. Hon fór nú svâ með öllu, sem henni var tilkent, ok svaf sveinninn um hríð; en er hann vaknaði, hló hann ok mælti: dreymdi mik nú, móðir! at konúngarnir kæmi at mèr, Magnús ok Haraldr, ok mælti í sitt eyra mèr hvârr þeirra, ok mælti þetta Magnús konúngr: verþú sem beztr ok blíðastr; en Haraldr konúngr mælti: verþú sem mestr ok mingastr[4]. En þessi sveinn varð síðan merkiligr maðr, góðgjarn ok vitr, ok dugði honum sjá

[1]) en geym þess mest, *H.* [2]) höfga, *F.* [3]) eðr hósta, *b. v. H.* [4]) minnigastr, *H.*

lækníng, er Haraldr hafði tilgefit. Þessa vísu er sagt, at Magnús konúngr hafi kveðit:

Margr kveðr sèr at sorgum
sverðrjóðr alinn verða
uggi ek allítt seggja
ótta[1] búkarls dóttur;
en ef einhverr bannar
eldgef[2] fyrir mèr svefna
víst veldr siklíngs systir
svinn andvöku minni.

26. Þórðr hèt maðr íslenzkr Þorgrímsson, Hreiðarsonar[3]; Þórðr var lítill maðr vexti ok vænn at yfirliti, hann átti bróður, er Hreiðarr hèt, hann var mikill vexti [ok ljótr[4], ok þótti varla sjálfráði fyrir vits sakir; hann var styrkr at afli, manna fóthvatastr ok hógværr í skapi, var hann jafnan heima; en Þórðr, bróðir hans, var mjök í förum, hann var hirðmaðr Magnúsar konúngs góða, ok virðr af honum vel. Á einu sumri, þá er Þórðr bjó skip sitt at Gásum í Eyjafirði, kom þar Hreiðarr bróðir hans, en er Þórðr sá Hreiðar, spurði hann, hví hann væri þar kominn. Hann svarar: eigi væri ek hèr kominn, nema mèr þætti nauðsynligt eyrindit. Hvert er þat þá? segir Þórðr. Ek vil fara utan[5], segir Hreiðarr. Þórðr mælti: eigi þykki mèr þèr sú ferð fallin, vil ek heldr þat tilleggja við þik, at þú hafir einn föðurarf okk-

[1]) ótt á, *H.* [2]) eldgjöfn, *F*; eldgefn, *H.* [3]) þess er Glúmr vá, *b. v. M.* [4]) en ljótr á yfirlit, *H.* [5]) með þèr, *b. v. H.*

arn, ok er þat meirr enn hálfu meira fè enn ek hefi í förum. Hreiðarr svarar: þá er allítit vit mitt, ef ek tek þenna fjárskakka, til þess at gefa mik sjálfan svâ upp, at láta þína ásjá[1], ok mun þá hverr maðr draga af mèr okkart fè, er ek kann eingi forræði, þau sem nýt eru, en þó úvíst, at ek þoli þat vel, ef menn sitja um at lokka af mèr fè mitt eða taka með valdi; ok er þèr þá eigi betra hlut í at eiga, ef ek ber á mönnum, eða gerik aðra úvísu fyrir slíkar sakir, en síðan sè ek barðr eðr meiddr fyrir mínar tilgerðir; er þat ok sannast, at þèr mun torsótt at halda mèr eptir, ef ek vil fara. Vera kann þat, sagði Þórðr, en ekki vil ek at þú getir um ferð þína fyrir öðrum mönnum, þótt ek láti þetta eptir þèr. Því játtaði Hreiðarr; en þegar er hann firði Þórð augum, sagði hann hverjum er heyra vildi, at hann ætlaði at fara utan með bróður sínum; lögðu þat margir menn Þórði til ámælis, ef hann flytti utan afglapa[2]; sigldu þeir í haf, þegar þeir voru búnir; urðu þeir vel reiðfara, ok tóku Þrándheim. Þetta var þat sama haust, áðr[3] konúngar komu austan, Magnús ok Haraldr; ok litlu síðarr enn konúngar komu til bæjarins, var þat einn morgin snemma, at Hreiðarr var á fótum fyrr enn aðrir vaknaði; hann mælti: vaki þú, bróðir! fátt veit sá er sefr, en ek veit tíðindi, ek heyrði fyrir litlu læti mjök kynlig. Hvörju var líkt?

[1]) forsjá, *H.* [2]) þenna, *b. v. H.* [3]) er, *H.*

sagði Þórðr. Sem kykvendi lèti[1], sagði Hreiðarr, ok þaut við mjök, en aldri veit ek, hvat látum var. Lát eigi svå undarliga, sagði Þórðr; þat mun hafa verit hornblástr. Hvat skal þat tákna? sagði Hreiðarr. Þórðr svarar: blásit er optast[2] til móts eðr skipdráttar. Hvat táknar mótið? segir Hreiðarr. Þar eru dæmd vandamál, segir Þórðr, ok slíkt talat sem konúngr þykkist þurfa at upp sè borit fyrir alþýðu. Hvårt mun konúngr á mótinu? segir Hreiðarr. Þess þykki mèr vân, segir Þórðr. Þagat verð ek þá at fara, segir Hreiðarr, því́at þar vildi ek koma, at ek sæi sem flesta menn í einum stað. Þá skýtr í 2 horn með okkr, segir Þórðr; mèr þætti því betr, sem þú kæmir þar síðr, er fjölmennt væri, ok mun ek hvergi fara. Ekki tjár slíkt at mæla, segir Hreiðarr, fara skulu við báðir, ekki mun þèr betra at ek fari einnsaman; er þèr ok mál at finna Magnús konúng vin þinn, er þú hefir enn ekki hitt hann, síðan hann kom til bæjarins, ok ekki færr þú mik lattan þessarrar farar; hljóp Hreiðarr þegar á brott. Þórðr sá nú at hann mun fara verða, gekk hann seint, en hinn hljóp hart undan, ok var mjök lángt milli þeirra. En er Hreiðarr sá, at Þórðr fór seint eptir, mælti hann: þat er þó satt, at íllt er litlum at vera, þá er aflit nærr ekki, en þó mætti vera hvatleikinn, ok harðla lítit ætla ek þik hlotit hafa af þessu hvårutveggja, ok væri þèr betri

1) ljæti, *A.* 2) þá, *H.*

vænleikr minni[1], ok mættir þú heldr fara með öðrum mönnum. Þórðr svarar: eigi veit ek mèr verr í hald koma úknáleik minn, enn þèr afl þitt. Handkrækjumst við nú, bróðir! sagði Hreiðarr; svâ gerðu þeir, ok var eigi leingi áðr Þórði dofnaði höndin, ok lèt hann laust. Hreiðarr fór þá undan, þartil er hann kom á hæð eina, þar sá hann mannfjölda fyrir sèr, nam hann þá staðar, ok var all starsýnn á þá menn, er þar voru á mótinu; kom þá Þórðr eptir ok mælti: gaungum nú siðliga, bróðir! ok förum báðir samt. Hreiðarr gerði svâ; en er þeir komu á þíngit, kendu margir menn Þórð, ok fögnuðu honum vel; gekk Þórðr þegar á fund Magnúsar konúngs, þvíat hann hafði þá ekki fundit konúng, síðan hann kom til bæjarins. Þórðr kvaddi vel Magnús konúng, ok tók konúngr honum blíðliga. Þegar skildi með þeim bræðrum, er þeir komu á þíngit, þótti mönnum Hreiðarr heldr mikill vexti ok úsinniligr, varð hann mjök skauttogaðr, ok færðr í reikut[2]; hann var margorðr ok hló mjök mót áfángi manna, en þeim þótti eigi því minni skemtan at eiga við hann[3]. Magnús konúngr frètti Þórð tíðinda af Íslandi, ok síðan spurði hann, hvat þeirra manna væri í för með honum, er hann vildi hafa til hirðvistar með sèr. Bróðir minn er í för með mèr, segir

[1]) en hnáleikr meiri ok fráleikr, *b. r. H.* [2]) *þannig, H.*
[3]) ok varð nú ógreið ferð hans, *b. v. H.*

Þórðr. Sá maðr mun vel vera, ef þèr er líkr, sagði konúngr. Þórðr mælti: ekki er hann mèr líkr. Konúngr svarar: þó má hann vel vera, eðr hvat er úlíkast með ykkr? Þórðr mælti: hann er mikill maðr vexti, ljótr ok heldr seinheppiligr, sterkr at afli ok lundhægr. Konúngr mælti: þó má honum vel vera farit at mörgu. Þórðr svarar: ekki var hann kallaðr vizkumaðr á únga aldri. At því fer ek meirr, sagði konúngr, sem nú er, eðr hvårt má hann sjálfr annast sik? ekki hvast[1] umhyggjulaust, segir Þórðr. Hví fluttir þú hann utan? sagði konúngr. Herra! sagði Þórðr, hann á fè allt hálft við mik, en hefir eingar nytjar af, ok eingi afskipti hefir hann sèr veitt um pennínga, látið mik meðfara sem ek vildi: nú þótti mèr úsannligt at veita honum eigi þenna hinn eina hlut, sem hann beiddist, at fara með mèr, þar sem hann lèt mik einn ráða öllu okkru gózi; þótti mèr ok líkligt at hann myndi, sem margir aðrir, af yðr gæfu hljóta, ef hann kæmi á yðvarn fund. Sjá vil ek hann, sagði konúngr. Svå skal vera, sagði Þórðr, ok því fór hann higat til þíngsins með mèr, en þó er hann nú brott rjáðr[2] nokkut. Konúngr sendi þá eptir honum; en er Hreiðarr heyrði sagt, at konúngr vildi finna hann, þá bar hann sik upp mjök, ok sázt lítt fyrir, ok gekk nærr á hvat sem

[1]) *þannig A, H.* [2]) hrjáðr, *H.*

fyrir var; hann var á þann hátt búinn, at hann var í leistabrókum[1], ok hafði feld grán yfir sèr; en er hann kom fyrir konúng, fèll hann á knè fyrir hann, ok kvaddi hann vel. Konúngr svaraði honum hlæjandi, ok mælti: ef þú átt við mik eyrindi, þá mælþú skjótt þat er þèr líkar, aðrir menn eigu enn nauðsyn at tala við mik. Hreiðarr svarar: mitt eyrindi þykki mèr skyldast, en þat er at ek vildi sjá þik, konúngr! Þykki þèr nú vel þá, sagði konúngr, er þú sèr mik? Vel víst, segir Hreiðarr, en eigi þykkjumst ek enn til gerla sjá þik. Hvernveg skulum við þá tilhaga, segir konúngr, vildir þú at ek stæði upp? [Þat vildi ek[2], segir Hreiðarr. Konúngr stóð (þá) upp ok mælti: nú munþú þykkjast gerla mega sjá mik? Eigi enn til gerla, sagði Hreiðarr, ok er þó nú nærr hófi. Viltu nú, segir konúngr, at ek leggi af mèr skikkjuna? Þat vil ek víst, segir hann. Konúngr mælti: við skulum innast þó til nökkut áðr um þat mál: þèr eruð hugkæmir ok höfðíngjadjarfir margir Íslendíngar, ok veit ek eigi nema þú virðir mèr þetta til ginníngar[3], en ek vil þat undan skilja. Hreiðarr svarar: eingum manni hæfir þat, herra! at ginna þik eðr ljúga at þèr. Konúngr lagði þá af sèr skikkjuna ok mælti: hygg þú nú at mèr svâ vandliga sem þik

[1]) leistalausum brókum, *H.* [2]) þat villag, *H.* [3]) úvirðíngar, *H.*

fýsir. Svâ skal vera, segir hann; hann gekk þá í hríng hjá konúngi, ok mælti fyrir munni sèr opt hit sama: allvel! allvel! segir hann. Konúngr mælti: hefir þú nú sèð mik sem þú vill? At vísu, segir Hreiðarr. Konúngr spurði: hversu lízt þèr nú á mik? Hreiðarr svarar: ekki hefir Þórðr, bróðir minn, ofsögur frá þèr sagt um þat, sem vel er. Konúngr mælti: [máttþú nökkut[1] atfinna um þat sem nú sèr þú, þat er eigi sè í alþýðu viti eðr sjónenni[2]. Hreiðarr svarar: ekki vil ek, ok þat er sannast at ek má ekki atfinna; þvíat þannig myndi hverr sik kjósa skapaðan, sem þú ert, þótt sjálfr mætti ráða. Mikinn tekr þú af, segir konúngr. Háttúng er flestum öðrum at oflofaðir sè, ef lofsamliga er við mælt, ef þú átt þetta eigi at sönnu[3], segir Hreiðarr, sem mèr lízt, ok ek hefi nú talat. Konúngr mælti: finn at nökkut, þótt smátt sè. Hreiðarr svarar: þat þá helzt, herra! vil ek tilfinna, at auga yðvart annat er litlum mun ofarr enn annat. Þat hefir einn maðr fyrr fundit, sagði konúngr, en sá maðr er Haraldr konúngr, frændi minn; nú skal jafnmæli með okkr, segir konúngr, vil ek nú sjá þik, stattu nú ok legg af þér yfirhöfnina! Hreiðarr fleygði þegar af sèr feldinum; var maðrinn, sem áðr er sagt, ljótr ok limaðr mjök, hafði hann hendr[4]

[1]) nokkut muntu, *H.* [2]) sjónhendi, *H.* [3]) sanna, *H.* [4]) krunnnor, *M.*

miklar ok mjök saurgar, þvíat latliga voru þvegnar, en klæði eigi hrein; konúngr hugði at honum vandliga. Þá mælti Hreiðarr: herra! segir hann[1], hvat þykkist þú nú mega at mèr finna? Konúngr svarar: þat ætla ek at eigi fæðist upp ljótari maðr enn þú ert. Slíkt verðr mælt, segir Hreiðarr, eðr er nökkut þat sem til fríðenda sè um mik, eptir því sem þú leggr ætlan á? Konúngr mælti: þat sagði Þórðr, bróðir þinn, at þú værir lundhægr maðr. Þat er ok satt, segir Hreiðarr, ok þykki mèr þat íllt er svâ er. Þú munt þó reiðast kunna[2], segir konúngr. Mæl heill, herra! segir Hreiðarr, eðr hversu lángt mun til þess? þat veit ek eigi víst, segir konúngr, helzt ætla ek at þat muni á þessum vetri atberast. Seg heill sögu! segir Hreiðarr[3]. Konúngr mælti: erþú nökkut hagr? Hreiðarr svarar: þat má ek eigi vita, þvíat ek hefi aldri reynt. Þat þætti mèr þó eigi úlíkligt, segir konúngr. Seg heill sögu! segir Hreiðarr, þvíat svâ mun satt[4] vera, ef þú segir þat; en vetrvistar þættumst ek þurfa. Konúngr svarar: heimult skal Þórði, bróður þínum, at vera með mèr við annan mann eðr þriðja, ef hann vill, en betr þykki mèr þèr hent at vera þar, sem heldr er mannfátt. Svâ má þat kalla í sumu lagi, segir Hreiðarr, en eigi mun svâ fátt manna,

[1]) sjái þèr nokkut til fríðinda á mèr eða, *b. v. H.* [2]) *v. í H.* [3]) svâ mun jafnt vera sem þú segir, *b. v. H.* [4]) jafnt, *H.*

at eigi komi þat upp sem mælt verðr, allra helzt ef athlægis er vert, en ek er maðr ekki borginorðr[1], ok ber mèr jafnan mart á góma; kann vera at þeir menn sem hjá mèr eru, þótt eigi sè margir, reiði orð mín úvitrlig fyrir alþýðu, ok spotti mik ok drepi út ferliga, þat er ek mæli eðr gerik til gamans; nú sýnist mèr hitt [eigi heimskligra[2], at vera heldr hjá þeim, sem um mik hyggr, sem er Þórðr, bróðir minn, þótt þar sè fjölmenni, heldr enn þar þótt menn sè fáir ok eingi til umbóta. Konúngr mælti: ráðþú þá, ok fari þið báðir bræðr til hirðar minnar, ef ykkr líkar þat betr. Þegar hljóp Hreiðarr brott, er hann heyrði þessi orð konúngs, ok sagði hverjum manni er á vildi hlýða, at hans för hefði allgóð vorðit á konúngs fund, ok einkanliga sagði hann Þórði, bróður sínum, at konúngr hafði leyft honum at vera með hirðinni um vetrinn. Þórðr mælti: þá skal þú búa þik sæmiliga at vâpnum ok klæðum, því at okkr skortir ekki til, ok skipast margr vel við góðan búníng, er ok hverjum manni vandara at búa sik í konúngs herbergi enn annarsstaðar, at hann verði eigi hleginn af hirðmönnum. Hreiðarr svarar: eigi ferrþú sjándi[3] eptir, ef þú ætlar, at ek láti skrúðklæði koma á minn búk. Þórðr mælti: skerum til klæða þèr vaðmál dugandi; nær er þat, segir Hreiðarr. Tók hann þá, at ráði Þórðar, góð vaðmáls klæði, ok dubb-

[1]) orðvarr, *M.* [2]) ráðligra, *H.* [3]) sjáandi, *H.*

aði sik vel, sýndist hann þegar allt öðruvís enn áðr, þó ljótr ok karlmannligr. En þó í fyrstu er þeir bræðr komu til hirðarinnar, sýndist konúngsmönnum úvizku mót á Hreiðari, ok varð hann fyrir miklu spotti ok áfángi af þeim, ok leituðu sèr marga vega við hann, bæði í hæðiligum orðum ok öðrum atvikum, en hann galt þeim allt slíkt í móti; en er þeir fundu at hann tók jafnan hlæjandi við gabbi þeirra, ok sigraði þá alla bæði í[1] margmælgi ok einkanliga í aflraunum, þá lèttu þeir af áleitni við hann.

27. En er þeir bræðr höfðu eigi lengi verit með hirð Magnúsar konúngs, þá bar svâ til at hirðmaðr Magnúsar konúngs hafði vegit hirðmann Haralds konúngs; þaðan af urðu sjálfir konúngar missáttir, var þá lagðr til sættarfundr, at konúngarnir sjálfir skyldu finnast ok skipa málinu; en er Hreiðarr heyrði sagt, at Magnús konúngr skyldi fara til móts við Harald konúng, þá gekk hann þegar fyrir konúng, ok mælti: nú er sá einn hlutr, er ek vil biðja þik, konúngr! Hverr er sá? segir konúngr. Þat, kvað Hreiðarr, at fara til sáttarfundarins, ek hefir ekki verit víðförull, síðan ek kom til yðvar, en mèr er mikil forvitni á, at sjá 2 konúnga í einum stað. Konúngr svarar: satt er þat, at þú ert ekki svâ víðför-

[1]) þolinmæði, b. v. H.

ull, en þó mun ek þèr þessa för eigi leyfa, þvíat þèr er ekki fellt at gánga í greipr mönnum Haralds konúngs, því vera má at þèr verði at því ólið eðr öðrum; þeir eru mjök áleitnir, ok sumir eigi góðgjarnir, er ek hræddr um, ef þú færr harðleikit af þeim, at þá sæki þik [reiðin, er þú kennir til[1], en mèr þætti gott, [ef viðbærist, svâ at hon kæmi eigi til þín[2]. Hreiðarr mælti: nú talaðir þú gott orð, konúngr! þá skal at vísu fara, ef ek veit þess vânir at ek reiðumst. Konúngr svarar: munþú fara, þótt ek banni þèr? Eigi at síðr, segir hann. Konúngr mælti: ætlar þú at þèr muni jafnt við mik at eiga, sem við Þórð, bróður þinn, þvíat þar hefir þú jafnan þitt mál? Hreiðarr svaraði: því öllu betra mun mèr við yðr at eiga, sem þèr eruð vitrari enn hann. Konúngr þóttist nú sjá, at ekki mundi tjá at letja hann, ok þótti eigi örvænt, at hann slægi sèr í föruneyti með öðrum mönnum, ef hann bannaði honum at fara með sèr, ok sýndist þá enn úhægra at veita honum umsjá, ef hann þyrfti nokkurs við; ok fyrir því leyfði konúngr honum at fara. Hreiðarr varð því feginn, var honum þá fenginn hestr til reiðar; en með því at hann var þúngr á baki, ok úvanr reiðum, þá kunni hann eigi betra hóf at ætla hestinum, enn hann hleypti

[1]) heim reiðin, sú er þú lángar mest til, *H.* [2]) at viðbærist at hon kæmi til þín, *H.*

svâ fyrir, at hestrinn var þegar þrotinn, er þeir voru skamt á leið komnir; en er konúngr varð þess varr, þá mælti hann: nú gefi[1] vel til, fylgi Hreiðari nú aptr til bæjarins, ok fari hann hvergi. Hreiðarr svarar: eigi heptir þetta ferð mína, þótt hestrinn sè þrotinn, kemr mèr til lítils mikill fráleikr, ef ek get eigi fylgt yðr; fóru þá margir menn til, ok lögðu framm hjá honum hesta sína, ok vildu reyna fráleik hans, er hann talaði sjálfr svâ kappsamliga um; en svâ lauk, at hann mæddi hvern hest, er frammi var lagðr, ok sátu margir fyrir þat af sínum hestum. En er þeir komu þar, sem konúngar skyldu finnast, mælti Magnús konúngr til Hreiðars: ver þú mèr nú fylgjusamr, ok gakk jafnan hit næsta mèr, þvíat mèr segir ekki lètt hugr um, hversu ferr, ef menn Haralds konúngs ná þèr. Hreiðarr lèt svâ vera skyldu, sem konúngr mælti: ok þykki mèr því betr, segir hann, sem ek er yðr nærri. Því næst fundust konúngar, ok töluðu sín mál tveir samt. Menn Haralds konúngs höfðu áðr heyrt sagt frá Hreiðari ok fávizku hans; þótti þeim um hit vænsta, er þeir sá hann þar kominn. En þegar konúngar tóku tal sitt, þá gekk Hreiðarr í flokk Haralds manna, ok heimtu þeir hann með sèr til skógar, er skamt var þaðan; þeir skaut-

[1]) ber, *H.*

toguðu hann mjök, en hrundu honum stundum; en þar lèk á ýmsu sem hann var, stundum fauk hann fyrir þeim sem hálmvisk, stundum var hann fastr fyrir sem veggr, ok hrutu þeir frá honum. En svâ dróst leikrinn um síðir, at þeir gerðu honum heldr harðleikit, ok lètu gánga honum öxarsköpt ok sverðskálpa, námu naddar af umgjörðum[1] í höfði honum, svâ at hann skeindist af; hann hló við, ok lèt sem honum þætti þetta hit mesta gaman. Ok er svâ hafði framfarit um hríð, tók leikrinn ekki at batna af þeirra hendi; þá mælti Hreiðarr: nú höfum vèr átt gaman ok góðan leik um stund, ok er nú mál at hætta, þvíat mèr tekr at leiðast [þessi rjá[2]; förum nú til konúngs yðvars, ok vil ek sjá hann. Þat skal verða aldri, sögðu þeir, svâ fjandligr maðr sem þú ert, at þú sjáir konúng vârn, heldr skulum vèr færa þinn úvin til heljar. Honum fannst þá fátt um, þóttist sjá at þeir ætluðu þessu framm at fara, sem þeir sögðu; var nú svâ komit, at honum rann í skap, ok reiddist hann; greip þá höndum þann þeirra, er mest sókti at honum, ok verst lèk við hann, varp hann þeim á lopt, ok færði niðr at höfðinu svâ hart, at heilinn lá þegar úti, ok var (hann) ðaudr; en þeir urðu hræddir, sem eptir voru, ok þótti hann varla menskr maðr at afli, stukku þeir allir á brott, ok fóru til Haralds

[1]) sverðskónum, *M.* [2]) *v. í M.*

konúngs, ok sögðu at drepinn var hirðmaðr hans. Hann svarar: drepið þá þann, er þat gerði. Hann[1] er eigi í hendi, sögðu þeir, hann er nú brottu. Þat er frá Hreiðari at segja, at hann fór, þegar þeir skildu, á fund Magnúsar konúngs[2]. Konúngr mælti: hvårt veizt þú nú, hvernig[3] er at reiðast? Já, segir hann, nú veit ek þat. Konúngr mælti: hvårt þótti þèr nú svå gott at reiðast, sem ek fann at þèr var mikil forvitni á? Hreiðarr svarar: íllt þótti mèr, ok þess var ek fúsastr[4] at drepa þá alla. Þat kom mèr beint í hug, sagði konúngr, at þú myndir illa reiðast; en þó er nú svå komit, at ek treystumst eigi, at þín verði gætt, ef þú ert með hirðinni, þá er vèr finnumst, þvíat Haraldr frændi er brögðóttr, ok er vant at sjá við ráðum hans. Nú vil ek fá þèr föruneyti, ok senda þik á Upplönd til lends manns míns, þess er Eyvindr heitir, at hann haldi þik fyrir Haraldi konúngi; kom þá til mín, er ek sendi þèr orð.

28. Hreiðarr fór nú þartil, er hann kom til Eyvindar, ok tók (hann) við honum eptir orðsendíng Magnúsar konúngs. Konúngar urðu vel ásáttir um hit fyrra vígit, ok var þat sett ok samit, en um mál Hreiðars kom ekki ásamt með þeim; beiddi Haraldr konúngr bóta fyrir hirðmann sinn, en Magnús konúngr sagði, at hans menn höfðu valdit upphöfum ok sökum

---

[1]) þat, *H.* [2]) ok sagði honum sitt efni, *b. v. H.* [3]) hve gott, *H.* [4]) búinn, *H.*

öllum; lèt því síðr þann bætanda, er veginn var, at hann kallaði þá alla hafa fyrirgert sèr, er í móti höfðu verit Hreiðari, þótt hann hefði alla þá drepit; skildu þeir at sinni við þat, at Magnús konúngr neitaði þverliga bóta fyrir manninn. Eigi liðu lángar stundir, áðr Haraldr konúngr varð viss, hvar Hreiðarr var niðrkominn; gerði hann síðan ferð sína, ok kom á Upplönd til Eyvindar með 60 manna. Þat var snemma um morgin, þvíat hann ætlaði at koma á úvart, en þat varð ekki svâ, þvíat Eyvindr þóttist vita, at Haraldr konúngr myndi leita eptir manninum; var hann á eingri stundu vanbúinn við hans kvâmu; kom honum þegar njósn um ferðir konúngs, er hann var norðan kominn; hafði hann stefnt at sèr mönnum í skóga, þá er nærr voru bænum, skyldi hann gera þeim mark til, ef hann þyrfti manna við. Þat er sagt einn dag nökkoro áðr Haraldr konúngr kom þar, at Hreiðarr bæði Eyvind fá sèr silfr nökkut ok gull. Eyvindr spurði, ef hann væri hagr. Hreiðarr svarar: þat sagði mèr Magnús konúngr, at ek myndi vera hagr, en ekki má ek annat til vita; þvíat ek hefir aldri viðleitat, en ek trúi því sem hann sagði, þvíat hann myndi vita. Eyvindr mælti: þú ert mjök undarligr maðr, nú mun ek fá þèr smíðarefni, en þú fá mèr aptr silfrit[1], ef smíðin únýtist, en [ellar njót sjálfr[2]. Hreiðarr var nú byrgðr í

[1]) jafnmikit, *H.* [2]) ella met smiðina, *H.*

einu húsi, ok var hann þar at smíðinni, en áðr enn algert yrði þat, er hann vildi smíða, kom þar Haraldr konúngr, sem áðr var sagt. Eyvindr tók blíðliga við konúngi, ok gerði honum góða veizlu; ok er þeir sátu við drykk, mælti Haraldr konúngr til Eyvindar: er nökkut sá maðr hèr, er Hreiðarr heitir? munþú hafa vináttu, ef þú selr oss þann mann framm nauðúngarlaust. Eigi er hann nú hèr, sagði Eyvindr. Ek sèr þat, segir konúngr, at hann er eigi hèr í stofunni, veit ek ok eigi síðr, at hann er í þínum herbergjum ok í þínu valdi, ok þarftu eigi þess at dylja. En þótt svâ sè, segir Eyvindr, þá geri ek ekki þann mun ykkarn Magnúsar konúngs, at ek selì þèr framm þann mann undir öxi, er hann bauð mèr at veita hald ok traust. Gekk Eyvindr þá út ör stofunni, en er hann kom at því húsi, er Hreiðarr var byrgðr í, þá brauzt hann á hurðina, ok kallaði at hann vildi á brott þaðan. Þegi þú! segir Eyvindr, Haraldr konúngr er hèr kominn, ok vill drepa þik. Hreiðarr brauzt út eigi at síðr, ok lèzt hitta vilja konúng. Eyvindr sá at hann myndi brjóta upp hurðina, ef hann væri eigi útlátinn; gekk hann þá til ok lauk upp ok mælti: gramir munu taka þik, er þú hrapar svâ til banans, at þèr má ekki viðhjálpa. Hreiðarr gekk inn í stofuna fyrir Harald konúng, ok kvaddi hann ok mælti síðan: herra! segir hann, takið af mèr reiði yðra, því at ek er þèr felldr fyrir margs

sakir, ef þú vill snúa þinni vináttu til mín; mun ek þá gera þat er þú vill (mik) tilsenda, þótt mannhætta þykki í vera. Nú er hèr einn gripr, er ek vil þèr gefa; ok setti hann á borðit fyrir konúng; þat var svín gert af silfri ok gyllt[1]. Þá mælti konúngr, er hann leit á svínit: þú ert hagr (maðr), svâ at trautt hefi ek sèð jafnvel smíðat með því móti sem er; fór þá svínit um stofuna, ok sýndi maðr manni, ok tala allir eitt um, at eigi þóttust hafa sèð þesskyns smíði fegra. Þá mælti konúngr: taka mun ek sættir af þèr, Hreiðarr! þykki mèr gott at senda þik til stórvirkja; þú ert maðr styrkr ok úfælinn, at því er ek hygg. Nú kom svínit öðru sinni aptr fyrir konúng, tók hann þá upp ok hugði at smíðinni enn vandligar, sá hann þá at þat var gyltr, ok spenar á; sá hann at þetta var gert til háðs við hann, fleygði hann þegar á brott svíninu, ok mælti: hafi þik allan tröll, ok standi menn upp, ok drepi hann! Hreiðarr greip svínit, ok mælti: hvat sè annars[2] enn ek hafi sjálfr grip mínn, ef þú vill eingu launa, konúngr! nema illu; kvað hann þegar úti annat orð, ok fór brott af bænum. Haraldr konúngr ok hans menn hlupu út eptir honum, ok ætluðu at drepa hann. Enn er þeir komu út, var þar fyrir Eyvindr með fjölmenni, svâ at þeir máttu ekki halda eptir Hreiðari. Skildu þeir Haraldr konúngr ok Eyvindr svâ, at kon-

[1]) gulli búit, *H.* [2]) þá annat, *H.*

úngi líkaði illa, en Hreiðarr lètti sinni ferð eigi fyrr, enn hann kom á fund Magnúsar konúngs; ok er þeir fundust, frètti konúngr, hversu farit hafði með þeim Haraldi konúngi; en Hreiðarr sagði til allt hit sanna, ok sýndi konúngi svínit. Konúngr mælti: harðla hagliga er þetta smíðat, ok hefnt hefir Haraldr konúngr, frændi vârr, mjök grimmliga minni háðúngar, enn í þessu er öllu saman, ok eigi erþú alláræðislítill, ok þó með öllu hugkæmr, ok aldri ætla ek at fífl muni svâ fara, hversu heimskliga sem þú lætr.

29. Hreiðarr var nú með Magnúsi konúngi um stund, ok einnhvern dag kom hann at máli við konúng, ok sagði svâ: þat vildi ek, konúngr! at þú veittir mèr þat, er ek mun biðja þik. Hvat er þat, segir konúngr? Þat, herra! segir Hreiðarr, vildi ek at þèr veittið mèr at hlýða kvæði því, er ek hefi ort um yðr. Þat vil ek veita þèr, segir konúngr. Hreiðarr flutti kvæðit, ok var þat nökkut stirt ok einrænligt öndvert, en því betr sem meirr leið upp á; ok er lokit var, mælti konúngr: þetta kvæði sýnist mèr undarligt, ok þó gott áðr lýkr; er þat mjök með þeim hætti, sem æfi þín mun vera, hon hefir fyrst verit með kynligu móti ok einrænligu, en hon mun snúast til betrunar sem upp líðr á; hèreptir skal ek velja kvæðislaunin. Hólmr einn liggr hèr fyrir Noregi, sá er ek vil þèr gefa, hann er vel grasi vaxinn ok gott

land, þótt eigi sè mikit. Hreiðarr mælti: þetta er vel gefit, sem vân var at yðr, þar skal ek samteingja með Noreg ok Ísland. Eigi veit ek hversu þat ferr, segir konúngr, hitt veit ek at margir menn munu búnir at kaupa at þèr hólminn, ok gefa þèr annat fè fyrir. Nú ætla ek þat bezt, at ek leysi til mín hólminn, at hann verði þèr eigi at gripdeildum, ok þeim sem kaupa vilja; allra helzt fyrir þá skyld, at þèr er ekki vel vært[1] hèr í landi fyrir Haraldi konúngi, þvíat auðsærr er þinn kostr, ef hann má ráða, sem hann mun ráða, ef þú dvelst hèr lángvistum. Gaf Magnús konúngr þá Hreiðari silfr fyrir hólminn, ok fór hann at ráði konúngs út til Íslands, ok bjó í Svarfaðardal, þar sem síðan heitir á Hreiðarsstöðum; fór um hans æfi sem Magnús konúngr gat, at hann þótti því röskvari, sem meirr leið á æfi hans, en hann hafði gert sèr at mestum hluta þau kynjalæti, er hann sýndist hálfffíl; bjó hann á Hreiðarsstöðum til elli, ok er mart manna frá honum komit; lýkr þar nú frá Hreiðari at segja.

30. Nú skal þar tiltaka, sem fyrr var fráhorfit, er þeir Sveinn Úlfsson ok Haraldr skildu í Danmörku; lá Svein eptir í svefni, þá er Haraldr hafði brott farit með lið sitt um nóttina; ok er Sveinn vissi brottferð Haralds, þá leiddi hann at spurníngum um farir hans. En er hann spurði at þeir Magnús konúngr ok Har-

[1]) fært, *H.*

aldr höfðu fundizt ok sæzt, ok þeir höfðu þá einn her báðir, þá hèlt hann liði sínu austr fyrir[1] Skáneyjarsíðu, ok dvaldist þar um stund; en er hann spurði at Magnús ok Haraldr höfðu haldit norðr í Noreg liði sínu, þá hèlt Sveinn liði sínu suðr til Danmerkr, ok tók þar allar konúngstekjur þann vetr.

31. En er vâra tók, buðu konúngar út leiðángri af Noregi, Magnús ok Haraldr. Svâ bar at eitt sinn, at þeir lágu í einni höfn, en um daginn eptir var Haraldr fyrri búinn, ok sigldi hann þegar, ok at kveldi lagði hann til hafnar, þar er þeir Magnús konúngr ætluðu at vera þá nótt; Haraldr lagði skipi sínu í konúngslægi, ok tjaldaði þar. Magnús konúngr sigldi síðarr um daginn, kom hann svâ til hafnar, at þeir Haraldr höfðu tjaldat ok umbúizt, sá þeir at Haraldr hafði lagt í konúngslægit, ok ætlaði þar at liggja. En er þeir Magnús konúngr höfðu hlaðit seglum sínum, þá mælti konúngr: setist menn nú til ára með endilöngum borðum á skipum vârum, ok greiði atróðrinn, sumir brjóti upp vâpn vâr; ok með því at þeir vilja eigi or læginu leggja, þá skulum vèr berjast. En er Haraldr konúngr sá, at Magnús konúngr ætlaði at leggja til orrosto við hann, þá mælti hann til sinna manna: höggvi festarnar, ok láti slá skipunum ör læginu, reiðr er Magnús frændi nú.

[1]) til, *H.*

Svâ var gert, sem hann mælti, ok lögðu þeir ör læginu, en Magnús konúngr lagði sín skip á[1] lægit. Þá er hvârirtveggju höfðu umbúizt, gekk Haraldr konúngr á skip Magnúsar konúngs með nökkura menn; Magnús konúngr fagnaði honum, ok bað hann velkominn. Þat hugði ek, segir Haraldr, at nú værim vèr með vinum komnir, en nökkut grunaði oss um hríð, hvârt þèr munduð svâ vera láta; en þat er satt, sem mælt er, at bráðgeð er bernskan, vil ek, frændi! þetta eigi öðruvís[2] virða, enn þetta væri æskubragð. Þá svarar Magnús konúngr: þetta var ættarbragð en eigi æsku, þótt ek mætti muna, hvat ek gaf, eðr hvers ek varnaði. Ef þessi litli hlutr væri tekinn fyrir vârt lof, þá mundi brátt tekit annat meira; en alla sætt viljum vèr við yðr halda, þá sem gjör var, ok þat sama viljum vèr af yðr hafa, sem oss var skilt. Þá svarar Haraldr konúngr, ok stóð upp: þat er ok forn orðskviðr, at jafnan vægir hinn vitrari; gekk hann þá aptr á skip sitt. Í slíkum viðskiptum konúnganna fanst þat á, at vant var at gæta til samþykkis þeirra; þvíat hvârra liðsmenn þokkuðu með sínum höfðíngja. Töldu menn Magnúsar konúngs, at hann hefði rètt at mæla; en þeir sem úvitrari voru, kölluðu Haraldi í þessu nökkura lægíng, ok [sögðu

[1]) í, *H.* [2]) öðruvíso, *venjuliga II.*

svâ vera eiga[1], at Magnús konúngr væri meira virðr í öllum hlutum. En sjálfir menn Haralds konúngs sögðu ekki öðruvís skilt með þeim, enn Magnús konúngr skyldi hafa konúngslægi, ef þeir kæmi jafnsnimma til hafnar, en Haraldr væri eigi skyldr at leggja ör læginu, ef hann lægi fyrir, töldu þeir Harald hafa af þessu máli snúit vel ok vitrliga; en þeir sem enn voru illgjarnir, sögðu Magnús konúng sýna frænda sínum újafnað í slíkum tiltekjum, ok vilja rjúfa sættir með rángindum. Við slíkar greinir gerðist góðgjörnum mönnum ok vitrum mikill uggr á um samþykki konúnganna, þvíat slíkt ok margir hlutir aðrir gerðust til þess, at sinn veg þótti hvârum, sem hèr er nökkut áðr af ritat.

32. Konúngarnir Magnús ok Haraldr höfðu mikit lið ok frítt, hèldu þeir her þeim suðr til Danmerkr; en er Sveinn spurði þat, þá flýði hann undan austr[2] á Skáney, en konúngarnir dvöldust lengi um sumarit í Danmörk, ok lögðu land allt undir sik. Þorgils hèt maðr, hann var kendr við móður sína, ok kallaðr Þorgils Birnuson, hann var skyldr at frændsemi Sveini Úlfssyni. Annar maðr er nefndr Þorkell geysa; þessir menn voru ríkastir útiginna manna í Danmörku með Sveini konúngi. Svâ bar til einn dag, at Magnús konúngr ok hans menn veittu uppgaungu, þar

[1]) *þannig H*; þat úfallit vera, *A*. [2]) vestr, *H*.

sem fyrir voru þeir menn, sem konúngr hafði þúngan hug á sakir útrúleika við sik; Haraldr konúngr var þá í öðrum stað með sitt lið. Þeir Magnús konúngr drápu marga menn í landgaungu sinni, en gerðu suma handtekna ok ráku í bönd; var þat snimma dags er þeir komu ofan til skipa sinna með 12 bandíngja. Þeir gengu þegar upp öðru sinni, ok talaði konúngr mikit um, at eigi skyldi leysa bandíngjana. Álfhildr, móðir konúngs, var þar með honum, ok er þeir voru á land gengnir, mælti konúngsmóðir til bandíngjanna: hverir eru þessir menn, eðr hvat heitir sá hinn fríði maðr, er mèr sýnist yðvar foríngi? Hann svarar eingu. Hon spurði, ef hann vildi þiggja líf. Eigi ætla ek, segir hann. Fyrir hví eigi? segir hon. Til þess koma fleiri hlutir enn einn, segir hann: sá er hinn fyrsti, at ek mun ekki vera trúr [Magnúsi konúngi, meðan þeir Sveinn konúngr lifa báðir ok eru missáttir[1]. Sá er annarr hlutr, at ek hygg, at eigi mun betri maðr til (verða) at veita mèr banaráð, enn Magnús konúngr, ok þó makliga; þvíat ek hefi jafnan verit í móti honum, ok er fám mönnum skaði um mik, þat helzt at ek á konu únga ok dætr, kann vera at þeim þykki heldr svipr í at missa mín. En þá er þat enn útalt, at konúngi mun mjök mislíka, ef ek er lauss látinn, en þat er úmak-

[1]) ok þikjumst ek þá eigi launa þèr lífgjöfina, eptir því sem ek ætta, *F.*

ligt, at þú fáir hans reiði fyrir mína skyld. Hon mælti: þat sè ek, at þú ert mikilsháttar maðr, ok skalþú at vísu lauss fara. Ek vil ok gjarna þiggja af þèr líf, konúngsmóðir! en vitja þú kunnliga Þorkels geysu, hvenær sem þú þykkist þess viðþurfa, eðr senda aðra menn til. Síðan lèt hon leysa þá alla 12, ok fara hvert er þeir vildu[1]. En er Magnús konúngr kom aptr til skipa, ok varð þessa varr, varð hann ákafa reiðr, ok mælti: þat eru firn mikil, erþú skalt brjóta boð mín, ok gera slíka úsæmd, eðr hygst þú betr kunna eðr vilja enn ek? Hon svarar: eigi vildi ek verr í þessum hlut enn þú, kann vera at eitthvert sinn þykki mèr þessu eigi misráðit. Konúngr mælti: margir menn eigu sínum feðrum gott at launa, ok eigi annarr betra enn ek um flesta hluti, en þó valdi hann mèr eigi gott móðernit. Hon svarar: ekki áttu hann um þat at kunna, þvíat velja mátti hann þat enn miðr; áttu þat meira at virða við mik, hversu ek hefi valit þèr faðernit. Skildu þau svâ sitt tal.

33. Svâ bar enn til öðru sinni, at báðir konúngar höfðu á land gengit at herja með miklu liði, í þeirri ferð tóku þeir mikit fè af þeim mönnum, er gengit höfðu undir Svein Úlfsson, þeir ráku þá marga menn fyrir sèr til skipa, ok settu í fjötra. Magnús konúngr gekk þá at

[1]) þvíat Þorkell vildi eigi líf þiggja, nema þeir væri allir leystir, *b. v. F.*

móður sinni, ok mælti við hana einmæli, hann sagði svâ: bið þú mik nú friðar, svâ at margir menn heyri, þeim manni, sem æztr er af bandíngjunum. Hon svarar: hví mun ek nú þora at biðja friðar fjandmönnum þínum, svâ illa sem þèr líkaði fyrr, er ek leysti þá, er þú hafðir hertekit. Konúngr mælti: ek vil nú eigi at eins þat uppgefa, heldr ok bæta þèr svâ þat, er ek talaði þá hart við þik, at veita þèr nú þessa bæn: þvíat eigi er víst, at þú njótir mín leingi hèðan af í þessum heimi, er þèr þá gott at leita þagat hjálpar, sem þú hefir áðr nökkut tilskyldat, þvíat lítt mun þú treystast mega umsjá Haralds konúngs, ef mín missir við. Snèri konúngr þá brott, en hon mælti með tárum, svâ at allir heyrðu, er nær voru: gjör nú fyrir mín orð, minn herra! gef líf ok frið þessum hinum merkiliga manni. Konúngr svaraði: þú skalt fyrir víst þiggja bæn þína, móðir! Var maðrinn þegar leystr, gekk sá maðr fyrir konúng, ok þakkaði honum lífgjöf, Síðan mælti hann til konúngsmóður: þú hefir sýnt mèr mikinn goðleik, utan alla mína tilstundan, þarfyrir ef þú kant þurfa nökkurrar liðveizlu eðr ásjá, þótt þat megi nú úlíkligt þykkja, þa leita þú kunnliga á fund þess manns, er heitir Þorgils Birnuson; fór hann brott eptir þat.

34. Þess er getit einn tíma at konúngar lágu báðir samt við land, þar sem skógr þykkr var nærr, ok einn slèttr völlr framm at sjónum

frá skóginum; þat var einn góðan veðrdag, at maðr reið fram ör[1] skóginum með ágætum riddarabúnaði, var þessi maðr hinn kurteisasti, ok rendi fagrliga sínum hesti eptir vellinum; eptir þat lèk hann marga íþróttliga fimleika með mikilli list, svâ at liðsmönnum konúnganna gaf á at sjá; en er hann hafði leingi leikit, þá snèri hann hesti sínum at skipaliðinu, ok mælti hátt: ek er níðíngr fyrir Magnúsi konúngi, ok svâ hit sama er Haraldr konúngr fyrir mèr, ok mjök eru þeir újafnir konúngar, Magnús ok Haraldr. Síðan snèri hann í skóginn, ok hvarf þar. Magnús konúngr kendi manninn ok mælti: frægðarmaðr er Sveinn Úlfsson, sagði hann, hefði hann lið at því hófi, sem hann er sjálfr frækn ok djarfr, þá myndi hann optarr sigr fá.

35. Konúngarnir lágu lengi við Jótland um haustit[2], þat var eina nótt er Magnús konúngr lá í hvílu sinni, at hann dreymdi; hann þóttist þar staddr, sem var hinn heilagi Ólafr konúngr, faðir hans, ok þótti honum hann mæla við sik: hvârn kost vill þú heldr, son minn! at fara nú með mèr, eðr verða allra konúnga ríkastr, ok lifa leingi, ok gera þann glæp, at þú fáir annathvârt bætt trautt eðr eigi. Hann þóttist svara: ek vil, faðir! at þú kjósir fyrir mína hönd. Þá skalþú nú með mèr fara, segir Ólafr konúngr. Magnús kon-

[1]) af, *H.* [2]) sumarit, *H.*

úngr vaknaði, ok sagði drauminn mönnum sínum, ok brá flestum sú sögn heldr í brún. Litlu síðar var þat einn morgin snemma, er Magnús konúngr lá í lyptíngu á skipi sínu, at hann varp af sèr klæðum heldr mæðiliga, ok rauk af honum; Einar þambarskelfir var þar hjá honum, ok mælti: erþú sjúkr, herra? Lítt er ek enn sjúkr, fóstri minn! sagði konúngr. Þat er oss harmr mikill, segir Einar, ok munu [vinir þínir[1] þess aldri bætr bíða, ef[2] þín missir við. Konúngr mælti: látþú, fóstri minn! gera hvílu mína í fyrirrúminu út við borðit, þar mun hægra ok svalara; svâ var gert; en er hann var þar kominn í sængina, mælti hann mæðiliga: ekki tjár þetta, færi mik aptr í sama stað; ok svâ var gert. Þá mælti Einar: mælþú, herra! fyrir vinum þínum, þat er nauðsyn [er til[3], ok ráð oss heilræði, kann vera at nú verði eigi lángt vort samtal. Svâ skal vera, vinr! segir konúngr, þvíat þat er líkast at sjá sótt skilì brátt vâra samvistu ok fèlagskap. Þá kom þar Haraldr konúngr, ok spurði: eru þèr sjúkir, herra? Magnús konúngr svarar: sjúkr er ek víst, frændi! vil ek yðr þess biðja, at þèr sèð vinir minna vina. Skylt er þat fyrir yðrar sakir, segir Haraldr konúngr, en þó þykkjast þeir sumir sèr einir ærnir, [en mèr[4] nökkut ofskynja. Þá mælti Einar: þetta mun lítit tjá

[1]) vær, *H.* [2]) þèr verðr nokkut, eða, *b. v. H.* [3]) boðar, *H.* [4]) oss, *H.*

at ræða, mun hann áðr ráðit hafa, hverju sem hann heitr nú. Haraldr mælti: er eigi þat ok makligast, ok mèr allra skyldast, at ek sè vinr minna vina[1]? Einar mælti: tali þèr, herra Magnús konúngr! þat er meira liggr við, um ríkin hversu fara eiga. Þá svarar Magnús konúngr: þat ráð legg ek til, Haraldr frændi! at þú snúir aptr til[2] Noregs, ættjarðar þinnar, ok gæt hennar; þvíat svâ var mælt með okkr Hörðaknúti, at Danaveldi myndi ekki í ætt hverfa, ef þat yrði mitt ríki, svâ ok ef Noregr yrði hans, hafi því nú Sveinn konúngr Danmörk. Haraldr konúngr svarar: slíkt þykkist ek eiga Danmörk sem Noreg, ef þín missir við. Magnús konúngr mælti: sè ek nú, at til lítils mun koma vâr umræða. Haraldr konúngr mælti: hversu mikit er eptir gulls þess hins mikla, er vèr fluttum í land, ok þèr þáguð hálft af oss? Magnús konúngr mælti: lít hèr á borðin, er skiput eru góðum drengjum ok ágætum, þessum hefi ek gefit gullit, haft þarímót af þeim ást ok hollostu, ok er betra lið ok dygð eins góðs drengs enn mikit fè. Eptir þat gekk Haraldr á brott. Þá mælti Einar: gjör nökkut ráð, herra! fyrir Þóri bróður þínum, litla sæmd

[1]) Magnús konúngr mælti: svâ mun vera, frændi! sem þú villt, en eigi þætti mèr ómakligt, þótt þèr gjörðut nokkut fyrir mín orð, þat er yðr samir svâ nokkut vel sem þetta. Haraldr konúngr svarar þá öngu, *b. v. F.* [2]) *hèr vantar blað í M.*

mun Haraldr honum veita, bezta kosti at hann nái at halda lífinu. Kom þá Þórir þar, ok sá maðr með honum, er Refr hèt. Konúngr mælti til þeirra: gángið nú af skipum í skóginn, eigi mun lángt líða, áðr lúðrar munu viðkveða, skulu þið þat hafa at marki, at þá mun vera andlát mitt. Farið síðan sem skjótast til fundar við Svein konúng, berið honum [orð mín[1], at hann taki við þèr, bróðir, sem hann myndi vilja, at ek tæki við hans bróður, ef hann sendi til mín á deyjanda degi[2]. Þórir mátti ekki mæla við konúng fyrir harmi. Þá mælti enn Magnús konúngr: þat skulu þið ok segja Sveini konúngi, at ek gef honum allt Danaveldi, ok hann skal þat hafa ok halda hèðan af at frjálsu fyrir hverjum manni. Gengu þeir Þórir þá á land ok í skóginn, ok biðu þar þeirra tíðinda, er gerðust.

36. Í þenna tíma kom þar, ok gekk upp á konúngsskipit, [sá maðr, sem fyrr er getit[3], Þorsteinn Hallsson[4], hann var þá nýkominn af Róma. Þorsteinn kom svâ[5] á fund Magnúsar konúngs, at hann hafði miðlat ok gefit vinum sínum flest allt fè, ok gripi þá er lausir voru. Þorsteinn mælti, þá er hann hafði heilsat konúngi: herra! sagði hann, eigi mun nú verða slikr fagnaðr á vârum fundi, sem ek hafði tilhugat, því at mèr sýnist sem skjótr muni verða

1) kveðju mína, *H.* 2) segið honum eigi í fyrstu andlát mitt, heldr sótt mína, *b. v. F.* 3) *v. í F, H.* 4) Síðu-Hallsson, *H.* 5) fremi, *b. v. H.*

ok hryggiligr vârr skilnaðr; nú mun ek eigi beiða yðr fjár, en þat vildi ek at þèr gefit mèr nafn yðvart. Konúngr svarar: góðra hluta erþú frá mèr verðr, þorsteinn! erþú mikilsháttar maðr, ok allvel ann ek þèr nafns þessa, at þú gefir þínum syni. En þótt ek hafi verit lítilsháttar konúngr, þá munu þat sumir menn mæla, at þat sè nökkur svâ djörfúng útignum manni at bera nafn mitt; en þvíat ek sè, at þú biðr þessa með ást ok áhyggju, þá vil ek at vísu gefa þèr nafn mitt, en þat segir mèr hugr um, at á nafni þessu mun liggja harmr með tign.

37. Litlu fyrir andlát Magnúsar konúngs kom Haraldr konúngr enn til hans, ok settist niðr nærr honum, þá leið lítill svefnhöfgi á Magnús konúng, við þann höfga opnaðist muðr hans, ok sýndist mönnum sem fiskr rendi ör munni hans, ok hafði gullslit, ok þegar vildi fiskrinn aptr renna í munninn, en náði eigi, veik hann sèr þá í munn Haralds konúngs, ok sýndist mönnum sem þá væri fiskrinn dökkr álits; þvínæst vaknaði Magnús konúngr, ok var honum sagðr þessi fyrirburðr; en hann svarar: þetta mun vera fyrir skamlífi mínu, ok kann vera, at nökkurum verði myrkari eðr kaldari ráð Haralds konúngs enn mín. Síðan vâttaði hann enn af nýju, at hann gaf Haraldi konúngi allt Noregs ríki, en Sveini Danaveldi; eptir þat komu til hans kennimenn, ok veittu honum

fagrliga þjónustu. Síðan mælti hann til skósveins síns: hefi ek nökkut minnzt þín? Ekki, herra! segir sveinninn. Konúngr rètti þá til hans kníf ok belti, þat var hvártveggja gersemi; en er sveinninn tók við gripunum, þá leit hann til konúngs, ok var hann þá beint í andláti; þat fèkk sveininum svâ mikils, at hann fèll í öngvit, en er hann vitkaðist, þá voru brottu gripirnir, svâ at hann sá þá aldri síðan.

25/10 1047

38. Magnús konúngr andaðist þrim nóttum fyrir messudag[1] Símónis ok Júdê, þegar hann var andaðr kváðu við lúðrar; þat heyrðu þeir Þórir, þar sem þeir voru í skóginum, þóttust þá vita at vísu andlát konúngs; þarmeð heyrðu þeir mannamál á skóginum hjá sèr, þeir sögðu svâ: hèr voru þeir nú beint áðan; því næst flugu örvar nærr þeim, þaðan af þóttust þeir vita, at Haraldr konúngr hafði sent til menn á skóginn at drepa þá; stukku þeir undan ok forðuðu sèr, fóru síðan þartil er þeir fundu Svein konúng [austr á Skáni. Hann byrjaði þá ferð sína austr í Svíaveldi, ok ætlaði at gefa upp tignarnafn þat, er hann hafði tekit, var hann þá kominn til hests síns[2], er þeir Þórir fundu hann. Þórir mátti ekki mæla við konúng, en konúngr fann þegar, er hann sá þá, at þeir myndo stórtíðindi hafa at segja, ok

[1]) apostólórum, *b. v. H.* [2]) var hann þá enn eigi brutt or Danmörk, þeir fundu hann hjá ánni Helgu, ok var þá kominn á hest sinn, *frá* [ *F.*

mælti: hver eru tíðindi með Norðmönnum? Þá svaraði Refr, förunautr Þóris, ok sagði honum andlát Magnúsar konúngs, ok þarmeð ummæli hans á síðustu stundu, at hann gaf Sveini allt Danaveldi með orðsending til viðtöku Þóris, bróður síns; flutti Refr drengiliga og djarfliga mál Þóris, ok tjáði konúngi harm hans ok missu í fráfalli Magnúsar konúngs. Þá svaraði Sveinn konúngr mjök áhyggjusamliga: þetta eru mikil tíðindi, segir hann, skalþú, Þórir! með oss velkominn, ok þèr skulum vèr veita mikinn sóma, þvíat ek trúir, at svâ myndi gera hinn góði konúngr Magnús við minn bróður, ef slíkt[1] hefði til handa borit; ok því skýt ek til guðs, at aldri síðan, meðan ek lifi, skal ek flýja Danmörk. Stè hann þá á hest sinn, ok reið upp á Skáni; dreif þegar mikit lið til hans, er sannspurt var andlát Magnúsar konúngs, lagði Sveinn konúngr undir sik þann vetr allt Danaveldi, tóku þá allir Danir hann til konúngs. Þórir var með honum í hinni mestu virðíng, sem hann hafði heitit honum, en hann undi nær eingu, ok lifði eigi leingi.

39. Álfhildr[2], móðir Magnúsar konúngs, var mjök harmþrúngin eptir andlát hans, sem vân var; hon lèt flytja sik á land, ok fèkk sèr föruneyti, fór hon fyrst á fund Þorkels geysu, tók hann við henni allfeginsamliga, dvaldist hon þar; en er leið at jólum um vetrinn, úgladd-

[1]) svá, *H*. [2]) Ulfhildr, *rángt H*.

ist hon enn meirr enn þartil. Þorkell gekk at henni ok mælti: gjarna vildim vèr at þú værir glöð, konúngsmóðir! þvíat vèr skulum allt gera til þín, sem vèr kunnum bezt. Allvel gerir þú, sagði hon, en mik minnir þeirra jólanna, [er voru[1] í fyrra vetr, ef ek skal drekka nú með útignum mönnum jólin. Þat er vârkunn, segir hann, ok ef þú fýsist á fund Sveins konúngs, þá mun ek fylgja þèr þagat, þvíat ek væni at hann muni vel við þèr taka. Þat þiggr hon, ok tók konúngr við henni allblíðliga; var hon síðan í góðu yfirlæti þar; þat er sagt, at hon gaf Sveini konúngi ágætan skutil, allan gullbúinn ok settan dýrum steinum.

40. Magnús konúngr var allmjök harmdauði allri alþýðu[2]; hann hafði verit meðalmaðr á vöxt, rèttleitr ok ljóslitaðr, ljósjarpr á hár, snjallmæltr ok skjótráðr, stórlyndr ok hinn mildasti af fè, hermaðr mikill ok hinn vâpndjarfasti ok sigrsælsti; allra konúnga var hann vinsælstr, svâ at bæði lofuðu hann vinir ok úvinir. Þegar eptir andlát hans hafði Haraldr konúngr þíng við bændr, sagði mönnum ætlan sína, at hann ætlaði at fara til Vebjarga, eiga þar þíng, ok láta sik taka til konúngs yfir allt Danaveldi, ok vinna síðan landit, taldi þat jafnvel[3], sína erfð sem Noreg,

[1]) sem ek átta, *H.* [2]) allra helzt er ekki lifði eptir hann nema ein dóttir, var hon þá á únga aldri, er Ragnhildr hèt, *b. v. F.* [3]) jafnt, *H.*

bað hann liðit hvártveggja efla sik, lèt hann þess vân, ef þeir fengi nú unnit Danmörk undir sik, at allan aldr síðan myndi Norðmenn vera yfirmenn Dana. Þá svarar Einar þambarskelfir máli konúngs, sagði sèr miklu skyldara at flytja lík Magnúsar konúngs, fóstra síns, til graptrar, ok færa hann feðr sínum, hinum heilaga Ólafi konúngi, en berjast utanlands með Haraldi konúngi, þótt hann ágirndist annars konúngs ríki ok eign. Lauk Einar svâ sínu máli, at honum þótti betra at fylgja Magnúsi konúngi dauðum, enn nökkörum konúngum öðrum lifanda. Lèt hann síðan taka líkit ok búa um vegliga á konúngsskipinu, ok setja svâ hátt at vel mátti sjá umbúnaðinn af öðrum skipunum; bjuggust þá allir Þrændir ok margir aðrir Norðmenn til heimfarar með líki Magnúsar konúngs, ok raufst allr leiðángrinn. Sá Haraldr þá sinn kost vænstan, at fara aptr til Noregs, ok eignast fyrst þat ríki, sem hann var ættborinn[1] til; eflast síðan þaðan at liði, þá er tími væri til; hèlt hann þá sunnan til Víkrinnar, átti þar borgarþíng[2], ok lèt bændr sverja sèr land allt; fór hann svâ austan at þíngum, þartil er hann kom norðr í Þrándheim, var hann til konúngs tekinn á hverju þíngi yfir land allt.

41. Einar þambarskelfir með öllum Þrænd-

[1]) óðalborinn, *H.* [2]) Borgundarþíngi, *F.*

aher fór með líki Magnúsar konúngs, þeir komu við Sámsey, ok lágu í þeirri höfn, sem Magnús konúngr var vanr optliga at liggja, þá er hann fór suðr eðr sunnan. Þar í eyjunni var einn blindr maðr fátækr, er konúngr hafði jafnan mikla hjálp veitt í ölmösugerðum fyrir guðs ást, þá er hann kom þar við; hinn blindi maðr varð varr við um kveldit, at mörg skip voru komin við eyna; lèt hann leiða sik til strandar, kallaði hann ok spurði, hverr æztr maðr væri á skipum þeim. Einar svarar: Magnús konúngr Ólafsson, sagði hann. Hinn blindi maðr mælti: mun konúngr nökkut nú minnast vilja, at hugga mitt fátæki, sem hann er vanr? Einar svarar: eigi er svâ viðvaxit; konúngrinn er andaðr. Þá komst mjök við hinn vâlaði, svâ at hann mátti leingi eigi orði uppkoma fyrir harmi; en er af honum leið óhugrinn, mælti hann: hversu mun yðr nú umgefit, Einar! munu þèr nökkura ölmösu vilja mèr gera fyrir guðs sakir, ok ydvarrar mikilmensku, ok minnast svâ góðgernínga Magnúsar konúngs, eðr mun nú skulu vera niðrfallin öll hugganarvân minnar eymdar? Einar svaraði: víst skal þín minnast; kvað hann þá á, hversu mikinn mat honum skyldi gefa af hverju skipi, var þat allt saman stórmikil vist; lèt Einar færa honum á land upp. Þá mælti hinn blindi maðr: nú hefir þú,

Einar! sýnt stórmensku þína [sem jafnan[1], ok er mèr þetta mikil hjálp, en þó vildi ek enn beiða þik, ef nökkurr lítill hlutr er sá, er Magnús konúngr hefir átt, at þèr gæfið mèr til hugganar ok minníngar. Einar svarar: svâ skildist Magnús konúngr við þetta líf, at ek ætla at miðlaðir væri flestir gripir í gulli ok silfri ok klæðum, ok eigi veit ek hvârt nökkut mun eptir; tók hann þá í púng[2] sinn, ok fann þar eitt lítit fíngrgull, ok lèt fá honum, en hann varð grátfeginn, hèlt hann gullinu upp við augu sèr, ok hrundu tárin á kinnr honum ok á gullit. Hann mælti þá grátandi: gott sagði mèr hugr um, ef ek næði nökkurum minjum Magnúsar konúngs, hefir mèr nú ok at því vorðit; þèr veittuð mèr mikla hjálp í yðru framlagi, en konúngrinn hefir þó veitt mèr meiri miskun, svâ at ek mun aldri hèðan af þurfa tilstoða annarra manna, at fá mèr [3] lífsbjörg; svâ leingi sem ek hefi blindr verit, þá er ek nú vorðinn skygn báðum augum. Einar gekk þá á land ok fjöldi manna, ok sá at þetta var satt; vurðu allir ástvinir konúngs fegnir þessum atburð, hvârt sem guð hafði þetta gert fyrir góðleik Magnúsar konúngs, eðr heilagleik Ólafs konúngs, föður hans; fóru þeir síðan með líkit norðr til Þrandheims. Þá var[4] kveðit um ferð þeirra:

---

[1]) við mik sem marga aðra, *H.* [2]) púss, *F.* [3]) til stoða, *b. v. H.* [4]) þetta, *b. v. H.*

Nú fara heim í hûmi
herkunn fyrir lög sunnan
daprar skeiðr með[1] dauðan
dýrnenninn gram þenna;
öld hefir illa haldit
era stríðvana[2] síðan
hulit hafa hirðmenn skylja
höfut [þat er fremst var jöfra[3].

En er þeir komu inn til Niðaróss, gekk allr bæjarlýðr móti líkinu, var sú líkferð gjör með allri virðíngu; var lík Magnúsar konúngs þar jarðat at [Klemenskirkju[4], þar var þá ok varðveitt skrín hins heilaga Ólafs konúngs; margr hraustr drengr stóð grátandi yfir greptri Magnúsar konúngs, ok báru síðan lángan trega af hans fráfalli, sem Oddr kikína skáld segir:

Feldu menn, þá er mildan
mörg tár, í gröf báru,
þúng byrðr var sú, þeingil,
þeim er hann gat[5] seima;
deildist hugr svâ at hreldu[6]
húskarlar grams varla
siklíngs þjóð en síðan
sat opt hnípin vatni.

Einn dag gekk Oddr skáld úti í hryggum hug,

---

1) fyrir, *F.* 2) stríðvaða, *F.* 3) þess er fremstr er jöfra, *F.* 4) Krists kyrkju fyrir utan kór, en nú er þat fyrir innan kór fyrir rúmi erkibiskups, *F.* 5) gaf, *F*, *H.* 6) hèldust, *F*; hèldu, *H.*

hann var spurðr, hversu hann mætti; Oddr svarar ok kvað:

Má ek[1] sízt Magnúss æfi
móðsíkins[2] þraut góða
Odd hafa stríð of staddan
stillir harða[3] illa;
hvarfla ek hvers manns þurfi
[harmr strángr fær mèr[4] ángrat,
þjóð er at dögling dauðan
döpr, því förum[5] vèr aprir.

Þessi tíðindi öfluðu alþýðu manna í Noregi mikillar hrygðar, sem áðr er sagt; var þat ok mikill harmsauki ástvinum Magnúsar konúngs, er hans afspringr lifði eingi eptir, nema ein dóttir á úngum aldri, er hèt Ragnhildr; ok lýkr nú hèr at segja frá Magnúsi konúngi góða, syni Ólafs konúngs hins helga.

42. Haraldr konúngr kom þenna vetr sem nú er frásagt til Noregs, ok er hann kom inn til bæjar, lèt hann stefna Eyraþíng, var honum þar sem annarsstaðar gefit konúngsnafn yfir öllu landi, gerðist hann þá einvaldshöfðíngi yfir öllum Noregi; sat hann þann vetr norðr í Þrándheimi. Halldórr Snorrason hafði verit út í Miklagarði með Haraldi, sem áðr er sagt, ok kom í Noreg með honum austan ör Garðaríki; hafði hann þá mikla sæmd ok virðíng af Haraldi konúngi, var hann með kon-

1) því, *b. v. F.* 2) móðsíkíngs, *F.* 3) harðla, *F, H.* 4) hvarmstrángaðan mann, *F.* 5) vorum, *H.*

úngi þenna vetr, er hann sat í Kaupángi. En er áleið vetrinn, ok vâra tók, bjuggu menn kaupferðir sínar snemma; þvíat náliga hafði eingi eðr lítill verit skipagángr af Noregi, fyrir sakir úfriðar ok aga þess, sem verit hafði milli Noregs ok Danmerkr. En er áleið vârit fann Haraldr konúngr at Halldór Snorrason úgladdist mjök; konúngr spurði einn dag, hvat honum bjó í skapi. Halldór svarar: út fýsir mik til Íslands, herra! Konúngr mælti: margr myndi þó heimfúsari verit hafa[1], hvar eru fararefnin, eðr hversu versk[2] fènu? Hann svarar: skjótt ætla ek at verja, þvíat ekki er til nema ígángsklæði mín. Lítt er þá launuð laung þjónosta ok margr háski, ok skal ek fá þèr skip ok áhöfnina; skal faðir þinn sjá mega, at þú hefir mèr eigi til eingis þjónat. Halldór þakkaði konúngi gjöfina. Fám dögum síðarr fann [Halldór konúng[3], ok spurði konúngr hversu mjök hann hefði ráðit sèr skipverja[4]. Hann svarar: allir kaupsveinar hafa sèr ráðit áðr skipan, en ek fær einga menn, ok því ætla ek at eptir mun verða at vera skip þat, er þèr gáfuð mèr. Konúngr mælti: eigi er þá vinveitt gjöfin, ok skulum við enn bíða, (ok vita) hvat örráðist um háseta. Annan dag eptir var blásit til móts í bænum, ok sagt at konúngr vildi tala við bæjarmenn ok kaupmenn; konúngr kom seint til

1) eðr, *b. v. H.* 2) verst, *H.* 3) konúngr Halldór, *H.*
4) háseta, *H.*

mótsins, ok sýndist með áhyggju svip, þá er hann kom; hann mælti: þat heyrum vèr sagt at úfriðr muni kominn í ríki vârt, austr í Vík, ræðr Sveinn Danakonúngr fyrir Danaher, ok vill oss vinna skaða, en vèr viljum með eingu móti uppgefa [vâr lönd[1]; fyrir því leggjum vèr bann fyrir hvert skip, at ör landi fari, fyrr enn ek hefi slíkt sem ek vil af hverju skipi, bæði af liði ok vistum, nema einn knörr eigi mikill, er á Halldór Snorrason, skal gánga til Íslands; en þótt yðr þykki þetta nokkut strángt, er áðr hafið búit ferðir yðrar, þá berr oss nauðsyn til slíkra álaga, en betra þætti oss, at um kyrt væri at sitja, ok færi hverr sem vildi; eptir þat sleit mótinu. Litlu síðar kom Halldór á konúngs fund; konúngr spurði, hvat þá liði um búnaðinn, hvârt hann fengi nökkura háseta. Halldór svarar: helzti marga hefir ek nú ráðit, þvíat miklu fleiri[2] koma nú til mín, ok beiða fars, enn ek megi öllum veita, ok veita menn mèr mikinn atgáng, at drjúgum eru brotin hús til mín, svâ at hvârki nótt nè dag hefi ek ró fyrir ákalsi manna hèrum. Konúngr mælti: haltu nú þessum hásetum, sem þú hefir tekit, ok sjám enn hvat ígerist. Næsta dag eptir var blásit[3], ok sagt at konúngr vill enn tala við kaupmenn; nú var eigi sein atkoma konúngs til mótsins, þvíat hann kom í fyrsta lagi, var

[1]) land vârt, *H.* [2]) fléri, *H.* [3]) (til) móts, *b. v. H.*

hann þá blíðligr í yfirbragði[1]; hann stóð upp ok mælti: nú[2] eru góð tíðindi at segja, þat er ekki nema upplost ok lýgi, er þèr heyrðuð sagt um úfriðinn fyrra dag; viljum vèr nú leyfa hverju skipi ör landi at fara, þagat sem hverr vill sínu skipi halda, komið aptr at hausti, ok færið oss gersimar, en þèr skuluð hafa af oss í móti gæði ok vingan. Allir kaupmenn, er þar voru, vurðu þessu fegnir, ok báðu hann tala konúnga heilstan. Fór Halldór til Íslands um sumarit, ok var þann vetr með föður[3] sínum; hann fór útan eptir um sumarit, ok þá enn til hirðar Haralds konúngs, ok er svâ sagt, at Halldór var þá eigi jafnfylginn konúngi sem fyrr, ok sat hann eptir [um aptna[4], þá er konúngr gekk at sofa.

43. Maðr hèt Þórir englandsfari, ok hafði verit hinn mesti kaupmaðr ok leingi í siglíngum til ýmisra landa, ok fært konúngi[5] gersimar; Þórir var hirðmaðr Haralds konúngs, ok þá mjök gamall. Þórir kom at máli við konúng ok mælti: ek er maðr gamall, sem þèr vitið, ok mæðumst ek mjök, þykkjumst ek nú eigi tilfærr at fylgja hirðsiðum, minni at drekka, eðr um aðra hluti, þá sem tilheyra, mun nú annars leita verða, þótt þetta sè bezt ok blíðast at vera með yðr. Konúngr svarar: þar er okkr hægt til örráða, vinr! ver með hirðinni, ok drekk

[1]) viðbragði, *H.* [2]) er eigi sem fyrr, *b. v. H.* [3]) frændum, *H.* [4]) opt á kveldum, *H.* [5]) *þannig H*; konúngum, *A.*

ekki meira enn þú vill í mínu leyfi. Bárðr hèt maðr upplenzkr, góðr drengr ok ekki gamall, hann var með Haraldi konúngi í miklum kærleikum, voru þeir sessunautar, Bárðr, Þórir ok Halldór; ok eitt kveld, er konúngr gekk þar fyrir, er þeir sátu ok drukku, í því bili gaf Halldór upp hornit, þat var dýrshorn mikit ok skygt vel; sá gjörla í gegnum, at hann hafði drukkit vel til hálfs við Þóri, en honum gekk seint af at drekka; þá mælti konúngr: seint er þó menn at reyna, Halldór! segir hann, er þú níðist á drykkju við gamalmenni, ok hleypr at vændiskonum um síðkveldum, en fylgir eigi konúngi þínum. Halldór svarar eingu; en Bárðr fann at honum mislíkaði umræða konúngs. Fór Bárðr þegar um myrgininn snimma á fund konúngs; þó erþú nú árrisull, Bárðr! segir konúngr. Er ek nú kominn, kvað Bárðr, at ávíta yðr, herra! þèr mæltuð illa ok úmakliga í gærkveld til Halldórs, vinar yðvars, er þèr kenduð honum, at hann drykki sleitiliga; þvíat þat var horn Þóris, ok hafði hann unnit[1], ok ætlaði þá at bera til skaptkers, en Halldór tók við, ok drakk fyrir hann meirr enn til hálfs; þat er ok hin mesta lygi, er þèr sögðuð, [at hann færi[2] at lèttlætiskonum, en kjósa myndi vinir hans, at hann fylgdi yðr fastara. Konúngr segir, at þeir Halldór myndi þetta mál

[1]) *hèr kemr M aptr við.* [2]) *v. í H.*

semja með sèr, þá er þeir fyndist. Bárðr fór þá á fund Halldórs, ok sagði at konúngr talaði góð orð til hans, sagði einsætt at hann gæfi sèr ekki um, þótt konúngr kastaði slíkum orðum framm með eingri alvöru; átti Bárðr hinn bezta hlut at með þeim. Leið þá svâ framm, at fæð var á með þeim konúngi ok Halldóri. En er kom at jólum, þá voru víti uppsögð, sem siðr var til; ok einn morgin um jólin var breytt hríngíngum, gáfu kertisveinar klokkarum fè til at hríngja miklu fyrr enn vant var; varð Halldór víttr ok fjöldi annarra manna, settust þeir í hálm um daginn, ok skyldu drekka vítin. Halldór sat í rúmi sínu, en þeir færðu honum eigi at síðr vítið, hann sagðist eigi drekka mundu; var þat sagt konúngi; þetta mun eigi satt, segir konúngr, ok mun hann viðtaka, ef ek færi honum; tók hann þá vítishornit, ok gekk at Halldóri með; hann stóð upp í móti konúngi; konúngr bað hann drekka vítið. Halldór svarar: ek þykkjumst ekki víttr því heldr, þótt þèr setìð brögð til, ok breytið hríngíngum, til þess eins at gera mönnum víti. Konúngr mælti: þó munþú nú drekka verða vítið eigi síðr enn aðrir menn. Vera má þat, segir Halldór, at þú komir því á leið, konúngr! at ek drekki víti þetta, en eigi myndi Sigurðr sýrr nauðga Snorra goða [til slíkra hluta, ef hann vildi eigi[1]; tók hann þá við horninu ok

[1]) at drekka, nema hann vildi, *H.*

drakk af, en konúngr reiddist mjök, ok gekk til rúms síns. En er kom átti dagr jóla, þá var mönum gefinn máli, þat silfr var kallat Haraldsslátta, þat var meiri hluti kopar[1], en er Halldór tók málann, hafði hann í möttulskauti sínu, ok leit á, ok sýndist honum eigi skírt málasilfrit, laust undir neðan annarri hendinni, ok fór silfrit í hálm niðr. Bárðr mælti: nú fór þú illa með, mun konúngr þykkjast svívirðr, er únýtt er málagjöf hans Halldór svarar: ekki má fara at slíku, litlu hættir nú til.

44. Eptir jólin lèt konúngr búa skip sín, ok ætlaði suðr með landi, en er konúngr var mjök búinn, þá bjóst Halldór ekki. Bárðr spurði, hví hann byggist eigi. Þvíat ek ætla hvergi at fara, segir Halldór, ek sè þat at konúngr þokkar ekki mitt mál. Hann mun þó vilja at vísu, segir Bárðr, at þú farir. Gekk Bárðr þegar á konúngs fund, ok segir honum at Halldór bjóst ekki: máttu svâ ætla, segir hann, at vanskipaðr mun þèr verða stafninn í stað hans. Seg honum svâ, at ek ætla, segir konúngr, at hann skyli mèr fylgja, ok þat með, at fæð sjá er ekki af alvöru, sem með okkr er um hríð. Bárðr hitti Halldór, ok segir at konúngr vildi [eingum kosti láta hans þjónöstu, ok með hans fortölum[2] bjóst Halldór ok fór með konúngi. Einhverja

[1]) þat bezta kosti at veri helmings silfr, *b. v. M.* [2]) vill fyrir eingan mun missa hans föruneyti, ok fyrir hans orð, *H.*

nótt, er þeir sigldu[1], mælti Halldór til þess manns, er stýrði konúngsskipinu: lát [síga til[2]! Konúngr mælti til þess er stýrði: halt svâ framm. Halldór mælti öðru sinni: lát víkja[3]! Konúngr bað hann svâ framhalda. Halldór mælti: beint stefni þèr (á) skerit. Því næst rendi á skerit svâ hart, at þegar gekk undan skipinu undirhlutrinn, ok varð þá at flytja til lands með öðrum skipum, ok (voru) síðan reist tjöld, ok bætt at skipinu. Um morgininn eptir vaknaði Bárðr við þat, at Halldór batt húðfat sitt; [hvat ætlast þú fyrir[4], fóstbróðir! segir Bárðr? Halldór svarar: ek ætla á byrðíng, er hèr liggr skamt frá oss, kann vera at nú leggi sundr reyki vâra, ef sinn veg fara hvârir; vil ek ekki at konúngr spilli optar skipum sínum eðr öðrum gersimum mèr til svívirðíngar[5]. Bárðr mælti: bíð enn, lagsmaðr! meðan ek finn konúng. En er konúngr sá Bárð mælti hann: snemma erþú (nú) á fótum, Bárðr! Þess er enn þörf, segir Bárðr, Halldór er í brott-búnaði, ok þykkir þú, sem satt er, úvingjarnliga til sín gert hafa, ok er nokkut svâ vantat gæta til með ykkr; ætlar hann nú norðr aptr til Þrándheims til skips síns, ok sigla út til Íslands með reiði, ferr þá úmakliga ykkar skilnaðr, er þat mín ætlan, at varla fáir þú annan mann jafntraustan honum. Kon-

1) suðr með landi, *b. v. H.* 2) víkja til, *H*; ýqva, *M.* 3) ýqva, *M.* 4) hvert ætlar þú nú at fara, *H.* 5) ok at mèr beri þá verr enn áðr, *b. v. M.*

úngr lèt at þeir mundu enn sættast, ok kvað sèr ekki mundu at þessu þykkja. Bárðr fór þá ok sagði Halldóri vingjarnlig orð konúngs. Halldór svarar: til hvers skal ek honum leingr þjóna, (er) ek fær eigi mála minn falslausan. Bárðr mælti: get þess eigi! vel máttu þèr líka láta þat er lendra manna synir hafa ok þola, ok ekki fórþú með vægð at því næsta sinni, slótt niðr í hálm silfrinu ok únýttir, ok mátt þú víst vita, at konúngi þykkir slíkt svívirðiliga til sín gert. Halldór svarar: eigi má ek þat vita, at nè eitt sinn hafi jafnmjök logizt í um fylgdina mína, sem um málagjöfina konúngs. Satt mun þat vera, segir Bárðr, bíð mín enn! ek vil hitta konúng. Bárðr kom fyrir konúng, ok mælti: gerið sem ek bið, herra! fáið Halldóri mála sinn skíran, [því at verðr er[1] hann at hafa. Konúngr svarar: lízt þèr eigi nökkur djörfúng í, at krefja Halldóri annars mála enn [taka lendra manna synir, við slíka[2] svívirðíng sem hann fór með málanum næstum? Bárðr svarar: á hitt er at líta, herra! sem miklu er meira vert, drengskap hans ok svâ lánga ykkra vináttu, ok þarmeð þína stórmennsku, en þèr er kunnigt skaplyndi Halldórs ok stríðlæti, ok er þat þinn vegr at gera honum sóma. Konúngr mælti: vel fer þèr, ok fá honum silfr! Var þá svâ gert, ok færði Bárðr Halldóri 12 aura [af brendu

[1]) þat verðr, *H.* [2]) hafa lendir menn, með slíkri, *H.*

silfri[1], ok mælti: sèr þú nú at þú hefir slíkt sem þú beiðist[2] af konúngi. Halldór svarar: eigi skal ek þó optar vera á konúngsskipinu, nú ef hann vill hafa mitt föruneyti[3] leingr, þá fái hann mèr skip til stjórnar ok eignar. Bárðr mælti: þat heyrir[4] ekki, at lendir menn láti skip sín fyrir þèr, ok erþú of frammgjarn[5]. Halldór kveðst eigi mundu fylgja konúngi, nema þetta fengist. Bárðr fór ok segir konúngi, hvers Halldórr beiddist, ok ef hásetar þess skips, segir hann, eru jafntraustir sem stýrimaðrinn, þá er yðr þat mikill styrkr. Konúngr mælti: þótt þetta þykki stórliga mælt, þá skal eigi neita liði Halldórs. Sveinn ör Lyrgju hèt lendr maðr, konúngr lèt Sveinn kalla til sín, ok mælti til hans: þú ert maðr stórættaðr, Sveinn! ok vitr, vil ek at þú sèr á skipi með mèr, ok hafa þik við ráð mín. Hann svarar: meirr hefir þú aðra menn haft hèrtil við þínar ráðagerðir, er ek ok til þess lítt færr, eðr hverjum er þá skipit ætlat? Halldór Snorrason skal þat hafa, segir konúngr. Sveinn svarar: eigi kom mèr þat í hug, at þú myndir íslenzkan mann láta taka af mèr skipstjórn Konúngr mælti: hans ætt er eigi verri á Íslandi enn þín í Noregi; eru þeir ok margir, sem enn byggja landit, er mjök skamt eiga at telja ætt sína til ríkra manna ok ágætra

[1]) silfrs, *H*; brenda, *M.* [2]) brekar, *M.* [3]) fylgi, *H.* [4]) hæfir, *H.* [5]) ágjarn, *H.*

í Noregi. Varð nú svâ at vera sem konúngr vildi, ok tók Halldór við skipinu, hèlt konúngr austr til Víkr[1], ok tók þar veizlur.

45. Þat var einn dag er konúngr sat ok drakk, ok mart manna með honum, Halldór var þar inni í stofunni; þar komu þá inn sveinar hans[2], ok vâru allir vâtir, sögðu at Sveinn ok hans sveitúngar höfðu tekit skip Halldórs, er þeir skyldu geymt hafa, en keyrt þá á kaf; Halldór stóð þegar upp, ok gekk fyrir konúng, ok spurði hvârt hann skyldi eiga skip þat, er hann hafði gefit honum, eðr skyldi sú gjöf eigi haldast? Konúngr segir at vísu haldast skyldu; kvaddi þegar til hirðsveitir sínar at fylgja Halldóri, bað þá skipa sem bezt 6 skip[3] eptir þeim Sveini. Þeir gerðu svâ, fóru at leita þeirra Sveins, ok fundu þá, lèt Sveinn eltast at landi, ok hlupu[4] upp í skóg, en Halldór tók aptr skipit, ok fór til konúngs með. Þeir fóru norðr til Þrándheims, er áleið sumarit, ok sat konúngr í kaupángi um vetrinn. Sveinn í Lyrgju sat þann vetr at búum sínum, ok sendi orð Haraldi konúngi, at hann vildi allt sitt mál um skipit leggja á hans vald, vildi þó helzt kaupa skipit at Halldóri, ef konúngi líkaði þat; en þegar at konúngr sá, at Sveinn skaut öllu máli undir hans dóm, þá vildi hann svâ tilhaga at hvârum-

[1]) Osló, *M.* [2]) konúngs, *rángt H.* [3]) ok fara, *b. v. H, M.* [4]) hljóp, *H.*

tveggjum mætti líka; falaði konúngr þá skipit at Halldóri ok keypti, galt hann þegar verðit í gulli ok brendu silfri, svâ at eigi stóð meira eptir enn hálf mörk gulls, heimti Halldór þat lítt, enda galzt þat eigi. En er vâra tók sagði Halldór konúngi, at hann vildi út til Íslands um sumarit, ok lèt sèr vel koma[1] at þá gyldist þat sem eptirstóð skipverðsins. Konúngr fór heldr undan um gjaldit, ok fanst á at honum þótti hvergi betr, er Halldór heimti, en ekki bannaði konúngr honum útferð. Halldór bjó skip sitt um vârit; eitt kveld síð, þá er hann var albúinn, lagði hann út ör ánni, var þá byrr ákominn. Halldór gekk á bátinn með nökkura menn, ok reyri inn at bryggjum, lagði hann at skutstafninn, ok lèt þar halda einn mann, en bað aðra sitja við árar, ok bíða sín svâ; gekk hann einn upp í bæinn með alvæpni, ok at því herbergi, er konúngr ok drottníng sváfu í, ok varð af skark nökkut, er hann gekk inn, svâ at þau vöknuðu við, ok spurði konúngr, hverr þar brýzt at þeim um nætr. Hèr er Halldór, segir hann, er ek nú búinn til brottferðar ok byrr ákominn, ok er nú ráð at gjalda fèit, þat sem eptir stendr. Ekki má þat nú svâ skjótt, segir konúngr, bíð þú morgins, ok munum vèr þá greiða. Ek vil nú þegar hafa, sagði Halldór, mun ek þessu sinni eigi eyrindlaust fara, þvíat ek kann skaplyndi

[1]) henta, *H.*

þitt, ok veit ek at þèr mun eigi vel líka þessi mín ferð[1] ok fjárheimta, hversu sem þú lætr nú; mun ek lítt trúa þèr hèðan í frá; er þat úsýnt, at við finnumst svâ[2] opt, at mitt sè vænna, skal nú neyta þess. Ek sè at drottníng hefir hríng á hendi því hófi mikinn, fá mèr hann. Konúngr mælti: þá verðum við at leita at skálum ok vega hrínginn. Ekki þarf þess, segir Halldór, tek ek hann fyrir skuld mína, munþú ekki prettum viðkoma nú at sinni, ok lát til skjótt. Þá mælti drottníng: fá honum hrínginn sem hann beiðir; sèr þú eigi, at hann stendr með víghug yfir þèr uppi. Tók hon þá hrínginn ok fèkk Halldóri; hann tók við, ok þakkaði þeim báðum gjaldit, ok bað þau vel lifa. Gekk hann út skyndiliga ofan til bátsins lustu menn hans þá árum í (sjó) sem harðast, ok reyru út til skips síns, höfðu þegar uppi akkeri ok drógu segl, var þat mjök jafnsnimma at þeir höfðu umsiglt, ok eigi skorti lúðragáng[3] at heyra í bæinn; sá þeir þat síðast til, at 3 lángskip voru á flot komin, ok hèldu eptir þeim. Byrr var á blásandi, ok gekk knörrinn brátt mikit; en er konúngsmenn sá at Halldór dró undan, mændu[4] þeir aptr, en Halldór bar í haf, ok skildi þar með þeim; byrjaði honum vel til 1051
Íslands, ok fundust þeir Haraldr konúngr ekki síðan.

---

[1]) ok tiltekja, *b. v. H.* [2]) vilgis, *b. v. M.* [3]) hornblástr, *M.* [4]) *eðr* vændu, *A*; vendu, *H*; hurfu, *M.*

46. [Halldór Snorrason var mikill maðr vexti ok fríðr sýnum, allra manna styrkastr ok vâpndjarfastr; þat vitni bar Haraldr konúngr Halldóri, at hann hefði verit með honum allra manna svâ, at sízt brygði við vâveifliga hluti, hvârt sem at höndum bar mannháska eðr fagnaðar-tíðindi, þá var hann hvârki at glaðari nè úglaðari; eigi neytti hann matar, eðr drakk eðr svaf, meira nè minna, enn vandi hans var til, hvârt sem hann mætti blíðu eðr stríðu. Halldór var maðr fámæltr, stuttorðr, bermæltr, stygglyndr ok ómjúkr, kappgjarn í öllum hlutum, við hvern sem hann átti um; en þat kom illa við Harald konúng, er hann hafði nóga aðra þjónustumenn, komu þeir því lítt lyndi saman, síðan Haraldr varð konúngr í Noregi. En er Halldór kom til Íslands, gerði hann bú í Hjarðarholti[1]. Nökkurum vetrum síðar sendi Haraldr konúngr orð Halldóri Snorrasyni, at hann skyldi fara utan, ok vera enn með honum, ok sagði at eigi skyldi hans virðíng verit hafa meiri, ok eingan mann skyldi hann hærra setja í Noregi útiginn, ef hann vildi þetta boð þekkjast. Halldór svarar svâ, er honum komu þessi orð: ekki mun ek fara á fund Haralds konúngs hèðan af, mun nú hafa hvârr okkar þat sem fengit hefir; mèr er kunnigt skaplyndi hans, veit ek gerla, at hann myndi þat efna, sem hann hèt, at setja eingan

[1]) *frá* [ *v. í M.*

mann hærra í Noregi enn mik, ef ek kæmi á hans fund, þvíat hann mundi mik láta festa á hinn hæsta gálga, ef hann mætti ráða. En er áleið mjök æfi Haralds konúngs, þá er sagt, at hann sendi orð Haldóri Snorrasyni, ok bað hann senda sèr melrakkabelgi nökkura, at láta gera af yfir rekkju sína, þvíat konúngr þóttist þá þurfa hlýss; ok er Halldóri kom þessi orðsendíng, þá segist at hann skyti við í fyrstu þessu orði: eldist[1] árgalinn nú, segir hann, en sendi honum þó belgi, sem hann beiddi, en ekki fór Halldór utan, síðan þeir Haraldr konúngr skildu í Þrándheimi, sem nú var sagt; bjó hann í Hjarðarholti til elli, ok varð maðr gamall.

47. Þá er Haraldr konúngr Sigurðarson hafði ráðit einn vetr Noregi eptir andlát Magnúsar konúngs góða, bróðursonar síns, ok er at vàri kom, þá bauð hann leiðángri út af öllu landi, hálfum almenníngi at liði ok skipum, hèlt hann her þeim suðr til Danmerkr; hann lá við Jótland lengi um sumarit, herjaði þar víða ok brendi landit. Haraldr konúngr lagði skipum sínum inn í Goðnarfjörð, ok lá þar, þá kvað hann þetta:

> Látum vèr meðan lirlar[2]
> líneik veri[3] sínum

[1]) eldisc, *H.* [2]) *þannig A, M*; litar, *H.* [3]) ver, *H.*

gerðr í Goðnarfirði
galdrs akkerum haldit.

[Þá mælti konúngr til Þjóðólfs skálds, bað hann þar viðyrkja; hann kvað[1]:

Sumar annat skal[2] sunnar,
segik eina spá[3] fleini,
vèr aukum kaf króki,
kallnefr[4] furu[5] halda.

Til þess vísar Bölverkr í sinni drápu, at Haraldr konúngr fór á næsta sumri eptir andlát Magnúsar konúngs með her sinn suðr til Danmerkr; hann kvað svâ:

Leiðángr bjóttu af láði,
lögr gekk um[6] skip fögru,
gjálfrstóðum[7] reistu græði
glæstum[8], árit næsta;
skukkr[9] lá dýrr á dökkri,
Danir váru þá[10], báru,
(skeiðr sá herr[11] fyrir hauðri
hlaðnar) illa staðnir[12].

48. Svâ er sagt at Þorkell geysa gaf[13] Sveini konúngsnafn um vetrinn á Vebjarga þíngi, en allir Danir ok einna mest dætr Þorkels gerðu þann vetr mikit gabb at Haraldi konúngi ok Norðmönnum; sögðu at þeir mundu eigi

---

1) *frá* [ *v. í F, M.* 2) ek *b. v. F, M.* 3) svâ, *H.* 4) kaldgeðr, *F*; kald-nez, *M.* 5) skipum, *F.* 6) of, *F, H, M.* 7) gjálfrsstöðum, *A*; gjálfstóðum, *M.* 8) glæstr um, *H.* 9) skokkr, *H, M.* 10) *v. í H.* 11) Haralds, *F.* 12) staðnar, *H.* 13) hefði gefit, *H.*

þora at fara herskipum til Danmerkr. Geysudætr skáru akkeri af osti, ok sögðu at þau mundu fullvel halda herskipum Haralds konúngs, þeim er hann vynni Danmörk með, ok mart annat spott gerðu þær Norðmönnum. En er Haraldr konúngr var kominn til Danmerkr, ok gekk upp af skipum, þá mælti hann til liðsmanna: hèr er skamt á land (upp) bær þorkels geysu, þess manns er Sveini gaf konúngsnafn, ok einn er mestr vârr úvin; þætti mèr eigi úsannligt, at þorkell ok dætr hans mætti viðkannast, hvârt Norðmenn þora at koma til Danmerkr, eðr hvârt af osti eru[1] gjör akkeri vâr, eðr reynast þau nökkuru traustari. Ok er þeir komu á bæ þorkels, báru þeir þegar eld at húsum, en er þeir menn sem inni vâru urðu varir við eldsgánginn, báðu þeir sèr griða ok leyfis til útgaungu. þá svarar Haraldr konúngr: þótt þat væri makligra, at þær Geysu-dætr brynni hèr inni, þá ætla ek eigi varða, þótt þèr reynið nú heldr, hvârt[2] norræna fjötra[3] festir[4] á hinum dönskum leggjunum; var þá brendr bærinn, en dætr þorkels leiddar bundnar til skipa; þá var þetta kveðit:

Skáru jast[5] ör osti
eybaugs Danameyjar,
þat of ángraði þeingil
þíng, akkeris hrínga;

[1]) sè, *H.* [2]) *v. í H.* [3]) króka, *F.* [4]) *v. í H.* [5]) *þannig A, H, F, M.*

nú sèr mörg, í morgin,
mær, hlær at því færi[1],
ærnan[2] krók ör járni
allvalds skipum halda.

Svâ segja menn at njósnarmaðr *sá*, sem sèð hafði flota Haralds konúngs, mælti við dætr Þorkels: þat sögðu þèr, Geysu-dætr! at Haraldr konúngr mundi eigi[3] koma til Danmerkr. [Dótta Þorkelsdóttir[4] svarar: þat var í gærna. Þorkell leysti út dætr sínar ofa miklu fè[5]; svâ segir Grani skáld:

Lèt aldregi úti[6]
ósvífr[7] Kraka drífu
hlökk[8] í harða þykkum[9]
Hornskógi brá þorna;
Fíla[10] drottinn rak flótta
fjanda grams til strandar,
auð varð út at reiða
allskjótt faðir Dóttu[11].

[Haraldr konúngr herjaði allt þetta sumar í Danmörk, fèkk ógrynni fjár, en ekki varð hann ílendr á því sumri; hann átti orrostur við Dani, þar sem heitir Þjólarnes; svâ segir Grani[12]:

Döglíngr fèkk at drekka
danskt blóð, ara jóði,

---

1) færri, *Hk.* 2) ernan, *M.* 3) þora at, *b. v. H.* 4) Dóttir Þorkels, *H.* 5) *F*, *M hafa þetta nokkut greiniligra, en þó kemr í sama stað niðr.* 6) ýta, *H.* 7) ósvífis, *F.* 8) hlekk, *F.* 9) þjokkum, *F*, *M.* 10) fjalla, *F.* 11) dóttor, *F*, *H*, *M.* 12) *frá [ v. í M.*

[hörð veitk hilmi gerðu[1]
hugins jól við nes Þjólar;
ætt spornaði arnar
alvítt um[2] valfalli,
hold át vargr sem vildi
(vel njóti hann þess) Jóta.

49. Haraldr konúngr fór aptr um haustit, ok var í Noregi um vetrinn. Hinn næsta vetr eptir, er Magnús konúngr andaðist, fèkk Haraldr konúngr Þóru, dóttur Þorbergs Árnasonar, þau áttu 2 syni, hèt hinn ellri Magnús, en annarr Ólafr. Haraldr konúngr ok Ellisif áttu 2 dætr, hèt önnur María, en önnur Íngigerðr. Hit næsta vâr eptir þessa herför, sem nú var frásagt, bauð Haraldr liði út, ok fór til Danmerkr, ok síðan hvert sumar eptir annat[3], sem Stúfr segir:

[Autt varð Falstr[4] at frèttum,
fèkk drótt mikinn ótta,
[gladdr[5] varð[6] hrafn, en hræddir
hvert ár Danir váru.

50. Svein konúngr rèð fyrir öllu Danaveldi síðan Magnús konúngr andaðist, hann sat um kyrt á vetrum, en lá úti á skipum með almenníng um sumrum, ok heitaðist at fara

---

[1]) hörð verk hilmir gjörði, *H*; hríð hykk hilmi gjörðu, *M.* [2]) of, *H*; við, *M.* [3]) *F og M segja nokkuð greiniligar frá þessu, og helzt fra orðum Haralds konúngs.* [4]) Flaustr, *H*; eyll var falar, *F.* [5]) glaðr, *H*; gæddr, *M.* [6]) var, *M*; hræðist, *í stað þess frá* [ *F.*

norðr í Noreg með Danaher, ok gera þar eigi minna hervirki, enn Haraldr gerði í Danmörku. Sveinn konúngr [með ráði höfðíngja ok annarra landsmanna[1] sendi menn um vetrinn norðr til Noregs á fund Haralds konúngs, sögðu þeir konúngi sitt eyrindi, at Svein konúngr ok allir Danahöfðíngjar beiddu at Haraldr konúngr kæmi norðan um sumarit með liði, en Sveinn konúngr sunnan með sínu liði til mótsins, ok skyldu þeir hittast í Elfinni, ok berjast þar til þrautar eðr sættast ella. Haraldr konúngr svarar svå þessi orðsendíng: þess er drengiliga beidt af Sveini konúngi ok Dönum, ok þat myndi ek vilja, ef þessi fundr verðr, at Danir ræki minni til; en þau boð skulu þèr bera Sveini konúngi ok Dönum, at ek mun koma til fundar við þá í sumar. Fóru sendimenn með þessum eyrindum aptr til Sveins konúngs; bjuggu þá hvårirtveggju skip sín allan vetrinn, ok höfðu báðir konúngar úti almenníng um sumarit eptir. Þetta sumar kom utan af Íslandi Þorleikr[2] fagri, ok tók at yrkja flokk um Svein konúng Úlfsson; þá er Þorleikr kom til Noregs, frá hann at Haraldr konúngr var farinn suðr til Elfar[3] móti Sveini konúngi, þá kvað hann:

Ván erumsk[4] vísa[5] kænum[6]
[vigs á raka[7] stigu

[1]) v. *í H.* [2]) þorleifr, *F.* [3]) Danmerkr, *H.* [4]) erumk, *H, M.* [5]) með vísi, *F.* [6]) kjænum, *F, H*; kønum, *M.* [7]) *þannig H*; *í A sèst ekki nema*.. aka; *en* vígs á rakna, *F, M.*

örr í oddasnerru
Innþrænda lið finni;
[þó má enn[1] hvårr annan[2]
[öndu nemr[3] eða löndum,
lítt hyggr Sveinn á sættir
sjaldfestar, guð[4] valda[5].

Ok enn kvað hann:

Færir[6] reiðr sá er rauða[7]
rönd hefir opt fyrir löndum
breið á Buðla slóðir
borðrökn[8] Haraldr norðan;
en lauks of sjá[9] sækja
Sveins fagrdrifin steini
glæsi-dýr[10] þess er geira[11]
gullmunnut[12] rýðr[13] sunnan.

51. Haraldr konúngr kom til ákveðinnar stefnu með her sinn, þá spurði hann at Sveinn konúngr lá suðr við Sjólönd[14] með sínum flota; þá mælti Haraldr konúngr:

Logit hefir Baldr at Baldri

Þjóðólfr tók þegar undir ok sagði:

brynþíng fetil stínga
linns sá er land á sunnarr
láðbrjótr fyrir ráða;

---

1) þá er annar, *F.* 2) annar, *H.* 3) endu nærr, *H*; öndu nemdr, *M.* 4) goð, *F.* 5) valdi, *H.* 6) fær, *F.* 7) randa, *F.* 8) borðrögn, *H.* 9) sjæ, *M.* 10) býr, *F.* 11) geisa, *H.* 12) gullmunne, *H.* 13) fyrir, *F.* 14) *þannig A.* Sjálund, *H.*

þá[1] er sjá njörðr er[2] norðri[3]
norðr glym hríðar borða
gramr erþú frækn ok fremri
fástmálari hála[4].

Satt er þat, skáld! segir konúngr, at Sveinn konúngr hefir brugðit stefnunni, kann vera at Dönum þykki linara, at reka svín til skógar, enn berjast við oss Norðmenn; en fyrir því at þeir vilja eigi halda við oss ánefnt stefnulag, þá skulum vèr sækja þá heim, ok vinna í þeirra ríki slíkt sem fyrr eðr verra. Skipti Haraldr konúngr þá liði sínu, lèt aptr fara bóndaherinn norðan ör landi; en fór með hirð sinni ok lendum mönnum, ok hafði með sèr þat af bóndum, er næst var Dönum. Fór Haraldr konúngr því liði suðr til Jótlands fyrir sunnan Vendilskaga, svå um þjóðu, fóru þá herskildi yfir landit, brendu bygðir en drápu menn þá er þeir náðu, en flestir flýðu undan, þeir sem því komu við, sem Stúfr skáld segir:

Flýðu þeir[5] á þjóðu[6]
þengils fund af stundu,
stórt rèð[7] hugfullt[8] hjarta
Haralds önd ofarr löndum.

[Allt fóru þeir suðr til Heiðabæjar, þar tóku þeir margskonar gersimar Danakonúngs, ok ræntu fè öllu, en hertóku fólkit ok margar

[1]) þó, F, M. [2]) hinn, F; úr, H; enn, M. [3]) neirðri, F. [4]) halla, F. [5]) sem, b. v. H. [6]) þjóði, F. [7]) ræðr, H; rètt, M. [8]) hugprútt, F, M.

ríkra manna konur, er þagat höfðu flýit sèr skjóls at leita. Síðan tóku þeir ok brendu allan staðinn[1], þá ortu þetta menn Haralds konúngs:

[Brendr var[2] upp með endum[3]
allr[4], en þat má kalla
hraustligt bragð er ek hugða,
Heiðabær af reiði;
[vân er at vinnim[5] Sveini
vark[6] í nótt, fyrir óttu,
gaus hár logi ör húsum,
harm, á borgararmi.

Þessa getr ok Þorleikr fagri í sínum flokki, þá er hann spurði, at eingi hafði orrostan vorðit við Elfi:

Hve[7] hefr til[8] Heiðabæjar[9]
heiptgjarn konúngr árnat
fólkrögnir getr fregna
fylkis sveit hinn[10] er reitat[11];
þá er til þengils bæjar
þarflaust[12] Haraldr austan
[or þat[13] er an[14] um væri
endr byrskíðum[15] rendi[16].

1) *F, M eru hèrum nokkuð fjölorðari.* 2) brendu, *H.* 3) endu, *H.* 4) allt, *H.* 5) þá er at unnin, *H.* 6) verk, *F.* 7) *v. í H.* 8) *v. í F.* 9) Haukabæjar, *Hk.* 10) en hinn (honum) *F*; hin, *H.* 11) neituð, *F*; veitað, *H, M.* 12) *þannig hin*; þarflavstr, *A.* 13) orð þau, *F*; or þat, *H.* 14) avnn, *H*; un *eða* on, *M*; ey, *F.* 15) *þannig F, H, M*; b'yrskíðum, *A.* 16) hrinda, *F.*

Eptir þat fóru þeir Haraldr konúngr norðr aptr, hann hafði 60 skipa, ok flest stór ok hlaðin af herfángi, er þeir höfðu tekit um sumarit. En er þeir sigldu norðr frá[1] Þjóðu, þá kom þar af landi ofan Sveinn konúngr með mikinn her, hann kallaði á Harald konúng, ok mælti: þat er nú ráð, segir hann, at leggja at landi ok gánga upp, ok berjast við oss Dani; skölu þèr eigi leingr þurfa frýjuorð at leggja á oss, at vèr þorim eigi at finna yðr, þótt nú sè nökkuru síðarr sumars, enn stefna var lögð með oss; [ætlum vèr at hóti [heldr skal yðr þetta[2] hreystiraun, þótt Danakonúngr sè lítilsháttar[3], at berjast við hann með fylktu liði, enn at taka kálf eðr kið eðr gripi manna, þar sem ekki er til verndar, sem þèr hafið jafnan gert hèr í Danmörk. Haraldr konúngr svarar: þat hygg ek at mörgum mönnum sè kunnigt, at vèr höfum við fleira barizt enn búkarla eina eðr bleyðimenn, var ok svâ stefndr vârr fundr við Elfina, at [þèr leituðuð[4] eptir, ok var þat konúngligt, en hitt þótti oss illa sama, at rjúfa þat sem þèr höfðuð boðit, þá er mikill herr var samankominn; var þat yðvar óhöfðíngligt at fara því einu framm, er

---

1) fyrir, *F*, *H*. 2) yðr skal hóti heldr, *H*. 3) er þat vaskleikr Norðmönnum, er þeir þikjast þó yfir Dönum vera um alla hluti, at gánga nú á land ok berjast við Dani, ok mun yðr þetta vera hóti meiri raun ok meiri frami, þótt konúngr sè eigi mikill fyrir sèr, *í stað þess frá fyrra* [ *F*, *M*. 4) vær leituðum, *H*.

vèlræðum sætti, ok liggja þarfyrir undir margs manns ámæli; nú er Dönum þetta hæfilig hefnd fyrir sín svik, þótt vèr hafim sveimat í sumar um bygðir þeirra. Þætti mèr ok vân, ef Danir hefði gengit oss svâ nær, at vápn vâr hefði samantekit, at vèr hefðim gert þeim eina hríð minnisama; en nú var oss því hægra at haga kostum þeirra eptir vârri vild, at þeir vörðu hvârki fè sín nè konur, sem hèr má nú líta margar herteknar ok harmsfullar. En at gánga hèr á land upp, sem þú býðr, ok berjast við allan Danaher með eigi meira liði enn vèr höfum, þat er ekki mitt ráð; en berjast munum vèr á skipum, ef þèr villð, þótt Danir sè hálfu fleiri; [svâ segir Þorleikr[1]:

Bauð, sá er beztrar tíðar[2]
borinn varð und[3] miðgarði,
ríkri þjóð at rjóða
randir Sveinn á landi;
þó lèzt[4] heldr, ef[5] hèldi[6]
hvatráðr konúngr[7] láði,
á byrjar val berjast
bilstyggr Haraldr vilja.

52. Eptir þetta sigldi Haraldr konúngr norðr fyrir Vendilskaga, bægði þeim veðr, ok lögðu undir Hlèssey[8], lágu þar um nóttina. Þá gerði myrkva mikinn sælægjan, en er morn-

---

[1]) þetta boð Haralds sannar Þjóðólfr skáld, *F*, *M*. [2]) tírar, *M*. [3]) unn, *F*. [4]) lèztk, *M*. [5]) at, *F*, *M*. [6]) hildi, *F*. [7]) *v. í F*. [8]) Hlèssey, *H*, *alstaðar*; Sámsey, *F*, *M*.

aði ok sól rann upp, sá þeir annan veg á hafit sem eldar brynni, var þat sagt Haraldi konúngi; hann sá til ok mælti þegar: láti sem tíðast tjöld af skipum vârum, ok taki menn róðr; Danaherr er kominn at oss, þar mun rudt myrkvanum sem þeir eru; mun morginsólin skína á drekahöfuð þeirra gulllögð. Svâ var sem Haraldr konúngr sagði, þar var Sveinn konúngr kominn með úvígjan herr, reyru þá hvârirtveggju sem mest máttu. Danir höfðu skip fljótari, er þeim var nýskotit á vatn, en Norðmanna skip voru bæði sollin ok sett mjök, dró nú saman með þeim; þá sá Haraldr konúngr at eigi mundi svâ búit hlýða; dreki Haralds konúngs fór síðast allra skipa hans, því at hann var þýngstr undir árum. Þá mælti Haraldr konúngr, at kasta skyldi fyrir borð viðum, ok láta þará koma ágæt klæði ok aðra dýrgripi; var nú svâ gert. Veðr var vindlaust ok sjákyrt, hóf þetta allt saman fyrir straumi móti Dönum; en er Danir sá fè sitt ok gersimar reka á hafinu, þá viku þeir þartil er fyrstir fóru, þótti þeim dælla at taka þat, er flaut laust fyrir þeim, enn sækja inn um borð at Norðmönnum; dvaldist þá eptirróðrinn. En er Sveinn konúngr kom þar at með sitt skip, eggjaði hann þá fast á eptirróðrinn: er þetta höfuð-skömm, segir hann, svâ mikinn her sem vèr höfum, ef vèr skulum nú eigi fá vald Norðmanna, er þeir *hafa lítit lið*; ok er þat undr, er þèr dvelizt ok dragizt eptir

glysi þesso; er vèttugis er vert, ok vilið eigi fá heldr mikinn sigr, er nú er fyrir hendi, ef þèr eruð samhuga; látið yðr nú heldr hugkæmt vera, hversu mikla háðúng með mannskaða ok fèránum þèr eigið þeim at gjalda. Margir af yðr eiga hèr at sækja eptir göfugum húsfrúm sínum eðr dætrum, ok er úsýnt at komist í betra færi, ef vèr látum þá nú undan dragast. Myndi þat nú verða mjök frægt, ef vèr fengim hefnt þeim á lítilli stundu allra þeirra hluta, er þeir hafa oss gert til hneysu. Við þessa eggjan tóku Danir at herða róðrinn[1], ok dró skjótt saman; en er Haraldr konúngr sá at meira gengu skip Dana, þá bað hann sína menn lètta skip sín, bera fyrir borð malt ok hveiti ok flesk, ok steypa niðr munngáti ok drykk; nú var svâ gert, stóð þá við um hríð. En er Haraldr konúngr sá at Danir drógu enn eptir, mælti hann til sinna manna; eigi dugir enn at leita eingra ráða í, skal nú taka víggyrðla alla, ok skjóta fyrir borð, þar skal festa við tunnur tómar ok verpla, síðan skal þará setja konur Dana ok annat hertekit fólk; ok er þat rak allt saman á sjónum, þá bað Sveinn konúngr hjálpa mönnunum. Danir gerðu svâ, var þat seint, þvíat víða varð til at víkja, en í þeirri dvöl dró í sundr með þeim, ok sóttist mjök hafit; snèru þá Danir

[1]) eptirróðrinn, *H.*

aptr, en Norðmenn fóru leið sína; svå segir Þorleikr:

Allt of[1] frá ek hve elti
Austmenn á veg flausta
Sveinn, þá er siklíngr[2] annarr[3]
snarlundaðr[4] hèlt undan;
fengr varð[5] Þrænda þengils,
þeir lèttu[6] skip fleiri,
allr á eli sollnu[7]
Jótlands hafi fljóta.

53. Sveinn konúngr hèlt flota sínum suðr undir Hlèssey[8], ok hitti þar 7 skip af Norðmönnum, þat var leiðángrslið ok bændr ör Víkinni; þeir báðu griða, ok buðu fè fyrir sik; þess getr Þorleikr:

Sætt buðu seggjadrottni
siklíngs vinir mikla[9],
svöfðu[10] [hjaldr, þeirs[11] höfðu,
hugstinnir, lið minna;
ok snarráðir síðan
sókn, er orðum tókust,
(önd var ýta kindum
óföl) búendr[12] dvöldu.

Margir menn báðu Svein konúng láta drepa þá, sögðu alla Norðmenn eiga at gjalda þess,

---

1) *v. í H.* 2) avðlíngr, *F.* 3) undan, *b. v. H* 4) avrlundaðr, *F*; annar snárlundaðr, *H.* 5) var, *F.* 6) lètu, *A, H.* 7) sollinn, *H.* 8) Sámsey, *F, M.* 9) vikla, *rángt, H.* 10) söfðu, *H*; svofðu, *M.* 11) hjaldus þess *H.* 12) bóendr, *H.*

er Haraldr konúngr hafði gert. Sveinn konúngr svarar: eigi sýnist mèr[1] sá minn kostr beztr, at vera úsigrsæll í orrostum, en níðast á þeim, er sjálfir gefast upp á [mína miskunn[2], ok með því at nú bar undan oss hinn meira sigrinn, þá skulu þessir nauðúngarlaust af oss lífit þiggja; fóru þeir þá allir í friði. Sat Sveinn konúngr þann vetr um kyrt í ríki sínu[3].

54. Haraldr konúngr var ríkr maðr ok stjórnsamr innanlands, spekíngr mikill at viti, svâ at þat er alþýðu mál, at eingi höfðíngi á Norðrlöndum hafi verit jafn djúpvitr ok ráðsnjallr sem Haraldr, hann var orrostumaðr mikill ok hinn vâpndjarfasti, styrkr at afli ok mikill framkvæmdarmaðr um flesta hluti, sem nú hefir nökkut verit af sagt; en þó eru mörg hans afreksverk úritin, ok berr til þess vâr fáfræði, ok þat annat, at vèr viljum eigi rita vitnislausar sögur, þótt vèr hafim heyrðar frá honum sagðar; þykkir oss betra at hèðan af sè viðaukit, heldr enn þetta þurfi ör[4] at taka, sem áðr er ritat. Er mikil saga af Haraldi konúngi í kvæði sett, þau er íslenzkir menn ortu, ok færðu honum sjálfum [eðr sonum hans[5], var hann af því mikill vinr þeirra, svâ hann hefir verit allra[6] höfðíngja vinhollastr

1) sannligt, eða, *b. v. H.* 2) vald mitt, *H.* 3) *hèr vantar eitt blað í skinnbókarbrotit, M.* 4) aptr, *F.* 5) *v. í H.* 6) Noregs, *b. v. H.*

allri Íslands bygð. Þá er mikit hallæri var á Íslandi, sendi hann til landsins 4 skip hlaðin mjölfi, ok kvað á at ekki skippund skyldi vera dýrra enn [fyrir hundrað[1] vaðmála; hann leyfði, ok utanför öllum fátækum mönnum, þeim er fengi sèr vistir um haf, þaðan af nærðist mjök landit til árferðar ok batnaðar. Haraldr konúngr sendi til Íslands klokku til kyrkju [þeirrar, sem hinn heilagi Ólafr konúngr hafði sent viðinn til, ok aðra klukkuna; sú kyrkja var sett[2] á Þíngvelli, þar sem alþíngi er haft, slík minni[3] hafa Íslendíngar Haralds konúngs, ok mörg önnur í stórgjöfum, er hann veitti þeim mönnum, er hans fund sóttu. Úlfr Óspaksson, íslenzkr maðr, var með Haraldi konúngi í miklum kærleikum, sem fyrr er getit; Úlfr var vitr maðr, snjallr í máli ok skörúngr mikill, tryggr ok einfaldr; Haraldr konúngr gerði Úlf stallara sinn, ok gipti honum Jórunni, dóttur Þorbergs Árnasonar, systur Þóru, er Haraldr konúngr átti. [Börn þeirra Úlfs ok Jórunnar voru þau *Jón sterki á Rásvelli ok Brigíða*, móðir Sauða-Úlfs, föður Sveins, föður Úlfs flyss[4]. Son Jóns sterka var [Erlendr hímaldi, faðir Eysteins erkibiskups ok bræðra hans. Haraldr konúngr gaf Úlfi stallara lends manns rètt ok 12 marka veizlur, ok umframm hálft fylki í Þrándheimi.

55. Magnús konúngr Ólafsson lèt reisa

---

[1]) þrim mörkum, *F.* [2]) *v. í A.* [3]) menjar, *F.* [4]) flys, *H.*

kirkju í Kaupángi, í þeim stað sem náttsettr hafði verit líkami Ólafs konúngs, þat var þá fyrir ofan bæinn; hann lèt þar ok reisa konúngsgarð. Kirkjan varð eigi algjör, áðr Magnús konúngr andaðist, lèt Haraldr konúngr fylla þat er áskorti; hann lèt ok gera sèr steinhöll þar í garðinum, varð hon eigi albúin, áðr hann lèt reisa Maríukirkju uppi á melinum, nær því sem heilagr dómr Ólafs konúngs lá í jörðu hinn fyrsta vetr eptir fall hans; var þat mikit musteri ok gert styrkliga at límí, svâ at varla varð brotit, þá er Eysteinn erkibiskup lèt ofan taka. Heilagr dómr Ólafs konúngs var í Ólafs[1] kirkju meðan Maríukirkja var í[2] gjörð. Haraldr konúngr lèt húsa konúngsgarð ofan frá Maríukirkju við ána, þar sem nú er, ok þar sem hann hafði látit gera steinhöllina, þá lèt hann þat hús vígja til Gregóríus-kirkju[3].

56. Ívar hvíti er maðr nefndr, hann var lendr maðr göfugr, hann átti bú á Upplöndum, hann var dótturson Hákonar jarls hins ríka;

---

1) Maríu, *misskrifað í H.* 2) eigi, *H.* 3) Ulfr stallari varð maðr kynsæll í Noregi; hans son var nefndr Jón, hann var faðir Hínalda, föður Eysteins erkibiskups. Haraldr konúngr átti 2 sonu við þóru þorbergsdóttur, hèt hinn ellri Magnús, en Olafr hinn ýngri. Haraldr konúngr lèt gjöra Maríu kyrkju í Niðarósi, ok *stóð* þar þá altarið, sem nú eru gráðurnar hjá Kristskyrkju, hann lagði þartil próventur miklar, ok hann efldi mjök kaupstaðinnn í Niðarósi; ok um hans daga voru Arnmæðlíngar mestir lendra manna í Noregi, fyrir sakir mægða við konúng, ok at þat varð konúnginum mest traust í öllum þeim hlutum, er hann varðathi, *í stað þess frá [ í fyrra kap. F.*

Ívar var allra manna fríðastr sýnum. Son Ívars hèt Hákon, frá honum er svå sagt, at hann var umframm alla menn, þá er voru í Noregi þann tíma, at fríðleik, afli ok atgjörfi; hann var þegar á únga aldri í ferðum, ok aflaði sèr mikillar frægðar ok frama, ok gerðist Hákon hinn ágætasti maðr. Einar þambarskelfir var ríkastr lendra manna í Noregi, heldr var fátt um með þeim Haraldi konúngi, hafði Einar þó veizlur slíkar, sem hann hafði haft af Magnúsi konúngi. Einar átti Bergljótu, dóttur Hákonar jarls, sem fyrr er ritat. Eindriði, son þeirra, var þár oskinn maðr, hann átti Sigríði, dóttur Ketils Kálfssonar ok Gunnhildar; var Sigríðr systurdóttir Haralds konúngs. Eindriði hafði fríðleik ok fegurð af móðurfrændum sínum, Hákoni jarli eðr[1] sonum hans, en vöxt ok afl hafði hann af feðr sínum Einari ok alla atgjörvi, þá er Einar hafði umframm aðra menn; Eindriði var ok manna vinsælstr. Þá var austr á Jaðri Áslákr Erlíngsson, hann átti Gunnhildi[2], dóttur Sveins jarls Hákonarsonar; aðra dóttur Sveins jarls átti Sveinn Úlfsson Danakonúngr. Þá var Ormr jarl á Upplöndum, móðir hans var Ragnhildr, dóttir Hákonar jarls ríka; Ormr jarl var hinn mesti ágætismaðr. Slíkt var afkvæmi Hákonar jarls þar í Noregi, ok mart annarra göfgra manna; var ætt sú miklu fríðari enn annat

[1]) ok, *H.* [2]) *v. í H.*

fólk, en flest atgjörvimenn miklir, en allt (voru þat) göfugmenni.

57. Haraldr konúngr var ríklundaðr, ok vóx þat svâ, sem hann festist í landi ok ríki; kom svâ um síðir, at flestum mönnum dugði illa at mæla móti honum, eðr draga framm annat mál, enn hann vildi vera láta; svâ segir Þjóðólfr:

Þegn skyli hverr sem hugnar
hjaldrvitjað[1] sitja
dólg[2] stýrandi dýrum
drottinn vandr ok[3] standa;
lýtr[4] fólkstara feiti
fátt er til nema játta
þat[5] sem þá vill gotnum
þjóðvaldr konúngr bjóða[6].

Einar þambarskelfir var mest forstjóri fyrir bóndum um öll Þrændalög, hèlt hann upp svörum fyrir þá á þíngum, er konúngsmenn sóttu; Einar kunni vel til laga, hann skorti ok eigi dirfð, til at flytja framm sitt mál á þíngum eðr lögvarnir fyrir bændr, ef þeir voru ofsóttir, þótt konúngr sjálfr væri við; liðsinnuðu honum allir bændr. Konúngr reiddist, ok kom þar um síðir, at þeir þreyttu kappmæli með sèr; sagði Einar, at bændr vildu eigi þola konúngi úlög, ef hann bryti landsrètt á þeim; fór svâ nökkörum sinnum milli þeirra. Þá tók Einar at hafa

[1]) vitjaðar, *H.* [2]) dólgr, *H.* [3]) ath, *H.* [4]) lýkr, *H.* [5]) því, *H.* [6]) *vís. v. í F.*

fjölmenni mikit um sik heima, en miklu fleira þá er hann fór út til bæjar; hafði hann þá lángskip átta eðr 9, ok nærr fimm hundruð manna, þegar er konúngr var þar fyrir. Eitthvert sinn, er Einar kom til bæjar út, gekk hann upp af skipum með lið sitt, Haraldr konúngr var í bænum, hann stóð í loptsvölum nokkurum, ok sá lið Einars[1], er gekk af skipum; þá segja menn at Haraldr konúngr kvæði þetta:

Hèr sè ek upp hinn örfa
Einar þann er kann skeina
þjálfa þambarskelfi[2]
þángs[3] fjölmennan gánga;
fullafli bíðr fyllar,
[finn ek[4] opt at drífr minna,
hilmisstóls, á hælum[5]
húskarla lið jarli.

Ok enn kvað hann þetta:

Rjóðandi[6] mun ráða
randabliks[7] ör landi
oss, nema Einar kyssi,
öxar munn enn þunna.

Einar dvaldist í bænum nökkura daga. Einn dag var átt mót, var konúngr sjálfr á mótinu; hafði tekinn verit í bænum þjófr einn, ok þángat færðr á mótit, sá maðr hafði verit fyrr með Einari, ok hafði honum vel getizt at manninum;

---

1) *F lætr lið hans vera 5 hundruð manna.* 2) þambaskelfir, *F.* 3) þíng, *H.* 4) finnr, *H.* 5) hæla, *F, H.* 6) rjóðan, *F.* 7) randbliks, *A.*

var nú þetta sagt Einari, þóttist hann vita at konúngr mundi ekki manninn undan (láta) gánga at heldr, þótt Einari þætti máli varða; gekk Einar þá á mótit með alvâpnat lið sitt, ok tók manninn með valdi; konúngi líkaði stórilla, gerðist af slíkum hlutum fullr fjandskapr millim þeirra.

58. Svâ bar til á einu sumri sem optliga, at skip kom við Þrándheim, ok lagði inn til Niðaróss; þat var Íslandsfar, var þará einn íslenzkr maðr fèlítill, hann hèlt vörð um nótt á skipi þeirra; ok er menn voru sofnaðir, þá sá (hann) at 2 menn gengu leyniliga upp í Gaularáss með graftól, ok tóku at grafa jörðina, þóttist hann vita, at þeir leitöðu fjár; gekk hann af skipi, ok kom at þeim úvörum, sá hann at þeir höfðu þar upptekit kistu eina fulla af fè. Hann mælti við þann, er honum sýndist fyrir þeim, sá hèt Þorfinnr: hversu mikit fè villþú gefa mèr til, at ek leyni með þèr fundíngu[1] fjárins? Til hvers mælir þú, segir Þorfinnr? Eigi til meira, segir hann, en þú fá mèr nú 3 merkr vegnar, ok ef ek verð síðar mjök fèþurfi, þá skalþú fá mèr annat jafnmikit. Þessu játtaði Þorfinnr, ok vâ honum 3 merkr; en er þeir luku upp kistunni, lá þar ofaná mikill hríngr ok digrt gullmen; Íslendíngr sá rúnar ristnar á kistunni, þær sögðu at Hákon jarl hafði átt fè þetta. Þeir skildu við svâ búit, fór Íslendíngr til skips, en Þorfinnr

[1]) fundi, *H.*

varð maðr vellauðigr á skömmu bragði; var hann þá kallaðr Þorfinnr kaupmaðr, þvíat hann átti því næst náliga fè í hverri kaupferð, ok bjó sik sjálfan sem ágætligast at[1] klæðum, ok gerðist frægr maðr; en Íslendíngi fór illa at, ok týndi fènu, kom hann nökkurum sumrum síðar á fund Þorfinns, ok bað hann fá sèr fè, en hann brást ókunnr við, ok kvað hann ekki fè at sèr eiga. Fór Íslendíngr þá á fund Einars þambarskelfis, ok bað hann ásjá, sagði sik fèlausan sem var; ætlaði Íslendíngr at launa Einari svâ ásjá, at segja honum fjárfundinn, þvíat honum þótti þess vân, at erfíngjar Hákonar jarls mundi þá eiga fèit, ef at rèttu færi; þat fórst þó fyrir, at hann segði til, ok leið honum ör hug, var hann með Einari um vetrinn. En er sumra tók, ok menn bjuggust ferða sinna, spurði Einar, hvat Íslendíngr ætlaði ráða sinna; hann kveðst eigi vita hvat helzt lá fyrir, er hann var með öllu fátækr, en lèt sik þó fúsastan at fara til Íslands. Þat er þèr bezt fallit, segir Einar, mun ek fá þèr vistir um haf[2], ok þarmeð kistu eina er í er varníngr, er þat lítit fè, en þó máttu kaupa þèr þarmeð nökkura nauðsynliga hluti; þakkaði Íslendíngr honum sína góðgerníngа, ok fór brott, en ekki gat hann enn um fjárfundinn; kom hann út til Niðaróss, ok dvaldist þar, ok tók sèr far til Íslands.

---

1) vopnum ok, *b. v. H.* 2) ok láta flytja þik til skips, *b. v. H.*

59. Haraldr konúngr var þá þar í bænum; ok einn dag, er menn gengu frá kirkju, mælti konúngr: hverr er sá hinn skrautbúni maðr, er þar gengr at strætinu? honum var sagt, at þar var Þorfinnr kaupmaðr. Konúngr mælti: mart kann undarliga at verða, ok eigi[1] þat í síðra lagi, er slíkir menn skulu svâ miklum auð samankoma á skammri stundu, ok verða fullríkir á fám árum, þótt áðr sè nær stafkarlar. Sendi konúngr þá eptir honum, ok bað hann koma á sinn fund; ok er hann kom, spurði konúngr, hvaðan honum kæmi þat mikla fè, er hann hafði samandregit á lítilli stundu. Hann var fyrir[2] at segja, ok fann til eitt ok annat, at hann hefði grædt af kaupferðum, ok í fyrstu af lánsfè ok fèlagi annarra manna; en þó kom svâ um síðir, at hann varð at segja til hit sanna. En er konúngr varð þess viss, þá lèt hann taka af Þorfinni allt fèt, jafnvel þat er í kaupferðum var, ok kastaði á sinni eign; lèzt þó betr gera til Þorfinns, enn hann var verðr, er hann var eigi drepinn eðr uppfestr; fèkk konúngr honum þó fè nokkut, ok fór Þorfinnr ör landi. Nú kom Íslendíngi í hug at hann myndi þagat hafa helzti leingi yfir fjárfundinum, fór þó ok hitti Einar, ok sagði honum allan atburðinn. Þá mælti Einar: betr myndi þitt mál farit hafa, ok svâ allra vâr, ef ek hefði fyrr vorðit at bragði·

[1]) er, *máske*, *H.* [2]) *eðr* frí, *A*; h. varð fár frá, *R.*

at ná fènu enn konúngr, því́at nú er eigi allhógligt at kippast um við hann, en vèr hefðum alls[1] kosti við Þorfinn, ok myndi þó þá gjör betri hans hluti enn nú er, ok munþú, Íslendíngr! eigi vera með öllu giptumaðr, svâ vænliga sem fyrst horfðist á um þitt mál[2]; en þó skaltu enn þiggja af mèr silfr nökkut, far síðan út til Íslands, ok kom ekki til Noregs, meðan Haraldr er konúngr yfir landi; skildust þeir at sinni. Litlu síðar fór Einar út til bæjar með miklu fjölmenni, frændum sínum ok vinum, stefndi hann þagat til sem konúngr var í kirkju; en er konúngr gekk frá kirkju, snèri Einar í móti honum, ok heilsaði honum, ok spurði, ef hann hefði fè þat upptekit, er Þorfinnr kaupmaðr hafði fundit. Konúngr sagði, at svâ var, því́at þat eru landslög, at konúngr eignist fè þat, er í jörðu finnst. Svâ er, segir Einar, ef menn vita eigi hverr átt hefir, en ek hygg at Eindriði, son minn, ok Bergljót, móðir hans, eigi arf allan eptir Hákon jarl, ok því þykkjumst ek eiga at taka við þessu fè, er hann hefir átt; segir Einar þá til jarteigna bæði rúnar ok einkagripi, at Hákon jarl hafði þetta fè átt; ok ef þèr villð eigi fèit laust láta, segir hann, þá skulum vèr eigi spara eptir at sækja, en [þèr verið[3], ef þèr villð. Konúngr mælti: ríkr erþú nú, Einar! því́at þú ert nú konúngr yfir landinu heldr enn vèr, þótt ek beri konúngs-

1) átt, *b. v. H.* 2) ráð, *H.* 3) berjast, *H.*

nafnit. Áttu þá góðgjarnir menn hlut í, ok gættu svâ til, at ekki varð stórt at með þeim; var Einari þá greidt upp fèit, ok skildu með því, at þeir voru kallaðir sáttir af beggja þeirra vina umstilli.

60. Svâ [er sagt[1] einn tíma, at Haraldr konúngr hafði tekit nokkura danska menn, ok hafði í járnum leyniliga, svâ at þat var í fárra manna vitorði. Einn dag kom konúngr til þeirra ok mælti: hugsat hefi ek nú yðvart mál, at þèr skuluð þat vinna til lífs yðr, at fara til lendra manna ok ríkra bónda hèr í Noregi með þeim eyrindum, sem ek vil fyrir yðr leggja. Þeir vildu þat gjarna. Konúngr fèkk þeim í hendr mikit lausafè, er þeir skyldu færa ríkismönnum, [svâ hverjum[2] sem hann kvað á; skyldu þeir kallast sendir af Sveini konúngi með þessum fègjöfum, til þess at þeir veitti honum lið, ef hann kæmi með her í Noreg; þarmeð fèkk hann þeim brèf í hendr, þau voru skrifut ok innsiglut undir nafni Sveins Danakonúngs, þau sögðu allt hit sama, sem konúngr hafði boðit sendimönnum at flytja. Þeir fóru, ok komu til margra ríkra manna, ok reyndust menn mjök misjafnt. Sendimenn komu til Einars þambarskelfis, sögðu honum sitt eyrindi slíkt sem öðrum, sýndu honum fèit, ok þarmeð brèf[3] Sveins konúngs. Einar mælti: kunn-

[1]) bar til, *H.* [2]) sèrhvörjum, *H.* [3]) innsigli, *H.*

igt er mönnum þat, at Haraldr konúngr er eingi vin minn, en Sveinn konúngr talar opt vingjarnliga til mín, ok gjarna vil ek vera vin hans; en ef hann keınr til Noregs með her á hendr Haraldi konúngi, ok herjar land hans, þá mun ek í móti standa með allan minn afla, ok veita Haraldi konúngi slíkan styrk, sem ek hefi til, at verja land hans með honum. Þeir fóru brott þaðan, ok komu til Þóris á Steig, báru framm fè, ok sýndu honum brèfin. Þórir mælti: jafnan gerir [Sveinn konúngr[1] [mèr góða hluti ok vinsamliga[2], kann vera at þat þverri enn ekki. Tók við fènu ok varðveitti. Því næst komu sendimenn til þess bónda, er hèt Högni Lángbjarnarson, hann var vellauðigr, ok hinn vinsælsti maðr; þeir sýndu honum brèfin ok fèit. Hann svarar: þat þætti mèr líkligt[3], at Sveinn konúngr myndi lítil skyn á mèr kunna, þar sem ek er einn lítilsháttar bóndi, en þessu máli [er svá at[4] svara, ef Sveinn konúngr fer með herskildi í Noreg, at eingi bóndason skal honum[5] úþarfari enn ek. Eptir þetta komu sendimenn aptr til Haralds konúngs, tók hann vel við þeim, ok spurði eptir inniliga, hver andsvör sinna eyrinda þeir fengu í hverjum stað; en þeir sögðu sem var. Þá spurði konúngr hversu færi með þeim Einari; sendimaðr sagði honum svör Einars. Konúngr mælti: þess var

---

1) *þannig*, *H*; Þórir, *A rángt*. 2) vinsamliga til mín, *H*. 3) von, *H*. 4) mun ek svá, *H*. 5) vera, *b. v*, *H*.

vân, at hann myndi drengiliga tala, ok þó af lítilli hollustu til mín: eðr hversu fór með yðr Þóri? Sendimaðr sagði at hann tók við fènu, ok talaði þó góð ein orð til beggja konúnga. Konúngr svarar: þat má sízt marka eðr vita, hversu honum er gefit um eitthvat. Síðan sögðu þeir konúngi, hvat Högni Lángbjarnarson hafði mælt. Konúngr svaraði: þar sèr[1] eitt lendsmannsefnit. Veit Haraldr konúngr nú, hvar vinir hans sitja[2].

61. Litlu síðar fór Haraldr konúngr á veizlur, tók hann þá fè af þeim mönnum, er sannir voru at svikum við hann, en suma lèt hann drepa. Konúngr fór til fundar við Steigar-Þóri, ok ætlaði at koma honum á úvart, en í liði konúngs var einn vinr Þóris, bar sá honum njósn um farar konúngs, ok at hann var honum reiðr, svâ ok hvert víti þeir höfðu fengit, er við fènu höfðu tekit. Þórir lèt þegar taka hest sinn, ok reið í móti konúngi, ok er þeir fundust, fagnaði Þórir konúngi vel, ok mælti síðan: veizla er yðr búin, herra! þar at mín, kann ek mikla þökk at þèr þiggið; þat er í [öðru lagi[3], herra! at danskir menn komu til mín eigi fyrir laungu með vinsamligum brèfum Sveins konúngs ok nokkuru fè, tók ek við fè því til varðveizlu, þvíat ek hugsaði, at þat fè kæmi svâ bezt niðr ok makligast, at þèr hefðið, er útlendir höfðíngjar vildu svíkja með ríkit undan yðr: tak nú

[1]) sitr, *H*, *R*. [2]) eru fyrir, *H*. [3]) yðru máli, *H*.

hèr við[1]! Brá hann þá digrum fèsjóð undan yfirhöfn sinni, ok seldi konúngi: en nú er svâ tilfarit, herra! sagði hann, at bygðarmenn mínir hafa barizt á, ok verð ek tilfara[2] at sætta þá, kem ek þó til yðvar í kveld; keyrði hann þegar hestinn, ok reið í brott. (En er) konúngr kom til veizlunnar með sitt lið, var þar fátt manna fyrir, en Þórir kom ekki heim; þá mælti konúngr: [nú hefir Þórir vorðit til slægr[3]; þar er sá maðr, er ek sízt má vita, hvat í skapi býr, ok er þetta nú nökkut vant at skilja, hverju hann ferr framm; ekki munum vèr nú hans hafa at sinni, en svâ segir mèr þó hugr um, at hans mál mun þúngliga til lykta leiða um síðir, fyrir sakir pretta hans ok útrúleika.

62. Fór konúngr þaðan til Högna, tók þar veizlu, ok var allkátr, sagði konúngr sik spurt hafa vinsamlig orð Högna til sín, ok lèt honum því skyldu vel ráðit, kveðst konúngr vilja gefa honum lends manns rètt. Högni svaraði: með þökkum vil ek taka, herra! aðra[4] vingan, ok allt þat er ek má, skal ek [vel til yðvar[5] gera, en lends manns nafn vil ek eigi hafa, þvíat ek veit, at þat mun talat, sem satt er, þá er lendir menn koma saman: þar skal Högni sitja yztr, hann er minstr lendra manna, þvíat hann er bóndaættar; verðr mèr

---

[1]) herra! *b. v. H.* [2]) *v. í H.* [3]) hèr hafði Þóri til slægan, *H.* [4]) yðra, *H.* [5]) yðr til heiðus, *H.*

þá lends manns nafn [ekki at[1] virðíngu, heldr athlægi[2]. Nú vil ek heldr heita bóndi, sem ek á ætt til, verðr mèr nökkut heldr sæmd at þeirri ræðu, er þá mun talat, þótt lítit se tilhaft, hvar sem bændr koma saman, at Högni er þeirra fremstr; en sæmd, góðvilja ok vináttu vil ek af yðr þiggja gjarna, [ok svâ veita í mót[3], þótt ek [hafi bóndanafn[4] hèðanaf sem hèrtil. Konúngr sagði þetta mælt bæði stórmannliga ok vitrliga; skildu þeir með kærleik.

63. [En með[5] því at Haraldi konúngi þótti Einar þambarskelfir hafa[6] sýnt drengskap sinn ok einörð, í þeirri raun sem hann lèt tilgera, ok þarmeð af góðra manna meðalgaungu ok fortölum[7], þá sýndi konúngr [á sèr[8] nökkurn vinganarsvip til Einars; bauð konúngr honum þá út til bæjar, at þiggja at sèr sæmiliga veizlu. Konúngr fagnaði Einari vel, ok setti hann hit næsta sèr, er hann kom; ok um kveldit, er þeir höfðu snædt, ok borð voru brottu, [settust þeir í hvirfíng í hálminn[9], konúngr ok Einar ok mart vildarmanna, drukku þeir þá, ok voru kátir. Voru þá teknar dýnur, ok lagðar at baki konúngi ok Einari, tóku þeir síðan tal ok skemtan sín í milli, sagði konúngr frá afreksverkum[10] sínum í útlöndum.

---

1) at eingri, *H.* 2) ath hlægi, *H.* 3) *v. í H.* 4) heita bóndi, *H.* 5) Nú meðr, *H.* 6) vel hafa reynzt ok, *H.* 7) *hèr kemr M aptr við.* 8) ok svo, *H.* 9) soto þeir eptir hvirfíng, *M.* 10) ferðum, *H.*

Konúngr fann at svâ var, sem Einar hugleiddi þat ekki, ok eigi síðr sem sígi á hann svefn; virði konúngr svâ með sèr, sem hann úvirði frásögnina, þóttist finna nú sem fyrr í þeirra skiptum, at Einar vildi hugðu[1] einga til hans leggja, en konúngr þóttist nú hafa mýkt sitt skap, ok sveigt til samþykkis með þeim; voru menn nú mjök drukknir. Einar var þá gamall mjök; Einar sat svâ, at hann hneig upp at dýnunum, ok var sofnaðr. Haraldr konúngr laut at þeim manni, er hèt Grjótgarðr, hann var skyldr mjök konúngi, konúngr mælti: takþú nú grasit[2], ok vef saman, stikk síðan í hönd Einari, ok ký hann[3] fast, ok mæl þetta: villþú[4] búast, Einar! Grjótgarðr gerði sem konúngr mælti; ok í því er Einar var knúinn fast, rak hann við fret. Konúngr spratt þá upp, ok gekk út. En er Einar varð viss hvert (spott) er honum var gert, reiddist hann mjök, ok gekk þó at sofa; en þegar um myrgininn gekk Einar með sveit sína at lopti því, er Grjótgarðr svaf í, brutu þeir upp loptit, ok tóku Grjótgarð höndum ok drápu. Konúngi þótti sèr mjök misboðit í drápi frænda síns, gerðist þá enn mikill úþokki millum þeirra. Eptir þat gengu enn til beggja vinir, ok báru sættarboð millum þeirra; kom þá svâ, at stefnulagi var ákomit, skyldu þeir hittast sjálfir í

1) *þannig, A, H.* 2) gras, *H.* 3) við, *b. v. H.* 4) vèr viljum, *F. M.*

málstofunni; var þá málstofan í konúngsgarði við ána Nið, þar sem nú er höllin. Konúngr gekk í stofuna við fá menn, en hirðin önnur var úti í garðinum; konúngr lèt snúa fjöl fyrir ljórann, svâ at lítit var opit á. Þá kom Einar í garðinn með sitt lið, hann mælti við Eindriða son sinn: ver þú úti fyrir stofunni með liðinu, þá mun mèr við eingu hætt; Eindriði stóð úti við stofudyrnar. En er Einar kom inn, mælti hann: myrkt er í málstofu konúngsins; jafnskjótt hlupu konúngsmenn at honum, hjuggu sumir, en sumir lögðu. Einar snaraði at konúngi þar er hann sat, ok hjó til hans, varð hann ekki sár, því at hann var í tveim brynjum; en er sár bárust á Einar, mælti hann: hvast[1] bíta nú hundar konúngsins; en er Eindriði heyrði þat, [brá hann sverði, ok hljóp inn í stofuna, var hann þar[2] feldr ok báðir þeir. Hlupu þá konúngsmenn [at stofunni ok[3] fyrir dyrnar; en bóndum fèllust hendr, þvíat þeir höfðu þá eingan foríngja, eggjaði hverr annan, sögðu at þeim var skömm í, at hefna eigi höfðíngja síns en þó varð ekki af atgaungunni. Konúngr gekk út til liðs síns, setti upp merki sitt, ok skaut á fylkíng; en er eingi varð atgánga bónda, þá gekk konúngr á skip sín, ok allt lið hans, reyru þeir sem skyndiligast út ör ánni á fjörðinn. Bergljót, kona Einars, spurði fall Einars, var hon 1052

[1]) sárt, *F, M.* [2]) þegar, *H.* [3]) *v. í H.*

þá í herbergi því, er þau Einar höfðu haft í bænum út: gekk hon þegar upp í konúngsgarðinn, þar sem bóndaliðit var, ok eggjaði þá mjök til orrostu. Í því bili reyri konúngr út eptir ánni, þá mælti Bergljót: missum vèr nú Hákonar Ívarssonar, frænda míns, eigi myndi banamaðr Einars róa (hèr) út eptir ánni, ef Hákon stæði á bakkanum. Síðan [lèt hon[1] búa um lík þeirra feðga, voru þeir jarðaðir at Ólafskirkju hjá leiði Magnúsar konúngs Ólafssonar[2]. Eptir fall Einars var Haraldr konúngr svâ mjök úþokkaðr, sem áðr var sagt, af þessu verki, at þat eina skorti at, er lendir menn ok bændr gengu eigi at honum, ok hèldu bardaga við hann, at eingi fèkst forgaungumaðrinn fyrir bóndaherinum[3].

---

1) rèri konúngr braut, en hon lèt, *H.* 2) hins góða, *H.*
3) þá stóðst hann eigi, ok hleypr inn í stofuna, ok er sá maðr Arni nefndr, er honum varð at bana, ok var þar nú drepinn Einar þambaskelfir ok Eindriði, son hans, er allra manna var vaskastr ok gjörviligastr. Nú leið svâ ath Einari löng heipt ok fjandskapr, er Haraldr konúngr hafði lengi bundizt ok stiltan sik, svà sem fyrr tilvísar í þessu máli, ok var þó mörg áminníng önnur ámilli þeirra, áðr enn á þessa lund fór. Ok í þenna tíma voru lendir menn svâ ofkátir í Noregi, at þegar þeim líkaði nokkoð illa við konúng, þá hlupu þeir or landi suðr til Danmerkr til Sveins konúngs, gjörði hann þá mikla þar í Danmörk, gaf þeim gull ok alla aðra virðing ok gripi, en sumum veitti hann annan sóma, sem Þjóðólfr skáld segir:

Dáð ok drottni góðum
drengspell er þat lengi.

þá for Finnr Arnason or landi suðr til Danmerkr, ok gaf Sveinn konúngr honum jarlsdóm ok mikil laun þarmeð, *í stað frá fyrra [ á fyrirfarandi blaðsíðu,* l. 17 *F, M.*

64. Finnr Árnason bjó þá á Yrjum á Austrátt, hann var þá lendr maðr Haralds konúngs; Finnr átti Þorbjörgu, dóttur Hálfdánar Sigurðarsonar sýrs; Hálfdán var bróðir Ólafs konúngs hins helga ok Haralds konúngs; en Þóra, kona Haralds konúngs, var bróðurdóttir Finns Árnasonar: var Finnr hinn kærasti vin Haralds konúngs, ok allir þeir bræðr Árnasynir, sem þá voru [í Noregi[1]. Finnr hafði verit nökkur sumur í vestrvíkíng, ok höfðu þeir þá verit allir saman í hernaði, Finnr ok Guthormr, son Ketils kálfs á Hríngunesi ok Gunnhildar, dóttur Sigurðar konúngs sýrs, ok Hákon Ívarsson. Haraldr konúngr fór með sínu liði út eptir firði, ok lètti sinni ferð eigi fyrr, enn hann kom á Austrátt; var konúngi þar vel fagnat. Síðan töluðust þeir við, konúngr ok Finnr, ok ræddu sín í milli um þau tíðindi, er þá höfðu gerzt um aftöku þeirra Einars ok Eindriða, ok svâ kurr þann ok þys, er bændr gerðu konúngi. Finnr var maðr djarfmæltr ok skjótorðr, hann mælti til konúngs heldr úgætiliga: þèr er verst farit at hvívetna, segir hann, gerir fyrst *hvatvetna*[2] íllt, en síðan erþú svâ hræddr, at þú veizt eigi hvar þú skalt vera[3]. Konúngr mælti þá hlæjandi: mágr! sagði hann, ek vil nú senda þik inn til bæjar, vil ek at þú sættir

[1]) innanlands, *H.* [2]) hvetvetna, *H.* [3]) hafa þik, *H.*

mik við bændr, en ef þat geingr eigi, þá vil ek at þú farir til Upplanda, ok komir því við Hákon Ívarsson, at hann sè eigi mótstöðumaðr minn. Finnr svarar: hvat skaltu[1] tilleggja við mik, ef ek fer sendiför þessa, þvíat bæði Þrændir ok Upplendíngar eru vorðnir af verki þessu svâ miklir fjandr yðrir, at eingum þínum manni er þagat fært, nema sjálfs síns njóti við? Konúngr mælti: farþú, mágr! sendiförina, þvíat ek veit, at þú kemr á leið, ef nökkurr kemr, at gera oss frjálsa, kjós síðan bæn af[2] oss. Finnr mælti: hallþú konúngr! orð þín, en ek mun kjósa bænina þegar, ek kýs grið ok landsfrið í Noregi Kálfi bróður mínum, ok [eignum hans öllum[3], ok því með at hann hafi nafnbætr slíkar ok allt ríki, sem hann hafði áðr hann fór ör landi. Konúngr játtaði þessu, er Finnr mælti; höfðu þeir vitni at þessu ok handfesti. Þá mælti Finnr: hvat skal ek Hákoni frambjóða, til þess at hann heiti þèr griðum; hann ræðr nú mest bæði fyrir Þrændum ok Upplendíngum. Konúngr svarar: hitt skalþú fyrst heyra, hvat hann mælir til fyrir sína hönd, síðan komþú mínu máli sem framast mátt þú, en at lyktum neitaðu konúngdóminum einum. Síðan fór Haraldr konúngr suðr á Mæri, dró at sèr lið, ok gerðist fjölmennr.

65. Finnr Árnason fór inn[4] til bæjar, ok

[1]) viltu, *H.* [2]) ath, *H.* [3]) eignir hans allir, *H.* [4]) út, *H.*

hafði með sèr húskarla sína, nær 80 manna, ok er hann kom inn til Niðaróss, átti hann þíng við bæjarmenn[1]; Finnr talaði á þínginu lángt eyrindi ok snjallt, bað hann bæjarmenn taka allt annat ráð, heldr enn hatast við konúng sinn, ok gera honum úfrið; hann minnti þá á hversu mart íllt yfir þá hafði gengit, síðan þeir höfðu þat gert við hinn heilaga Ólaf konúng: vill konúngr, segir hann, bæta víg þessi, eptir því sem (hinir) beztu menn ok vitrustu vilja gera. Lauk Finnr svâ ræðu sinni, at allir hètu því, at láta þetta mál standa kyrt, þartil er aptr kæmi sendimenn þeir, sem Bergljót hafði senda til Upplanda á fund Hákonar Ívarssonar, frænda síns. Síðan fór Finnr út til Orkadals með þá menn, sem honum höfðu fylgt til bæjarins; þaðan fór hann upp til Dofrafjalls, ok svâ til Upplanda; fór hann fyrst til fundar við Orm jarl mág sinn, (jarlinn átti Sigríði, dóttur Finns), ok sagði honum sín eyrindi. Síðan gerðu þeir stefnulag við Hákon Ívarsson, en er þeir fundust, bar Finnr upp eyrindi sín við Hákon, þau er Haraldr konúngr bauð honum; fanst þat brátt í[2] ræðu Hákonar, at honum þótti [sèr mikil skylda á vera[3], at hefna Eindriða frænda síns, [svâ ok at honum voru þau orð komin norðan ör Þrándheimi, at honum mundi þar fást nógr herr til uppreistar móti konúngi[4].

[1]) bændr, *H.* [2]) á, *H.* [3]) mjök misboðit, ok mikil skylda, *H.* [4]) *v. í H.*

Síðan tjáði Finnr fyrir honum, hve mikill munr honum var at taka af konúngi svâ mikil metorð, sem hann kynni sjálfr beiðast, heldr enn hætta til þess, at reisa flokk ok úfrið móti konúngi þeim, sem hann var áðr þjónustubundinn: munþú fara úsigr, segir Finnr, ok er þá ljóst, at þú hefir fyrirgert bæði fè ok friði; en ef þú sigrast á Haraldi konúngi, muntu heita drottinssviki, ok vera fyrirlitinn[1] ok rekinn frá öllum góðum mönnum. Ormr jarl studdi þessa ræðu með Finni; en er Hákon hugsaði þetta mál fyrir[2] sèr, þá bar hann þat upp, er honum bjó í hug: ek mun, segir hann, sættast við Harald konúng, ef hann vill gipta mèr Ragnhildi, dóttur Magnúsar konúngs, frænda síns, með slíkri heimanfylgju sem henni sómir, ok líkar vel í alla staði. Finnr mælti: þessu vil ek játta af konúngs hendi; staðfestu þeir þetta sáttmál[3] með sèr. Fór Finnr þá norðr aptr til Þrándheims, settist þá niðr ok stöðvaðist úfriðr allr ok agi, svâ at Haraldr konúngr hèlt enn ríki sínu í friði innanlands; þvíat þá var niðrslegit ok slitit samhald þat ok úfriðarefni, er frændr ok vinir þeirra feðga höfðu saman bundit[4] ok uppreist til mótstöðu við Harald konúng, þvíat þeir áttu mest traust ok forsjó undir Hákoni Ívarssyni. Var þat margra manna mál, at Hákon væri betrfeðrúngr um marga hluti, þó hafði Ívar hvíti verit mikill maðr fyrir

[1]) rækr, *H.* [2]) með, *H.* [3]) mál, *H.* [4]) dregit, *H.*

sèr, údæll ok nökkut sviplyndr; hann hafði verit lendr maðr Ólafs konúngs hins helga, ok af honum vel virðr.

66. Ívar var staddr at veizlu nökkurri með Ólafi konúngi, þá er Sighvatr skáld færði konúngi kvæði, er hann hafði ort[1]; ok er lokit var kvæðinu, var þat lofat mjök; þá mælti Ívar til Sighvats: þat er ráð at yrkja um fleiri menn göfga enn um konúnginn einn, þvíat þat kann vera at konúngrinn mæðist á gjöfum við yðr, er[2] þèr yrkið um hann á leið framm. Sighvatr sagði ok slíkan mann vel tilfallinn at ort væri um, sem Ívar var, fyrir margra hluta sakir. Ok litlu síðar enn Ívar var brott farinn, bað Sighvatr konúng leyfis, at fara til fundar við Ívar. Konúngr svarar: svâ sýnist mèr, at vel mættir þú una þeirri sæmd, sem ek veiti þèr, ok eigi er þat meiri virðíng at þiggja gjafir af lendum mönnum; nú skalþú ráða ferðum þínum, en [mæla þat[3] sumir menn, at Ívar sè eigi alljafnlyndr. Sighvatr fór til Upplanda, kom á fund Ívars, ok kvaddi hann; Ívar svarar seint ok með eingri lèttúð. Sighvatr mælti: ek hefi ort um þik kvæði, er ek nú hèr til þess kominn, at færa þèr. Ívar svarar: þat verðr yðr opt skáldunum, þá er konúngunum leiðist ofskvaldr yðvart, þá leiti þèr undan, ok villð draga fè af bóndunum. Þá kvað Sighvatr:

---

1) um hann, *b. v. H.* 2) ef, *H.* 3) þó mæla, *H.*

Eigi sátuð ítrum
Ívar megin-fjarri
orð þá[1] er ossum[2] færðag
at sóttist lof drottni;
þèr[3] er, alls hann[4] rèð hlýða
hroðr sinn, lofi þínu[5]
(hljóðs hefig beidt á báða
bekki[6]) vant at hnekkja.

Ívar mælti: þú segir satt, skáld! ok skal at vísu hlýða; flutti Sighvatr kvæðit, en Ívar launaði ríkmannliga; fór Sighvatr þá aptr til konúngs. Ívar hèlt virðíngu sinni ok lends manns rètti allt til dauðadags, ok varð gamall, en þó var hann nú andaðr, sem hèr er komit sögunni; hafði Hákon tekit allan arf eptir föður sinn, var hann þá mestr íþrótta-maðr ok atgerfi, ok vinsælstr úngra manna í Noregi.

67. En er at þeirri stefnu kom, er Hákon skyldi vitja þeirra einkamála, er þeir Finnr höfðu viðtalazt, þá fór Hákon á fund Haralds konúngs, ok er þeir tóku tal, sagði konúngr, at hann vildi halda af sinni hendi allt, þat sem í sætt hafði komit með þeim: skalþú, segir konúngr, tala þetta mál við Ragnhildi, hvârt hon vill þat samþykkja eðr eigi, er þèr eigi tilráðanda, ok eingum öðrum, at fá Ragnhildar, svâ at eigi sè hennar samþykki til. Síðan gekk Hákon til fundar við Ragnhildi, ok bar upp

[1]) þar, *H.* [2]) avrom, *F*, *M.* [3]) yðr, *F.* [4]) *v. í H.* [5]) mínu, *H.* [6]) *þannig H*, *F*, *M*; bekk, *A.*

fyrir hana bónorð þetta. Hon svarar svâ: opt finn ek þat, at dauðr er Magnús konúngr, faðir minn, ok enn er svâ, ef ek skal nú giptast einum bónda, þótt þú sèr fríðr maðr ok vel búinn at íþróttum; ef Magnús konúngr lifði, þá myndi hann eigi gipta mik minna manni enn konúngi, nú er þess eingi vân, at ek giptumst útignum manni. Gekk þá Hákon á fund Haralds konúngs, ok sagði honum tal þeirra Ragnhildar; innti hann upp síðan einkamál þeirra Finns, var þá ok Finnr við ok enn fleiri menn aðrir, þeir sem við tal þeirra (Finns) höfðu verit; sagði Hákon svâ til vitnis allra[1], at svâ var skilt með þeim Finni, at Haraldr konúngr skyldi gipta honum Ragnhildi, ok gera hana svâ heiman, at henni líkaði vel: nú vill hon eigi eiga útiginn mann, þá megið þèr gefa mèr tignarnafn, hefi ek til þess ætt, at ek mætti jarl heita, ok nökkura hluti aðra, at því sumir menn kalla. Konúngr svarar: Ólafr konúngr, bróðir minn, ok Magnús konúngr, son hans, þá er þeir rèðu landi, lètu þeir einn jarl senn vera í landinu; hefi ek ok svâ gert, síðan ek varð konúngr, vil ek eigi taka tign af Ormi jarli, þá sem hann hefir, ok ek hefi gefit honum. Þá sá Hákon sitt mál, at þat mundi ekki viðgángast, líkaði honum þá stórilla; Finnr var ok allreiðr, sögðu þeir at konúngr hèldi ekki

[1]) þeirra, *b. v. H.*

orð sín; skildust þeir at svâ búnu. Hákon fór þegar ör landi, hafði hann lángskip vel skipat, hann kom framm suðr í Danmörk, fór þegar á fund Sveins konúngs, mágs síns; tók Sveinn konúngr feginsamliga við Hákoni, ok fèkk honum þar veizlur miklar; gerðist Hákon þar landvarnarmaðr fyrir víkíngum, er mjök herjuðu í Danaveldi, Vindr[1] ok Kúrir ok aðrir Austrvegsmenn; lá hann úti á herskipum bæði vetr ok sumar.

68. Ásmundr er maðr nefndr, hann var systurson Sveins konúngs ok fósturson hans; Ásmundr var allra manna gerviligastr, unni konúngr honum mikit. En er Ásmundr þroskaðist, gerðist hann brátt ofstopamaðr mikill ok vígamaðr; konúngi líkaði þat illa, lèt hann því brott frá sèr, ok fèkk honum lèn[2] gott, þat er hann mátti vel halda sik við ok sveit sína. En þegar Ásmundr tók við konúngsfè, dró hann mikit lið at sèr, svâ at honum endist ekki fè þat til kostnaðar, er konúngr fèkk honum, tók Ásmundr þá annat fè hálfu meira, er konúngr átti; en er Sveinn konúngr spurði þat, þá stefndi hann honum á sinn fund, ok er þeir fundust, sagði konúngr at Ásmundr skyldi vera í hirð hans, en hafa sveit einga; varð þá svâ at vera sem konúngr vildi. En er Ásmundr hafði litla hríð verit með konúngi, þá undi hann þar ekki, hljóp á brott um nótt, kom þá til hans sveit

1) Vindir, *H.* 2) nokkut, *b. v. II.*

sú öll, er honum hafði fylgt, gerði hann þá fleira íllt enn fyrr. En er konúngr reið yfir land, ok kom þar nær er Ásmundr var, þá sendi hann menn sína, at taka Ásmund með valdi; síðan lèt konúngr setja hann í járn, ok varðveita svâ um stund, hugði at þá mundi hann spekjast. En er hann kom ör járninu, þá hljóp hann þegar brott, fèkk sèr lið ok herskip, tók hann þá at herja innanlands, brendi bygðir víða, drap menn ok rænti, ok gerði hit mesta spellvirki[1]; en þeir menn, sem fyrir þessum úfriði urðu, [ok lífi hèldu[2], komu fyrir konúng, ok kærðu skaða sinn. Konúngr mælti: hvat segið þèr mèr til slíkra hluta? farið til Hákonar Ívarssonar, kærið yðr fyrir honum; hann er landvarnarmaðr minn, ok til þess (settr) at friða ok frelsa yðr bændr, ok hegna víkínga[3] rán ok illgerðir. Var mèr svâ sagt, at Hákon væri maðr djarfr ok frækn í öllum raunum, en nú sýnist mèr sem hann vili hvergi tilleggja, þar sem honum þykkir mannhætta í vera. Þessi orð konúngs voru flutt til Hákonar með mikilli frekju[4] ok mörgu viðaukit. Hákon fór þá með liði sínu at leita Ásmundar, varð fundr þeirra á skipum, lagði Hákon þegar til bardaga, tókst þar hin snarpasta orrusta, ok gekk Hákon fast framm; hann veitti uppgaunguá skip Ásmundar með sína menn, ok hjó á 2 hendr; hruðu

[1]) hervirki, *H.* [2]) *v. í H.* [3]) víkíngum, *H.* [4]) ákefð, *H.*

þeir þat skip aptr at lyptíngu, kom þá svâ, at þeir Hákon ok Ásmundr skiptust höggum við; þar fèll Ásmundr, ok hjó Hákon af honum höfuð. Síðan fór Hákon skyndiliga á fund Sveins konúngs, kom hann þar svâ, at Sveinn konúngr sat at matborði; Hákon gekk fyrir konúng, ok setti höfuð Ásmundar á borðit fyrir hann, ok spurði, hvârt hann kendi. Konúngr svarar eingu, ok setti dreyrrauðan á at sjá. Hákon mælti: þat þykki mèr nú áfinnast, herra! at þèr kunnið mèr minni þökk fyrir verk þetta, enn ek hugði; ætla ek at Ásmundr mundi enn eigi spara, at sitja um líf yðvart, ef hann hefði undangengit, ok því drap ek hann. Snèri Hákon þá utar eptir höllinni ok út. Konúngr sendi mann eptir honum, ok bað hann brott fara ör sinni þjónustu: vil ek, segir konúngr, honum ekki [til meins[1] gera, en ekki má ek gæta frænda vârra allra. Fór Hákon þá brott or Danmörku ok norðr til Noregs, ok svâ á Upplönd til eigna sinna, urðu þar margir menn fegnir Hákoni, frændr hans ok vinir. Þá var andaðr Ormr jarl, frændi hans; gerðust þá til göfgir menn ok góðgjarnir, at bera sáttarboð milli þeirra Haralds konúngs; kom svâ at þeir sættust, með því móti at Hákon fèkk Ragnhildar konúngsdóttur, en Haraldr gaf Hákoni jarldóm[2], ok ríki slíkt sem haft hafði Ormr jarl,

[1]) mein, *H.* [2]) jallsnafn, *H.*

frændi hans; sór Hákon jarl Haraldi konúngi trúnaðareiða, [eptir því sem honum bar at gera sínum rèttum konúngi, hugðu menn hèr gott til, at þeirra vinátta myndi vel haldast, eptir því sem þeir (sættust)[1].

69. [Kálfr Árnason hafði verit í vestrvíkíng, síðan hann stökk or landi fyrir Magnúsi konúngi, sem fyrr er ritat; en[2] optast á vetrum, var Kálfr í Orkneyjum með Þorfinni jarli, mági sínum. Finnr Árnason, bróðir Kálfs, gerði honum orð, ok lèt segja honum einkamál þau, sem þeir Haraldr konúngr höfðu viðtalazt, at Kálfr skyldi hafa landsvist í Noregi ok eignir sínar, ok slíkar veizlur sem hann hafði haft af Magnúsi konúngi; en er Kálfi kom þessi orðsendíng, þá bjóst hann þegar vestan, ok fór austr til Noregs, fyrst til fundar við Finn, bróðr sinn; tók Finnr þá Kálfi grið. Síðan fundust þeir sjálfir, konúngr ok Kálfr, ok gerðu sætt sína, eptir því sem Haraldr konúngr ok Finnr höfðu bundit einkamálum með sèr. Gekk Kálfr til festu við konúng ok alls skildaga, slíks sem hann hafði fyrr bundit við Magnús konúng, at Kálfr skyldi vera skyldr at gera þau verk öll, er Haraldr konúngr vildi, ok honum þætti sitt ríki bæta; tók Kálfr þá eignir sínar allar ok veizlur, sem hann hafði fyrr haft.

---

[1]) *þetta orð er gizkat, en í stað þess frá [ hefir B:* til þeirrar þjónustu, sem hann var skyldr til. [2]) *v. í A.*

70. Á næsta sumri eptir sætt þeirra Kálfs hafði Haraldr konúngr leiðángr úti, hèlt hann her þeim suðr til Danmerkr, ok herjaði þar um sumarit; en er hann kom suðr til Fjóns, þá var þar liðsafnaðr mikill fyrir þeim, lèt þá konúngr lið sitt gánga af skipum, ok búast til uppgaungu. Hann skipaði liði sínu, lèt vera fyrir sveit Kálf Árnason, ok bað þá fyrst gánga upp, ok sagði hvert þeir skyldi stefna, en konúngr kvaðst mundu gánga upp með lið sitt litlu síðar, ok koma þeim at liði, ef þeir þyrfti nökkurs við. Þeir Kálfr gengu upp, ok kom brátt lið í móti þeim; rèð Kálfr þegar til orrostu, varð bardagi hinn snarpasti, ok eigi lángr, því at Kálfr var ofrliði borinn; kom hann á flótta ok lið hans, en Danir fylgdu þeim, ok feldu mart af Norðmönnum; þar fèll Kálfr Árnason. Haraldr konúngr gekk á land af skipum sínum, þá er hann var búinn, ok menn hans; höfðu þeir eigi lángt gengit, áðr þeir urðu varir við valinn, fundu þeir brátt lík Kálfs, var þat borit til skipa, en konúngr gekk uppá land ok herjaði, ok drap mart manna; svâ segir Arnórr:

Rauð en rýrt vann[1] síðan,
rann eldr um [sjót manna[2],
frána egg á Fjóni,
Fjónbyggja lið, tiggi.

Finnr Árnason lèt sèr fjandskap íþykkja við

[1]) varð, *Hk.* [2]) sjavt, *H.*

konúng um fallit Kálfs, bróður síns, kallaði at konúngr [væri ráðbani hans[1], en þat væri blekkíng ein við Finn, er hann hafði teygt Kálf vestan um haf á vald ok trúnað Haralds konúngs; en þat var mælt af sumum mönnum, at Finni hefði þat grunsæliga tekizt, þótti þeim konúngr vera heiptúðigr um minni sakir, enn Kálfr hafði tilgert. Haraldr konúngr lèt hèr hvern umtala sem vildi, sannaði þat ekki nè synjaði; fann þat eitt á, at honum þótti eigi illa vorðit. Haraldr kvað vísu þessa:

Nú emk ellifu allra,
eggjumst vígs, ok tveggja,
þau eru enn svâ at ek man inna
morð, ráðbani orðinn;
[ginn en[2] gráleik inna,
golls, ok ferr[3] með skolli,
lýtendr kveða lítit
lauki gæft at auka.

Finnr Arnason lèt sèr svâ mikit finnast um mál þetta, at hann fór ör landi, ok kom framm í Danmörk; fór hann á fund Sveins konúngs, ok fèkk þar allgóðar viðtökur, töluðu þeir laungum einmæli, ok kom þat upp um síðir, at Finnr gekk til handa Sveini konúngi, ok gerðist hans maðr, en Sveinn konúngr gaf honum jarldóm, ok fèkk honum Halland til yfirsóknar, var hann þar lengi jarl ok landvarnarmaðr fyrir Norðmönnum.

[1]) hefði ráðit honum bana, *H.* [2]) ginnir, *H.* [3]) ferð, *Hk.*

71. Haraldr konúngr lèt reisa kaupstað austr í Osló, ok sat þar opt, þvíat þar var gott atflutníngar, landsmegin mikit umhverfis; sat hann þar vel til landsgæzlu fyrir Dönum, svâ ok til áhlaupa í Danmörk, sem hann var opt vanr, þótt hann hefði eigi mikinn her úti. Þat var á einu sumri at Haraldr konúngr fór með nökkurum lèttiskipum, ok hafði ekki mikit lið, hann hèlt suðr í Víkina, er byrr gaf, ok sigldi yfir undir Jótland, tók þá ok herjaði. Landsmenn söfnuðust saman, ok vörðu land sitt; þá hèlt Haraldr konúngr liði sínu inn í Limafjörð. Svâ er háttat í Limafirði, at þar er inn at fara sem mjofar ár, en er innsækir í fjörðinn, þá er þar svâ vítt sem mikit haf, herjaði Haraldr konúngr þar á bæði lönd, en Danir höfðu hvervitna safnað fyrir. Þá lagði Haraldr konúngr skip sín at eyju nökkurri, þat var lítit land ok úbyggt, þeir höfðu drykkfátt á skipunum, þeir gengu upp á eyna, ok leitöðu vatns, ok fundu ekki, ok sögðu konúngi; þá lèt hann leita, ef fyndist lýngormr nökkurr, ormrinn fannst, ok færðu þeir konúngi. Konúngr mælti: eigi mætti ormrinn lifa, ef hann hefði ekki at drekka, kann vera at hann viti hèr vatn, þótt vèr finnim eigi. Lèt konúngr þá færa orminn til elds, baka hann ok mæða, at hann skyldi þyrsta sem mest, síðan var þráðr bundinn við sporð orminum, [ok var hann lauss látinn, en þráðrinn raknaði af hörhnoða; gengu menn eptir orm-

inum, þartil er hann hröktist[1] í jörð niðr. Konúngr bað þar tilgrafa; var svâ gert, ok fundu þeir þar vatn, svâ at eigi skorti. Haraldr konúngr spurði þá þau tíðindi af njósnarmönnum sínum, at Sveinn konúngr væri kominn með skipaher mikinn fyrir fjarðarmynnit; varð honum seint inn at leggja, er eitt skipit mátti fara senn. Haraldr konúngr hèlt þá inn í fjörðinn, þar sem breiðastr er, þar heitir Lúsbreið, en þar ör víkinni innanverðri er eið *mjótt* vestr til hafsins, þángat reyru þeir Haraldr konúngr um kveldit, en [um nóttina[2] er myrkt var vorðit[3], ruddu þeir skipin, ok drógu um eiðit, ok höfðu þat allt sýslat[4] fyrir dag, ok búin skipin í annat sinn, hèldu þá norðr fyrir Jótlands síðu, þá mæltu þeir þetta:

Skrapp ör höndum
Haraldr Dönum.

Þá sagði Haraldr konúngr, at hann skyldi svâ koma til Danmerkr næsta sinni, at hann hefði meira lið ok stærri skip; fór Haraldr konúngr þá norðr í Noreg í ríki sitt, ok svâ sunnan með landi, lètti eigi fyrr enn hann kom norðr í Þrándheim, ok sat í Niðarósi um vetrinn.

72. Maðr hèt Auðun, íslenzkr ok vestfirzkr at ætt, hann var maðr fèlítill ok at góðu kendr; Auðun fór utan á einu sumri vestr þar í fjörðunum með norrænum manni, er Þórir hèt; en

---

[1]) eptir þat hröktist hann, *H.* [2]) *v. í H.* [3]) um kveldit, *b. v. H.* [4]) sýst, *H.*

áðr Auðun fór utan, lagði hann mestan hluta fjár þess, er hann átti, fyrir móður sína, ok var þat eigi meira enn tveggja[1] vetra forgift; síðan sigldu þeir í haf, gaf þeim vel byri, ok tóku Noreg. Auðun var hjá Þóri um vetrinn; um sumarit eptir fór Auðun með Þóri út til Grænalands[2], ok voru þar vetr annan; þar keypti Auðun eitt bjarndýri vel vanit, gaf hann þar við allt þat er hann átti í fèmunum, var dýr þat hin mesta gersimi þesskyns. Á næsta sumri eptir fóru þeir aptr til Noregs, ok urðu vel reiðfara; Þórir stýrimaðr fór þá til búss síns, en Auðun fèkk sèr far austr til Víkr, ok hafði dýr sitt með sèr; en er hann kom til Osló, gekk hann á land með dýr sitt, ok leitaðist um herbergi, meðan hann dvaldist þar, ætlaði síðan suðr til Danmerkr, ok gefa Sveini konúngi dýrit; en þá var sem mestr agi ok úfriðr með Haraldi konúngi ok Sveini. Haraldr konúngr var þar í bænum, ok var honum skjótt sagt, at þar var kominn íslenzkr maðr af Grænalandi með allspakt bjarndýr; konúngr sendi þegar eptir Auðuni; hann kom fyrir konúng ok kvaddi hann; konúngr, tók vel kveðju hans ok mælti: áttu bjarndýri þat, sem mikil gersimi er? hann sagði at svâ var. Konúngr mælti: villþú selja oss dýrit við slíku verði sem þú keyptir? Eigi vil ek þat, herra! segir Auðun. Villþú, segir konúngr, at ek gefi þèr fyrir 2 verð slík, ok

[1]) þriggja, *H.* [2]) Grænlands, *H allstaðar.*

mun þat rèttara, ef þú gaft þarvið alla eigu þína? Eigi vil ek þat, herra! sagði hann. Vill-þú gefa mèr þá, segir konúngr? Þat vil ek ok eigi, segir Íslendíngr. Konúngr mælti: hvat viltu þá afgera? Auðun svarar: þat sem ek hefi áðr ætlat, fara suðr til Danmerkr, ok gefa Sveini konúngi. Haraldr konúngr mælti: hvârt er heldr, at þú ert maðr svâ úfróðr, at þú hefir eigi heyrt getit úfriðar þess, sem hèr er milli landa, eðr ætlar þú giftu þína svâ mikla, at þú munir ná at færa Sveini konúngi gersimi, þar sem aðrir komast eigi klaklaust, þótt nauðsyn beri til? Auðun svarar: herra! þat er nú á yðru valdi, en eingu játta ek öðru, enn ek hefi nú sagt ok áðr ætlat. Þá mælti konúngr: hví mun eigi þat ráð, at þú farir sem þèr líkar, en þat vil ek tilskilja, at þú komir til mín, þá er þú ferr aptr, ok seg mèr hversu Sveinn konúngr launar þèr dýrit; kann vera at þú sèr gæfumaðr. Því vil ek heita yðr, segir Auðun. Fór hann þá, ok fèkk sèr far suðr til Danmerkr; en er hann kom þar, þá var uppi hverr penníngr fjár, sá er hann átti, varð hann þá at biðja matar bæði fyrir sik ok dýrit. Hann kom þá til ârmanns Sveins konúngs, þess er Áki hèt; Auðun bað hann fá sèr vistir, svâ at hann mætti fæða sik ok dýrit, þat er hann ætlaði at gefa Sveini konúngi. Áki svarar: selja mun ek þèr vistir, ef þú vill. Ek hefi nú ekki til fyrir at gefa, sagði Auðun, en ek vildi þó gjarna koma

því til leiðar at færa konúngi dyrit, [því þat er skaði, ef svâ góðr gripr deyr fyrir mèr. Áki mælti: þit þurfit enn miklar vistir, áðr þit komit til konúngs; ek mun gera þèr þann kost, at ek mun fæða ykkr báða þartil, en ek vil þá eiga hálft dýrit[1]; máttu á þat líta, at þú hefir þess ekki, ef þat sveltr til bana fyrir þèr. Auðuni þótti þessi kostr þúngr, en sá þó eigi annan fyrirliggja líkara, þar sem þá var komit; urðu þeir á þat sáttir, at hann seldi Áka hálft dýrit með því skilorði, at þeir skyldu þá þegar báðir fara á konúngs fund, ok skyldi[2] virða hvârtveggja, vistir þær, sem Áki fèkk honum, ok dýrit, en Áki bæta Auðuni svâ mikit sem vert er, ef konúngi þætti betra hálft dýrit. Þeir fóru báðir samt, þartil er þeir fundu Svein konúng; hann fagnaði vel Áka ármanni, en spurði þann, er fór með honum, hverr sá maðr væri, er hann kendi hann eigi. Auðun svarar: ek er einn íslenzkr maðr[3], nýkominn af Noregi, en áðr utan af Grænalandi, var þat eyrindi mitt higat, at gefa yðr bjarndýri þetta, er ek keypti þar á Grænlandi með allri eigu minni; en nú er þó á-vorðit mikit fyrir mèr, ek á nú eigi meir enn hálft dýrit; sagði hann síðan konúngi allt upp, hversu farit hafði með þeim Áka. Konúngr mælti: er þat satt, Áki! sem hann segir? Satt

1) *þannig H; frá merkinu v. í A.* 2) skal hann, *H.* 3) herra! *b. v. H.*

er þat, segir Áki. Konúngr mælti: ok þótti þèr þat tilliggja, þar sem ek hafði þik settan yfir minn varnað, ok fengit þèr mikit lèn, at tefja ok tálma þat, er útlendr maðr ok mèr úkunnr gerðist til at færa mèr gersimi, ok gaf þar til alla eigu sína, ok vârir hinir mestu úvinir sá þat at ráði, at láta hann fara í friði? Hygg at þá, hversu úsannligt[1] þèr var slíkt at gera, ok er þat vânligt[2] at mart ok mikit skilì ykkr Harald konúng, [er hann gaf honum frið[3]. Nú væri þat makligt at þú lètir eigi at eins alla eigu þína, heldr ok lífit með; en þótt ek láti eigi drepa þík at sinni, þá skalþú allt at einu þegar í stað brottu verða fèlauss ör mínu ríki, ok koma aldri mèr í augsýn; en ek kalla, [Íslendíngr! sem þú hafir gefit mèr allt dýrit, segir konúngr[4], ok því öllu betr, sem vist sú er verð, sem Áki seldi þèr, en hann átti at gefa, ok ver hèr með mèr. Auðun þakkaði konúngi orð sín ok boð, var þar um hríð, en Áki fór á brott úfeginn, ok týndi miklu góðu, fyrir þat er hann ágirntist þat, er honum heyrði ekki til.

73. Auðun var litla stund með Sveini konúngi, áðr hann sagði sik fýsast á brott. Konúngr svarar honum heldr seint: hvat villþú þá, sagði hann, ef þú vill eigi með oss

---

[1]) *þannig lagfært fyrir* sannlikt, *A*; ósannligt, *H.* [2]) vonligt, *H.* [3]) *v. í H.* [4]) *þannig H;* segir Islendingr, at þú gefir m. a. d. sem áðr, *A.*

vera? Ek vil gánga suðr til Róms, segir hann. Konúngr mælti: ef þú [tækir eigi svâ gott ráð upp[1], þá mundi mèr hafa mjök mislíkat, ef þú fýstist á brott hèðan, en nú skal þetta[2] með eingu móti tálma; gaf konúngr honum þá silfr mikit, ok skipaði til um ferðir hans, kom honum í föruneyti með öðrum Rómferlum, ok bað hann vitja sín, þá er hann kæmi aptr. Gekk Auðun suðr, en er hann fór sunnan aptr, tók hann sótt mikla, ok lá leingi; gengu þá upp penníngar allir, þeir er Sveinn konúngr gaf honum, en fèlagar hans skildust við hann. Hann reis upp ör sóttinni, ok var vorðinn mjök magr ok máttdreginn, [en þá eingir penníngar at næra sik við[3]; tók hann þá stafkarls stig, ok bað sèr matar, kom hann aptr í Danmörk at páskum, þar sem Sveinn konúngr var þá. Auðun var þá kollóttr[4] ok klæðlaus, ok at öllu úsælligr, ok eigi þorði hann at láta sjá sik í fjölmenni; var hann í kirkjuskoti nökkuru laugardaginn fyrir páska, ok ætlaði helzt at finna konúng, er hann gengi til nóntíða; en er hann sá konúng ok hirð hans fagrliga búna, þá skammaðist hann at verða þeim fyrir augum. En er konúngr var genginn til borða, þá fór Auðun ok mataðist úti undir hallarvegginum, sem siðr er til pílagríma, meðan þeir hafa eigi kastat staf ok

[1]) vildir eigi svâ gott ráð fyrir þèr gjöra, *H.* [2]) þat; *H.*
[3]) v. í *H.* [4]) sköllóttr, *H.*

skreppu; ætlaði hann nú at hitta konúng, þá er hann gengi til náttsaungs, en svâ mikit sem honum þótti fyrir um daginn, þá þorði hann nú hálfu síðr at láta konúng sjá sik, er þeir voru drukknir, hljóp hann þá þvers [á brott[1] at fela sik; konúngr þóttist sjá svip manns. En er konúngr gekk frá kirkju, ok [öll hirðin var innkomin í herbergit[2], þá snèri konúngr út aptr, ok mælti stundarhátt, er hann var útkominn: ef nökkurr er sá maðr hèr nærr, sem mik grunar, at mik vili finna, ok hafi varla frama til, þá gángi hann nú framm, ok láti sjá sik. Þá gekk Auðun framm, ok fèll til fóta konúngi; konúngr kendi hann at kalla, tók í hönd honum, ok bað Auðun (vera) velkominn: ok hefir þú mikit skipazt, segir hann, síðan við sámst næst, svâ at varla kenda ek þik; leiddi konúngr hann þegar inn í herbergit, en hirðmenn hlógu at honum, er þeir sá hann. Konúngr mælti til þeirra: eigi þurfið þèr at honum at hlæja, þótt yðr sýnist hann úsælligr[3] at sjá; hann hefir betr fyrir sálinni sèt enn þèr, ok því mun guði hann sýnast [fagr ok fríðr[4]. Lèt konúngr þá þegar gera honum laug, ok þjónaði honum sjálfr, gaf honum síðan góð klæði, ok lèt gera til hans sem bezt; hrestist hann brátt, er hann var maðr úngr; var hann þar um hríð. Auð-

[1]) í braut af veginum, *H.* [2]) öllum var skipat í sæti, *H.* [3]) ósèligr, *H.* [4]) fríðari enn yðr, *H.*

un kunni vel at hafa sik í fjölmenni, var hann maðr ótyrrinn[1], orðgætinn, ok ekki margtalaðr, líkaði öllum mönnum vel við hann. Sveinn konúngr var ok hinn blíðasti til hans.

74. Þat var eitt sinn um vârit er áleið, at þeir töluðust við, þá mælti konúngr: þat er satt, Auðun! at ek hefi (ekki) tilinnt, hvat þèr þykkir tilhaga, at ek launa þèr dýrit; skal þèr kostr at vera leingi með mèr, ok mun ek gera þik skutilsvein minn, ok veita þèr þarmeð góða virðíng. Auðun svarar: guð þakki yðr, herra! ágætt boð, ok alla þá sæmd, sem þèr veitið mèr, en þat er mèr at skapi at fara út til Íslands. Konúngr mælti: þetta sýnist mèr mjök undarligt kjör. Auðun mælti: eigi má ek þat vita, herra! segir hann, at ek sitl[2] hèr með yðr í mikilli sæmd ok fullsælu[3], en móðir mín troði stafkarls stig út á Íslandi; þvíat nú er úti sá tími, er ek fèkk henni forlag, áðr ek fór utan. Konúngr svarar: þetta er vel talat ok góðmannliga, ok munþú verða gæfumaðr; sjá einn hlutr var svâ, at mèr mundi eigi mislíka, at þú beiddist hèðan í brott; ver nú með mèr, þartil er skip búast; hann gerði svâ. Einn dag [er mjök leið á[4] vârit, gekk Sveinn konúngr ofan á bryggjur; bjuggu menn þar skip sín til ýmisra landa, í Austrveg eðr til Saxlands, til Svíþjóðar eðr Noregs; þá komu þeir Auðun at einu skipi fögru, ok voru menn at ok bjuggu, þat var

[1]) *þannig A, H.* [2]) sè, *H.* [3]) virðíng, *H.* [4]) um, *H.*

knörr vel mikill. Konúngr mælti: hversu lízt þèr, Auðun! á þetta skip? Hann lèt vel yfir. Konúngr mælti: nú vil ek launa þèr bjarndýrit, ok gefa þèr skip[1] þetta með þeim farmi, sem ek veit vel hagar til Íslands. Auðun þakkaði konúngi gjöf þessa, sem hann kunni bezt; en er stund leið, ok skipit var albúit, gengu þeir þá enn til strandar, Sveinn konúngr ok Auðun; þá mælti konúngr: með því at þú vill brott frá mèr, Íslendíngr! þá skal nú ekki letja þik, en þat hefi ek spurt, at íllt er til hafna fyrir landi[2] yðru, (eru þar) öræfi mikil ok hætt skipum, nú ef [eigi vill vel tiltakast, kann vera[3] at þú brjótir skipit ok týnist farmrinn, lítt [sèr þat þá á[4], at þú hafir fundit Svein konúng, ok gefit honum gersimi. Fèkk konúngr honum þá í hönd skinnhosu mikla, fulla af[5] silfri, ok mælti: eigi er þú með öllu fèlauss, þótt brjóti skipit, ef þú heldr þessu. Verða má þat ok, sagði konúngr, at þú týnir eigi síðr þessu fè, hvar nýtr þú þá þess, er þú gaft Sveini konúngi gersimi þína? Dró konúngr þá hríng af hendi sèr, ok gaf Auðuni, þat var ágætr gripr; konúngr mælti: þótt svá illa verði, at þú brjótir skipit ok týnir öllu fènu, eigi er þú fèlauss, ef þú kemr á land með hrínginn, þvíat þat er mjök háttr manna at hafa gull sitt á sèr, ef í skipsbroti eru stadd-

[1]) knarrskip, *H.* [2]) Islandi, *H.* [3]) svá ílla vill tiltakast, *H.* [4]) veiztu þá, *H.* [5]) gulli ok, *b. v. H.*

ir, ok sèr þá at þú hefir fundit Svein Úlfsson, ef þú heldr hrínginum, þótt þú látir annat fè; en þat vil ek leggja til ráðs með þèr, at þú lógir eigi hríng þessum, þvíat ek ann þèr allvel at njóta, nema þú þykkist eiga svâ mikit gott at launa nokkrum göfgum manni, at þèr þykkir hann þess makligr, at þú gefir honum gersimi, þá gef þú honum hrínginn, þvíat tignum mönnum sómir at eiga hann, ok far nú heill! sagði konúngr.

75. Síðan lèt Auðun í haf, ok kom við Noreg, ok þegar hann spurði hvar Haraldr konúngr var, þá fór hann til fundar við konúng, sem hann hafði heitit; kom Auðun fyrir Harald konúng ok kvaddi hann; konúngr tók vel kveðju hans: sit hèr ok drekk með oss, segir konúngr. Auðun gerði svâ. Þá spurði Haraldr konúngr: hverju launaði Sveinn konúngr þèr dýrit? Því, herra! segir Auðun, at hann þá þat at mèr. Launat myndi ek þèr því hafa, segir konúngr; hverju launaði hann meira? Auðun svarar: gaf hann mèr silfr til suðrgaungu[1]. Konúngr svarar: mörgum manni gefr Sveinn konúngr silfr til suðrgaungu eðr annarra nauðsynja, þótt ekki færi honum gersimar; hvat er enn fleira? Hann bauð mèr, sagði Auðun, at gera mik skutilsvein sinn, ok veita mèr [mikla sæmd þar með sèr[2]. Vel var þat mælt, segir

[1]) eðr annarra nauðsynja, *b. v. H.* [2]) þarmeð svâ miklar sæmdir, *H.*

konúngr, en launa mundi hann fleira. Auðun mælti: gaf hann mèr knörr mikinn með hinum bezta farmi. Þat var stórmannligt framlag, segir konúngr, en launat mundi ek þèr því hafa, eðr launaði hann þèr[1] fleira? Auðun svarar: gaf hann mèr enn leðrhosu fulla af silfri, ok kvað mik þá eigi fèlausan, ef ek hèlda því, þótt skip mitt bryti við Ísland. Konúngr svarar: þat var ágætliga fyrirhugsat, ok þat mundi ek ekki gert hafa, laus mundi ek þykkjast, ef ek gæfi þèr skipit með farmi; hvârt launaði hann þèr fleira? Svâ var, herra! segir Auðun, hann gaf mèr hríng þenna, sem ek hefi á hendi, kallaði svâ mega tilbera, at ek týndi fènu öllu ok skipinu, sagði mik þó eigi fèlausan, ef ek ætti hrínginn; bað hann mik hrínginum eigi lóga, nema ek þættumst nökkurum tignum manni eiga svâ gott at launa, at ek vildi gefa hann; en nú hefir ek þann fundit, þvíat þèr áttuð kost, herra! at taka frá mèr dýr mitt, ok svâ lífit með, en þèr lètuð mik fara í friði, þagat sem aðrir náðu eigi. Konúngr tók blíðliga við gjöfinni, ok gaf Auðuni í móti góðar gjafir, áðr þeir skildu. Auðun fór út til Íslands þegar hit sama sumar, ok þótti vera hinn mesti gæfumaðr. Frá þessum Auðuni var kominn Þorsteinn Gyðuson.

76. Þann vetr er Haraldr konúngr sat í

[1]) nokkru, *b. v. H.*

Niðarósi, sem fyrr er ritat, lèt hann reisa skip mikit, þat var skeið, var þat gert eptir vexti Orms hins lánga, ok vandat at öllu sem mest, var drekahöfuð á framm, en aptr krókr, ok voru svírar allt gulli búnir; þat skip var hálffertugt at rúma tali, ok mikit at því, ok var þat hit fríðasta, lèt konúngr allan búnað vanda til skipsins, bæði segl ok reipa[1] reiða, akkeri ok strengi. Haraldr konúngr lètgera boð um vetrinn Sveini konúngi, at hann skyldi um vârit koma sunnan til Elfar til móts við hann, ok berjast til þrautar, svâ at annarhvârr konúnganna hefði síðan bæði ríkin, Danmörk ok Noreg. Þann vetr bauð Haraldr konúngr út leiðángri, almenníngi af Noregi, en er váraði dróst herrinn saman, lèt þá Haraldr konúngr setja út á ána Nið skip þat hit mikla, síðan lèt hann uppsetja drekahöfuðin; þá kvað Þjóðólfr:

Skeið sá ek framm at flæði,
fagurt sprund! í á hrundit,
kennþú hvar liggr fyrir landi
laung súð dreka hins prúða;
orms glóa föx[2] und farmi
frán þvíat ýtt var hánum,
báru búnir svírar
brunnit gull af hlunni.

Síðan er skip [þat var albúit[3], þá hèlt konúngr því út eptir ánni; svâ segir Þjóðólfr:

[1]) v. í H. [2]) vox, H. [3]) þetta hit fríða var búit, H.

Slýngr laugardag laungu
liðbaldr af sèr tjaldi
út þá er ekkjur[1] líta
orms súð ör bæ prúðar;
vestr rèð ör Nið næsta
nýrri skeið at stýra
úngr, er árar drengja[2],
allvaldr[3], í sjó falla.

Þá var vandaðr[4] mjök róðr á drekanum; svâ segir Þjóðólfr:

Rètt kann ræði slíta
reiðis[5] herr ör verri,
ekkjan stendr ok undrast
áraburð sem furðu;
ert mun snót ef[6] svörtu
sæfáng í tvö gánga
þöll liggr við frið fullan
fer klaufa[7] þat leyfi.

Ok enn kvað hann:

Skógs veit[8] áðr enn slítist
sæfáng ör mar straungum
herr þar er heldr til verra
hárr[9] sjötigum[10] ára;
norðmeðr[11] róa naðri
negldum [straumin hegldа[12]

---

1) eikjur, *H.* 2) dreingri, *bundit*, *H.* 3) alvalds, *H.* 4) vandr, *H.* 5) ræsis, *Hk.* 6) at, *H.* 7) kleyfa, *H.* 8) ek, *b. v. H.* 9) har, *H.* 10) sextigum, *H.* 11) norðrmeðr, *H.* 12) straum enn heglda, *H.*

út er sem unnar líti
arnarvæng af járni.

Haraldr konúngr hèlt herinum suðr með landi, ok hafði úti almenníng at liði ok skipum; en er þeir sóttu austr í Víkina, fengu þeir andviðri stór, ok lá herrinn víða í höfnum, bæði við úteyjar ok inn í fjörðum; þess getr Þjóðólfr:

Eigu skjól und skógi
skafnir snekkjustafnar
læsir leiðángrs vísi
lönd herskipa bröndum;
almenníngr[1] liggr innan
eið láta svâ skeiðar
hábrynjandi hrynja
hverja vík í skerjum.

En í stórviðrum, þeim er álögðust, þurfti hit mikla skip góðra grunnfæra; svâ segir Þjóðólfr:

Hlæsseyjar lemr háfan
hlymgarð[2] konúngr barði
neytir þá til þrautar
þeingill snekkju streingja[3];
eigi er járni bjúgu[4]
inndæll snagi lindis
gagr af gaddi digrum
grjót á veðrin ljótu.

[1]) almenníng, *H.* [2]) hlyngarð, *H.* [3]) dreingja, *H.* [4]) bjuggu, *H.*

En er byr gaf, hèlt konúngr herinum austr til Elfar; svâ segir Þjóðólfr:

Haraldr þrýstir nú hraustla
helmíng sinn at Elfi
nattið Noregs drottinn
nær at landamæri;
gramr á þíng við þumla[1],
þar er eindagat[2] Sveini
hröfnum skyldan halda
hans fund Danir undan.

Danir spurðu at Norðmanna herr var kominn til Elfar, þá flýðu þegar allir þeir, sem næstir voru landamæri.

77. En er Haraldr konúngr spurði at Danakonúngr hafði her úti, ok lá suðr um Fjón ok Smálönd, en vildi ekki halda stefnulag eðr orrostu við Norðmenn, sem mælt var; þá tók Haraldr konúngr enn þát ráð sem fyrr, lèt aptr fara bóndalið, en hann skipaði sem bezt hálft annat hundrað skipa, hèlt því liði suðr [fyrir Halland[3], ok herjaði víða; hann lagði inn (í) Lófofjörð, ok herjaði þar á land upp; þá var með Haraldi konúngi Hákon jarl Ívarsson, Úlfr stallari, ok margir aðrir ágætir höfðíngjar ör Noregi. Litlu síðar kom þar at þeim Sveinn Danakonúngr, hann hafði 3 hundruð skipa. Haraldr konúngr lèt þá blása saman liði sínu ok mælti: nú er Sveinn konúngr kominn hèr at oss með mikinn her, sem sjá má, vil ek nú

[1]) *þannig A, H.* [2]) eindagr, *H.* [3]) til Hallands, *H.*

taka ráð af höfðíngjum, ok þarmeð af allri alþýðu, hvârt vèr skulum berjast við þá, þótt þeir hafi hálfu meira lið. Þá svöruðu margir, at þeir myndi flýja, sögðu at Sveinn konúngr hafði svâ mikinn her, at úfært var at berjast; en sumir þögðu. Þá svaraði Hákon jarl: svâ sýnist mèr, herra! þótt Danir hafi lið mikit, þá hafa þeir skip smærri enn vèr, væni ek ok at lið þeirra reynist enn sem optar útraustara enn Norðmenn; er Dönum svâ farit, at þeir eru ekki úákafir í fyrstu, en bleyðast skjótt, ef vel er við (þeim) horft; hafi þèr opt barizt við mikinn liðsmun, ok fengit þó sigr, ok svâ mun enn fara. Konúngr mælti, ok var þá kátr mjök: dreymdi mik í nótt, mèr þótti sem við Sveinn konúngr fyndimst, ok hèldim á einni haunk ok togaðim[1], ok þótti mèr hann draga af mèr hönkina, við þat vaknaði ek. Ekki hvatti þessi draumr hugi liðsmanna, rèðu svâ flestir, at Sveinn mundi fá þat, er þeir keptust um. Þá mælti Hákon jarl: vera má at svâ sè, herra! sem þeir ráða draum þenna, en vænna þykki mèr at Sveini konúngi muni áhánkast. Þat þykki mèr líkara at svâ sè, sagði konúngr, ok svâ er draumrinn betr ráðinn; skal nú ok eigi fresta atkvæðum, at fyrr skal hverr vârr falla um þveran annan, enn vèr flýjum fyrir Dönum at öllu óreyndu. Þessarra orða Haralds konúngs

[1]) toguðumst um, *H.*

getr Steinn Herdísarson, hann var þá á skipi með Úlfi stallari; hann segir svâ:

Sagði hitt er hugði
hauklyndr[1] vera myndu,
þar kvað þeingill eirar
þrotna[2] vân frá[3] hânum;
heldr kvað hvern vârn skyldu
hilmir frægr enn vægja
[menn brutu upp of annan[4]
öll vâpn[5] þveran falla.

Steinn kveðr ok á, hversu mikit lið hvârr konúnganna hafði; í þessi vísu:

Hrættist[6] hersa drottinn
hugstrángr skipa lángra
hinn er við hálft beið annat
hundrað Dana fundi[7];
næst var þat er rèð rista
reiðr atseti[8] Hleiðrar
þángs láð mörum þíngat[9]
þrimr hundraðum sunnan[10].

Síðan brá Haraldr konúngr sverði, ok gekk framm í stafn á skipi sínu, hann hjó sverðinu þrysvar framm í loptit fyrir sik í[11] vindinn. Hákon jarl spurði, hví hann gerði svâ. Konúngr svaraði: þetta kalla menn sigrbákn í útlöndum, at konúngr bendi þannig fyrir reiði

1) hauklundr, *M.* 2) þraut, *H.* 3) fur, *M.* 4) brutu menn upp of anna, *H.* 5) *þannig H, M*; vân, *A.* 6) hvattist, *H*; hitti, *M.* 7) fundar, *H, M.* 8) ath sæti, *H.* 9) þángat, *M.* 10) sunda, *M.* 11) á, *H.*

sína. Síðan lèt Haraldr konúngr skipa liði sínu til frammlögu, lagði hann dreka sinn framm í miðju liði; svâ segir Þjóðólfr:

Lèt víga[1] fá veitir
varghollr dreka skolla
lystr[2] fyrir lofðúngs brjósti
liðs oddr var þat miðju.

Þat skip var [allfjölment ok[3] vel skipat, eggjaði konúngr sína menn, bað þá skjóta skjöldum fyrir sik, ok standa fast, ef orrostan tækist; þess getr Þjóðólfr:

Fast bað fylkíng hrausta
friðvandr jöfurr standa
hamalt sýndust[4] mèr hömlur
hildíngs viðir skjalda;
rammsyndan lauk röndum
ráðandi mann dáða
nýtr fyrir Nizi utan
naðr svâ at hverr tók aðra.

Úlfr stallari lagði sitt skip á annat borð konúngsskipinu, hann bað sína menn [frammleggja vel skipit[5], sem Steinn segir:

Hèt á oss þá er úti
Úlfr hákesjur skulfu
róðr var greiddr á græði
grams stallari alla;
vel bað skip með[6] Skylja

1) vaga, *H.* 2) lyst, *H.* 3) fjölment ok all, *H.* 4) sýndist, *H.* 5) vel framgánga, *H.* 6) meðr, *H.*

skeleggjaðr[1] framm leggja
sitt, en seggir játtu
snjalls landreka spjalli.

Hákon jarl lá yzt í arminn annan, ok fylgdu honum mörg skip, ok var þat lið allvel búit; en yzt í annan arminn lágu þrændahöfðíngjar, var þat ok mikit lið ok frítt. Sveinn konúngr skipaði ok sínum her, lagði hann sjálfr sitt skip móti skipi Haralds konúngs, en næst skipi Sveins konúngs lagði framm sitt skip Finnr jarl Árnason, skipuðu Danir[2] þarnæst því liði, er fræknast var í þeirra her; síðan teingdu hvârirtveggju sín skip um miðjan flotann, en fyrir því at mikill var herrinn, þá var þat allr fjöldi skipanna at laus fóru, lagði þá hverr framm sitt skip, sem drengr var, ok skap[3] hafði til, en þat var allmisjafnt.

78. Haraldr konúngr lèt blása herblástr, er hann hafði búit skip sín, ok greiða atróðr; svâ segir Stúfr skáld:

Vann fyrir móðu minni
meinfært Haraldr Sveini
varð þat[4] er vísir gerðut
viðrnám friðar biðja;
herr dró hjörvi gyrði[5]
Halland jöfurr spjallar
heit[6] blès und fyrir utan
atróðr á lög[7] blóði.

---

[1]) skeleggjaðir, *H, M.* [2]) þeir, *H.* [3]) kapp, *H.* [4]) þar, *H.* [5]) gyrðir, *H.* [6]) heitt, *H.* [7]) legg, *H.*

Síðan tókst orrosta, ok varð hin snarpasta, eggjaði konúngrinn hvârr sitt lið; svâ segir Stúfr:

Nýtr bað skjöldúngr skjóta
skamt var liðs á miðli
hlífar styggr ok höggva
hvârtveggi lið seggja;
benja flóð í blóði
brandr hrauð af sèr[1] rauðu
fljótt brá fegra[2] gotna
fjörvi grjót ok örvar.

Þat var Lafrenzíus messudag síð um aptan, er orrostan seig saman, ok var barizt alla nóttina. Haraldr konúngr skaut af boga alla nóttina; þess getr Þjóðólfr:

Álm dró upplenzkr hilmir
alla nótt, hinn snjalli
hremsur lèt á hvítar
hlífur oddviti[3] drífa;
[brynjaðra sínu brynjur
blóðugr oddr þars stóðu
flýgr af fannigs[4] vigra
finna gjöld[5] í skjöldu[6].

Hákon jarl, ok þat lið sem honum fylgdi, teingdi ekki skip sín, ok reyru[7] at Danaskipum þeim sem laus fóru, ok sótti eptir þeim[8], sem þeir hömluðu undan, hrauð hann hvert svâ[9] sem hann lagði at; var Dönum þar þá komit á flótta.

1) v. í H. 2) feigra, H. 3) óðum, M. 4) fannings, H. 5) í skjöld, b. v. H. 6) frá [ v. í M. 7) rèri, H. 8) v. í H. 9) skip, H.

þá reyri skúta at skipi jarls, var kallat á hann ok sagt, at fyrirlèt annar fylkíngararmrinn Haralds konúngs, ok þar var fallit mart lið þeirra; reyri jarlinn þá þagat til, ok veitti þar harða atlögu, svâ at Danir hrukku fyrir. Fór jarl svâ alla nóttina, at hann lagði þar framm, sem mest þurfti, reyri hann þit ytra um bardagann; en hvar sem hann kom til, þá hèlzt ekki við honum. Orrostan var nær landi, en skipi[1] Skjálgs Erlíngssonar sveif at landi, ok fjaraði uppi; kom þarat landherr Sveins konúngs, er eigi hafði komit á skipin, var hverr maðr drepinn af því skipi. Nú var orrosta hin ákafasta, ok snèri mannfallinu mjök á Dani, í móti því er þeir hugðu um hríð, þvíat þeir þóttust hafa í hendi allt ráð Norðmanna fyrir liðsfjölda sakir, en Norðmenn stóðu fast, ok börðust snarpliga, sem Steinn segir:

Undr er ef eigi kendu[2]
örmóts[3] viðir[4] gjörva
börðumst [vèr þeir er[5] vörðu
víða grund of síði[6];
[þá er[7] herskildi hèldu[8]
hrafn fèkk[9] gnótt í óttu
náss fyrir Nizar ósi
Norðmenn Harald forðum[10].

Hinn efra hlut nætrinnar brast meginflóttinn

---

1) skip, *H.* 2) fundu, *M.* 3) avrnjóz, *H.* 4) vinir, *H, M.* 5) vær þeir, *H.* 6) síðir, *H, M.* 7) hvar, *M.* 8) seldu, *M.* 9) *v. í H.* 10) fóro, *H.*

á Dönum; þvíat þá hafði Haraldr konúngr gengit upp á skip Sveins konúngs; gekk Haraldr konúngr þá allfast framm, ok hjó á tvær hendr. Svâ segir Arnór jarlaskáld:

Hjálm áro lèztu[1] heyra
hits er rauð[2] fyrir Nizi
tiggi[3] [tyrfíngs eggjar[4]
tvær áðr mannfall væri;
naðrs borð[5] skriðu norðan
nýss at[6] allvalds fýsi
hlaut til Hallands skjóta
hrafnþarfr[7] konúngr stafni.

Var þá svâ vendiliga hroðit þat skip, at hverr maðr var drepinn, sá er þar hafði á verit, nema þeir sem fyrir borð hlupu, sumir á kaf, en sumir á smáskip; svâ segir Arnór:

Hrauð sá er hvergi flýði
heiðmær Dana skeiðir
glaðr und gulli roðnum
geirjálm[8] konúngr hjálmi[9];
skjaldborg raufst[10] en skúfar
skaut hodd-glötuðr[11] broddum[12]
bragna brynjur gegnum
buðlúngr of ná súngu.

Arnór segir ok at Sveinn konúngr flýði eigi fyrr enn með öllu var hroðit skip hans:

---

1) lèzt, *H.* 2) rautt, *M.* 3) tyrfi, *H.* 4) *þannig H, M*; tyrfíng seggjar, *A.* 5) borði, *H.* 6) á, *H.* 7) hrafnþarfar, *M.* 8) gerrjálm, *M.* 9) hjálma, *H.* 10) rauðst, *M.* 11) hodd hravðuðr, *H.* 12) oddum, *M.*

Gekkat Sveinn af[1] snekkju
saklaust hinn forhrausti
málmr kom harðr við hjálma
hugi[2] minn er þat sinni;
farkostr[3] hlaut at fljóta[4]
fljótmalts[5] vinar Jóta
áðr enn öðlíngr flýði
auðr frá verðúng dauðri[6].

En er merki Sveins konúngs var fallit, ok autt skip hans, þá flýðu allir menn hans, þeir er eigi fèllu; sumir hlupu á kaf af þeim skipum er teingd voru, en sumir komust á þau skip er laus fóru, ok reyru allir undan, þeir sem því komu við. En þar sem konúngarnir sjálfir höfðu barizt, ok teingd voru flest skipin saman, þar lágu eptir auð skip Sveins konúngs meirr enn 7 tigir, sem Þjóðólfr segir:

Saungs kváðu gram geinginn
glæst sjö tigu hit fæsta[7]
senn á svipstund einni
Sveins þjóðar skip hrjóða[8].

Haraldr konúngr reyri eptir Dönum, en þat var þó eigi hægt, þvíat skipaflotinn lá svâ þykt fyrir, at varla mátti framkomast. Svâ er sagt at Sveinn konúngr hefði með sèr til orrostu 6[9] jarla; var einn af þeim Finnr Árnason, hann var þá gamall, ok sýndr svâ lítt, at hann var

[1]) *v* *í* *H.* [2]) hugr, *H.* [3]) farskostr, *M.* [4]) flestu, *H.*
[5]) fljótmalts, *M.* [6]) dauðir, *H.* [7]) næsta, *M.* [8]) hroða, *M.*
[9]) fimm, *H.*

varla herfærr. Finnr jarl settist niðr í lyptíng á skipi sínu, þá er Danir höfðu flestir flýit; var hann þá handtekinn af mönnum Haralds konúngs; þess getr Þjóðólfr:

Sveinn átt[1] sigr at launa
sex þeim er hvöt vexa
innan eina gunni
örleiks Dana jörlum;
varð[2] sá er vildit[3] forðast[4]
vígbjartr[5] snöru hjarta
í fylkíngu fánginn[6]
Finnr Árnason miðri.

79. Hákon jarl lá með skip sín þareptir, þá er Haraldr konúngr ok annat lið þeirra rak flóttann, þvíat jarlsskipit mátti þar eigi framkomast fyrir skipum þeim, er lágu í teingslum. Þá reyri maðr at skipi jarlsins á báti, ok lagði at lyptíngunni; sá maðr var mikill vexti, ok hafði hött[7] síðan ok víðan á höfði; þessi maðr kallaði upp á skipit: hvar er jarl, segir hann. Jarl stóð í fyrirrúminu, ok stöðvaði manni sínum einum blóð, hann sá til hattar-mannsins, ok spurði hann at nafni; Vandráðr er hèr, segir hann, ok mælþú við mik, jarl! Jarl laut út yfir borðit til hans, þá mælti bátmaðrinn: þiggja mun ek líf af þèr, jarl! ef þú vill veita. Hákon jarl rèttist upp, ok nefndi til 2 menn, þá er honum voru báðir kærir, ok bað þá flytja hann

1) á, *H*, *M*; *kanske rèttara* áat. 2) ferð, *H*. 3) vildi, *H*. 4) forða, *M*. 5) fólkbjartr, *H*. 6) feinginn, *H*. 7) batt, *H*.

til lands: mart hefir Vandráðr vel til mín gert, segir hann, fylgið honum til Karls, vinar míns, ok segið Karli þat til jarteigna, at ek sendi hann þagat, at hann fái Vandráði hest þann til reiðar, sem ek gaf Karli fyrra dag, ok söðul sinn, ok þarmeð son sinn til fylgdar. Þetta var heldr fyrir lýsíng, stigu þeir þá í bátinn, ok tóku til ára, en Vandráðr stýrði. Var þá sem mestr skipagángrinn, reyru sumir flóttamenn til lands, en sumir til hafs út, bæði smám skipum ok stórum. Vandráðr stýrði þar sem honum þótti rýmst milli skipanna; en hvar sem Norðmanna skip reyru nær þeim, þá sögðu jarlsmenn til sín, ok lètu allir þá fara hvert er þeir vildu. Vandráðr stýrði framm með ströndinni, ok lagði eigi at landi, fyrr enn þeir komu umframm [þat er[1] skipaferðin var. Síðan gengu þeir upp til bæjar Karls, tók þá at lýsa, gengu þeir inn í stofu, var Karl þar fyrir ok nýklæddr; jarlsmenn sögðu honum sín eyrindi; Karl mælti, at þeir mundi snæða fyrst, lèt hann setja þeim borð, ok gaf[2] handlaugar. Þá kom húsfreyja í stofu, ok mælti þegar: undr mikit er þetta, er vèr fám aldri svefn eðr ró í nótt fyrir ópi ok glammi. Karl mælti: veiztu eigi at konúngarnir hafa barizt í nótt? Hvârr hefir betr haft, segir hon? Norðmenn hafa sigrat, segir Karl. Hon mælti: flýit mun þá enn konúngrinn vârr hafa. Karl

[1]) þar sem, *H.* [2]) gefa þeim, *H.*

mælti: eigi vita menn þat, hvårt hann hefir fallit eðr flýit. Hon mælti: [vesöl erum vèr[1] konúngs, er bæði er haltr ok ragr. Kvâmumaðrinn mælti: ætlum þat, er beir samir, kerlíng! at konúngr sè eigi ragr, en eigi er hann til sigrsæll. Vandráðr tók laugarnar[2], ok er hann tók dúkinn, þurkaði[3] hann sèr á miðjum; húsfreyja tók dúkinn ok kipti af honum, ok mælti: fátt gott kantu þèr, þat er þorparaligt at væta allan senn dúkinn. Vandráðr svaraði: þar kemr enn, ef guð lofar, at vèr þykkjum þess verðir, at þurka oss á miðjum dúki. Settust þeir til borðs, snæddu ok drukku um hríð, gengu út síðan; var þá búinn hestr Karls, ok son hans at fylgja Vandráði, hafði hann annan hest; riðu þeir til skógar, en menn Hákonar jarls fóru til bátsins[4], ok rèru út til skips jarls.

80. Haraldr konúngr ok hans menn ráku skamt flóttann, reyru síðan aptr til hinna auðu skipanna, var þá kannaðr valrinn, var á konúngsskipinu fjöldi dauðra manna, en eigi fanst lík Sveins konúngs, en menn þóttust vita, at hann var fallinn. Lèt þá Haraldr konúngr búa um lík sinna manna, [þeirra sem fallnir voru[5], ok binda sár þeirra, er þess þurftu. Hann sendi orð bóndum, at þeir flytti lík Sveins manna til lands, ok lèti jarða; síðan lèt hann skipta herfángi, ok dvöldust þeir þar nokkura

[1]) vesul eru vær, *H.* [2]) handlaugar, [3]) þerði, *H.* [4]) báts sins, *H.* [5]) *v. í A.*

hríð; þá spurðu þeir þau tíðindi, at Sveinn (konúngr) var kominn til Sjólands, var þar kominn til hans allr sá herr, er flýit hafði ör orrostu, ok mikit lið annat, hafði hann þá enn úvígjan her.

81. Finnr jarl Árnason var tekinn í orrostu, sem fyrr er ritat, var hann leiddr fyrir Harald konúng, þá er hann var aptrkominn ör flóttarekstrinum. Konúngr var þá allkátr ok mælti: hèr finnumst (við) nú, Finnr! en næst í Noregi, eðr hefir hirðin sú hin danska eigi allfast staðit fyrir þèr? ok hafa Norðmenn íllt at verki, at draga þik blindan eptir sèr. Jarlinn svarar: mart verða Norðmenn nú íllt at gera, ok þat allt verst, er þú býðr þeim. Konúngr mælti: villtu nú þiggja grið, þótt þú sèr úmakligr? Þá svarar jarl: eigi af hundinum þínum. Konúngr mælti: villtu at Magnús, frændi þinn[1], gefi þèr grið? Magnús, son Haralds konúngs, stýrði þá skipi. Jarl mælti: hvat mun hvelpr sá ráða griðum. Þá hló konúngr, ok þótti mikit gaman at erta hann, ok mælti: villþú taka grið af Þóru, frændkonu þinni? Jarl mælti: er hon hèr? Hèr er hon, segir konúngr. En þat má skilja, hversu reiðr Finnr jarl var, er hann stillti eigi orðum sínum; hann mælti: eigi var þá undarligt, at þú bitist vel, er merrin fylgdi þèr. Finni jarli

[1]) minn, *H.*

voru grið gefin eigi at síðr, þótt hann þætti vanstilltr í orðum; fór hann með Haraldi konúngi, ok var heldr úkátr ok úmjúkr í orðum. Litlu síðar mælti konúngr til Finns: sè ek nú at þú vill ekki við mik þýðast eðr frændr þína, vil ek nú gefa þèr orlof at fara til konúngs þíns, Sveins. Finnr jarl svarar: þat vil ek þiggja, ok því gjarnara sem ek kem hèðan fyrr brott. Lèt konúngr flytja jarl á land, ok tóku Hallandsmenn vel við honum.

82. Þá er Haraldr konúngr lá við Halland eptir Nizar orrostu, mælti hann til sinna manna: vèr höfum fengit mikinn sigr á Dönum í orrostu þessi, gætum nú til sem bezt, at þeir vinni eingi svig á oss hèðan í frá, ok sækjum heim í ríki vårt með sæmd ok miklu herfángi. En um nóttina eptir, þá er Haraldr konúngr var í svefni ok flest fólk, hèldu frá flotanum ok lögðu at landi 2 skip leyniliga; stýrði því öðru Magnús konúngsson, öðru stýrði sá maðr, er hèt Þórólfr, hann var kynjaðr ör Mostr á Sunnhörðalandi, ok átti þar bú, því var hann kallaðr Mostrarskegg. Þórólfr var mikill maðr ok styrkr ok hinn mesti ofrhugi; þeir runnu frá skipum á land upp, ok vildu leita sèr frægðar. Þeir höfðu eigi lángt gengit, áðr þar kom at þeim Danaher, tókst þegar með þeim hinn harðasti bardagi, ok varð eigi lángr, þvíat þeir voru bornir ofrliði, fèll af þeim sveitin öll; Þórólfr komst undan með Magnús

konúngsson, með því móti at Þórólfr bar hann í kiltíngu sinni til skógar. Haraldr konúngr saknaði þeirra um myrgininn, beið hann þar nökkura hríð, ok er þeir komu ekki aptr, hugði hann at þeir myndi allir dauðir; bjóst konúngr þá til brottlögu með lið sitt, tók Haraldr konúngr ok hans menn at herfángi öll skip Dana, þau sem hroðin voru, ok þeir máttu meðfara, ok allan fjárhlut, þann sem þar var á. Í lyptíng á skipi Sveins konúngs fundu þeir skrín, þat er í var heilagr dómr hins heilaga Vincenzíí djákns, ok höfðu þat með sèr. Haraldr konúngr hèlt sunnan skipum sínum, þartil er hann kom í Víkina, lèt hann þar setja tjöld á landi, ok græða þá menn, er sárir höfðu vorðit.

83. Þat var einn dag, er Haraldr konúngr gekk á landi, at sjá sár manna, þá kom þar Þórólfr Mostrarskegg, ok hafði Magnús konúngsson á baki sèr, varð konúngr glaðr við, er hann sá son sinn heilan. Þórólfr var móðr mjök af gaungu, er hann hafði farit sunnan alla leið landveg í Víkina, ok borit konúngsson, ok báðir voru þeir þrekaðir af matleysi. Haraldr konúngr fann þat, ok mælti: hvârt hafa Danir gefizt upp fyrir yðr, eðr hugðu þèr, at þeir mundi eigi treystast at bera vâpn á yðr? Eigi var þat varliga eðr forsjóliga farit, at skiljast við oss, ok gánga á land upp með fá menn í hers hendr, svâ sem

ek hafði áðr varat yðr við, at vèr skyldim eingis fángstaðar ljá Dönum á oss. Nú hefir yður vangeymsla ok ofrkapp mjök meiddan vârn sigr; máttu þèr vel hlíta[1] þeim sigri, sem vèr höfðum unnit allir saman; nú hefir þetta mjök mínkat vâra sæmd, svâ liðmannliga sem oss hafði áðr tiltekizt, en þó má nú ekki athafa. Skalþú, Þórólfr! hafa af mèr mikla sæmd ok þökk fyrir svâ mikla dygð ok drengskap, er þú lagðir mjök svâ lífit á, at hjálpa syni mínum. Svâ vil ek (ok) þakka Hákoni jarli, mági mínum, fyrst at upphafi, ok þar útífrá öllum liðsmönnum góða fylgd ok framgaungu, er [þèr hafið[2] mèr veitt í þessum bardaga. Lauk konúngr svâ ræðu sinni, at öllum líkuðu hans orð, ef svâ gengist[3] sem talat var; lèt hann síðan næra þá Magnús, son sinn, ok Þórólf sem bezt. Síðan fór Haraldr konúngr inn til Osló, ok settist þar, en gaf heimleyfi öllu liði sínu.

84. Sveinn konúngr sat í Danmörk þann vetr, ok hèlt enn ríki sínu sem áðr, hann sendi menn um vetrinn norðr á Halland eptir Karli ok [þeim hjónum[4]; en er sendimenn komu með þau til konúngs, þá kallaði hann Karl til sín, ok spurði hvârt Karl kendi hann, eðr hvârt hann þættist hafa sèt hann fyrr. Karl mælti: kenni ek yðr nú, ok kendi ek

[1]) una, *H.* [2]) þeir hafa, *H.* [3]) efndist, *H.* [4]) konu hans, *H.*

yðr þá, ok er þat guði at þakka, herra! er yðr kom at gagni sá litli forbeini, er ek veitti yðr. Konúngr mælti: alla þá daga, er ek lifi síðan, [á ek þèr at ambana[1]; nú skal þat hit fyrsta, at bú þat, er þú kýss á Sjólandi, vil ek gefa þèr, ok þat með, at ek skal gera þik slíkan[2] mann, ef þú kant til at gæta. Karl þakkaði konúngi vel orð sín ok sagði, at þó væri eptir bænin sú, er hann vildi beiðast[3] af konúngi. Konúngr spurði, hvat þat var. Karl mælti: ek vil [biðja at þèr leyfið[4], at kona mín fari með mèr. Þat mun ek þèr eigi veita, segir konúngr, þvíat ek mun fá þèr miklu betri konu ok vitrari; en kona þín sú fari með búkot þat, sem þið hafið áðr haft, mun henni þat ærin framflutníng; geri ek þó fyrir þína skyld betr við hana, enn hon væri verð fyrir heimsku sína. Sveinn konúngr gaf Karli bú mikit ok göfugt kvânfáng, varð Karl mikill maðr fyrir sèr; varð þetta víðfrægt allt saman, ok fór þá ekki leynt; spurðist þetta norðr í Noreg.

85. Haraldr konúngr sat um vetrinn eptir Nizar orrostu í Osló. Um haustit, er liðit kom sunnan ör Danmörku, þá var mikil umræða á um orrustu þá, er verit hafði fyrir Nizi, þóttist hverr kunna mart ok mikit frá at segja. Þat var einn dag, er menn sátu í undirskemmu

1) *þannig A*; skal ek þat avmbuna, *H.* 2) mikinn, *H.* 3) þiggja, *H.* 4) *v. í H.*

nökkurri margir saman, þeir ræddu um Nizar orrustu, ok þat hverir þaðan hefði borit mestan orðstír; þeir urðu allir á eitt sáttir, at eingi maðr hefði þar verit slíkr sem Hákon[1] Ívarsson, hann var kænstr ok fremstr ok gæfumestr, sögðu þeir, varð þat ok at mestu liði, er hann gerði, ok hann vann sigrinn. Haraldr var úti í garðinum, ok talaði við menn nökkura, síðan gekk hann fyrir skemmudyrnar ok mælti: Hákon mundi hèr nú hverr heita vilja; gekk konúngr þá leið sína. Hákon jarl fór um haustit til Upplanda.

86. Þat var um vârit eptir, er áleið, eitthvert sinn, er menn sátu við drykk, at enn var talat um Nizar orrustu, ok lofuðu menn mjök Hákon jarl, en sumir tóku aðra menn eigi síðr til, at vel hefði framgengit. Þá svaraði einn maðr: vera kann at fleiri menn hafi djarfliga barizt fyrir Nizi enn Hákon jarl, en þó mun eingi sá þar hafa verit, at jafnmikit happ hafi hent sem hann. Þeir sögðu at þat mundi happ hans mest, er hann hafði rekit marga menn á flótta af Dönum; sá hinn sami mælti: meira happ var þat, er hann gaf Sveini konúngi líf. [Einnhverr maðr[2] svarar honum: þat munþú eigi vita, sem þú segir nú. Hann mælti: þat veit ek allgerla, þvíat sá sagði mèr, sem hann flutti til lands. En hèr varð sem mælt var, at mörg eru konúngs

[1]) jarl, b. v. H. [2]) einn hirðmaðr, F.

eyru, var þetta jafnskjótt sagt Haraldi konúngi, lèt hann þegar taka marga hesta, reið konúngr ör Osló at áliðnum degi með 2 hundruð manna, þeir riðu alla þá nótt, ok um daginn eptir, þá riðu menn í móti þeim, er fóru með mjöl ok malt til bæjarins. Maðr hèt Gamall, er var í för með konúngi, hann reið at einum bónda, sá var kunníngi hans, þeir mæltu einmæli: ek vil kaupa at þèr, segir Gamall, at þú ríðir sem ákafligast launstig þann, er þú veizt skemsta leið, ok kom til Hákonar jarls, ok seg honum at konúngr vill drepa hann, þvíat hann veit nú, at Hákon hefir skotit á land Sveini konúngi fyrir Nizi. Þeir keyptu saman, reið bóndi sem mest, ok kom til jarlsins, áðr hann gengi at sofa, sat hann þá enn ok drakk. En er bóndi hafði sagt eyrindit, stóð jarl þegar upp ok allir hans menn, lèt jarl flytja brott lausafè sitt allt til skógar, fóru ok allir menn brott af bænum; konúngr kom [um daginn eptir[1] ok fór brott með sína menn, er hann hafði þar dvalizt um nótt.

87. Hákon jarl reið leið sína, ok kom framm austr í Svíaveldi til Steinkels Svíakonúngs, ok dvaldist með honum um sumarit. Hákon jarl fór aptr til Upplanda, er áleið sumarit, þegar hann spurði at Haraldr konúngr var farinn norðr í land; dvaldist hann

[1]) eptir um daginn, *H.*

þar til þess er konúngr kom norðan, þá fór Hákon austr á Vermaland, ok dvaldist þar leingi um vetrinn, veitti Steinkell konúngr honum þar yfirsókn. Hann fór um vetrinn er aleið vestr á Raumaríki ok hafði mikit lið, er Gautar ok Vermar[1] höfðu fengit honum, þá tók hann landskyldir sínar ok skatta af Upplendíngum, síðan fór hann austr aptr á Gautland. Haraldr konúngr fór um haustit austr í Vík, ok sat þar um vetrinn í Osló; hann gerði menn sína til Upplanda at heimta skatta ok landskyldir, þær sem hann þóttist eiga; Upplendíngar sögðu at þeir höfðu greidt skatt ok landskyldir Hákoni jarli, ok svâ kváðust þeir gera mundu, meðan hann væri á lífi, ok hann hefði ekki fyrirgert sèr eðr sínu ríki; ok fèkk hann þar eingar landskyldir á þeim vetri.

88. Þann vetr fóru boð ok sendimenn milli Noregs ok Danmerkr, ok var þat bundit í orðsendíngum, at hvârirtveggju, Norðmenn ok Danir, vildu gera sættir millum sín, ok báðu hvârir sinn konúng þat samþykkja, fóru þær orðsendíngar heldr líkliga til sætta; kom svâ at lyktum, at sáttarfundr var stefndr í Elfi. Ok um vârit dró hvârtveggi konúnganna at mikit lið, ok bjuggu mörg skip til þessarar ferðar, sem skáldit segir í einum flokki frá ferð konúnganna, hann hefr svâ upp:

[1]) Vermir, *II.*

Norðr [lykr gramr sá er gerðir[1]
grund frá Eyrar sundi
hrafn gelr hátt yfir heila
höfn lángskipa stöfnum;
ristu gulli glæstir
gjálfr en súðir sjálfa[2]
hvast var heldr fyrir vestan
[Hallandi framm[3] branda.

Ok enn kvað hann:

Gerðut opt fyrir jörðu
eiðfastr Haraldr skeiðum
Sveinn skerr ok til annars
eysund konúngsfundar;
út hefra lið litit
lofsnjallr Dana allra
hinn er hvern vâg[4] sunnan
hrafngrennir lykr stöfnum.

Konúngar, Haraldr ok Sveinn, hèldu stefnulag 1064
þat, er gert var með þeim um vetrinn, ok komu
báðir til landamæris, sem hèr segir:

Sú stóð suðr þar er Svía
snjallr gramr Dana allra
en sèr eigi minni
efni mæltrar stefnu;
Sveinn tekr norðr at nenna
nær til landamæris
(varð fyrir víðri jörðu
vindsamt) Harald finna.

---

1) *gram sá er gjörði, H.* 2) *skjálfa, H.* 3) *Halland framit, H.* 4) *vegh, H.*

En er konúngar fundust, tóku þeir at tala um sættir sínar; en þegar var þat ymptr Dana, at þeir kærðu, er fengit höfðu skaða af hernaði ok ránum[1] Norðmanna, ok var þat lánga hríð, at úvænt horfði til sætta, svâ sem hèr segir:

Telja hitt er hittast
hvârtveggja mjök seggir
orð þau er ángrar fyrða
allmörg búendr[2] snjallir;
láta þeir er þreyta[3]
þegnar allt í gegnum
svellr ofrhugi[4] ollu
eigi brátt við sáttum.

Ok enn kvað skáldit:

Ófriði verðr jöfra
allhætt ef skal sættast
menn þeir er miðla kunnu[5]
mál öll vega í skálum.

Síðan áttu hlut í hinir vitrastu menn ok beztu, gekk þá saman sætt konúnganna með þeim hætti, at Sveinn konúngr skyldi hafa Danmörk, en Haraldr konúngr Noreg til þess landaskiptis, sem at fornu hafði verit milli Noregs ok Danmerkr; skyldu hvârigir öðrum bæta, skyldi þar hernað leggja sem hafizt hafði, en sá eiga happ sem hlotit hafði; sá friðr skyldi standa, meðan þeir væri konúngar; sú sætt var eiðum

1) ónáðum, *H.* 2) bændr, *H.* 3) þrænda, *H.* 4) ofrhugiun, *H.* 5) kunna, *H.*

bundin, ok seldust konúngar gisla í millum, sem her segir:

Hitt hefik heyrt at settu[1]
Haraldr ok Sveinn at meinum
(góð sýsl var þat) gisla
glaðr hvârtveggi öðrum;
þeir haldi svâ særum[2]
sátt lauk þar með váttum
ok öllum frið fullum
fylld at hvârgi skyldi.

Síðan hèlt Haraldr konúngr liði sínu norðr í Noreg, en Sveinn konúngr suðr til Danmerkr.

89. Haraldr konúngr var í Víkinni um sumarit, hann sendi menn sína til Upplanda eptir skyld ok sköttum, er hann átti þar; bændr gerðu þar eingan greiða á, kváðust mundu láta bíða þess, er Hákon jarl kæmi til þeirra, ok hann hefði svör ok atkvæði fyrir þeim um skatta þá, sem konúngr kallaði til; fóru konúngsmenn aptr við svâ búit. Hákon jarl var þá uppi á Gautlandi, ok hafði lið mikit; en er áleið sumarit, hèlt Haraldr konúngr suðr til Konúngahellu, síðan tók hann lèttiskip öll, þau er hann fèkk, ok hèlt uppeptir Elfinni, lèt hann draga af skipin við forsa, ok flutti svâ upp í vatnit Væni; síðan reyri hann austr um vatnit, þar sem hann spurði til Hákonar jarls; en er jarl fèkk njósn af um ferðir konúngs, þá sótti hann ofan af Gautlandi, ok vildi eigi at konúngr herjaði á

[1]) sættu, *H.* [2]) sárum, *H.*

þá. Hákon jarl hafði lið mikit, er Gautar höfðu fengit honum; Haraldr konúngr lèt leiða skip sín upp í móðu nökkura, síðan rèð hann til landgaungu, en lèt eptir sumt liðit, at gæta skipanna. Konúngr sjálfr reið ok sumt liðit, en miklu fleira gekk, þeir áttu at fara um skóg nökkurn, en þá var fyrir þeim [smákjörr ok[1] holt; en er þeir komu upp á holtit, þá sá þeir lið jarls, var þá mýrr ein milli þeirra, fylktu þá hvârirtveggju. Þá mælti Haraldr konúngr: setjumst vèr nú niðr á bakkanum, ok vitum fyrst ef[2] þeir vilì áráða; er Hákon óbilgjarn, segir hann. Frost var veðrs, en áðr hafði snjófat nokkut, sátu þeir Haraldr konúngr undir skjöldum sínum; en Gautar voru lítt klæddir, ok gerði þeim svalt[3]. Jarl bað þá bíða þess, er konúngr veitti atgaungu, ok þeir stæði jafnhátt. Hákon jarl hafði merki þau[4], er frú Ragnhildr hafði gefit honum, ok átt hafði Magnús konúngr Ólafsson, faðir hennar; þau[5] merki vildi Haraldr konúngr gjarna átt hafa, ok fèkk eigi. Lögmaðr Gauta hèt Þorviðr, hann var þar með Hákoni jarli; lögmaðrinn sat á hesti, en taumr hestsins var bundinn við hæl einn, er stóð í mýrinni. Þorviðr lögmaðr talaði ok mælti: þat veit guð, at vèr höfum lið mikit ok frítt, ok helzti frækna menn til bardaga; látum þat frètta Steinkel konúng, at vèr fylgjum vel þess-

---

1) smá hrís, ok þá enn, *H.* 2) *þannig H*; at, *A.* 3) kallt, *H.* 4) *v. í H.* 5) þat, *H.*

um góða jarli; veit ek þat, þótt Norðmenn leiti á oss, at vèr tökum öruggt móti þeim, ok ef úngmennit skjalar, þá rennum eigi leingra enn hèr til bekksins; en ef meir skjalar úngmennit, [sem ek veit at eigi mun vera[1], þá rennum þó eigi leingra enn til haugsins. Í því bili hljóp upp her Norðmanna, ok æpti heróp, ok börðu á skjöldu sína; tók þá ok Gautaherr at æpa, en hestr lögmannsins fældist ópit, ok brá við fast, svâ at hællinn gekk upp ör mýrinni, ok keyrði framan um höfuð lögmanni; hann mælti: skjót allra manna armastr, ok hleypti þegar á brott. Haraldr konúngr hafði áðr svâ sagt liði sínu: þótt vèr æpim ok gerim hark nökkut um oss, þá gaungum þó eigi fyrir bakkann ofan, fyrr enn þeir koma hèr at oss. Þeir gerðu svâ, en þegar herópit kom upp, lèt jarl bera framm merki sitt; en er þeir komu undir bakkann, þá steyptist konúngr ofan á þá með lið sitt, fèll þá þegar mart lið jarls, en sumt flýði; var þá drepinn merkismaðr jarls, ok tóku konúngsmenn (merkit). Norðmenn ráku flóttann ekki lángt, því at kveld var dags. Norðmenn tóku þar slíkt af klæðum ok vâpnum sem þeir fengu; konúngr lèt bera fyrir sèr bæði merkin, er þeir fóru ofan. Sagði konúngr svâ, at honum þótti sá vorðinn sinn sigr mestr í þat sinni, er hann hafði merkit fengit. Þeir ræddu með sèr, at[2] jarl mundi vera fallinn; en er þeir fóru um

[1]) enn um sinn, *H.* [2]) hvârt, *H.*

skóginn, mátti ekki meir enn einn maðr ríða senn; ok er þá varði minst, hleypti maðr um þvera götu, hann gerði allt senn, at hann lagði kesju í gegnum þann, er bar merki þat, sem jarl hafði átt, ok greip merkisstaungina, ok hleypti með merkit annan veg í skóginn. En er þetta var sagt konúngi, mælti hann: fái mèr brynju mína, lifir jarl enn; konúngr reið um nóttina til skipa sinna. Mæltu þá margir, at jarl hefði hefnt sín, þótt hann hefði flýit; þá kvað Þjóðólfr:

Öld[1], sú er jarli vildi[2]
ógnteitum lið veita
(styrkr[3]) olli því[4] stillir
Steinkell)[5] gefin helju;
en þvíat illa[6] reyndist[7]
aflván[8] þaðan hánum
fyrir lèt Hákon hörva
hvat segir hinn er fegir[9]

90. Haraldr konúngr var þá nótt at[10] skipum sínum, þat sem eptir var, en um myrginínn er ljóst var, þá var íss lagðr um skipin svâ þykkr, at gánga mátti umhverfis; þá bað konúngr segja mönnum, at höggva skyldi ísinn frá skipunum út í vatnit; gengu menn þá til ok [rèðu á íshöggit[11]. Magnús konúngsson stýrði

---

1) er, *b. v. H.* 2) *v. í H.* 3) sterkr, *H, M.* 4) styr, *M.* 5) Steinkels, *H, M.* 6) *v. í H.* 7) reyndust, *H, M.* 8) alf von, *H.* 9) þat fegrir, *M.* 10) á *H.* 11) hjuggu ísinn, *H.*

því skipi, er yzt lá í vökinni ok næst [út] vatninu. En er menn höfðu mjök úthöggit ísinn, þá hljóp maðr út eptir ísinum, þar til sem höggva skyldi, ok lèt sem væri óðr ok ærr at íshögginu; þá mælti maðr: nú er enn sem optar, at eingi maðr er jafn liðgóðr, hvar sem tilgeingr, sem hann[1] Hallr Koðránsbani, sè nú hversu hann höggr ísinn! En sá maðr var á skipi Magnúsar konúngssonar, er Þormóðr hèt, hann var Eindriðason[2]; en er Þormóðr heyrði nefndan Koðránsbana, þá hljóp hann at Halli, ok hjó hann banahögg. Koðrán var son Guðmundar Eyjólfssonar, en Valgerðr var systir Guðmundar, móðir Jórunnar, móður Þormóðar; Þormóðr var vetrgamall, þá er Koðrán var drepinn; ok hafði Þormóðr aldri sèð Hall Ótryggsson fyrr enn þá, svâ at hann kendi hann. Þá var ok ísinn úthögginn í vatnit, lagði Magnús þá skipinu út ör vökinni, tók hann þegar til segls, ok sigldi vestr yfir vatnit, en konúngsskip lá innst í vökinni, ok lagði þat síðast út. Hallr hafði verit í konúngs sveit ok honum allkær, ok var konúngr hinn reiðasti; hann kom síð til hafnar um kveldit, hafði Magnús þá skotit vegandanum í skóg, ok bauð boð fyrir hann; konúngr vildi ekki þat heyra, ok var við sjálft at hann mundi gánga at Magnúsi syni sínum, áðr vinir þeirra komu til at sætta þá.

[1]) *v. í H.* [2]) Indriðason, *H.*

Þormóðr Eindriðason fór síðan suðr til Danmerkr, ok þaðan út í Miklagarð, ok vildi gánga á mála, en Garðskonúnginum þótti hann vera lítill vexti, ok vildi eigi taka við honum; ok einn dag var konúngr staddr í loptsvölum nökkurum, hann sá at griðúngr einn mikill var leiddr á torg, ok keyptu Norðmenn; Þormóðr gekk til, ok hjó í einu höggi höfuð af griðúnginum; þá mælti konúngr: fleira mun þessi maðr stórt[1] höggva enn naut ein; tók konúngr þá við Þormóði, ok var hann þar á mála lengi síðan. Hákon jarl Ívarsson þótti vera hinn mesti rausnarmaðr; Sunnifa hèt dóttir hans, en son hans hèt Hákon, er átti dóttur Sveins konúngs Úlfssonar, ok var þeirra son Eiríkr lamb Danakonúngr; ok lýkr hèr nú at sinni at segja frá skiptum þeirra Haralds konúngs ok Hákonar jarls.

91. Vetr þenna er þeir börðust Haraldr konúngr ok Hákon jarl, sem nú var sagt, ok Haraldr konúngr hafði skip sín í Væni, þá fór hann upp á Raumaríki, ok hafði lið mikit; hann bar sakir á hendr bóndum, þær[2] at þeir hefði haldit fyrir honum sköttum ok skyldum, ok eflda fjandmenn hans til úfriðar við hann, ok enn varð þeim fleira til missættis. Töldu Upplendíngar at Ólafr konúngr hinn helgi hefði gefit þeim rèttarbætr, meiri í mörgu lagi enn

[1]) kunna stórt at, *H.* [2]) þær sem honum líkaði, ok sagði, *H.*

öðrum bóndum í Noregi, bæði um skyldir ok útgerðir, ok mörg önnur lèn, er Ólafr konúngr hafði þeim veitt eptir Nesja orrustu, fyrir þat er Upplendíngar höfðu efldan hann at liði, þá er hann vann undir sik Noreg af Sveini jarli Hákonarsyni, ok stökti honum ör landi; þótti þeim Haraldi konúngi eigi tilheyra, at mínka sinn rètt, þann er þeir höfðu haft um þeirra höfðíngja[1] æfi, er fyrir honum voru, þar einkánliga sem var hans óðaljörð ok ættleifð, en Haraldr konúngr vildi ekki annat, enn allir jafnbornir menn í Noregi hefði jafnan rètt. Svâ segir Þjóðólfr í drápu þeirri, er hann orti um Harald konúng:

Lètu lystir sleitu
land karlar gram varla
[gerði öllum[2] á jörðu
ódæmi lög sæma;
ok því ráði þjóða
þeim brutu tröll er[3] ollu
hæls[4] í hleypi kjola
hrís andskotum vísa.

Þetta er þar stefit í drápunni:

Lýtr fólk starafeiti
fátt er til nema jála[5]
[þat sem þá vill gotnum
þjóð öll[6] konúngr bjóða[7].

[1]) konúnga, *H.* [2]) gjörði öld, *H.* [3]) ur, *H.* [4]) hljess, *H.* [5]) jálla, *H.* [6]) .g. *b. v. H.* [7]) *frá* [ *v. í M.*

Þá er konúngr kom á Raumaríki, lèt hann taka bændr, hamla suma, en suma drepa, suma lèt hann ræna allri eigu, þeir flýðu er því komu við; víða lèt hann ok brenna hèröðin, ok gerði aleyðu, sem Þjóðólfr segir:

Tók hólmbúa hneykir
harðan taum við Rauma
þar hygg ek fast hins[1] frægsta
fylkíng Haralds gengu;
eldr var gjörr at gjaldi
gramr rèð en[2] tæði
hár í hof at færa
hrotgarmr[3] búendr[4] arma.

Síðan fór hann uppá Heiðmörk, [brendi þar ok gerði hervirki eigi minna enn hinnig[5]; þaðan fór konúngr út á Haðaland ok Hríngaríki, brendi þar allt ok fór herskildi; svâ segir Þjóðólfr:

[Gagn brann greipra þegna
glóð varð föst í tróði
laut[6] hertoga hristir
heima illum steini[7];
lífs báðu sèr lýðir
logi þíngaði hríngum
nauðgan dóm áðr næði
niðrfall Hálfs galla.

---

[1]) en, *H.* [2]) en þá, *M.* [3]) hrott garmr, *H.* [4]) bændr, *H, M.* [5]) ok gerði þar slík hervirki sem hinn veg eðr meira, *H.* [6]) laust, *H.* [7]) *frá [ v. í M, en aptanvið seinni hluta vísu þessarar teingir M þeim 4 stefjum, sem hèr eru að framan:* Lýtr fólkstara feiti (bls. 339).

Eptir þat lögðu bændr á konúngs vald sitt mál. Eptir þat er Magnús konúngr andaðist, liðu 12 vetr, en síðan 2, áðr konúngar sættust, Haraldr ok Sveinn; svâ segir Þjóðólfr:

Færði fylkir Hörða
friðr namst árit þriðja
rendr[1] bitu stál fyrir ströndu
starf til króks at hvarfi.

Eptir sættina var deila konúngs við Upplendínga þrjú missari; svâ segir Þjóðólfr:

Nú er of verk, þau er vísi,
vandmælt, svâ at af standist
auðar plóg at eiga,
Upplendíngum kendi;
sveit hefir [svâ lags[2] rítar
svinns at æ mun vinnast
þrjú missari þessi
þengils höfuð[3] fengit.

Ok eptir þat er settust öll vandræði þeirra, þá fór konúngr at veizlum um Upplönd; hann tók veizlu at þess manns, er Árni hèt, hann var ríkr maðr, þá voru öll hèruð í frið þegin, sagði Árni, at þat var öllum mönnum gleði[4], er konúngr sat í kyrðum með ástþokka[5] vina sinna.

92. Úlfr hèt maðr [hinn auðgi[6], hann átti bú á Upplöndum 14 eðr 15; kona hans bað, at hann skyldi bjóða konúngi til veizlu,

[1]) et þrendr eða et búendr, *H.* [2]) sárlags, *H.* [3]) höfðu, *H.* [4]) fagnaðr, *H.* [5]) ástarþokka, *H.* [6]) auðigr, *H.*

sem margir aðrir ríkir menn gerðu: mun konúngr því vel taka, segir hon, ok veita þèr sæmd á móti. Úlfr svarar: ekki gerir konúngr þessi við alla menn eptir makligleikum, ok er mèr lítit um at bjóða honum heim; ætla ek at konúngi muni leika öfund á auð mínum, ok ágirnast fè mitt meir enn at hófi, varir mik at hann þýngi mèr [meirr enn[1] öðrum, heldr enn veiti mèr rèttliga amban[2], þótt ek sýni honum nökkurn góðvilja. En hver orð sem Úlfr hafði þarum, þá fór hann þó fyrir ástar sakir við konu sína, ok bauð Haraldi konúngi til sín, þá er hann færi frá veizlunni Árna; konúngr lèt at hann myndi koma til Úlfs, fór Úlfr heim ok bjó ríkuliga veizlu. Konúngr kom þar, sem ætlat var, voru þar öll tilföng stórmannlig, borðbúnaðr, ölgögn ok stofubúnaðr, allt var þetta fornt ok fèmikit, ok með miklu yfirbragði; ok einn dag veizlunnar, þá er menn voru komnir í sæti, var konúngr kátr ok allir hans menn, þá mælti konúngr: þat er vel fallit, at gleðja veizlu þessa með nökkurri skemtan. Allir svöruðu at þat var (vel) mælt, ok því mundi hann þetta hafa vakit, at hann mundi vilja áforma um gleðina, kölluðu þat veizlunni mikla virðíng, ef slíkr maðr skemti. Konúngr mælti: þat er þá upphaf at einni lítilli ræðu, at Sigurðr hrísi hèt son Haralds konúngs hárfagra, Sig-

[1]) sem fleirum, *H.* [2]) avmbun, *H.*

urðr átti son, er Hálfdán hèt; jarl Sigurðar konúngs hèt ok Hálfdán; Álmsteinn hèt þræll konúngs; allir voru þeir mjök jafnaldra, konúngr Sigurðr, jarl ok Álmsteinn, var fóstbræðralag með þeim konúngi ok jarli, ok höfðu þeir leikizt við barnleikum allir þrír, meðan þeir voru úngir. En er [framm liðu stundir[1] tók Sigurðr konúngr sótt, ok sagði svå hugr um, at sú sótt mundi hann til heljar leiða, kallaði hann til sín Hálfdán jarl, ok fèkk honum gæzlu ríkis síns með syni sínum; þvíat hann kvaðst honum bezt tiltrúa, at veita syni sínum holla forsjá[2], ok halda ríkinu honum til handa fyrir sakir fóstbræðralags þeirra ok lángrar vináttu; litlu síðar andaðist konúngr.

93. Jarl gerðist mikill styrktarmaðr Hálfdáni konúngssyni ok hans ríki, dró hann saman landskyldir honum til handa, ok hèlt hvívetna honum til virðíngar. Jarl átti sèr son, ok var hann jafnaldri konúngssonar, var með þeim all-vingott. Álmsteinn, er þá var þræll Hálfdánar konúngssonar, var mikill maðr vexti, vænn at ásjónu, styrkr at afli, í mörgu íþróttamaðr ok framkvæmdar umfram aðra þræla, eingi maðr kunni at segja ætt hans. Álmsteinn þræll bauð sik til, at heimta ok taka saman landskyldir konúngssonar um ein 3 ár, en þvíat hann var kunnigr at framkvæmd, ok hafði verit nær fóstbróðir [Sigurðar konúngs[3]

[1] , þeir höfðu lengi ásamt verit, *H.* [2]) þjónostu, *H.* [3]) Hálfdánar konúngssonar, *H.*

ok Hálfdánar jarls[1], ok konúngr hafði hann ekki gert samjafnan öðrum mansmönnum[2], þá var því játat; en hann fór svâ með þeim starfa, at lítit kom til Hálfdánar konúngs af fènu. Tók Álmsteinn þá at sigla til ýmisra landa með fè Hálfdánar konúngs, hèlt hann því til ávaxtar, ok eignaði sèr; hann spandi[3] ok lið mart undir sik með fègjöfum, bæði í ríki Hálfdánar konúngssonar ok annarsstaðar. Í þann tíma andaðist Hálfdán[4] jarl; en er Álmsteinn kom í land, ok spurði andlát jarls, þá fór hann þegar með miklu liði til bæjar Hálfdánar konúngs, ok bar eld at húsum; son jarls var þar inni með Hálfdáni. En er þeir menn, sem inni voru, urðu varir við úfrið ok eldsgáng, þá gengu þeir konúngsson ok jarlsson í jarðhús, þat er annar munni var í skógi, komust þeir svâ í brott. Álmsteinn brendi bæinn, ok þóttist þar hafa innibrent bæði konúngsson ok jarlsson. Sveinarnir voru um hríð á mörkum úti, ok komu framm um síðir austr í Svíþjóð til jarls þess, er Hákon hèt, ok báðu hann viðtöku. Jarlinn svaraði úbrátt, ok sá á þá um stund; síðan veitti hann þeim vist, ok lagði einga virðíng á þá, [voru þeir þar 3 vetr[5]. Álmsteinn tók undir sik ríki Hálfdánar, ok gerðist konúngr. yfir, ok fèkk hann þar einga mótstöðu, en öllum þótti íllt at búa undir hans ríki; var

[1]) *v. í H.* [2]) þrælum, *H.* [3]) *eða* spendi, *H.* [4]) Hákon, *H.* [5]) *v. í H.*

hann údæll ok úsiðugr, svâ at hann tók ríkra manna konur ok dætr, ok hafði hjá sèr, slíka stund sem honum líkaði, ok gat börn við.

94. En er sveinarnir höfðu verit 3 vetr í Svíþjóð með Hákoni jarli, þá gengu þeir einn dag fyrir jarlinn, ok þökkuðu honum vistarveizluna. Jarlinn mælti: vist þessi, Hálfdán! er ek hefi ykkr veitt, er lítilla þakka verð. Þegar vissi ek hverir[1] þið voruð, er þið komuð hèr, var Sigurðr konúngr, faðir þinn, fullkominn minn vinr; en því veitta ek ykkr lítit yfirlæti, at eingi orðræða væri á-gjör, at þið lifið[2]. Nú með því at þið villð á brott hèðan, þá vil ek fá ykkr 3[3] hundruð manna til fylgdar, ok mætti ykkr verða gagn at, þótt þat sè lítit (lið), ef þið kæmið á úvart þeim vânda níðíngi Álmsteini, sem eigi er úvænt[4]; þvíat hann mun nú ekki ugga at sèr, er hann ætlar at þið hafið báðir innibrunnit, væri þá vel árnat, ef þið mættið fá ríki ykkart ok sæmd. Eptir þat fóru þeir með þessu liði, ok gekk eingi frètt frá þeim, komu þeir á úvart til bæjar Álmsteins, ok lögðu eld í, ok er hús tóku at brenna, gekk út þat fólk, sem lofat var; þá bað Álmsteinn sèr griða. Hálfdán svarar: þat er rèttr dómr ok makligr, at þú takir þat á þèr, er þú hafðir mèr ætlat at veita með níðíngsskap; en fyrir þá sök at vèr erum ekki jafnmenni, þá skal þèr kostr at lifa með því móti, at þú skalt hverfa

[1]) hvaðan, *H.* [2]) lifðið, *H.* [3]) 2, *H.* [4]) örvænt, *H.*

aptr til þinnar náttúru, heita þræll ok vera svâ, meðan þú lifir, ok síðan öll þín ætt, sú er frá þèr kann koma. Þann kost kjöri Álmsteinn, heldr enn deyja þá þegar; Hálfdán fekk honum þá með þrælsnafninu kyrtil hvítan lítt vandaðan. Því næst var þíngs kvadt, ok tók Hálfdán konúngsnafn, ok ríki þat allt, er faðir hans hafði átt, ok fögnuðu allir því umskipti.

95 Álmsteinn þræll átti mart barna; nú ætla ek[1] þá vera ætt þína, Úlfr! at Álmsteinn væri föðurfaðir þinn, en ek er sonarson Hálfdánar konúngs; ok hafi þèr frændr svâ dregit undir yðr konúnga eignir, sem nú má hèr sjá í ölgögnum ok öðrum búnaði. Tak nú hèr, segir Haraldr konúngr, kyrtil þann hvítan, er Hálfdán föðurfaðir minn gaf Álmsteini föðurföður þínum, ok þarmeð tak ættarnafn þitt, ok ver þræll ávalt hèðanfrá; þvíat þat var dæmt á þíngi því, sem ek gat fyrr, er Hálfdáni var gefit konúngsnafn, at avi þinn tók kyrtilinn, ok þar komu mæður barna hans til þíngsins, ok tóku öll börn hans þesskonar klæði, ok skyldi svâ allt þeirra afkvæmi. Lèt Haraldr konúngr þá bera framm einn kyrtil hvítan fyrir augu Úlfs, ok kvað þetta við:

Kennir þú kyrtil þenna?
kú[2] áttu skjöldúngi gjalda,
ok alvaxinn uxa

[1]) sagði Haraldr konúngr, *b. v. H.* [2]) qú, *H.*

áttu skjöldúngi gjalda,
svín ok aligás eina
áttu skjöldúngi gjalda,
börn ok allt þatstu árnar
áttu skjöldúngi gjalda.

[Ok enn lèt konúngr fylgja vísunni drag þetta:

Margar eru manna vèlar
mos [átt ok[1] skjöldúngi gjalda[2].

Tak nú, Úlfr! segir konúngr, kyrtil þenna, sem frændr þínir hafa átt, ok þarmeð nafn ok slíkan rètt, sem þeir höfðu. Úlfi þótti úvinveitt skemtan konúngs, en bar varla traust til móti at mæla, eðr taka eigi við kyrtlinum; en kona hans ok vinir báðu hann aldri játta á sik slíkri svívirðíng, hvat sem konúngr gerði af hans máli. Gekk þá kona hans fyrir konúng með sína frændsveit, ok bað Úlfi friðar, ok hann væri eigi svâ hæðiliga svívirðr sem áhorfðist. Varð þat um síðir, at konúngr lèt at bæn þeirra, ok neyddi Úlf ekki undir þrældóm, ok gaf honum upp eitt bú af þeim 15[3], sem hann átti; en konúngr kastaði sinni eign á öll önnur hans bú, svâ á gripi hans ok gersimar, [gull ok silfr, ölgögn ok alla[4] hans eigu; lauk svâ skiptum þeirra Úlfs, sem honum hafði hugr fyrirsagt, áðr hann bauð konúngi til veizlu. Eptir þat fór Haraldr

[1]) áttu, *M.* [2]) *Frá fyrra merkinu [ v. í H.* [3]) 12, *H.*
[4], ok alla aðra, *H.*

konúngr norðr til Þrándheims, ok settist í Niðarósi.

96. Nú er frá því sagt, at á einu sumri kom til Noregs utan af Íslandi Brandr, son Vermundar í Vatnsfirði; hann var kallaðr Brandr hinn örvi, var honum þat sannefni. Brandr lagði skipi sínu inn til Niðaróss; Þjóðólfr skáld var vinr Brands, ok hafði mart sagt Haraldi konúngi frá örleik hans ok stórmensku. En er Brandr var kominn til bæjarins, sagði Þjóðólfr þat konúngi, ok ræddi þá enn mart um vinsældir hans á Íslandi ok örleik. Þá mælti konúngr: þat skal nú skjótt reyna, hvârt hann er svâ örr, sem þú segir: gakk til hans, ok bið hann gefa mèr skikkju sína. Þjóðólfr fór, ok kom inn í skemmu eina, þar er Brandr var fyrir, hann stóð á gólfinu, ok stikaði lèrept; hann var í skallatskyrtli, ok hafði yfir utan skallatsskikkju, ok hafði skikkjuböndin uppi á höfði sèr, meðan hann stikaði lèreptit, hann hafði öxi gullrekna í handarkrika (sèr). Þjóðólfr mælti: konúngr vill þiggja skikkjuna. Brandr hèlt framm athöfn sinni, ok svaraði eingu, en lèt falla skikkjuna aptr af herðum sèr; Þjóðólfr tók upp, ok færði konúngi. Konúngr spurði, hversu færi með þeim; hann sagði at Brandr hefði eingi orð um, sagði Þjóðólfr ok frá athöfn hans ok búníngi. Konúngr mælti: víst er sjá maðr skapstór, ok mun vera mikilsháttar, er honum þótti eigi þurfa

orð um at hafa; gakk enn ok seg, at ek vil þiggja af honum öxina þá hina gullreknu. Þjóðólfr mælti: ekki er mèr mikit um, herra! at fara optar, veit ek eigi hversu hann [vill þat taka[1], ef ek kref vâpns ör hendi honum. Konúngr mælti: þú vaktir þetta mál, ok sagðir mikit af örleik hans, bæði nú ok fyrr; skaltu af því fara, þykki mèr hann ekki örr, ef hann gefr mèr eigi öxina. Þjóðólfr fór ok sagði Brandi, at konúngr vildi þiggja öxina; hann rètti þegar frá sèr öxina, ok mælti ekki. Þjóðólfr færði konúngi öxina, ok sagði hversu farit hafði. Konúngr mælti: meiri vân at þessi maðr sè örvari enn flestir menn aðrir, ok heldr fènar nú; far þú enn ok seg, at ek vil hafa[2] kyrtilinn, er hann stendr í! Þjóðólfr mælti: ekki heyrir mèr, herra! at fara til þessa, kann vera at hann virði sem ek vill spotta hann. Þú skalt fara, segir konúngr. Þjóðólfr fór ok sagði Brandi, at konúngr vill þiggja kyrtilinn. Brandr brá þá sýslunni, ok steypti af sèr kyrtlinum, ok mælti ekki; hann spretti af annarri erminni ok hafði eptir, en kastaði kyrtlinum til Þjóðolfs, en hann færði konúngi. Konúngr leit á ok mælti: þessi maðr er bæði vitr ok stórlyndr; auðsætt er mèr, at því hefir hann erminni af sprett, at honum þykkir sem ek eigi eina höndina, til þess [þó

1) mun hafa þat í höndum, *II.* 2) þiggja, *II.*

at þiggja[1] jafnan, en aldri at gefa, ok fari nú eptir honum; var svâ gert. Kom Brandr, ok fagnaði konúngr honum vel; þá Brandr af konúngi mikla virðíng ok stórar gjafir.

97. Halldórr hèt einn ríkr maðr í Noregi, hann var vinr Haralds konúngs; dóttir hans hèt Íngibjörg, vitr kona ok væn. Haraldr konúngr þá opt veizlur með Halldóri, þá er hann sat í Þrándheimi, þótti konúngi skemtiligt at tala laungum við Íngibjörgu, þvíat hon var margfróð, ok sagði merkiliga frá mörgum hlutum. Þat var á einu hausti at Íngibjörg tók vanheilsu mikla, þrútnaði kviðrinn á henni, ok voru henni at meini hitar miklir ok þorstar. Hon vildi fátt fyrir alþýðu tala um vanheilsu sína, voru þará ýmsar getur, hugðu þat sumir menn, at mein hennar myndi vera af völdum konúngs; en þar kom því máli at mein hennar gerðist með meira móti, enn þat mætti af manna völdum vera; vóru þá konúngi orð gjör, at hann legði til nökkur heilræði. Konúngr kom til, ok leit á vanheilsu hennar, ok mælti til Halldórs: svâ stendst áf um ferðir mínar, at ek má hèr ekki dveljast leingi, ek verð fara at finna drottníng, þvíat hon er sjúk, ok er þat með miklum ábyrgðum; en vanheilsa dóttur þinnar er mikil, ok þykki mèr þat líkast, at hon hafi lagizt at *ver*mslum[2] nökkurum at drekka, ok mun hon sólgit hafa yrmlíng nökkurn lítinn,

[1]) [þá at biðja, *H.* [2]) vermlum, *H.*

ok mun sá hafa þróazt í kviði hennar. Nú skiptir eingu um hèrvist mína, en ráð mun ek tilkenna, at gera at þessu meini, þat er mèr þykkir hóti líkast at dugi, ok er þat þó með mikilli hættu. Þèr skuluð halda fyrir henni drykkinum, svâ at hon nái eigi at drekka, þótt hon kalli til, hon mun þat illa þola, ok skulu þèr ekki gefa at því gaum; þá skulu þèr færa hana þartil, sem vatn fellr af bjargi framm, ok stemmið af [vatnsfallinu svâ lítit, at eigi falli meira þar ofan, sem þèr eruð, en drjúpi mjög ótt, en verið þó svâ nær læknum, at gerla heyri forsfallit; þar skal halda upp vaðmáli, sem þèr eruð undir berginu, skal hon þar liggja á sem hógligast, ok búið svâ um, at sem mest þysti þann sem með henni byggir[1]; látið hana þar [undir, sem drjúpi smám ok smám[2] í munn henni, en hon nái eingum drykkinum. Verþú, Halldórr! nærstaddr með vâpn nökkut hvast, ok ef svâ fer, sem mik varir, at sá leiti vatnsins, sem með henni er, þá haltu vörð á, ef hann leitar út munninn, ok lát þó eigi sjá þik; varast þú þat mest, at þú ráð eigi fyrr til hans, enn úti eru bæxlin ok hjartat, þvíat framhlutr ormsins býr yfir eitri, en þat skiptir eingu, þótt hinn eptra hlut melti hon. Farið ekki at því, þótt hon mælist um hörmuliga, þvíat

[1]) vatnsfallit, svâ at lítit falli þar ofan, sem þèr eruð, ekki meira enn lítit komi niðr, *H.* [2]) niðri undir, svâ at smám ok smám drjúpi, *H.*

þetta mætti henni meira, ef vel vildi takast; en giptan má ráða ok árnan hins heilaga Ólafs konúngs, kallið á hann með guði til hjálpar, ok hafið þessa alla meðferð, sem nú hefir ek tilkent. Fór konúngr þá brott, en Halldórr gerði, sem konúngr hafði fyrirsagt; var búit um hana undir berginu, ok draup vatnit í munn henni svâ smám, at hana þysti at meirr. Hon mæltist um illa, ok lèzt eigi þess vara, at faðir hennar mundi svâ vilja kvelja hana: en vera kann, segir hon, at hèr komi framm grimmleikr Haralds konúngs; en þeir menn sem nærr voru, lètu sem eigi heyrði, hvat er hon kveinaði. Faðir hennar stóð hjá með sax brugðit, ok þó leyniliga; því næst sá hann, hvar kom framm trjóna ekki þekkilig ör munni hennar, ok hvarf þegar inn aptr; ok litlu síðar kom ormrinn framm öðru sinni, ok skygndist um, ok vildi gjarna vatnit, mátti þá nökkuru meirr sjá vöxt hans enn hit fyrra sinn, en þó ekki svâ at til hans væri ráðanda, hvarf hann enn inn aptr; hit þriðja sinn kom hann út svâ, at Halldór sá gerla bæxlin, kallaði hann þá einkanliga af öllum hug á Ólaf konúng með guði; rèð hann þá til, ok hjó sundr orminn fyrir framan munn hennar, fèll þá út höfuðhlutrinn, en hinn rendi inn aptr ok niðr í kvið hennar. Hon varð við þetta svâ máttlítil, at hon sýndist þeim mjök svâ dauð, fóru þeir þá heim með hana

sem hógligast, ok nærðist[1] svâ sem fráleið; ok var hon þó lengi máttlítil, var þá á henni hugarótti ok kvíðr, svâ at meinum sætti. Var þá sent eptir konúngi, ok er hann kom til fundar við hana, vildi hon ekki við hann mæla; en er hann spurði, hví þat sætti, ok leitaði marga vega tals við hana, þá svaraði hon um síðir, sagði hann hafa sýnt sèr mikinn grimmleik í sínum tillögum. Konúngr svarar: eigi skal sú raun áverða, myndir þú hafa leingi fæddan með þèr vândan[2] gest, ef eigi væri þetta atgert, en nú má vera at þú verðir heil, ef guð vill. Þá mælti konúngr: nú skal heita fyrir henni, einkanliga á Maríu guðsmóður, at Íngibjörg skal sýngja á Uppnumníngardag hennar *Beati immaculati* ok 7 sálma, ef hon verðr heil. Eptir þetta heit batnaði henni dag frá degi, svâ at á skamri stundu varð hon alheil; þótti þá sem fyrr sá kvennkostr einnhverr beztr í Noregi.

98. Litlu síðar bað Íngibjargar einn lendr maðr úngr [ok vænligr[3], ok at öllum hlutum vel til manns kominn, ok leiddist þareptir mjök hugr Halldórs föður hennar; leitaði hann þá ráða til Haralds konúngs, hvers hann fýsti um; en konúngr sendi þau orð ímót, at hann vildi ekki at hon giptist; Halldórr kallaði þat ok sannligt, at hann rèði miklu um. Fór þá

[1]) hon, *b. v. H.* [2]) óþarfan, *H.* [3]) í Noregi, *H.*

hinn lendi maðr, sá er hennar bað, á konúngs fund, ok leitaði við hann þessa mála, sagði Halldór föður hennar [hafa til hans vikit um annsvarit. Konúngr sagði hit sama, at hon myndi eigi giptast: vil ek vera vin þinn, segir konúngr, ef þú leiðir hug þinn frá þessu ráði. Þá mælti hinn lendi maðr: margir menn mæla þat, herra! at þèr munið hafa tilsjár um hag hennar, ok því muni þèr öðrum banna þann kost. Konúngr svarar: þat mun enn reynast, hvat ek vil henni; en þat segik, sem ek hygg, at eingum manni mun hlýða at fá hennar; var nú þessu ráði með öllu brugðit. Litlu síðar átti konúngr tal við Halldór ok Íngibjörgu, af því tali kom þat upp, at konúngr lèt Íngibjörgu, með hennar samþykki, fara í klaustr[1], endi hon þar sína ævi með fögru lífi ok góðum siðum í heilagri þjónkan.

99. Svâ bar til á einu sumri, at einn íslenzkr maðr úngr ok fráligr, en þó fèlaus[2], kom til Haralds konúngs, ok bað hann ásjá; konúngr spurði, ef hann kynni nökkura fræði; hann lèzt kunna nökkurar sögur. Konúngr mælti: ek mun taka við þèr, svâ at þú skalt vera með hirð minni í vetr, ok skemta ávalt, er menn vilja, hver sem þik biðr, ok svâ gerði hann, aflaði hann sèr skjótt vinsælda af hirðinni ok gáfu þeir honum klæði, en konúngr sjálfr gaf honum gott vâpn í hönd sèr. Leið nú svâ framm

[1]) nunnuklaustr, *H.* [2]) fèlítill, *H.*

til jóla, þá úgladdist Íslendíngr; konúngr fann þat, ok spurði hvat til-bæri úgleði hans; hann kvað koma til mislyndi sína. Ekki mun svâ vera, segir konúngr, ok mun ek geta til; þat er ætlan mín, at nú muni uppi sögur þínar, þvíat þú hefir jafnan skemt, hverjum sem beidt hefir í vetr, ok laungum bæði nætr ok daga; nú mun þèr íllt þykkja at þrjóti sögurnar at jólunum, en þú mundir vilja segja eigi hinar sömu. Rètt er svâ sem þú getr, segir hann, sú ein er sagan eptir, er ek þori eigi hèr at segja, þvíat þat er útfararsaga yðr. Konúngr mælti: sú er ok svâ sagan, at mèr er mest forvitni á at heyra; skaltu nú ekki skemta framan til jólanna, er menn eru í starfi miklu, en jóladag hinn fyrsta skaltu uppheſja þessa sögu, ok segja af spöl nokkurn, þá eru drykkjur miklar, ok má þá sitja skömmum við, at hlýða skemtaninni; mun ek svâ stilla til með þèr, at jafndrjúg verði sagan ok jólin, ok ekki munþú áfinna[1], meðan þú segir söguna, hvârt mèr þykkir vel eðr illa. Þetta fór svâ, at Íslendíngr hóf upp söguna jóladaginn[2], ok sagði eigi leingi, áðr konúngr bað hætta; tóku menn þá umtal mikit um skemtanina, mæltu sumir at þat væri Íslendíngi djörfúng at segja þessa sögu, eðr hversu konúngi mundi líka; sumum þótti hann vel segja, en sumum fannst minna um. Kon-

1) á mèr finna, *II.* 2) fyrsta, *b. v. II.*

úngr var vandr at, at vel væri tilhlýdt; stóðst þat ok á með tilstilli konúngs, at jólin þraut, ok lokit var sögunni. Ok hinn þrettánda dag mælti konúngr: er þèr eigi forvitni á, Íslendíngr! segir hann, hversu mèr líkar sagan? Hræddr er ek þarum, herra! segir hann. Konúngr mælti: mèr þykkir allvel sögð, ok hvergi vikit frá því sem efni stóð til, eðr hverr kendi þèr? Hann svarar: þat var vandi minn út þar á Íslandi, at ek fór hvert sumar til þíngs, ok nam ek hvert sumar nökkut af sögunni, er Halldór sagði Snorrason. Þá er eigi undarligt, segir konúngr, at þú kunnir vel, er þú hefir af honum numit, ok heldr mun þessi saga þèr at gagni verða; skaltu með mèr velkominn hvern tíma, er þú vill með mèr vera. Var hann með konúngi um vetrinn, en um vârit fèkk konúngr honum góðan kaupeyri, ok varð hann síðan þrifnaðarmaðr.

100. Þorvarðr hèt maðr vestfirzkr at kyni, hann var kallaðr krákunef, auðigr at fè ok drengr góðr, hann fór milli landa, ok var virðr vel, hvar sem hann kom. Á einu sumri kom Þorvarðr utan af Íslandi norðr við Þrándheim, ok lagði skipi sínu inn í Niðarós; þá var Haraldr konúngr í bænum, ok Eysteinn orri mágr hans, son Þorbergs Árnasonar, er allra manna var röskvastr, ok þá virðr mest af konúngi. Þorvarðr ruddi skip sitt, ok leigði sèr skemmu, síðan gekk hann á fund Haralds

konúngs, ok fann hann úti hjá stofu þeirri, sem hann hafði drukkit í, konúngr var ekki glaðligr. Þorvarðr heilsaði konúngi, ok mælti síðan: hèr er eitt segl úti á skipinu, er ek vildi at þèr þægið. Konúngr svarar: einn tíma þá ek segl at yðr Íslendíngum, ok lagði nærr at mèr mundi þat verða at skaða, gekk þat sundr í siglíngu, ok vil ek eigi þiggja. Eysteinn orri mælti: gángið til, herra! ok sjáið seglit, kann vera at yðr lítist vel á, er þat vænna at þèr þiggið úvirðiligri gripi, því mun hann yðr ætlat hafa. Konúngr svarar: ek sè ráð fyrir mèr, en þú fyrir þèr; gekk hann þá inn í stofuna, ok festi ekki orð á honum. Þá mælti Þorvarðr: gakk með mèr, Eysteinn! ok þigg seglit. Eysteinn leit á ok sagði, at hann hefði eigi sèð betra segl, ok þakkaði honum gjöfina, ok bað hann koma um vetrinn, at sjá bæ sinn í Gizka. Er nú kyrt um vetrinn; en er vârar bjó Þorvarðr skip sitt, ok hèlt suðr með landi þegar hann var búinn. Hann lá til byrjar við ey þá, er Sólskel heitir, ok einn dag sá þeir, at reyri at þeim ein fögr skúta alskipuð, þar sat við stýri vænn maðr í rauðum skallatskyrtli, sá spurði, ef Þorvarðr krákunef væri þar á skipi; Þorvarðr stóð upp ok fagnaði Eysteini. Eysteinn mælti: seinn varþú at sækja mik heim, stíg nú hèr í skútuna með svâ marga menn sem þú vill, því at nú er ekki byrvænligt,

Þorvarðr gerði svâ, fór með Eysteini með nökkura menn, komu til eyjarinnar Gizka; þar var fyrirbúin veizla ágæt, þar voru hús stór ok góð, drukku þeir leingi um kveldit, fóru síðan at sofa. Þorvarðr vaknaði þá er mornat var, ok sá at Eysteinn var á fótum. Eysteinn mælti: ekki er yðr byrvænligt, verið með mèr í dag í náðum, látið mik sjá veðr fyrir yðr, ok skulu þèr ekki sitja byri[1] því heldr; drukku þeir um daginn ok voru kátir. Þá mælti Eysteinn: fyrir þat, Þorvarðr! er þú fórt með mèr frá skipi þínu albúnu, ok sóttir mitt heimili, sem ek beidda, þá þigg af mèr kyrtil þenna; kyrtillinn var skorinn af nýju skallati, ok allr hlaðbúinn. Þorvarðr þakkaði honum gjöfina. Eysteinn mælti: þetta skal vera kynnisgjöf, en ekki segllaunin. Sátu þar[2] um daginn í hinum bezta fagnaði, ok annan morginn eptir mælti Eysteinn: kyrrir skulu þèr vera í dag, þvíat enn er eigi byrr. Þorvarðr bað hann nú fyrirsjá; sátu þeir þar, ok var nú allt meira viðhaft um veizluna, enn hinn fyrra dag. Þá lèt Eysteinn bera framm skallatsskikkju vandaða mjök, hon var samdregin hinum beztum [grámskinnum[3]; þá mælti Eysteinn orri: þessa skikkju skaltu hafa fyrir seglit; þvíat hon mun þikkja fyrir flestum skikkjum, sem seglit, þat er þú gaft mèr, ber af öðrum seglum. Þorvarðr þakkaði vel gjöf-

1) kyrt, *H.* 2) þeir, *H.* 3) gráskinnum, *H.*

ina; leið af sá dagr ok nótt; en um myrginínn snimma var Þorvarðr vaktr, var þar kominn Eysteinn ok mælti: nú skal ekki dvelja yðr, þvíat veðr er byrvænligt; tóku þá snæðíng ok drukku, áðr þeir fóru. Þá mælti Eysteinn: eigi varð þèr auðit, at konúngr þægi seglit at þèr, en þess get ek, ef hann hefði þegit, at hann mundi þannveg svâ launat hafa sem ek. Nú hefir þú ekki fyrir þat, er útiginn maðr veitti þèr launin, en eigi konúngr, sem þú hafðir ætlat, en ek má ekki at því hafa, þótt ek sè útignari, en fyrir þann virðíngarmun skaltu þiggja hríng þenna, dró hann þá hrínginn af hendi sèr, ok gaf honum. Þorvarðr þakkaði Eysteini vel allar þessar gjafir, síðan lèt Eysteinn flytja þá til skips síns, sigldi Þorvarðr á haf, ok gaf vel byri til Íslands. En um sumarit, er þeir Haraldr konúngr ok Eysteinn (fundust), sigldu (þeir) suðr með landi; ok er þeir komu til hafnar eitt kveld, mælti konúngr: hvaðan kom þèr, Eysteinn! svâ gott segl? Eysteinn svarar: hèr er nú þat seglit, herra! er þèr vilduð eigi þiggja af Þorvarði. Konúngr mælti: ek sá aldri fríðara segl, ok hefi ek þar góðum grip neitt[1]. Eysteinn mælti: vili þèr flensa, herra! milli segla? Konúngr svarar ok brosti við, hví eigi, segir hann; stóð konúngr upp hjá siglunni. Eysteinn mælti: gjör þik ekki at undri, ok

[1]) neitað, *H.*

haf segl hvârt er þú vill, ok er nú vel at þú veizt hverju þú neitaðir[1]. Konúngr þakkaði honum, ok hafði þat seglit, sem Þorvarðr hafði átt, ok þótti þat gersimi, en þó hæfði þat varla at vexti[2] hinu mikla skipi konúngs, [ef kappsiglíngar skyldi þreyta[3].

101. Eitt sumar kom utan af Íslandi sá maðr, er kallaðr var Snegluhalli[4], hann var norðlenzkr at ætt; Halli var skáld, ok foryfldist[5] ekki at mæla, þat er honum sýndist, við hvern mann sem hann átti um. Þeir komu af hafi utan at Agðanesi. Sigurðr hèt sá sem skipit átti; en er þeir sigldu inn eptir firði, ok var allveðrlítit, þá reyru út í móti þeim lángskip eigi allfá, ok var þat dreki er fyrst fór. En er þeir mættust, stóð upp maðr á drekanum, mikill ok merkiligr, ok búinn ríkmannliga, sá mælti: hverr stýrir kaupskipinu? hvar voru þèr í vetr? hvaðan ýttu þèr? hvar tóku þèr land, eðr hvar voru þèr í nótt? Halli svarar: Sigurðr heitir stýrimaðr; vârum vèr í vetr á Íslandi, ýttum frá Gásum, tókum Hítrar, ok vorum í nótt við Agðanes. Maðrinn mælti: sarð hann yðr þá eigi Agði? Halli svarar: eigi enna. Maðrinn mælti: [var þó nökkut til ráðs um[6]? Já, herra! segir Halli, beið hann at betri manna, þvíat hann vænti þín þángat í kveld.

[1]) hefir neitt, *H.* [2]) yfir, *b. v. H.* [3]) þegar er hann vildi hinar meiri kappsiglíngar þreyta, *H.* [4]) Snægluballi, *H.* [5]) *þannig A, H, M.* [6]) *þannig A, M*; var þó til um, *H.*

Var sá maðr Haraldr konúngr, er orðum skipti við Halla. Þeir lögðu skipinu inn til bæjar, ok þegar konúngr kom til bæjarins, fór Halli til fundar við hann, ok kvaddi hann, ok mælti síðan: til yðvar vildi ek fara til vistar, herra! Konúngr svarar: vant verðr þat útlendum mönnum, ok því ábyrgst þik sjálfr, en eigi spari ek mat við þik. Fór Halli þá til hirðarinnar; [þar var með konúngi Þjóðólfr skáld, ok þótti vera nokkut öfundsjúkr við suma menn[1]. Þat var einn dag at Þjóðólfr gekk at stræti með konúngi, þeir komu fyrir lopt nökkur, ok heyrðu þar inn deild manna, ok því næst áflog, þar áttu saman skinnari ok járnsmiðr: gaungum brott hèðan, segir konúngr; kvettu nú, Þjóðólfr! um deild þeirra. Úskylt er þat, herra! segir hann. Konúngr mælti: gjör sem ek beiði, en þó er nökkuru meiri [vandi á[2] enn þú ætlar; þú skalt gera af þeim allt aðra menn enn þeir eru, láttu annan vera Geirröð jötun, en annan Þór. Þjóðólfr kvað:

Varp ör [þrælu þorpi[3]
Þórr [smiðbelgja stórra[4]
hvatt eldíngum[5] höldnum
hafra kjöts at jötni;
hljóðgreipum tók[6] húða
hrökkvi skafls[7] or afli

---

[1]) *v. í A.* [2]) vo í, *H.* [3]) *þannig A*, *H.* [4]) smiðbelgjum stórum, *H.* [5]) eldligum, *H.* [6]) greip, *H.* [7]) *þannig H*, *M*; skalfs, *A.*

glaðr við[1] galdra smiðju
Geirravðr sío þeirri.

Konúngr mælti: þessi vísa er góð ok vel ort; nú skaltu yrkja aðra vísu, lát nú vera annan þeirra Sigurð fâfnisbana, en annan Fâfni, ok kenn þó hvârn til sinnar iðnar; hann kvað:

Sigurðr eggjaði sleggju
snák vâligrar brákar
en skapdreki skinna[2]
skreið of[3] leista heiði;
menn[4] [sást orm áðr ynni[5]
ilvegs búinn kilju
nautaleðrs á naðri
neflángr konúngr tángar.

Konúngr mælti: gott skáld er þú, Þjóðólfr! gaf konúngr honum þá fíngrgull, ok um kveldit eptir var margtalað um vísurnar, sögðu hirðmenn at Halli myndi eigi yrkja slíkar vísur. Halli svarar: eigi er ek jafngott skáld sem Þjóðólfr; en þá mun mèr first um fara, ef ek er eigi viðstaddr yrkisefnin. Sá maðr var með Haraldi konúngi er hèt Túta, hann var frískr að ætt, ok var sendr konúngi til sýnis, þvíat hann var lágr ok digr, vaxinn að öllu sem dvergr; ok eitt kveld lèt konúngr hann taka vâpn sín, brynjuna Emmu, ok þarmeð hjálm ok sverð, gekk hann svâ vâpnaðr inn í stofuna,

1) í, *H.* 2) skrauta, *M*; *v.* í *H.* 3) af, *H.* 4) mann, *M.* 5) leizt ormr áðr ynnist, *H.*

þar [sem hirð sat at mat[1], hlógu menn at honum, ok þótti maðrinn vera undarligr. Þá mælti konúngr: sá maðr sem nú yrkir vísu um hann, þar sem hann stendr, skal þiggia af mèr kníf þenna ok belti, þat voru gersimar; þá kvað maðr vísu á bekkinn, þar var Halli:

Færdr sýndist mèr frændi
Frísakyns í brynju,
geingr fyrir[2] hirð í hríngum
hjálmfaldinn kúrfaldi[3];
flærat[4] eld í ári
úthlaupi vanr[5] Túta,
sèk[6] á síðu leika
sverð rúghleifa skerði.

Vel er kveðit, segir konúngr, ok sendi honum gjöfina; Þjóðólfi fanst fátt um.

102. Nökkuru síðar gekk konúngr at stræti ok hirðin með honum; Halli var ok þar, ok er sízt varði hljóp Halli fyrir þá framm; konúngr mælti:

Hvert stillir þú, Halli?

Hann sv. hleyp ek framm at skyrkaupum[7].
Kon. mlti: graut munþú gera[8] láta?
Halli sv. gjörr matr er þat smjörvan.

Hljóp hann þá í garð einn, þar sem kona gerði graut; hann greip ketilinn ok gekk út með, settist niðr hjá herberginu, ok át graut-

---

[1]) sat hirðin yfir borðum, *H.* [2]) með, *M.* [3]) kútfaldi, *M.* [4]) flýrrat, *H.* [5]) valr, *H.* [6]) sè ek, *H.* [7]) scyrkaupi, *M.* [8]) gjörvan, *H*, görfa, *M.*

inn. En er konúngr saknaði Halla í fylgdinni, þá mælti hann: eigi eru nú góð efni í, hann Halli er brotthlaupinn; förum nú ok leitum hans. Þeir fóru ok fundu hann, þar sem hann sat, ok hóf grautinn. Konúngr mælti til hans styggliga: hvat skyldir þú fara utan af Íslandi til ríkra manna, ok gerast svâ at undrum. Ver eigi reiðr, herra! segir Halli, þiggja vil ek fagnað, ef í hendr ber, ok jafnan sè ek yðr á kveldum ekki drepa hendi við góðum sendíngum. Konúngr gekk í brott, en Halli stóð upp, ok kastaði katlinum, svâ at haddan skall við; Halli kvað:

Haddan skall, en Halli
hlaut offylli grautar,
hornspánu kveð ek hánum
hlýða betr en prýði.

Konúngr var reiðr Halla, en Þjóðólfi þótti hlægiligt, þat er hann hafði tiltekit. Þat sama kveld lèt konúngr setja fyrir Halla grautartrog, ok bað hann ör-eta. Halli mælti: eta skal ek graut, þvíat mèr þykkir hann megingóðr[1]. Halli mataðist[2], ok hætti þá er honum þótti fallit. Konúngr bað hann eta enn; nei, herra! segir hann, þat geri ek eigi, kost eigi þèr at láta drepa mik, ef þèr villð, en eigi skal mèr grautr at bana verða. Þá tók konúngr af borði sínu grís einn steiktan, ok fèkk í hendr Tútu[3], ok mælti: færðu sendíng þessa Halla, ok seg

[1]) góðr, *H.* [2]) hóf grautinn, *H.* [3]) Túta, *H.*

honum at hann hafi ort vísu, áðr þat[1] kemr fyrir hann, ok mæl þat þá er þú kemr á mitt gólb; en ef eigi er ort, þá er [hann tekr við[2], þá sèr hann bana sinn. Túta svarar: herra! eigi vildi ek þetta gera. Konúngr mælti: góð þykki þèr vísan[3], munþú ok gerla [heyra kunna[4]. Tók hann þá við grísinum, ok gekk á mitt gólbit ok mælti: yrk vísu, skáld! at boði konúngs, ok lát sem líf þitt liggi við; ok er Túta kom fyrir Halla, rètti hann hendrnar móti grísinum, ok kvað:

> Grís þá greppr at ræsi
> gruntrauðastum[5] dauðan,
> njörðr sèr börg[6] á borði
> bauglands fyrir sèr standa;
> runa[7] síður lít[8] ek rauðar,
> ræð ek skjótgervu[9] kvæði,
> rana hefir seggr af svíni,
> send heill konúngr! brendan.

Konúngr mælti: allgóð er vísan, ok skal þèr nú uppgefin sökin, Halli!

103. Var Halli þá með hirðinni vel haldinn, ok er jóla aptan kom, gekk Halli fyrir konúng, ok kvaddi hann; konúngr tók vel máli[10] hans. Halli mælti: herra! kvæði hefi ek ort um yðr, ok vildi ek at þèr hlýddið. Kon-

---

[1]) þú, *H.* [2]) þú kemr fyrir hann, *H.* [3]) sú er Halli kvað til þín, enda, *b. v. H.* [4]) kunna til at heyra, *H.* [5]) gunntrauðastum, *H.* [6]) baugs, *H.* [7]) ruðna, *M.* [8]) leit, *H.* [9]) skjótt gjörfu, *H.* [10]) kveðju, *H.*

úngr mælti: hefir þú nökkut kvæði fyrr ort? ekki, herra! segir hann. Konúngr mælti: þat mun þá sumra manna mál, at þú takist mikit í fáng fyrsta sinni, slík þjóðskáld sem um mik hafa ort; eðr hvat sýnist þèr ráð, Þjóðólfr? Hann svarar: ekki kann ek at kenna yðr ráð, herra! hitt mun nærr, at ek mega ráða Halla heilræði. Konúngr mælti: hver eru þau? At hann ljúgi eigi at yðr, segir Þjóðólfr. Hvat lýgr hann? segir konúngr. Þjóðólfr svarar: hann sagðist ekki kvæði ort hafa, en ek ætla at hann hafi ort. Hvert er þat kvæði? segir konúngr. Þjóðólfr mælti: þat heita Kolluvísur, er hann kvað um kýr út á Íslandi, er hann gætti. Er þat satt, Halli? segir konúngr. Hann kvað þat satt vera. Konúngr mælti: hví sagðir þú þá, at þú hefðir ekki kvæði ort fyrr enn um mik? Því, herra! segir hann, at ek vænti at lítil kvæðismynd muni þará þykkja, ef menn heyra. Kveð þat þó fyrst, segir konúngr. Halli mælti: skemta mun þá fleira skulu, herra! Hverju þá? segir konúngr. At Þjóðólfr kveði, segir Halli, Sorptrogsvísurnar, er hann orti út á Íslandi. Konúngr svarar: hvernig er þat kvæði? Halli mælti: Þjóðólfr hafði þat verk, er hann var heima, at hann bar út ösku með öðru úngmenni, þvíat hann þótti til eingis annars færr, ok varð þó at geyma til með honum, at eigi væri eldr í, svâ at mein yrði at. Er þat satt, Þjóðólfr? segir konúngr. Satt er þat,

herra! segir Þjóðólfr. Konúngr mælti: hví hafðir þú svá úvirðuligt verk? Þat bar til, herra! segir hann, at vèr vârum mörg börnin, ok tók ek undir með þeim um verkit, ok flýtti ek þeim svâ til leika[1]. Heyra vil ek hvârttveggja kvæðit, segir konúngr. Þeir kváðu kvæðin, ok er því var lokit, mælti konúngr: hvârttveggja kvæðit er úfengiligt, munu ok lítil hafa verit yrkisefnin, þó er þat enn fengminna, Þjóðólfr! er þú hefir ort. Þjóðólfr mælti: Halli er maðr orðhvass, en þó væri honum eigi úskyldra at hefna föður síns, enn at[2] kasta únýtum orðum á mik. Konúngr mælti: er þat satt, Halli! at þú hefir eigi hefnt föður þíns? Satt er þat, herra! segir hann. Hví fórtu við þat til Noregs? Halli svarar: þat bar svâ til, herra! at ek var barn at aldri, þá er faðir minn var veginn, tóku frændr mínir málit, ok sættust á fyrir mína hönd, en þat nafn þykkir ekki vel sama með oss, at heita griðníðíngr. Konúngr mælti: (hið) bezta er leyst ör þessu; en þat er nú at, er þú svarar eingu Þjóðólfi. Herra! segir hann, Þjóðólfr má fyrir því djarfliga tala um slíka hluti, at eingan mann veit ek greypiligar hafa hefnt síns föður enn hann. Konúngr mælti: hvat er til marks um, at hann hafi þat framar gert enn aðrir menn? Þat má til þess finna, segir Halli, at Þjóðólfr hefir etit föðurbana sinn. Konúngr spurði, hversu megi[3] þat

[1]) leiks við mik, *H.* [2]) hæða eða, *b. v. H.* [3]) má, *H.*

vera satt. Halli mælti: þat er svâ tilfarit, at Arnórr, faðir hans, bjó á Íslandi fyrir norðan land, hann var maðr fèlítill ok sèr únógr um þá hluti, sem hann þurfti at hafa, en átti mart barna[1], ok hafði hyski hans þat at mestum hluta til atvinnu, er hèraðsmenn fengu honum; ok á einu hausti áttu bygðarmenn fund at, hver tillög vera skyldu við fátæka menn, ok var eigi annar fyrr tilnefndr at stoða þyrfti enn Arnórr, faðir Þjóðólfs, ok varð einn bóndi, herra! svâ stórlátr, at gaf honum kálf sumargamlan; fór hann síðan eptir kálfinum, þvíat honum þótti mest nauðsyn at sækja þann[2] tilbeinann, er mestr var. Hann lagði taug eina lánga ok ramliga við kálfinn, ok leiddi hann heim, en atrennulykkja var á taugarendanum, ok smeygði hann lykkjunni á háls sèr, en hèlt höndunum um togit; fór hann svâ þartil er hann kom heim at túngarði. Var garðrinn utan eigi allhár, en fyrir innan var gröptr djúpr, en er hann var kominn upp á garðinn, ok lèt sígast af inn, þá varð hærra enn hann hugði, ok tóku fætr hans eigi niðr, en kálfrinn brauzt við[3] öðrum megin garðsins; en þvíat hann hafði eigi gáð at smeygja tauginni af hálsi sèr, þá hèngu þeir þar[4] ok fengu báðir bana. En er börnin sá þat, hlupu þau til, ok drógu heim kálfinn, ok ætla ek, herra! segir Halli, at Þjóðólfr snæddi þann

[1]) ok hafði mikit um at vera, *b. v. H.* [2]) fyst, *b. v. H.* [3]) um, *H.* [4]) þannveg, *H*, þangat, *M.*

kálf at sínum hluta. Konúngr segir, at þat mundi beint hæfiliga. Þjóðólfr hljóp þá upp, ok vildi höggva til Halla, ok varð hann stöðvaðr. Þá mælti konúngr: ek skal sætta ykkr, svâ at hvârigum skal hlýða at gera öðrum mein; en þú, Þjóðólfr! vaktir þetta mál fyrri, ok var þèr þat úskylt. Síðan var þetta kyrt, ok færði Halli konúngi kvæðit, þat var gott kvæði ok vel ort, ok var Haraldr konúngr vel til Halla.

104. Í þann tíma hafði Einar fluga finnferð af hendi Haralds konúngs, var þá vinátta þeirra kær, þótt þat lèki nökkut á ýmsu; Einars var vân til bæjarins, ok nökkuru áðr hann kom, talaði um hirðmaðr einn, svâ Halli heyrði, at Einar fluga væri höfðíngi mikill, ok eigi síðr újafnaðarmaðr svâ mikill, at hann bætti engum manni sína frændr, þótt hann dræpi. Þá svarar Halli: hitt þykki mèr þó meiri vân, at hann bæti mèr minn frænda, ef ek kref hann. Hirðmaðr svarar: þat mun fara fjarri, þvíat hann hefir (enn) eingan mann bætt. Þartil þreyttu þeir þetta mál, at þeir veðjuðu um, lagði hirðmaðr við gullhríng, en Halli höfuð sitt. Litlu síðar kom Einar, ok tók konúngr við honum allglaðliga, ok setti hann hit næsta sèr, þat var á jólum eptir hinn átta dag; eitt kveld er þeir drukku, þá er borð voru brottu, spurði konúngr Einar, hversu til hefði tekizt um finn-

ferðina. Hann svarar: næstum, herra! er vèr fórum norðr, fundum vèr Íslandsfar eitt, ok bárum á þá, at þeir mundi hafa átt kaup við Finna fyrir vårt leyfi framm; þeir vildu verja málit, en þó fanst þat í orðum þeirra, at þeir mundu eigi vera skírir um; lögðum vèr at þeim, en þeir vörðu sik, ok lèttum vèr eigi fyrr, enn vèr fengum[1] sótt þá; en einn var sá af þeim, er miklu varðist bezt, ok seint myndim vèr þá unnit[2] hafa, ef margir slíkir hefði þar verit. Halli hafði verit nær, ok heyrt tal Einars; gekk Halli þá til rúms síns ok var hljóðr. Hirðmaðrinn spurði hvat honum væri at úgleði; hann lèt at sök væri til þess: ek hefi spurt, segir hann, at þeir Einar fluga hafa drepit frænda minn, kann vera at nú gefi til at leita eptir bótunum við hann. [Hirðmaðrinn mælti: en ek vil þat, at þú talir ekki um, ok sè laus veðjan okkur. Halli lèzt eptir mundu leita[3]. Ok um morgininn gekk Halli fyrir Einar, ok mælti: þú sagðir tíðindi fyrra kveld, þau er mik tóku henda í aftöku frænda míns, vil ek vita ef þú vill nökkuru bæta. Einar svarar: hefir þú eigi heyrt þat, at ek bæti eingan mann, sè ek ekki þess á þèr, at þú þiggir bætr af oss, heldr enn aðrir menn; þykkir öllum þegar skylt, ef einum er bætt, vil ek ekki þat venja á mik. Halli mælti: þèr megið verja til eigi meira, enn yðr sè eingi skaði at, en mèr

1) gátum, *H.* 2) sótt, *H.* 3) *v í H.*

sè þó huggan at hafa. Einar bað hann brott fara ok ræða þat ekki leingr. Halli gerði svâ, ok gekk til sætis síns. Hirðmaðrinn spurði, ef Einar vildi nökkuru bæta honum. Halli kvað ekki þat vera. Hirðmaðrinn mælti[1]: vita þóttumst ek þat áðr, ok látum nú lausa veðjanina, ok vek ekki optar til við hann. Halli mælti: til skal enn vekja öðru sinni. Ok um myrginn eptir ræddi Halli hit sama mál við Einar, vil ek enn vita, segir hann, ef þèr villð[2] bæta mèr frænda minn? Einar svarar: seinþreyttr ertu, ok ef þú dregst eigi brott, munþú vera[3] drepinn. Hann gekk at sitja. Hirðmaðrinn spurði: hversu gekk nú eptirleitanin við Einar? Halli segir, at nú var heitan fyrir bætr. Þess varði mik beint, segir hann, vil ek enn gefa þèr upp veðjanina, ok vekir þú eigi til optar; þvíat eingis ílls er örvænt fyrir hann, ef honum leiðist kals þitt. Vel fer þèr, segir Halli, en eptir skal enn leita hit þriðja sinn, þá þykki mèr reynt til fulls. Stóð Halli þá upp, ok gekk fyrir konúng, ok kvaddi hann svâ segjandi: heill, herra! Velkominn, Halli! segir konúngr, eðr hvat viltu? Herra! segir Halli, ek vil segja yðr draum minn, þèr eruð draumspakir; þat dreymdi mik at ek væri allr annar maðr

[1]) *Hèr skiptir rithöndum í II, er sú fastari og falligri, sem hèr tekr við, en bókfellið dökkra ok verr meðfarið, er því niðrlag sögunnar verra aflestrar.* [2]) nokkuru, *b. v. II.* [3]) verða, *II.*

enn ek er, ek þóttumst vera Þorleifr skáld[1], en Einar fluga þótti mèr vera Hákon jarl, ok þóttumst ek níða hann, ok munda ek nökkut í, er ek vaknaði; hann veik sèr þá frá hásætinu ok umlaði [við, heyrðu allir at hann muðlaði[2] nökkut fyrir munni sèr, en ekki nam orðaskilin. Þá mælti konúngr: gjör svâ vel, Einar! bæt honum nökkuru fyrir orð mín, hann er skáld mikit, ok sá orðhákr, at hann svífst eingis, ok er þèr verri einn hæðiligr kviðlíngr, ef í minni er festr, sem hætt verðr, ef uppkemr í fyrstu, slíkr maðr sem þú ert, heldr enn litlir[3] fèmunir; [því at vèr megum sjá hverja setníng[4] hann hefir á, ok er þetta engi draumr, sem hann sagði, því at þetta mun hann efna, at níða þik, ef hann fær ekki af þèr, ok eru dæmi til þess, at níðit hefir bitit enn ríkari menn enn þú ert, ok mun þat aldri niðrfalla meðan Norðrlönd eru bygð; gjör nú fyrir bæn mína, ok bæt honum nökkuru sinn frænda[5]! Einar svarar: þèr skuluð ráða, herra! segir hann, taki hann af fèhirði mínum 3 merkr silfrs, hann mun greiða honum. Halli mælti: haf þökk fyrir, ok gezt mèr nú vel at. Hann gekk ok fann fèhirðinn, ok sagði honum sitt eyrindi; hann lèt til sjóð ok sagði, at þar voru í fjórar merkr. Þrjár skal ek þó hafa, segir Halli; vâ Halli sèr þá þrjár merkr, svâ at eingi peningr var umframm;

[1]) jarlaskáld, *H.* [2]) *v. í H.* [3]) miklir, *H.* [4]) því vit megum sjá hvern setníng, *H.* [5]) skaða, *H.*

síðan gekk hann fyrir Einar, ok sagði at hann hafði þá tekit fèit. Einar spurði; hvârt hafðir þú slíkt sem í var sjóðnum? Eigi var þat, segir Halli, annan veg munþú verða at fá mèr dauðasök, enn ek gerumst þjófr á fè þínu, þvíat ek sá þetta bragð þitt, ok munum við nú skilja; [en Einar hafði jafnt þat hugat honum, sem hann sagði[1]. Gekk Halli þá til sætis síns. Þá mælti hirðmaðr: nú áttu veðfèit[2]. Sjálfr skaltu hafa hrínginn, kvað Halli, [ok njóta vel[3], þèr fór drengiliga í þessu máli við mik, en mèr gekk ekki annat til þrætu við þik, enn ek vildi reyna, hvârt ek næði fènu af Einari eðr eigi, ok aldri átta ek skylt við mann þenna, eðr nökkurn annan, þann sem Einar drap, svâ at ek vita. Fór Einar þá í brott við svâ búit. En er vâraði bað Halli konúng leyfis, at fara suðr til Danmerkr um sumarit. Konúngr svarar: þat mun ek leyfa þèr, ef þú kemr skjótt aptr, en farþú varliga, þvíat ek veit at Einar fluga mun illan hug á þèr hafa, ef þið finnizt; þvíat ekki veit ek at Einar hafi nökkurum manni öðrum, veitt fèbætr fyrir víg, mun hann illa við una, ok þó enn verr ef hann verðr viss, at þú áttir ekki skylt við þann mann, sem hann bætti.

105. Halli fór til Danmerkr um sumarit, ok dvaldist þar með einum ríkum manni, ok eitt sinn fór Halli til þíngs með höfðíngjanum, þar var allmikit fjölmenni saman komit; en er

[1]) *v. í H.* [2]) ok njót vel, *b. v. H.* [3]) *v. í H.*

menn mæltu þar málum sínum, þá varð kliðr mikill ok háreysti; þá mælti höfðínginn: sá maðr væri ráðleitinn, [er svâ gæti gert at lýðr þessi allr þagnaði[1]. Halli svarar: ek fær þat gert, at allir menn munu þagna hèr á þínginu; höfðínginn segir, at þat muni fjarri fara; þar þrættu þeir um, ok veðjuðu um síðir; lagði hinn ríki maðr við gullhríng, en Halli höfuð sitt. Ok annan dag er þeir komu á þíngit, þá var þar eigi minni kliðr ok óp enn hinn fyrra dag; ok þá er minnst varði, spratt hann upp Halli, ok mælti hátt[2]: hlýði allir menn! mèr er [mikil máls[3] þörf, ek skal kæra um óðindælu mína sjálfs: mèr er horfin hein ok heinarsufl, nál ok skreppa, ok [allt skjóðuskrúð, þat er[4] betra er at hafa enn missa. Þá varð þegar hljótt allt fólk ok tvist, svâ at til eingis manns heyrði; þvíat sumir ætluðu at maðrinn væri ærr vorðinn, en sumir ætluðu at hann mundi þá tala eyrindit, þat er hann hóf, ok var forvitni á at heyra, þvíat þeim þótti hann nökkut breytiliga til orða taka í fyrstu; en Halli þóttist því hafa á leið komit, sem hann vildi, þegar hljóðit fèkst, settist hann þá niðr. Síðan fóru menn (heim) af þínginu, ok fèkk Halli veðfèit, komst hann á brott með hrínginn á laun; gekk hann þá í skip þat, er sigldi vestr til Englands, ok ætl-.

---

1) at kliðr þessi þagnaði af hans ráðkrókum, *H.* 2) svo at allir menn hlýddu, *b. v. H.* 3) mál, *H.* 4) öll skjóðuskurð, þat er kallmanni, *H.*

aði þaðan aptr til Noregs. En er þeir menn voru búnir til siglíngar af Englandi, er til Noregs ætlaðu, þá fór Halli á fund Játvarðar[1] konúngs, ok lèzt hafa ort um hann kvæði; en þar var fyrir með konúngi sá maðr, er Rauðr hèt, hann var skáld. En er hann hafði fært kvæðit, spurði konúngr Rauð, hversu ort væri; hann lèt vel yfir; þá bauð konúngr Halla með sèr at vera, ok næmi menn kvæðit. Halli svarar: herra! eigi má svâ vera, ek hefi búit ferð mína til Noregs, ok má ek nú einga dvöl hèr á[2] eiga. Konúngr mælti: eptir því munu þá ok verða laun kvæðissins hallkvæmlig, sem vèr njótum þess; seztu nú niðr, en ek mun láta hella silfri yfir höfuð þèr, ok hafðu slíkt sem í hárinu loðir. Halli mælti: bíðit mín um litla stund, ek verð gánga brott nauðsynja minna; hann fór ok fèkk sèr tjöru, ok bar í höfuð sèr, ok skrýfði sem mest hárinu, gekk hann þegar inn aptr fyrir konúng ok settist niðr, ⌊kallaði sèr þó ótt[3] um ferðina. Konúngr lèt þá, sem hann hèt, hella yfir höfuð honum ensku silfri ör miklum sjóð, ok loddi þarí mikill hluti fjárins; en Rauðr var reyndar ekki skáld, ok var kvæði þat endileysa ein, hafði Halli mælt þat af munni framm; fór Halli þá til skips. En þar höfðu ráðizt í Suðrmenn margir með þúnga varnað, ok fèkk hann nú eigi farit; en þó lètu stýrimenn, sem þeir vildi gjarna við honum

[1]) *v. í H.* [2]) *v. í H.* [3]) ok kvað sèr ant, *H.*

taka, ef hann sæi nökkur brögð til, at nökkurir Suðrmenn gengi ör skipinu, þvíat stýrimenn voru vel til Halla. Þat var eina nótt, at Halli lèt illa í svefni, ok var hann vaktr, spurðu þá skipverjar, hvat hann dreymdi; hann svarar: þat er seigt[1] at segja, þvíat mèr þykkir vân, at skipi þessu[2] farist erfilliga[3]: mèr þótti koma at mèr maðr ógurligr, hann var allr vâtr, ok hafði í hendi þaungul mikinn, hann kvað þetta fyrir mèr:

Hraung er þatz háfan þaungul
*hèldak*[4] um sízt fjör seldag.
[sýn er[5] at sitk at Ránar
[sumar ró[6] í búð með humrum;
*láðfestar*[7] lýs*u* at gista
lönd á ek út fyrir ströndu
því [sit ek[8] bleikr í bruki
blakir[9] mèr þari um hnakka,
blakir mèr[10] þari um hnakka.

Eigi þótti Suðrmönnum vísan óþesslig, at þeim mundi ógreitt takast ferðin, ok koma í mikinn háska, þótt þeir hèldi lífi, tóku þeir margir þat ráð at bera fè sitt af skipi [ok fór upp á land[11], en Halli gekk á skip, lètu síðan í haf, gaf þeim vel byri, ok komu í eingan mannháska, tóku Noreg, ok fór Halli á fund

1) seint, *H.* 2) voru, *H.* 3) illa, *H.* 4) þ. held ek, *H.* 5) synir, *H.* 6) sumir erru, *H*; sumir 'ro, *M.* 7) ljóst er, *H.* 8) sitig, *H.* 9) blakkir, *H.* 10) þèr, *H.* 11) á land upp, *H*; *R.*

Haralds konúngs, ok var með honum um hríð.

106. Á einhvörju sumri kom utan af Íslandi Oddr, [son Úfeigs Skíðasonar[1]; þeim byrjaði lítt, bar þá norðr at Finnmörk, ok voru þar um vetrinn, þá var Haraldr konúngr yfir Noregi. Þeir sigldu norðan um vârit, þá mælti Oddr við skipverja sína: ferð þessi er með nökkurri ábyrgð, þvíat eingi maðr á kaup at eiga við Finna norðr hèr, nema með konúngs leyfi eðr sýslumanns; hefir nú ok sá maðr sýslu ok yfirsókn á Mörkinni, er ekki þykkir væginn, (sem er) Einar fluga, vil ek nú vita hversu mikit þèr hafið atgert at kaupa við Finna; þeir duldu at þeir hefði keypt við þá. En er þeir komu norðan[2] at Þjóttu, þá reyri lángskip undan eyjunni, ok stefndi til þeirra, þar var Einar fluga með fjölda manns. Þá mælti Oddr: búizt nú við ok varizt, at eigi finnist Finnskattrinn með yðr; ok ef þat er eigi alltrútt[3], sem mik grunar, at þèr hafið keypt við Finna, þá látum nú koma fè þat í einn stað allt, ef rannsakat verðr skipit. Nú [reyndust þeir[4] sem Oddr gat, báru þá framm hverr þat er keypt hafði, ok fálu síðan þannig, sem Odda þótti ráðligast, ok höfðu lokit starfi því, áðr Einar kom at þeim; þeir lögðu [lángskipit at knerrinum[5], ok gengu upp[6].

[1]) Oleigsson, *H.* [2]) norðr, *H.* [3]) örugt, *H.* [4]) reyndist, *H.* [5]) lángskipinu at knerrinum, *H.* [6]) á knörrinu, *b. v. H.*

Oddr heilsaði Einari, þvíat þeir voru málkunnir. Einar mælti: kunnigr er þú, Oddr! at því sem vel samir, en þèr hafið verit í vetr með Finnum, ok má vera at menn þínir hafi eigi jafnvel viðsèð at kaupa við þá, en oss er þat umboð í hendr fengit af konúngi, ok viljum vèr rannsaka skip yðvart. Oddr kvað þeim heimult skyldu, at líta yfir varníng þeirra. Luku menn þá upp kistum sínum, gengu þeir Einar um skipit, ok fundu ekki af Finnskattinum. Veðr var blítt ok heldr byrlítit, en þá tók vindr at vaxa heldr; þá mælti Einar: heldr hafa þessir menn meir sèt við um kaupin, enn ek hugða; ætla ek [nú at vèr megum ekki mjök rjúfa búlkann[1], mun oss hitt ráð at gánga í skip vârt, þvíat veðrit tekr at vaxa. Þá mælti maðr, er sat á búlkanum[2]: sjá skaltu áðr bagga þenna, er ek hefi, yfir hverju er[3] hann býr. Tók hann til at leysa baggann, en Einar beið, þar var um ál laung, ok var seint at leysa; Einar bað hann skjótt at vinna, hann segir svâ vera skyldu; tók hann þarör annan bagga meirr fjötraðan, ok var leingi áðr hann gat þann leyst. Þá mælti Einar: seint gerir þú þetta; ok þó beið hann enn, ef nökkut mætti þat finnast í bagga hans, er hann[4] mætti sakir á gefa. Þvínæst kom upp hinn þriði baggi, ok

[1]) at ek megi lítt prófa búnkann, *H.* [2]) búnkanum, *H.*
[3]) *v i H.* [4]) honum, *H.*

er hann gat þar til raufat, var þar ekki í nema tötrar, ok þat er eingu var nýtt. Þá mælti Einar: allra manna armastr! segir hann, hefir [gabbat oss ok dvalit[1], svâ at eyin er nærr vötnuð. Fór Einar ok hans menn á skip sitt, ok lögðu frá, því at veðrit vóx í hverju; skildu þeir svâ, at Einar átti gildan andróða[2], áðr þeir náðu Þjóttu. Þá mælti Oddr: nú höfum vèr sett undan ágángi Einars flugu, þætti mèr oss[3] nú máldeili á, at vèr fyndim eigi Harald konúng. Einar sendi þegar orð Haraldi konúngi, ok lèt hann vita um ferðir Odds. En er þeir Oddr komu suðr til Mjólo lögðu þeir til hafnar, því at eigi var byrr at sigla suðr leingra, en þar undir eyjunni lá Haraldr konúngr (með) nökkurum skipum. En er þeir sá kaupskipit, mælti konúngr til sinna manna: vera kann at nú beri vel til, þetta mun vera skipit Odds Úfeigssonar, á ek við hann eyrindi, veit ek eigi at Einar fluga hafi farit jafnflatt (fyrir nokkrum manni) sem fyrir þeim Oddi. Reyri konúngr þegar með marga menn til kaupskipsins, ok gengu upp. Oddr fagnaði konúngi, en hann svarar heldr reiðuliga: býr þú, Oddr! úmakliga við mik, ek hefi jafnan veitt þèr sæmd, en þú hefir farit ok keypt við Finna at úleyfi mínu. Oddr svaraði: gjarna hefðim vèr, herra! sunnar tekit land á hausti enn Finnmörk, ef svâ

[1]) þú lengi dvalit oss, *H.* [2]) andróðr, *H.* [3]) *v. í H.*

hefði byrjat; en hinu mátta ek heldr ráða, at kaupa ekki við þá, at úleyfi yðru. Konúngr mælti: þat get ek at vera muni sakir til, þótt þèr værið allir uppfestir, ok þótt þú sjálfr sèr þess eigi valdr, þá lízt mèr þannig at eins á menn þína, at þeir munu eigi sparat hafa at kaupa úlofat, ok viljum vèr rannsaka yðr. Þat skal svá[1] sem þèr villð, herra! segir Oddr. Var nú svá gert, ok fundu þeir (alls) ekki.

107. Þorsteinn hèt maðr úngr ok vænn, frændi Þóris hunds, hann var vinr Odds, ok var þá með konúngi, hann dvaldist eptir á skipi Odds, þá er konúngr gekk. Þorsteinn brá Oddi á einmæli ok spurði, hvárt þeir væri nokkurs afvaldir um þetta mál, sagði at konúngr var reiðr, ok hann mundi mjök eptirleita. Oddr mælti: þat er sannast, vinr! at vèr erum eigi skírir um; tóku þeir í fyrstu með sínu einræði at kaupa við Finna, en nú hefir ek þó síðan ráð til gefit, at leynast mætti. Hvar er fè þat nú komit? segir Þorsteinn. Oddr segir, at allt var í einu húðfati. Hèr mun konúngr enn koma, ok láta rannsaka, en þat [húðfat, sem Finnfèit er í[2], skaltu taka ok leggja undir konúng, ok bú þará hásætit ofan, get ek at hann vari þess eigi, at undir honum sjálfum sè [þat fè[3]; en þó er þat allt með nokkurri hættu, hversu til vill takast. Fór Þorsteinn þá í brott,

[1]) vera, *H.* [2]) Finnfèit, sem í húðfati er, *H.* [3]) fólgit, *H.*

en Oddr gerði svâ sem hann hafði ráð til-gefit. Kom konúngr þar[1], ok settist í sæti þat, er honum var búit, en menn hans leitaðu bæði í kistum, ok hvetvitna var uppbrotit, þar er vænst þótti til, ok fanst ekki þat er þeir leitaðu. Konúngr mælti: eigi má ek þetta skilja hversu ferr, þvíat ek þykkjumst víst vita, at nökkut Finnfè er hèr á skipinu. Gekk konúngr (þí) í brott ok menn hans, en Þorsteinn dvaldist eptir litla hríð, ok mælti við Odd: eigi mun þetta ráð leingr hlýða, þvíat konúngr mun seint afhyggja um leitina, ok sjá mun hann nú, næst er hann kemr, þetta bragð; látið nú koma fèit í seglit, ok [festið upp um[2] rána, allt mun nú vera rofit, bæði búlkinn[3] ok annat. Svâ gerðu þeir Oddr sem Þorsteinn mælti, en hann gekk í brott; ok er hann kom til konúngs, spurði konúngr, hví hann dveldist eptir. Þorsteinn svarar: nauðsyn bar til, herra! ek varð at gera at hosu minni. Konúngr varð fárr um[4]. Litlu síðar kom konúngr á skip Odds, ok mælti: vera kann at þèr (hafið) búit sætit mitt með Finnskattinum, ok skal þar nú fyrst leita, ok síðan hvervitna um skipit, ok því meira sem oss verðr fyrir, því harðara skulu þèr niðrkoma. Var þá leitat þar sem í hug kom, ok fanst eigi. Gekk konúngr á land, en Þorsteinn gat enn eptirdvalizt, ok mælti við Odd: nú dugir yðr

[1]) brátt, *b. v. H.* [2]) hefla upp við, *H.* [3]) búnkinn, *H.*
[4]) við, *H.*

ekki annat enn flytja Finnskattinn af skipinu frammfyrir nesit, ok fela þar á landi; þvíat hèr mun konúngr koma á morgin, ok mun þá þykkjast sjá þetta fylsni, en ek mun nú gánga á land aðra leið enn konúngr, mun hann þá síðr gruna[1], at ek hafi eptir dvalizt. En ek legg þat til ráðs með yðr, at þèr leitið á haf út; þegar yðr þykkir vân at gángi, ok flytið eigi Finnfèit fyrr aptr á skipit, enn þèr farið þegar; þvíat svâ mun konúngr yðr nærr leggja, at eigi rekizt þèr undan, nema þèr geymið til alla vega sem bezt, (því) miklu er hann ráðgari ok þrárri á þat, sem hann vill framfara. Oddr kvað Þorsteini mjök vanlaunat[2] lið þat, er hann veitti þeim; fór Þorsteinn brott, en þeir Oddr fluttu fèit á land um kveldit ok fálu. En um myrgininn kom konúngr, ok lèt leita í seglinu sem annarsstaðar um skipit, grunaði konúng jafnan eptir, hvar þeir mundu fólgit hafa; en er þeir fundu enn ekki, þá mælti Oddr: herra! segir hann, nú megi þèr ekki gruna oss, þvíat hverr leppr[3] er uppbrotinn á vâru skipi. Konúngr svarar: eigi mun sú raun á verða, ok hafa eingir menn slíkt spott mèr gert, hvenær sem þat verðr goldit. Var konúngr svâ reiðr, at þeir máttu ekki orðum við hann koma. Leið sá dagr, en er náttaði gerðist veðr byrvænligt, fóru þeir Oddr ok fluttu Finnfèit á skip, bjugg-

---

1) *þannig II*; geyma um, *A.* 2) vandlaunat, *II.* 3) hlutr, *II.*

ust þá sem ákafast, ok höfðu umsiglt, áðr mornaði. Konúngr vaknaði snimma, ok mælti til sinna manna: nú þykkjumst ek vita ok sjá allt ráð þeirra Odds, ok munu fleiri hafa hlut í átt enn þeir einir, en þó vænti ek, at nú finnum vèr á skipi þeirra, þat sem vèr höfum leitat, en eigi kunna ek at gefa þeim dauðasök, meðan mèr var get til; skulum vèr nú fara ok leita. En er þeir komu undan tjöldum, ok lituðust um, þá sá þeir segl þeirra Odds utarliga við eyjar. Þá mælti konúngr: þar mun nú skilja með oss Oddi at sinni, en þú, Þorsteinn! kant vel at fylgja þínum vinum, þvíat meira virðir þú nú Odd enn mik, má vera at þú segist í ætt þína um svikin[1]. Þorsteinn svarar: þat væri heldr trúleikr ok góðvili við yðr enn svik, at firra yðr þeirri úhæfu at drepa Odd, er verit hefir vinr yðvar, ok marga aðra dugandi menn fyrir getsakir, er þó væri eigi rèttligar dauðasakir, at sannreyndar væri. Þeir Oddr höfðu góða byri, komu til Íslands, ok fór Oddr til búss síns. Sá maðr var þá í förum, er Hárekr hèt, hann var frændi Þorsteins, hann kom út eitt sumar skipi sínu í Miðfjarðarós, þá var hallæri mikit á Íslandi. Oddr bauð Háreki til vetrvistar, ok veitti honum vel, ok um sumarit sendi hann utan með honum, ok gaf Þorsteini stóðhross góð, kallaði sem var Þorstein hafa gefit sèr líf ok öllum sínum skipverjum.

[1]) smásvikin, *H.*

Hárekr kom til Noregs, ok hitti Þorstein, frænda sinn, [var hann þá enn með konúngi[1], færði hann honum hrossin, ok kvað Odd hafa sent honum. Þorsteinn mælti: þetta er mèr mest ólið, þvíat nú myndi elligar yfirhylmast mál Odds, ok þat liðsinni sem ek veitta þeim, en nú mun eigi leynast mega, ok er nú nökkut vant ör at ráða. Þorsteinn sýndi þá konúngi hrossin, ok sagði at Oddr hafði sent honum at gjöf. Konúngr svarar: ekki var ek gjafa verðr frá Oddi, hefir hann þèr sent hróssin, en eigi mèr; skaltu ok hafa, ok þar líflátit með, ok bað drepa hann. En menn voru þess verks ekki fúsir, þvíat Þorsteinn var hinn vinsælsti maðr; kom þar svâ við bæn manna, at hann hèlt lífi sínu ok landsvist, fór hann brott frá hirðinni, ok var síðan í eingri konúngs vingan.

108. Þat var á einu sumri, þá er Haraldr konúngr fór með skipaliði fyrir land framm, at þeir sá einn mann á báti fyrir sèr, ok dró fiska; konúngr var þá kátr, ok er skip hans rendi framm hjá bátinum, mælti konúngr við fiskimanninn: kantu nökkut yrkja? Ekki, herra! segir hann. Nei, segir konúngr, kunna munþú víst, ok kveð nú til mín. Sá svarar: þá munu þèr yrkja í móti. Þat mun ek gera, segir konúngr; lèt hann þá staðar gefa róðrinn á skipunum, þvíat logn var veðrs. Fiskimaðr kvað:

[1]) v. í H.

Ófúsa dró ek ýsu;
átta ek fáng[1] við laungu;
vann ek of[2] höfði hennar
hlömm, [var þat fyrir[3] skömmu;
þó man ek hitt, at hrotta
hafðak gulli vafðan,
dúðum dörr í blóði
dreings, var þat fyrir leingra.

Konúngr mælti: hefir þú verit með tignum mönnum eðr í orrostum? Hann svarar: meiri vân þykki mèr, herra! at ek hafi verit með ríkum mönnum; ok kveðið nú í móti. Konúngr kvað:

Hjuggu harða dyggir
hirðmenn Dani stirða[4],
sótti ferð á flótta
framm, en þat var skömmu;
hitt var fyrr, er[5] fjarri
[fóstrlandi rauð ek branda[6],
sverð í Serkjagarði
saung, en þat var laungu.

Nú skaltu yrkja, Þjóðólfr! segir konúngr. Þjóðólfr kvað:

Mildíngr rauð í móðu
mót íllt var þar spjótum,
Dönum voru goð geira
gröm, en þat var skömmu;

[1]) *þannig A, H.* [2]) af, *H.* [3]) en þat var, *H.* [4]) *þannig H*; stríða, *A.* [5]) at, *H.* [6]) fóstrland r. e. brandi, *H.*

setti niðr á slëttu
Serklandi gramr merki,
stóð at stillis ráði
staung, [var þat fyrir[1] laungu.

Konúngr mælti: heyr þjóðskáldit! kvattu svâ: *gröm*, *skömm!* ekki eru þær hendíngar jafnháfar; *hrömm*, *skömm*, þat væri jafnhátt, en hitt er málleysa, ok fleira hefir þú betr ort. Þjóðólfr reiddist, ok bað þann yrkja, er betr kynni. Þá mælti konúngr til fiskimanns: yrk enn vísu. Hann svarar: þèr skuluð ráða, herra! en vant er nú at yrkja, er Þjóðólfr hefir áðr kveðit, [ok þèr fyrir þat[2]. Konúngr dró fíngrgull af hendi sèr, rètti at honum ok mælti: þigg gull þetta, ok kveð nú vísu! Hann tók við gullinu ok kvað:

Heyr þú á uppreist orða
otvin[3] konúngr mína,
gaf mèr gullit vafða[4]
gramr, var þat fyrir skömmu;
saddir örn, ok eyddir
örum blámanna fjörvi,
gall [styrfengins stillis[5]
streingr, var þat fyrir leingra

Konúngr mælti: yrk nú í móti, Þjóðólfr! segir hann; en hann lèzt eigi mundu yrkja. Bæði er, Þjóðólfr! segir konúngr, at þú yrkir vel,

---

1) en þat var, *H.* 2) *þannig A, H, R; kannske:* ok þèr fyrirlítið þat. 3) ottvin, *H.* 4) rauða, *H.* 5) stillis styrfeingins, *H.*

enda [erþú all-vandlátr[1] um þinn kveðskap. Konúngr kvað:

Hlaut ek af hravðúng skjóta
hlýri mær hin skýra
súð gekk feld á flæði
framm, var þat fyrir skömmu;
enn fyrir England sunnan
dð borð und mèr norðan,
ristin skalf[2] í röstum
röng, en þat var[3] löngu.

Þá kvað bátmaðrinn at boði konúngs:

Víg lèzt Vinda mygir
viðum kunn of vunnin
Þrændr drifu ríkt und randir
römm, en þat var skömmu;
enn fyrir Serkland sunnan
snarr þengill hjó drengi,
kunni gramr at gunni
gaung, en þat var laungu.

Konúngr mælti: þessi [er bezt fjörðúngalokun[4] af þínum vísum, ok ætlaðir þú at mèr mundi kunnig gaung at orrostum; nú ef þú ert fèlaus, ok átt vandræði um at vera, þá kom til vâr, ok mun ek gefa þèr fè. Hann svarar: herra! ekki á ek vandræði[5], gerði ek þetta til gamans mèr, at vera hèr fyrir yðr. Ek var með Ólafi konúngi, bróður þínum, í bar-

[1]) ertu vandr at, *H.* [2]) skafl, *H.* [3]) fyrir, *b. v. H.* [4]) eru bezt fjórðúngalokin *H.* [5]) um at vera, *b. v. H.*

daga á Stiklarstöðum; ok heiti ek Þorgils. Varp hann þá af sèr fiskikuflinum, var hann þá hinn vígligsti maðr, fór hann með konúngi, ok var með honum síðan.

109. Svâ bar til einn tíma, at Haraldr konúngr kom þar, sem þeir höfðu barizt, Tryggvi, son Ólafs konúngs Tryggvasonar, ok Sveinn Alfívoson; gekk konúngr á land at skemta sèr, ok hitti þar einn mann, þann er verit hafði með Tryggva ástvinr hans; sá maðr gerðist hryggr mjök ok hugsjúkr, er hann sá konúng. Haraldr konúngr fann þat, ok spurði, hví sætti: ek þykkjumst aldri hafa gert þèr ángr eðr mein, segir konúngr. Satt er þat, herra! segir hann, en jafnan bregðr mèr mjök við, er ek sè tigna menn. Hvat veldr því? segir konúngr. Hann svarar: í þessum stað vorum vèr [innsta sinni[1] með Tryggva konúngi, er hann barðist við Svein; sagði hann þá Haraldi konúngi glöggliga frá atburðum orrustunnar: en þat er mèr, segir hann, mestr harmsauki, er ek hygg at Tryggvi konúngr hafi verit myrðr af bónda þeim, sem hèr býr enn; því*at ek vissi víst*, at hann fèll eigi í orrostunni. Konúngr mælti: eigi er kynligt at mart íllt gengi yfir í þeirri öld, er slík verk voru gjör; ok var þat ættarmót með okkr Tryggva konúngi, at mèr er heyriligt at leita eptir slíku, ok hegna údáðir; lèt

[1]) seinasta sinn, *H.*

konúngr taka bónda þann, ok neyða til sagna, gekk hann of síðir við morðinu, ok lèt konúngr festa hann á gálga, en hinn var með konúngi, ok hugði af harmi þaðan í frá. Þá er Gizur, son Ísleifs biskups, kom á fund Haralds konúngs, þá varð talat um, at hann væri merkiligr maðr. Þá mælti Haraldr konúngr: svá er sem þèr segið, þvíat af Gizuri má gera 3 menn, hann má vera víkíngahöfðíngi, ok er hann vel til þess fenginn, þá má hann ok vera konúngr af sínu skaplyndi, ok er þess vel fengit, með þriðja hætti má hann vera biskup, ok er hann bezt til þess fallinn af þessum þrimr, ok þat mun hann hljóta, ok þykkja mesti ágætismaðr.

110. Stúfr hèt maðr, hann var son Þórðar kattar, er Snorri goði fóstraði. Þórðr köttr var son Þórðar Glúmssonar, Geirasonar[1]; móðir Þórðar kattar var Guðrún Ósvífrsdóttir. Stúfr Þórðarson var blindr, vitr maðr ok skáld gott. Stúfr fór utan af Íslandi, ok kom til Noregs á dögum Haralds konúngs Sigurðarsonar. Stúfr tók sèr vist með einum góðum bónda á Upplöndum; bóndi var vel til hans. Þat var einn dag, er menn voru úti staddir, at þeir sá ríða at bænum marga menn skrautliga búna. Bóndi mælti: ekki veit ek vânir híngat Haralds konúngs, en mèr þykkir eigi því úlíkast lið þetta, at hann muni vera, ok

[1]) Gérasonar, *Il.*

er liðit nálgaðist bæinn, kendu þeir at þar var konúngr. Bóndi fagnaði konúngi, ok mælti síðan: beinleiki, herra! mun eigi verða yðr veittr svâ sæmiliga sem skyldi, þvíat menn vissu nú ekki vânir yðvarrar hèrkvâmu. Konúngr svarar: þat mun þèr nú úvant gert[1], vèr förum eyrinda vârra um land; skulu menn mínir sjálfir geyma hesta sinna, ok sjá fyrir reiðíngi, en ek mon gánga inn. Konúngr var hinn glaðasti, ok fylgdi bóndi honum í stofu til sætis. Þá mælti konúngr: gakk þú[2] þagat, bóndi! sem þú vill, ok gjör allt í dælleikum[3] við oss. Þess mun nú neytt verða, segir bóndi. Gekk hann í brott, en konúngr leit á bekkina, ok sá mikinn mann sitja utar á bekkinn, ok spurði, hverr sá væri. Ek heiti Stúfr, segir hann. Konúngr mælti: [þó varð[4] únafnligt, eðr hvers son erþú? Ek er Kattar son, sagði hann. Enn fer allt at einu, segir konúngr, eðr hvarr[5] var sá Köttrinn[6]? Getþú til, konúngr! segir Stúfr, ok hló við. Hví hlóttu nú? segir konúngr. Getþú til, segir Stúfr. Konúngr mælti: vant þykki mèr at geta í hug þèr, en þat ætla ek helzt, at þú myndir vilja spyrja, hvart[7] svínit faðir minn var, en því mundir þú hlæja, er þú þorðir þess eigi at spyrja. Rètt getr þú, segir Stúfr. Konúngr mælti: sittu innar meir

---

1) óvandgjört, *H.* 2) nú, *H.* 3) dæligleikum, *H.* 4) ok varð til, *H.* 5) *þannig A*, hvorr, *H.* 6) kattrinn, *H.* 7) hvort, *H.*

á bekkinn, ok tölumst við. Hann gerði svâ; fann konúngr at hann var úheimskr maðr, ok þótti konúngi gott at eiga ræður við hann; kom þá bóndi í stofu, ok sagði at konúngr mundi dauflígt eiga. Þat er eigi, segir konúngr, þvíat þessi vetr-gestr þinn skemtir mèr vel, ok skal hann sitja fyrir ádrykkju minni í kveld; ok svâ var. Konúngr talaði mart við Stúf, ok veitti hann vitrlig annsvör; ok er menn gengu at sofa, þá bað konúngr Stúf vera í því herbergi, sem hann [skyldi sofa, at[1] skemta sèr. Stúfr gerði svâ; en er konúngr var í sæng kominn, skemti Stúfr, ok kvað flokk einn, ok er lokit var, bað konúngr hann enn kveða. Konúngr vakti leingi en Stúfr skemti, ok um síðir mælti konúngr: hversu mörg hefir þú nú kvæðin kveðit? Stúfr svarar: þat ætlaða ek yðr at telja eptir. Ek hefi ok svâ gert, segir konúngr, ok eru nú 30[2], eðr hví kveðr þú [flokka eina[3], kantu ok eingar drápur? Stúfr svarar: eigi kann ek drápurnar færri enn flokkana, ok eru þeir þó enn margir úkveðnir. Konúngr mælti: þú munt vera at því mikill fræðimaðr á kvæði, eðr hverjum skal þú skemta (með) drápunum þínum, er þú kveðr mèr flokkana eina? Þèr sjálfum, segir Stúfr. Hvenær þá? segir konúngr. Þá er við finnumst næst, segir hann. Hví þá heldr enn nú? segir konúngr. Stúfr mælti: þvíat ek vildi um skemtan ok allt annat, þat

[1]) svaf í, ok, *II.* [2]) þrír tigir, *II.* [3]) flokkana éna, *II.*

er mèr [heyrir til[1], at yðr virðist því betr, sem þèr kynnizt leingr (við), ok vitið gjörr. Sofa skulum við nú fyrst, segir konúngr. En um myrgininn, er þeir bjugguzt brott, þá mælti Stúfr til konúngs: munþú veita mèr, konúngr! þat er ek bið þik? Hvat er þat? segir konúngr. Heitþú mèr áðr enn ek segi, segir hann. Ekki er ek því mjök vanr, segir konúngr, en fyrir skemtan þína munum við[2] til þess hætta. Stúfr mælti: þannig stendst á[3] um ferð mína, at ek skal heimta dánarfè nökkut í Vík austr, ok vildi ek at þèr fengið mèr brèf yðvart ok innsigli, at ek næði fènu. Þat vil ek gera, segir konúngr. Þá mælti Stúfr: munþú veita mèr þat, er ek bið þik? Hvat er þat nú? segir konúngr. Heit þú mèr áðr enn ek segja. Konúngr mælti: undarligr maðr erþú, ok eingi hefir fyrr þannig málum breytt við mik, en þó skal enn til þess hætta. Stúfr mælti: ek vildi yrkja kvæði um yðr. Konúngr mælti: er þú nökkut frá skáldum kynjaðr? Stúfr svarar: verit hafa skáld í ætt minni; Glúmr Geirason var föðurfaðir föður míns. Konúngr mælti: gott skáld erþú, ef þú yrkir eigi verr enn Glúmr. Eigi kveð ek verr enn hann, segir Stúfr. Ekki er þat úlíkligt at þú kunnir yrkja, erþú svâ kvæðafróðr maðr, ok vil ek leyfa þèr at yrkja um mik. Stúfr mælti: munþú veita mèr þat er ek bið þik? Hvers villþú nú biðja? segir kon-

[1]) þer við, *H.* [2]) vær, *H.* [3]) af, *H.*

úngr. Heit þú mèr áðr enn ek segi. Þat skal nú eigi, segir konúngr, helzti leingi hefir þú svâ farit, ok seg mèr nú. Stúfr mælti: ek vildi gerast hirðmaðr þinn. Konúngr mælti: nú var vel, er ek hèt þèr eigi, þvíat ek verð þarvið at hafa ráð hirðmanna minna; kom þú til mín norðr í Niðarósi. Stúfr fór austr í Vík, ok greiddist honum vel arfr sá, er hann heimti, sem orðsendíng ok jarteignir konúngs komu til. Sótti Stúfr síðan norðr til Kaupángs á konúngs fund, ok tók konúngr vel við honum, ok með samþykki hirðmanna gerðist Stúfr handgenginn konúngi, ok var með honum nökkura hríð; hann hefir ort erfidrápu um Harald konúng, er kölluð er Stúfsdrápa eðr Stúfa.

111. Játvarðr Aðalráðsson var konúngr í Englandi eptir Hörðaknút, bróður sinn, hann var kallaðr Játvarðr hinn góði; móðir Játvarðar var Emma drottníng, dóttir Rikarðar[1] Rúðujarls, bróður Roðberts jarls, föður Vilhjálms bastarðar[2], er þá var hertogi í Rúðu[3] í Norðmandí. Játvarðr konúngr átti Gyðu, dóttur Guðina jarls Úlfnaðrssonar; bróðir Gyðu var Tosti jarl, hann var elztr Guðinasona; annar Maurukári jarl; þriðl Valþjófr jarl; fjórði Sveinn jarl; fimti Haraldr, hann var ýngstr. Hann fæddist upp í hirð Játvarðar konúngs, ok var fóstrson hans; unni konúngr honum mikit, ok hafði hann sèr fyrir son, þvíat hann átti ekki

1) Rikarz, *H.* 2) bastarz, *H.* 3) Rúðuborg, *H.*

barn. Þat var á einu sumri, at Haraldr Guðinason átti ferð til Bretlands, ok fór á skipi, en er þeir komu undan landi, tók þá andviðri ok rak í haf. Þeir tóku land í Norðmandí, ok höfðu fengit storm mannhættan, lögðu þeir til borgarinnar Rúðu, ok fundu þar Vilhjálm jarl, tók hann við Haraldi feginsamliga ok hans föruneyti, dvaldist Haraldr þar lengi um haustit í góðum fagnaði, þvíat stormar lágu á, ok var eigi í [haf fært[1]; en er leið at vetri, [þá rèðu[2] þeir þat jarl ok Haraldr, at hann myndi þar dveljast um vetrinn, ok sat Haraldr í hásæti á aðra hönd jarli, en til annarrar handar sat kona jarls, hon var hverri konu fríðari; þau töluðu sèr[3] gaman öll saman við drykk; jarl gekk jafnan snimma at sofa, en Haraldr sat laungum[4] á kveldum, ok töluðu þau jarlskonan[5], ok fór svâ leingi framm um vetrinn. Mæltu menn þá at hann myndi leggja hug á frúina; ok eitt sinn, er þau töluðu, sagði hon Haraldi: nú hefir jarl talat um, hvat við munum tala svâ þrátt á kveldum, ok er hann nú reiðr, segir hon. Haraldr svarar: við skulum láta hann vita sem skjótast allar ræður okkrar. Eptir um daginn lèt Haraldr kalla jarl til sín, ok gengu þeir í málstofu, þar var ok kona jarlsins ok ráðuneyti þeirra; þá tók Haraldr til máls: þat er at segja yðr, jarl! at fleira býr í higatkvâmu

1) hafi vært, *H.* 2) ræddu, *H.* 3) þrátt, *b. v. H.* 4) leingi eptir, *H.* 5) margt, *b. v. H.*

minni, enn þat sem ek hefi enn uppborit fyrir yðr; ek ætla at biðja dóttur þinnar til eiginkonu mèr, hefir ek þetta mál jafnan talat við móður hennar, ok hefir hon því heitit at liðsinna þetta mál við yðr. En þegar Haraldr hafði þetta mál uppborit, þá tóku allir því vel er heyrðu, ok fluttu með honum fyrir jarli; kom því svâ at lyktum, at mærin var föstnuð Haraldi, en fyrir því at mærin var úng, þá voru mælt nökkurra vetra frest til bruðlaupsstefnu þeirra; en er vâr kom, bjó Haraldr skip sitt, ok fór brott; skildu þeir jarl með miklum kjærleikum. Þat segja ok sumar bækr, at Haraldr Guðinason sór jarli eiða at skríni hins helga Otmarí, at hann skyldi aldri vera í mót honum, ok eigi verja honum England, ef hann kynni til at koma; þvíat jarli höfðu þau orð komit frá Játvarði konúngi, frænda sínum, at honum þótti Vilhjálmr jarl næstr konúngdómi eptir sik í Englandi. Fór Haraldr þá út í England á fund Játvarðar konúngs, ok kom ekki síðan at vitja festarmála við dóttur hertogans.

112. Játvarðr hinn góði var konúngr at Englandi 3 ár ok 20, þá tók hann sótt á jóladaginn fyrsta, lèt hann þá kalla til sín marga höfðíngja, ok lýsti því at Vilhjálmr hertogi bastarðr skyldi vera konúngr eptir hann í Englandi; en er sóttin tók at þraungva honum, þá var Haraldr Guðinason fremstr í allri þjónustu við konúng, sem hann hafði áðr verit, ok konúngr

hafði honum til varðveizlu fengit allar sínar fèhirzlur, en Tosta jarl, bróður hans, hafði Játvarðr konúngr sett höfðíngja yfir allan Englands her. Þat er sögn manna, at þá er Játvarðr konúngr var nær kominn andláti, þá var Haraldr þarvið ok fáir menn aðrir, Haraldr laut yfir konúng ok mælti: því skírskota ek undir alla yðr, at Játvarðr konúngr gaf mèr nú konúngdóm, ok allt ríki í Englandi; því næst var konúngr hafiðr andaðr ör sænginni. Játvarðr konúngr andaðist í Lundúnum, ok var jarðaðr í Pálskyrkju; hann skein þegar jarteignum eptir andlát sitt; lá hann þar í jörðu, allt þartil er hinn heilagi Tómas erkibiskup tók hann upp, ok lèt leggja í virðuligt skrín. Á þeim sama degi er hinn heilagi Játvarðr konúngr var jarðaðr, áttu landshöfðíngjar stefnu, þeir sem þá voru í Lundúnum, var þar talat um konúngstekju; lèt Haraldr (þá) framm vitni, þau er hann vâttaði fyrir, at Játvarðr konúngr gaf honum konúngdóm ok ríki sitt á deyjanda degi; ok með því at Haraldr var stórættaðr þar í Englandi, vinsæll ok mannaðr forkunnar vel, en landsstjórnarmönnum þótti þúngt, þá enn at gánga undir útlenda höfðíngja, þá lauk svâ þeirri stefnu, at Haraldr var til konúngs tekinn, ok vígðr
1066 konúngs vígslu á átta[1] dag jóla í Pálskyrkju; gengu þá allir höfðíngjar til handa honum,

[1]) sjöunda, *H.*

ok allt fólk, þat er þar var viðstadt. Tosti jarl, bróðir Haralds, var ekki þar við, en er hann spurði þessi tíðindi öll saman, líkaði honum illa, er Haraldr var til konúngs tekinn, en honum ætlat ekki ríki, þvíat hann þóttist eigi síðr tilkominn ríkisins, er hann var maðr ellri, ok margir kölluðu at hann væri vitrari enn Haraldr, ok eigi verr til höfðíngja fallinn. Fór Tosti jarl þá á fund Haralds bróður síns, ok beiddist at vera jafn við hann at ríki. Haraldr sagðist með eingu móti vilja gefa upp ríkit: þvíat ek er stólsettr, segir hann, í þeim stað, sem konúng á at taka at lögum, ok síðan vígðr konúngs vígslu. Hvarf þá undir hann allr styrkr stórmennis, hafði hann ok allar konúngs fèhirzlur, sem fyrr var sagt. En er Haraldr konúngr varð þess varr, at Tosti vildi hafa hann af konúngdóminum, þá trúði hann honum illa, þvíat Tosti var forvitri ok hermaðr mikill, hann átti ok vel vingat við höfðíngja innanlands; tók Haraldr þá af Tosta, bróður sínum, herstjórnina, ok allt þat vald, er Játvarðr konúngr hafði fengit honum framar enn öðrum jörlum. Tosti jarl vildi þat fyrir eingan mun þola, at vera þjónustumaðr hins ýngsta bróður síns samborins, þar sem hann var yfirmaðr þeirra allra fyrir aldrs sakir; fór hann þá brott með liði sínu, fyrst suðr um sjá í Flandr, ok dvaldist þar litla hríð; fór hann þaðan til

Fríslands, ok svâ í Danmörk á fund Sveins konúngs, frænda síns; þau voru syskin, Úlfr jarl, faðir Sveins konúngs, ok Gyða, móðir Tosta jarls. Jarl beiddi Svein konúng fulltíngs ok liðveizlu, at hann mætti fá sæmd sína ok ríki í Englandi; Sveinn konúngr bauð honum til sín, ok sagðist mundu fá honum þar ríki í Danmörk, svâ at hann mætti vera sæmiligr höfðíngi. Jarl svarar: þess fýsumst ek at fara til óðala minna í Englandi, en ef ek fær engan styrk til þess af yðr, konúngr! þá vil ek heldr þat tilleggja, at gefa yðr allan þann styrk, sem ek á kost í Englandi, ef þèr vilið fara þagat með Danaher, sem Knútr konúngr gerði, móðurbróðir yðvar. Konúngr mælti: svâ miklu er ek minni maðr enn Knútr konúngr, frændi minn, at varla fæ ek haldit Danaveldi fyrir Norðmönnum, en gamli Knútr eignaðist at erfð Danaríki, en með hernaði ok orrostu England, ok var þat þó eigi úvænna um hríð, at hann myndi þar eptir leggja lífit, Noreg fèkk hann orrostulaust; nú kann ek (at) ætla mèr hóf, meir eptir mínu lítilræði enn eptir framkvæmd Knúts konúngs. Þá mælti Tosti jarl: minna verðr nú mitt eyrindi higat, enn ek hugða at þú mundir vera láta í nauðsyn minni, frænda þíns; má at ek leiti þagat vináttu, sem miklu er úmakligra, en þó kann vera at ek finna þann höfð-

íngja, at minnr vaxi fyrir augum[1] at ráða stórt enn þèr, konúngr! skildust þeir frændr ekki mjök sáttir.

113. Tosti jarl snèri þá sinni ferð, ok kom framm norðr í Noregi, fór hann þegar á fund Haralds konúngs, þvíat hann var í Víkinni; en er þeir fundust, bar jarl upp fyrir konúng sín eyrindi, sagði honum allt um ferðir sínar, síðan hann fór af Englandi; síðan bað hann Harald konúng fá sèr styrk, til at sækja ríki sitt í Englandi. Konúngr svarar svâ: ekki mun Norðmönnum mikit um þat, at herja til Englands, ok hafa enskan höfðíngja yfir sèr; mæla menn þat, segir hann, at þeir hinir Ensku sè eigi allir trúir. Jarl mælti: hvârt er þat með sannindum, er ek hefi menn heyrt segja í Englandi, at Magnús konúngr, frændi þinn, sendi menn til Játvarðar konúngs, ok var þat í orðsendíng, at Magnús konúngr átti svâ England sem Danmörk at erfð eptir Hörðaknút, sem svardagar þeirra höfðu tilstaðit. Konúngr mælti: hví hafði Magnús konúngr eigi þat ríki, er hann átti í Englandi? Jarl svarar: hví hafi þèr eigi Danaveldi, sem Magnús hafði fyrir yðr? Ekki þurfa þeir Danirnir at hælast við Norðmenn, segir konúngr, marga díla höfum vèr brent þeim, frændum þínum. Þá mælti jarl: vill þèr eigi segja mèr þat, er ek spurða, þá vil ek gera

[1]) augo, *II.*

yðr í kunnleika: því eignaðist Magnús konúngr Danmörk, at allir landshöfðíngjar veittu honum, en því fèktu eigi, at allir stóðu í móti; því barðist Magnús konúngr eigi til Englands, at allr landslýðr vildi hafa Játvarð at konúngi; vilir þú eignast England, þá má ek svâ gera, at meiri hlutr höfðíngja mun þèr lið veita, ekki skortir mik meira við Harald, bróður minn, en konúngsnafnit eitt. En þat vita allir menn, at eingi hermaðr hefir slíkr fæddr verit á Norðrlöndum sem þú, ok þat þykki mèr undarligt, er þú barðist 15 ár til Danmerkr, en þú villt nú eigi eignast England, [er laust liggr fyrir þèr. Haraldr konúngr hugsaði vanliga, hvat jarl sagði, ok skildi at hann mælti mart satt, ok þarmeð gerðist konúngr fús at fara til Englands[1]. Töluðu þeir þá opt konúngr ok jarl, settu þá ráðagerð, at þeir skyldi fara um sumarit vestr um haf, ok vinna England undir sik með hernaði; sendi Haraldr konúngr orð um allan Noreg, ok bauð út leiðángri, hálfum[2] almenníngi at liði ok skipum; varð þetta nú allfrægt. Voru margar getur á, hversu sú ferð mundi verða: mæltu margir mikit um stórvirki Haralds konúngs, at honum myndi ekki úfært vera; sumir sögðu at England myndi torsótt vera, land ríkt ok fjölment, þar var ok þat fólk, er þeir kalla Þíngamannalið, þeir menn

[1]) *v. í H.* [2]) *v. í M.*

höfðu þagat valizt af ýmsum löndum, ok mest af danskri túngu; þeir menn voru svâ fræknir, at eigi var verra eins þeirra lið til orrustu, enn tveggja hinna beztu Norðmanna, þeirra er með Haraldi konúngi voru. En er Úlfr stallari heyrði slíkar ræður manna; þá svarar hann ok kvað:

Era stallarum stillis
stafnrúm *Haralds*[1] jafnan
ónauðigr fèkk ek auðar
innan þörf at hverfa[2];
ef herbrekkan[3] hrökkva
hréns[4] skulum tveir fyrir einum
úngr kendag mèr undan
annat þíngamanni[5].

Þat sama vâr, áðr Haraldr konúngr fór ör landi, andaðist Úlfr stallari; Haraldr konúngr stóð yfir greptri hans, ok mælti, er[6] hann gekk brott frá: þar liggr nú sá, er allra var dyggastr ok drottinhollastr; þá gerðist Styrkárr einn stallari, en þeir höfðu áðr báðir verit. Tosti jarl sigldi um vârit vestr til Flæmíngjalands, til móts við lið þat, er honum hafði fylgt um vetrinn[7], ok þat annat er þá safnaðist við, bæði þar í Flæmíngjalandi ok af Englandi.

114. Haraldr konúngr bjóst ör Niðarósi

1) *þannig H; M;* Har. *A.* 2) hvarfa, *M.* 3) hèr brezkan *H*, hærbreccan, *M.* 4) hreins, *H*, *M.* 5) þíngaða manni, *H.* 6) áðr, *H.* 7) utan af Einglandi, *b. v. H.*

um vârit, en her hans safnaðist saman í Sólundum[1]; en er kónúngr var búinn at leggja ör bænum, þá gekk hann til skríns hins heilaga Ólafs konúngs, ok lauk upp, ok klipti negl hans ok hár, læsti síðan skríninu, ok kastaði lyklunum út á Nið; sumir segja, at hann hafi kastat utanborðs fyrir Agðanesi; var síðan lánga æfi ekki upplokit skríni Ólafs konúngs, allt framm á daga Magnúsar konúngs Hákonarsonar ok Jóns erkibiskups. Þá er Haraldr konúngr fór ör landi, var liðit frá falli Ólafs konúngs hálfr fjórði tugr vetra, svâ leingi hafði [Ólafr konúngr[2] lifat hèr í heimi. Haraldr konúngr hèlt liði því, er honum fylgdi, suðr til móts við herinn; kom þar saman mikit lið ok frítt, svâ at þat er frásögn manna, at eigi hafi betra mannval búizt af Noregi til einnar ferðar. Haraldr konúngr hafdi tvö hundruð skipa, ok umframm vistabyrðíngar ok smáskútur. Þá er þeir lágu í Sólundum, dreymdi mann á konúngsskipinu, þann er Gyrðr hèt: hann þóttist þar staddr á konúngsskipinu, ok sjá upp á eyna, hvar tröllkona mikil stóð, ok hafði skálm í hendi, en í annarri trog; hann þóttist ok sjá yfir öll skipin, honum sýndist fugl sitja á hverjum skipstafni, þat voru hrafnar einir. Tröllkonan kvað:

---

1) Siolondum, *H rángt.* 2) hann, *H.*

Víst er at allvaldr austan
eggjast[1] vestr[2] at leggja
mót við marga Knútu[3]
minn snúðr er þat prúða;
þar á valþíðurr velja
veit ærna[4] sèr beitu
steik af stillis haukum
stafns fylgi er [ek þar[5] jafnan.

Þórðr er maðr annarr nefndr, hann lá á því skipi, er nær lá konúngsskipinu; hann dreymdi um nótt, at hann þóttist sjá flota Haralds konúngs fara at landi, hann þóttist þat vita, at þat var England; hann sá á landinu fylkíng mikla, [ok þótti honum sem byggist[6] til bardaga, ok höfðu merki mörg á lopti, en fyrir liði landsmanna reið tröllkona mikil, hon sat á vargi, ok hafði vargrinn mannshræ í munni, ok [fèll blóðit[7] um kjaptana; en er vargrinn hafði þann etit, þá kastaði tröllkonan öðrum í munn honum, ok síðan hverjum at öðrum, en hann gleypti hvern. Tröllkonan kvað:

Skóð lætr skína rauðan
skjöld, er dregr at hjaldri;
brúðr sèr Avrnis jóða
óför konúngs gerfa:
sviptir[8] í svarðar kjapta
svanni holdi manna

1) eggjasc, *M.* 2) ferð, *H.* 3) hnúto, *H.* 4) ørna, *M.* 5) þat, *M.* 6) búna, *H.* 7) flóði blóð, *H.* 8) svipt er, *H.*

úlfs munn litar[1] innan
óðlát[2] konan[3] blóði.
óðlát konan blóði[4].

Harald konúng dreymdi um nótt, at hann væri norðr í Niðarósi, honum þótti koma at sèr Ólafr konúngr, bróðir sinn, ok kveða fyrir sèr vísu þessa:

Gramr vå frægr til fremdar[5]
flestan sigr hinn digri;
hlaut ek, þvíat heima sátum[6],
heilagt[7] fall til vallar;
uggi ek efst[8] ráð tiggja
yðr mun feigð of byrjuð
trölls gefit fákum fyllar
fíks, veldrat[9] guð slíku.

Margir aðrir draumar voru þar sagðir, ok annarskonar fyrirburðir, ok flestir daprligir[10]. Haraldr konúngr hafði nefnt til þessarrar ferðar Þóri af Steig, en hann kom eigi til móts við konúng, þvíat hann hafði dreymt illa um hann ok ferðir hans. Áðr Haraldr konúngr fór ör Þrándheimi, hafði hann látit taka til konúngs Magnús, son sinn, ok setti hann eptir til landsgæzlu ok ríkis í Noregi, er hann fór frá. Þóra[11] Þorbergsdóttir var ok eptir, en Ellisif drottníng fór með honum, ok dætr þeirra María ok Íngi-

1) litað, *H.* 2) ólat, *M.* 3) kona, *H.* 4) *þessa hendíng v. í M.* 5) feigðar, *M.* 6) hlýtr þú ef heima sætir, *M.* 7) háleitt, *H.* 8) öfst, *M.* 9) ræðra, *M.* 10) daufligir, *H.* 11) drottníng, *b. v. H.*

gerðr. Ólafr, son Haralds konúngs, fór ok með honum ör landi.

115. En er Haraldr konúngr var búinn ok byr gaf, sigldi hann út á haf öllum flotanum; hann kom af hafi við Hjaltland, en sumt lið hans tók Orkneyjar, lá Haraldr konúngr litla hríð við Hjaltland, aðr hann sigldi suðr til Orkneyja, hafði hann þaðan með sèr lið mikit, ok jarlana, Pál ok Erlend, syni Þorfinns jarls[1], en hann lèt þar eptir Ellisif drottníng, ok dætr þeirra, Maríu ok Íngigerði. Þaðan sigldi Haraldr konúngr suðr fyrir Skotland, ok svå suðr undir England; hann kom þarat, er heita Kliflönd[2], gekk hann þar á land ok herjaði, ok lagði land undir sik, fèkk hann þar einga viðtöku. Síðan lagði hann til Skarðaborgar, ok barðist við borgarmenn; konúngr gekk upp á berg eitt hátt, er nær var borginni, lèt hann þar gera mikit bál á berginu, ok sló eldi í, en er bálit logaði, tóku þeir forka stóra, ok vágu þar upp með bálit, ok skutu bálinu ofan í bæinn, tók þá skjótt at brenna hvert hús af öðru, gekk upp allr staðrinn, drápu Norðmenn þar mart manna, en tóku fè allt, þat er þeir náðu. Var enskum mönnum þá eingi annarr kostr, þeim er lífi vildu halda, enn biðja sèr griða, ok gánga til handa Haraldi konúngi, lagði hann svå allt land undir sik, hvar sem hann fór. Hèlt konúngr þá her sínum öllum suðr með landi, ok

[1]) hausakljúfs, *H.* [2]) Klyflönd, *H.*

lagði at við Hellornes[1], kom þá safnaðr nökkur móti honum, átti Haraldr konúngr þar orrostu, ok fèkk sigr. Síðan hèlt hann til Humru, ok upp eptir ánni[2] til Úsu, ok lagðist þar við land; þá voru Guðinasynir [uppi í Jörvík[3], Maurokári jarl ok Valþjófr jarl af Hundatúni, með úvígjan her, er saman hafði dregizt allt sumarit. En er herr jarlanna sótti ofan, þá gekk Haraldr konúngr upp á land, ok tók at fylkja liði sínu, stóð fylkíngararmrinn annarr framm á árbakkann, en annarr upp á landit at díki nökköru, þat var djúpt fen[4] ok breitt, fullt af vatni. Jarlarnir lètu síga fylkíngar sínar ofan með ánni [með öllum múginum[5]; merki Haralds konúngs var nærr ánni, var þar þykt fylkt, en þynst við díkit, ok liðit ótraustast, þar sótti ofan Maurukári jarl með sínu merki. Veik þar fyrir fylkíngararmr Norðmanna, sá er vissi at díkinu, en enskir menn sóttu framm eptir þeim, ok hugðu at Norðmenn myndi (flýja) vilja; en er Haraldr konúngr sá at hans menn lètu sígast ofan með díkinu, þá lèt hann blása herblástr, ok eggjaði ákafliga, lèt þá frambera merkit landeyðuna, gerði þá atgaungu svâ harða, at hvetvitna hrökk fyrir. Gerðist þá mannfall mikit í liði jarlanna; svâ segir Steinn Herdísarson:

1) Hallanes, *H.* 2) Vino, *ofaukit, í H.* 3) í borginni, *H.* 4) *v. í H.* 5) *v. í H.*

Úngr vísi lèzt[1] Úsu
allnær búendr falla
sótti herr, þar er hætti
hlíftrauðr konúngr lífi;
þess mun þángatkvâma[2]
þeingils vera Einglum
enn sem eptir renni
iflaust er þá lifðu.

Valþjófr jarl hafði látit fara sitt merki ofan með ánni í móti fylkíng Haralds konúngs, en er konúngr herði atgaungu, þá flýði Valþjófr jarl ok hans lið upp með ánni, ok þat eina komst undan af liðinu, er honum fylgdi, en svâ hafði mart fallit, at stórir blóðlækir fèllu víða um völluna, sem Steinn segir:

Fèllu vítt um völlu
(vargr náði þar bjargast)
benjaregn, en bragna
blóð víkíngar óðu.

En er Valþjófr jarl hafði flýit, þá kríngdi Haraldr konúngr með sinni fylkíng á bak Maurukára jarli ok því liði, er með honum hafði framsótt með díkinu, fèllu þá hundröðum enskir menn; svâ segir Arnórr[3]:

Þúng rauð járn á Einglum
eirlaust nè kemr meira
vísi vel nær Úsu
valfall um her snjallan;

Fjöldi manns hljóp út á díkit, lá þar svâ þykt

[1]) lèt, *H.* [2]) þángatkvomu, *H.* [3]) Steinn, *H.*

valrinn, at Norðmenn gengu þurrum fótum á mannabúkum yfir fenit, þar týndist Mørukári jarl, sem Steinn segir:

Þjóð fórsk[1] mörg í móðu
menn drukknuðu sokknir,
drengr lá ár of úngan
ófár Mørukára;
fíra[2] drottinn rak flótta
framm[3] tók herr á ramri
rás fyrir röskum vísa
ríklundaðr vítt undan.

Þessa drápu orti Steinn um Ólaf konúng kyrra, ok getr þar þess, at Ólafr var í orrostu með Haraldi konúngi, feðr sínum; þessa mannfalls getr ok í Haraldsstikka;

Lágu fallnir
í fen ofan
Valþjófs liðar
vâpnum höggnir;
svâ at gunnhvatir
gánga máttu
Norðmenn yfir
á nám einum.

Fèll þat lið, sem þar var, svâ gjörsamliga, at eingi maðr komst undan af landsfólki, þvíat þeir mâttu hvergi flýja, nema út á fenit, þá er konúngr kom ofan at í opna skjöldu, en sumt lið hans stóð við neðan, voru sumir vâpnum vegnir, sumir grýttir til bana, sumir

1) fórst, *H.* 2) Fíla, *H*, *M.* 3) framt, *M.*

voru stángaðir með spjótum út á díkit; svâ segir Arnórr:

Fèll at fundi[1] stillis
framm óðu vè[2] móða
ört fló grjót á Gauta
glóðheitr ofan sveiti;
þjóð hykk þaðra náðu
þúsundum[3] tók[4] fúsa
spjót flugu líf[5] at láta
laus í gumna hausum.

Þessi orrosta [var miðvikudaginn[6] næsta fyrir Matteusmessu. Hafði Haraldr konúngr nú unnit mikinn sigr, ok látit ekki mart lið; en Valþjófr jarl ok þat fólk, er á brott komst með honum, flýði upp til borgarinnar í Jörvík; svâ segir Arnórr:

Gagn fèkk gjafvinr[7] Sygna
gekk hildr at mun vildra
hinn er á hæl fyrir mönnum
hreinskjaldar[8] fór aldri;
dyndu jarlar undan[9]
(eir fèkk-a[10] lið þeirra)
(mannkyn hefir at minnum
morgun þann) til borgar.

116. Tosti jarl hafði komit sunnan af Flæmíngjalandi til móts við Harald konúng,

---

1) fundu, *H.* 2) vie, *A*, ve, *H*, *M.* 3) þúshundum, *H.* 4) tog, *M.* 5) laus, *H*, *rángt.* 6) stóð á Oðinsdegi, *M.* 7) gjafvinnr, *H*; gjöfvinr, *M.* 8) hreinskjaldaðr, *H.* 9) undar, *M.* 10) fèkk á, *H.*

þegar hann kom til Englands; var hann í öllum þessum orrustum, sem nú var frásagt; fór þat allt sem hann hafði sagt konúngi, at fjöldi manns dreif til þeirra þar í Englandi, þeir sem voru frændr eðr vinir Tosta jarls, varð konúngi þat mikill styrkr. Eptir þessa orrustu, er nú var frásagt, gekk undir Harald konúng allt fólk um hin[1] næstu hèruð, en sumt flýði. Þá byrjaði hann ferð sína at vinna borgina Jörk[2], ok lögðu öllum herinum við Stafnfurðu[3] bryggju, en fyrir þá sök at konúngr hafði vunnit svå mikinn sigr við stóra höfðíngja ok ofrefli liðs, þá var allt fólk hrædt vorðit, ok örvæntist mótstöðu; gerðu borgarmenn þat ráð fyrir sèr, at senda boð Haraldi konúngi, bjóðast í vald hans ok svå borgina; var þetta allt sett ok samit, at sunnudaginn skyldi konúngr eiga þíng, ok tal við borgarmenn. Á drottinsdaginn fór Haraldr konúngr upp til borgarinnar með her sinn, ok setti þíng utan borgar, á því þíngi játtaðist allt fólk undir hlýðni ok þjónustu við Harald konúng, ok fengu þeir honum gisla, tiginna manna syni, svå sem Tosti jarl sagði fyrir; þvíat hann kunni allra skyn í borginni. Fór konúngr ok hans menn ofan um kveldit til skipanna með sjálfgerfum sigri, ok voru allkátir. Var ákveðit at þíng skyldi vera í borginni annan dag vikunnar, skyldi Haraldr konúngr þá skipa

[1]) hinu, *H.* [2]) Jork, *H.* [3]) Stanfurðu, *H.*

staðinn ríkismönnum, ok gefa rèttu ok lèn. Þat sama kveld eptir sólarsetr kom sunnan at borginni Haraldr konúngr Guðinason með úvígjan her, var hann leiddr í borgina með vild ok þökk allra borgarmanna; voru þá tekin öll borgarhlið ok vegar allir, at Norðmönnum kæmi eingi njósn; var þessi herr í staðnum um nóttina.

117. Mánadaginn, þá er Haraldr konúngr Sigurðarson hafði snædt, ok lið hans, at dagverðarborðum, þá lèt hann blása til landgaungu, bjó hann þá her sinn, ok skipti liðinu, hverir eptir skyldu vera eðr fara, hann lèt uppgánga 2 menn ör hverri sveit, þar sem einn var eptir. Tosti jarl bjó sik ok sína sveit til uppgaungu með Haraldi konúngi, en eptir voru til skipagæzlu Ólafr konúngsson ok Eysteinn orri, son Þorbergs[1] Árnasonar, er þá var ágætastr ok kærastr konúngi allra lendra manna í Noregi; þá hafði Haraldr konúngr heitit honum Maríu, dóttur sinni[2]; þar voru ok eptir Orkneyja jarlar, Páll ok Erlendr. Þá var veðr forkunnar gott, ok skin heitt, lögðu menn eptir brynjur sínar, en gengu upp með skjöldum, [hjálmum[3] ok kesjum, ok gyrðir sverðum, margir höfðu skot ok boga, ok voru allkátir. En er þeir sóttu í nánd borginni, sá þeir jóreyki mikla, ok þarundir því næst ríða mikit lið með fagra skjöldu ok bjartar brynjur; þá stöðvaði konúngr lið sitt,

[1]) þorbrands, *M.* [2]) sína, er þeir kømi aptr, *M.* [3]) *v. í H.*

ok lèt kalla til sín Tosta jarl, ok spurði hvat liði þetta myndi vera, er fór í móti þeim. Jarl mælti: mèr þykkir meiri vân, at úfriðr sè, en þó kann vera at sè frændr vârir nökkurir, ok vill leita af oss vægðar ok vináttu, en veita í móti traust ok trúnað. Konúngr mælti, at þeir myndi fyrst halda kyrru fyrir, ok forvitnast um herinn; þeir gerðu svâ, ok var því meira liðit sem meir nálgaðist, ok þeir sá gjörr, ok svâ vâpnat sem á eina ísmöl sæi. Þá mælti Tosti jarl: herra! tökum nú gott ráð ok vitrligt, ekki er at dyljast við, at úfriðrinn[1] er, ok mun konúngr sjálfr fyrir[2] liðinu. Konúngr svarar: hvert er yðvart ráð? Tosti jarl svarar: þat er hit fyrsta at snúa aptr sem skjótast til skipa eptir liði vâru ok vâpnum, veitum þá viðtöku eptir efnum, en at öðrum kosti látum skipin gæta vâr, ok eiga riddarar þá ekki vald á oss. Konúngr svarar: annat ráð vil ek hafa, ek vil setja hina skjótustu hesta undir 3 vaska drengi, ríði þeir sem hvatligast, ok segi liði vâru hvat um er, mun oss skjótt koma þeirra liðveizla, fyrir þá sök at Einglismenn munu enn eiga snarpa hríð, áðr vèr berim lægra hlut. Jarlinn mælti: þèr skuluð ráða, herra! þessu sem öðru, ok ekki er ek svâ miklu gjarnari at flýja enn einnhverr annarr, sem þó verð ek at segia, hvat mèr þætti[3] ráðligra. Þá lèt Haraldr konúngr setja upp merki sitt landeyðuna; Frið-

[1]) ófriðr, H. [2]) fylgja, H. [3]) þótti, H.

rekr hèt sá maðr, er merkit bar. Síðan fylkti Haraldr konúngr liði sínu, lèt vera fylkíng lánga, en ekki þykkva, síðan beygði hann armana aptr á bak, svâ at saman tóku, var þat þá víðr hríngr ok þykkr, ok jafn öllum megin, var skjöldr við skjöld utan öllum megin, ok svâ yfir ofan. Var því svâ fylkt, at konúngr vissi at riddarar voru vanir at ríða at riðlum ok þegar aptr, en konúngssveitin var fyrir innan hrínginn, var þat lið mjök valit, ok í hrínginum voru bogmenn, en í öðrum stað var Tosti jarl með sína sveit, hafði hann annat merki. Þá sagði konúngr, at jarl skal þar framgánga, er mest er þörfin: en þeir, er yztir standa í fylkíngu, segir hann, skulu setja spjótshala sína í jörð niðr, en oddana fyrir brjóst riddarum, ef þeir ríða at; en þeir, er þarnærst standa, setì sína spjótsodda fyrir brjóst hestum þeirra, hafið svâ allt kesjurnar fyrir, at ekki megi ágánga; stöndum fast ok geymum til, at bregða ekki þessi skipan.

118. Haraldr konúngr Guðinason var þar kominn með úvígjan her, bæði riddara ok fótgaungumanna; er svâ sagt, at Haraldr konúngr hefði meirr enn hálfu minna lið; svâ segir Arnórr:

Uppgaungu bauð ýngvi
ítr með helmíng lítinn,
sá er á sinni æfi
sásk aldregi háska;

en um England sunnan
öflugr herr at berjast
fór við fylki dýran,
fundust þeir af stundu.

Haraldr konúngr Sigurðarson reið um fylkíng sína, ok skynjaði hvernveg fylkt væri; hann sat á svörtum hesti blesóttum, hestrinn fèll undir honum ok konúngr af framm, stóð hann upp ok mælti: fall er farar heill. Þá mælti Haraldr konúngr Guðinason til Norðmanna, þeirra er með honum voru: kendu þèr þann hinn mikla mann, er þar fèll af hestinum við hinn blá kyrtilinn ok hinn fagra hjálm? Þar er konúngr Norðmanna, sögðu þeir. Konúngr mælti: mikill maðr ok ítrmannligr, ok er þó vænna, at nú sè farinn at hamíngjunni. Þvínæst riðu framm 20 riddarar af landsmönnum allir brynjaðir, ok svâ hestar þeirra, en er þeir komu at fylkíng Norðmanna, þá mælti einn riddarinn: hvar er Tosti jarl í liðinu? Hann svarar: ekki er því at leyna, (at) hèr megið þèr hann finna. Riddarinn mælti: Haraldr, bróðir þinn, sendir þèr kveðju ok þau orð með, at þú skalt hafa grið, ok eignast Norðimbraland, ok heldr enn þú vilir eigi til hans hníga, vill hann gefa þèr þriðjúng alls ríkis við sik. Jarl mælti: boðit er þá nökkut annat[1] enn úfriðr ok svívirðíng sem í vetr; hefði þetta þá verit boðit, þá væri sá margr á lífi, sem nú er

[1]) fleira, H.

dauðr, ok betr myndi þá standa ríki Englands konúngs. Nú tek ek þenna kost, en hvat vill Haraldr, bróðir minn, þá bjóða Noregs konúngi fyrir sitt starf? Riddarinn svarar: sagt hefir hann nökkut til[1], hvers hann mun unna Haraldi konúngi Sigurðarsyni af Einglandi, þat er 7 fóta rúm, ok því öllu leingra, sem hann er hærri enn flestir menn aðrir. Jarl mælti: farið nú ok segið Haraldi konúngi, bróður mínum, at hann búist til orrustu; annat skal satt mega segja með Norðmönnum, enn þat at Tosti jarl skildi við Harald Noregs konúng, [þá er hann fór í flokk fjandmanna sinna, ok[2] herjaði á Einglandi; heldr skulum vèr allir taka eitt ráð, at deyja við sæmd eðr vinna England með sigri. Riðu riddarar þá aptr til liðs síns. Þá mælti Haraldr konúngr til jarls: hverr var þessi hinn málsnjalli maðr? Jarl svarar: þar var Haraldr Guðinason, bróðir minn. Konúngr mælti: ofleingi vorum vèr þess[3] leyndir; þvíat þeir voru svâ komnir í lið vårt, at eigi mundi sjá Haraldr kunna at segja banaorð vårra manna. Jarl mælti: satt er þat, herra! úvarliga var farit slíks höfðíngja, ok þat sá ek í, at svâ mátti vera, sem þèr segið. Úlíkir höfðíngjar værim við þá, hann fór at bjóða mèr grið ok mikit ríki, en ek væri hans banamaðr, ef ek

[1]) þess, *b. v. H.* [2]) þá er hann fór í fjanda flokk hans, þá er hann *H*; ok føri í fjandaflokk hans, þá er hann, *M.* [3]) þesso, *H.*

hefði þá sagt til hans, gerði ek því svâ, at ek vil heldr þola dauða af bróður mínum, enn vera hans banamaðr, ef því er at skipta. Þá mælti konúngr [til sinna manna[1]: lítill var þessi maðr ok snarligr, ok stóð steigrliga í stigreip; gekk Haraldr konúngr þá í skjaldborgar hrínginn, ok kvað vísu þessa:

Framm gaungum vèr
í fylkíngu[2]
brynjulausir
und blár eggjar
hjálmar skína,
hefka ek mína
nú liggr skrúð vârt
at skipum niðri.

Emma hèt brynja hans, hon var svâ síð, at honum tók á mitt bein, ok svâ styrk, at aldri hafði vâpn áfest. Konúngr mælti: þessi vísa var illa ort, ok skal ek kveða aðra betri; hann kvað:

Krjúpum vèr fyrir vâpna
valteigs brakan[3] eigi,
svâ bauð Hildr at hjaldri
haldorð, í bug skjaldar;
hátt bað mik þar er mættist[4]
menskorð bera forðum
Hlakkar íss ok hausar
hjálmstall í gný málma.

---

1) *v. í H.* 2) fylkíngum, *H.* 3) brocon, *M.* 4) mætt-usc, *M.*

Þá kvað Þjóðólfr skáld:

Skalka ek frá, þótt fylkir
falli sjálfr til vallar,
(geingr sem guð vill) úngum
grams erfíngjum hverfa;
skínnat[1] sól á sýnni
snjallráðs enn þá báða
Haralds eru haukar gerfir
hefnendr konúngs efni.

Þat er mál manna, at þat hefði verit hit bezta ráð ok snjallasta, er Tosti jarl gaf í fyrstu, þá er þeir sá landherinn, at þeir skyldi snúa aptr til skipanna; en þvíat ekki má feigum forða, þá fengu þeir skaða af ofrkappi konúngs, er hann vildi eigi þola, at sú varygð væri honum virð til hræðslu eðr flótta af fjandmönnum sínum, sem Arnórr segir:

Olli ofrausn stillis[2]
ormalátrs þat[3] er máttið
stáls í straungu èli
stríðir elli bíða;
sá er aldregi aldins
ótams [lituðr hramma[4]
vígs í vâpna glyggvi
varðrúnar sik sparði.

119. Nú hófu þeir upp orrustu með því, at enskir menn veittu Norðmönnum atreið,

[1]) skín at, *H*; skínna, *M*. [2]) stillir, *H*. [3]) þar, *H*. [4]) *máske:* brúðr hrama, *H*.

en viðtaka var hinn harðasta; voru svâ settar kesjurnar, at riddarar máttu ekki vâpnum ná til Norðmanna, en þeir riðu umhverfis fylkíng þeirra, ok þegar þeir komu nökkut nær, skutu bogmenn Norðmanna sem tíðast á þá. En er enskir menn sá, at þeir fengu ekki atvunnit, þá riðu þeir frá; en er Norðmenn sá þat, ætluðu þeir at riddarar myndi flýja, þá sóttu þeir eptir, ok vildu reka flóttann; ok er þeir höfðu brugðit skjaldborginni, þá riðu enskir menn at þeim öllum megin, ok báru á þá skot ok spjót. En er Haraldr konúngr Sigurðarson sá, at þykt fèllu menn hans, þá gekk hann framm í höggorrustuna, þar er mestr var vâpnaburðrinn; var þá hin snarpasta orrusta, ok fèll mart lið af hvârumtveggjum, barðist Haraldr Noregs konúngr með hinni mestu hugprýði; svâ segir Arnórr jarlaskáld:

Hafðit brjóst, nè bifðist
bavð-snart konúngs hjarta,
í hjálmþrimu hilmir
hlit styggr fyrir sèr lítit;
þars til[1] þarfar hersa
þat [sá menn at[2] skatna
blóðugr hjörr hins[3] barra
beit döglínga hneitis.

Þá gerðist Haraldr konúngr svâ ákafr ok óðr, at hann hljóp framm ör fylkíngunni, ok hjó

[1]) því, *H.* [2]) sjatnaði, *H.* [3]) en, *H.*

til beggja handa, hèlt hvârki við honum hjálmr nè brynja; gekk hann svâ í gegnum lið óvina sinna, sem hann væði vind, þvíat allir stukku undan, þeir sem næstir honum voru, var þá við sjálft, at enskir menn mundi flýja; svâ segir Stúfr skáld:

Gekk sem vind sá er vætki
varðandi fjör sparði
geira regns[1] í gegnum
glaðr orrostur[2] þaðra;
gramr flýðit[3] sá síðan
sæm [ef þess eru[4] dæmi
els und erkistóli
eld nè járnit[5] felda.

Þvínæst var Haraldr konúngr Sigurðarson lostinn öru í óstinn, svâ at þegar stóð blóðbogi út um munninn, var þat hans banasár, fèll hann þar ok svâ öll sveit, sú er framm hafði gengit með honum, nema þat lið, er aptr hopaði, ok hèldu þeir merkjum sínum. Var þá enn harðr bardagi, þvíat Norðmenn voru all-ákafir, ok eggjaði hverr annan. En er Tosti jarl varð þess varr, at konúngr var fallinn, þá sneyri hann þagat til, sem hann sá landeyðuna á lopti, ok gekk undir konúngsmerkit[6], ok eggjaði fast liðit; litlu siðar

[1]) regn, H. [2]) orrustu, H. [3]) flýði, H. [4]) eru þess of, H. [5]) jarðar, H. [6]) ok æpti hári ravdd, b. v. H.

tóku hvârirtveggju hvíld, ok varð þá laung dvöl á orrustunni; þá kvað Þjóðólfr:

Öld hefir afroð[1] goldit
íllt nú kveð ek her stilltan,
bauð þessa för þjóðum
þarflaust Haraldr austan;
svâ lauk siklíngs æfi
snjalls, at vèr 'rom allir
(lofðúngr fèkk hins leyfða
lífs grand) í stað vandum[2].

Síðan bjuggust til orrustu hvârirtveggju í annat sinn, en áðr saman sigi fylkíngar, þá bauð Haraldr konúngr Guðinason (grið) Tosta jarli, bróður sínum, ok öllum Norðmönnum, þeim sem þá lifðu eptir, en Norðmenn æptu upp allir senn, ok sögðu svâ, at fyrr skyldi hverr þeirra falla um þveran annan, enn þeir gengi til griða við enska menn; þess getr Arnórr:

Eigi varð [hins ýgja[3]
auðligr konúngs dauði,
[hlífðut hlenna[4] sæfi
hoddum reknir broddar[5];
heldr kuru[6] [meirr ens[7] milda
mildíngs, enn grið vildi,
um fólksnaran fylki
falla liðsmenn allir.

Æptu Norðmenn þá heróp, ok tókst orrusta

[1]) *þannig A, H*; afráð, *M.* [2]) vondum, *H.* [3]) ens øgja, *M.* [4]) *H, M*; hlífðu lenna *eðr* senna, *A.* [5]) broddan, *A. M*; [6]) kjöru, *A.* [7]) *þannig M; v. í H*; menn meirr hins, *A.*

öðru sinni; Tosti jarl var þá höfðíngi fyrir liðinu, hann barðist drengiliga, ok fylgdi framm merkjunum, ok áðr enn lètti, fèll hann þar með mikilli prýði ok orðstír. Í því bili kom Eysteinn orri frá skipum með því liði, er honum fylgdi, voru þeir (allir) albrynjaðir, fèkk Eysteinn orri þegar merki Haralds konúngs Landeyðuna, varð þá orrusta hit þriðja sinn, ok var sú hin snarpasta, fèllu þá mjök enskir menn, ok var við sjálft at þeir mundi flýja; sú orrusta var kölluð Orrahríð. Eysteinn ok hans sveit hafði svâ farit ákafliga frá skipum, at þeir voru náliga fyrr úfærir af mæði, enn þeir tóku til orrustu; en síðan voru þeir svâ ákafir, at þeir hlífðu sèr ekki, meðan þeir máttu; at lyktum steyptu þeir af sèr hríngabrynjum, var þá enskum mönnum hægt at fá höggstaði á þeim, en sumir sprúngu með öllu ok dó úsárir; fèll þar náliga allt stórmenni Norðmanna; þetta var hinn efra hlut dags. Var þar sem jafnan, þar sem mart fólk kemr saman, at eigi voru enn allir jafn öruggir í framgaungu, leitöðu margir til undankvâmu á ýmsa vegu; fór þat sem auðna bar til, varð sumum auðit leingra lífs, ok drógust þeir undan, gerði þá myrkt um kveldit, er lokit var öllum manndrápum. Styrkárr stallari Haralds konúngs var ágætr maðr, hann fèkk sèr einn hest um kveldit, ok reið á brott; vindr gerðist á mikill ok svalr um kveldit, Styrkárr hafði ekki fleiri klæði enn skyrtu eina, hjálm

á höfði ok bert sverð í hendi, svalaði honum brátt, er mæðin rann af honum. Þá kom móti honum vagnkarl einn, ok var í [kösúngi fóðruðum[1]. Styrkárr mælti: viltu selja kösúnginn, bóndi? Hann svarar: eigi þèr-na, þú munt vera Norðmaðr, kenni ek mál þitt. Styrkárr mælti: ef ek er Norðmaðr, hvat villþú þá? Ek vil drepa þik, segir bóndi, en nú er svâ illa, at ek hefi ekki vâpnit nýtanda. Styrkárr mælti: ef þú mátt eigi mik drepa, bóndi! þá skal ek freista, at ek megi þik drepa. Reiddi hann þá upp sverðit, ok setti á háls honum, svâ at fauk af höfuðit, tók Styrkárr þá skinnhjúpinn, ok fór í, hljóp síðan á hest sinn, ok reið ofan til strandar. Arnórr jarlaskáld kvað um þessa orrustu, sem nú var frásagt, at Haraldr konúngr háði síðarst, ok lið hans, í erfidrápu þeirri, er hann orti um Harald konúng:

Vítt fór Völsúngs heiti[2],
varð marglofaðr harða
sá er skaut ör Nið nýtla
norðan herskips borði.

Arnórr kallar sèr úvíst, at nökkurr annarr konúngr undir heimssólu muni með slíkri hugprýði ok hreysti barizt hafa, sem Haraldr konúngr. Arnórr kvað:

Myrkt er hver [meira orkar[3]
mèr alls greppr nè sèrat

[1]) kavsúngi tvífóðruðum, *H*; kavsúngi síðum, *M*. [2]) hætti, *H*. [3]) *þannig M*; méra orkar, *H*; meira okkar, *A*.

harðr [er í[1] heimi orðinn
hrafn grennir þrek jöfnum;
ert gat úsljótt[2] hjarta
eljunfims und himni
mest hefir mildíngr kostuð
minni hvers [grams vinnur[3].

Ok enn kvað hann:

Haraldr vissi sik hverjum
harðgeðr[4] und miðgarði
(döglíngr rèð til dauða
dýrð slíkri) gram ríkra;
hefir afreka hins [efra
átt stýröndum dýrri[5]
hnígr-at hilmir frægri
heilög fold til moldar.

Þat var á öðrum degi viku, er Haraldr konúngr fèll, tveim nóttum fyrir Mikjals[6] messu.

120. Vilhjálmr Rúðujarl, er kallaðr var bastarðr, spurði andlát Játvarðar konúngs, frænda síns, ok þat með, at þá var til konúngs tekinn í Englandi Haraldr Guðinason, ok hafði tekit konúngsvígslu; en Vilhjálmr þóttist kominn betr til ríkis í Englandi enn Haraldr fyrir frændsemis sakir [þeirra Játvarðar konúngs[7]; þat var ok með, at hann þóttist eiga at gjalda Haraldi svívirðíng, er hann hafði rofit festarmál við dóttur hans; ok af þessu öllu jafnsaman

[1]) ur, *H.* [2]) úslett, *M.* [3]) gramr vinnr, *H*; grams vinnor, *M.* [4]) harðgjæðr, *H.* [5]) ofra ettstyrundom dýri, *M.* [6]) Mikaels, *H.* [7]) við Játvarð konúng, *H.*

dró Vilhjálmr her saman af[1] Norðmandí, hafði hann allmikit fjölmenni, ok nógan skipakost. Þann dag er Vilhjálmr ætlaði at ríða ör borginni til skipa, ok hann var kominn á hest sinn, þá gekk kona hans at honum, ok bað hann eigi berjast við Harald Guðinason; hann svaraði henni styggliga, ok sagði ekki gott henni gánga til þessar bænar. Vildi hann þá ljósta hestinn sporum, en sporinn kom fyrir brjóst frúinni, svâ at á kafi stóð, fèll hon ok fèkk þegar bana, reið hann við þat til skips. Menn hans töluðu þúngliga um þenna atburð. Vilhjálmr svarar: [víst er hann ógrligr, en þó kann vera, at hon hafi eigi verit saklaus um svik við oss[2]. Vilhjálmr fór með her sinn[3] út til Englands, þar var með honum Ottó, bróðir hans; en er hann kom þar, þá herjaði hann, ok lagði undir sik landit, hvar sem hann fór. Vilhjálmr var hverjum manni meiri ok styrkari, hinn bezti riddari, hinn mesti hermaðr ok atgerfimaðr, vitr maðr ok kallaðr ekki tryggr.

121. Haraldr konúngr Guðinason lofaði brottferð Ólafi, syni Haralds konúngs, ok því liði, er þar var með honum, ok eigi hafði fallit í orrustu; en Haraldr konúngr snèri þá með her sinn suðr á England, þvíat hann hafði þá spurt, at Vilhjálmr var kominn sunnan á landit, ok herjaði ok lagði undir sik; þar voru þá með Haraldi konúngi jarlarnir, bræðr hans,

[1]) í, *H.* [2]) *v. í A.* [3]) þann, *H.*

Sveinn, Gyrðr ok Valþjófr. Fundr þeirra Haralds konúngs ok Vilhjálms varð suðr á Englandi við Helsíngjaport, ok höfðu hvârirtveggju allmikinn her. Þá mælti Gyrðr jarl til Haralds konúngs, bróður síns: þat uggir mik, at þèr takist eigi at berjast við Vilhjálm, þvíat þú hefir svarit, at verja honum eigi England. Konúngr svarar: vera kann, bróðir! at þèr sè betr hent, at berjast við Vilhjálm, enn mèr; en ekki hefir ek vanr verit at liggja í hreysum, þá er aðrir menn hafa barizt, ok eigi skal Vilhjálmr þat spyrja, at ek þori eigi at sjá hann. Eptir þat lèt Haraldr konúngr setja upp merki sín, ok rèð til bardaga við Vilhjálm, varð þar hin snarpasta orrosta, ok þótti lánga hríð úsýnt, hvârir sigrinn myndi fá; en er áleið orrostuna, þá snèri mannfallinu á hendr enskum mönnum. Vilhjálmr hafði látit, áðr þeir gengu saman, binda við merki sitt helgan dóm Otmarí, þann sama sem Haraldr hafði svarit at; en er bardaginn tók at hallast á Harald konúng, þá spurði hann: hvat er bundit við merkit Vilhjálms? En er honum var þat sagt, þá mælti hann: vera kann at vèr þurfim þá eigi sigrs at vænta í þessi orrustu; ok svâ lauk, at þar fèll Haraldr konúngr ok Gyrðr jarl, bróðir hans, ok mikill hluti liðs þeirra, en allir flýðu, þeir er lífit þágu. Þessi orrosta var 19 nóttum eptir fall Haralds konúngs Sigurðarsonar. Valþjófr jarl komst með flótta ör orrostu, ok síð um kveldit

mætti hann sveit nökkurri af Vilhjálms mönnum, ok þá er þeir sá lið jarls, flýðu þeir á eikiskóg nökkurn, þat var hundrað manna; jarlinn lèt leggja eld í skóginn, ok brenna upp alltsaman; svâ segir Þorkell Skallason[1] í Valþjófsflokki:

Hundrað lèt í heitum
hirðmenn jöfurs brenna
sóknar Uggr (en seggjum
sviðu kveld var þat) eldi;
frètt er at fyrðar knáttu
flagðvigg[2] und kló liggja,
imleitum fèkst áta
ölsblakk af hræm Frakka.

122. Vilhjálmr lèt sik til konúngs taka á Englandi, hann sendi boð Valþjófi jarli, at þeir skyldi finnast, ok seldi honum grið til þeirrar stefnu. Jarl fór við fá menn, en er hann reið á heiðina fyrir norðan Kastalabryggju, þá komu mót honum 2 ármenn Vilhjálms konúngs með mikla sveit manna, tóku þeir þegar jarl, ok settu í fjötra, síðan var hann höggvinn, ok kalla enskir menn hann helgan; svâ segir Þorkell:

Víst[3] hefir Valþjóf hraustan
Vilhjálmr sá er rauð málma[4]
hinn er haf skar sunnan
hèlt í trygð ofvèltan[5];

[1]) skáld, *H.* [2]) *þannig H*; flagðvis, *A.* [3]) vistir, *H.*
[4]) hjálma, *H.* [5]) ok weltan, *H.*

satt[1] er at síð mun lètta[2]
(snarr en minn var harri)
(deyr ei mildíngr meiri)
manndráp á Englandi.

Vilhjálmr var síðan konúngr á Englandi eitt ár ok 20, ok hans afkvæmi jafnan síðan. Vilhjálmr varð sóttdauðr í Norðmandí; eptir hann var Vilhjálmr rauði, son hans, konúngr 14 ár; þá tók ríki ok konúngdóm Heinrekr, bróðir hans, son Vilhjálms konúngs hins fyrra[3].

123. Ólafr, son Haralds konúngs Sigurðarsonar, hèlt liði sínu brott af Englandi, hann sigldi út af Hrafnseyri, ok kom um haustit við Orkneyjar; þess getr Steinn Herdísarson:

Fylkir lèt hin fljótu
flaust, er leið at hausti,
skaut í haf, þar er heitir
Hrafnseyrr[4], konúngr stafni;
tráðu borðveg breiðan
brimsgángr[5] skipa lángra
óðr fèll sjór[6] um súðir;
sik beztan gram miklu.

Þat var þar tíðinda at María, dóttir Haralds konúngs, hafði vorðit bráðdauð, þann dag ok á þeirri stundu er faðir hennar hafði fallit, ok er þat mál manna, at þau hafi mjök eins manns fjör haft bæði; hon var allra kvenna

1) sóttr, *H.* 2) hætta, *H.* 3) *þetta allt frá kap.* 120-122 *er miklu styttra í M, einnig vanta þar 2 seinustu vísurnar.* 4) *þannig A, M.* 5) brimgáng, *H.* 6) ser (*þ. e.* sær), *M.*

vitrust[1] ok vinsælst. Ólafr dvaldist um vetrinn í Orkneyjum, en eptir um sumarit fór hann austr til Noregs með liði sínu; svâ segir Steinn:

Austr hèlt Engla þrýstir
otvins[2] liði sínu,
stóran braut um stýri
straum sækonúngr[3] Rauma[4];
glaðr tók herr, þá er[5] hèðra
hrínglestir kom vestan,
allr við öflgum stilli;
Ólafr borinn sólu.

Þat sama sumar var Ólafr til konúngs tekinn í Noregi með Magnúsi, bróður sínum. Ellisif drottníng fór vestan um haf með Ólafi, stjúpsyni sínum, ok Íngigerðr dóttir hennar. Þá kom (ok) vestan um haf með Ólafi Skúli, son Tosta jarls Guðinasonar, er síðan var kallaðr konúngsfóstri, ok Ketill krókr, bróðir hans, þeir voru báðir menn forvitra ok allkærir Ólafi konúngi. Fór Ketill krókr norðr á Hálogaland, ok fèkk Ólafr konúngr honum gott kvânfáng, ok gaf honum þar lends manns rètt, ok er frá honum komit mart stórmenni.

124. Litlu síðar enn Ólafr var til konúngs tekinn í Noregi, fór Skúli vestr til Englands at ráði konúngs, ok beiddist at ná líki Haralds konúngs, ok þat fèkk hann þegar;

---

1) fríðust, *H.* 2) ottvins, *H.* 3) súr konúngr, *H.* 4) straum sæ konúngr tauma, *M.* 5) *v. í H.*

kom hann aptr í Noreg, var lík Haralds konúngs flutt norðr til Niðaróss, ok jarðat at Maríukirkju, þeirri er hann hafði gera látit sjálfr. Þat er allra manna mál, at Haraldr konúngr hafi verit umframm alla Noregs konúnga at speki ok ráðsnild, hvârt sem hann skyldi skjótt tiltaka, eðr gjöra laung ráð fyrir sèr eða öðrum; hann var allra manna vâpndjarfastr ok sigrsælstr, sem nú hefir þú mátt heyra um hríð; svâ segir Þjóðólfr:

Áræðis naut eyðir
aldyggr Selund[1] byggir,
hugr ræðr hálfum sigri,
Haraldr sannar þat, manna.

Haraldr konúngr var fríðr maðr sýnum, ok tígurligr[2], bleikhárr ok hafði bleikt skegg ok lánga kampa, nökkuru ofarr aðra brún, miklar hendr ok fætr, ok velvaxit hvârtveggja, fimm álna er hátt mál hans, hann var grimmr úvinum ok refsíngasamr um mótgerðir; svâ segir Þjóðólfr:

Refsar reyndan ofsa
ráðgegn konúngr þegnum
hykkat hilmis rekkar
haldi upp því er valda;
sverðs hafa slíkar byrðar
sanns nýtr hverr við annan
Haraldr skiptir svâ heiptum
hljótendr er sèr brjóta.

1) Sælund, *H.* 2) tígúligur, *H.*

Haraldr konúngr var hinn ágjarnasti maðr til ríkis ok til allra farsælligra eigna[1]; hann var stórgjöfull við vini sína, þá er honum líkaði vel til; svâ segir Þjóðólfr:

Mörk lèt vítt fyrir verka
vekjandi mjök sækja
hann lætr hylli sinnar
hjaldrs tilgerðir valda.

Haraldr konúngr var þá fimtogr at aldri, er hann fèll. Eingar merkiligar frásagnir höfum vèr um uppruna hans, fyrr enn hann var 15 vetra, þá var hann í orrustu á Stiklarstöðum með Ólafi konúngi, bróður sínum; en síðan lifði hann hálfan fjórða tög vetra, ok alla þá stund varð honum ekki í milli aga ok úfriðar. Haraldr konúngr flýði aldri í orrustu, en opt leitaði hann sèr farborða fyrir ofrefli liðs, ef hann átti við (at) eiga. Allir menn sögðu þat einnveg, þeir er fylgdu honum í orrostum eðr hernaði, at þá er hann var staddr í miklum vanda, ok bar skjótt at höndum, at þat ráð myndi hann upptaka, sem allir sá eptir, at vænst hafði verit at hlýða myndi. Halldórr, son Brynjólfs gamla[2] úlfalda, hann var höfðíngi mikill ok vitr maðr; þá er hann heyrði at mjök var misjafnt[3] skaplyndi þeirra bræðra, Ólafs konúngs hins helga ok Haralds konúngs Sigurðarsonar, þá mælti Halldórr: ek var með báðum þeim bræðrum í miklum kærleikum, ok var mèr

1) hluta, *H.* 2) *v. í H.* 3) misjafnað, *H.*

kunnigt hvårstveggja þeirra skaplyndi, ok fann ek aldri 2 menn skaplíkari; þeir voru báðir vitrir ok hinir vâpndjörfustu, menn ríklyndir ok refsíngasamir ok stjórnsamir, ágjarnir til fjár ok ríkis, ok ekki áhlýðnir. Ólafr konúngr braut[1] landsfólk til kristni ok rèttra siða, ok refsaði grimliga þeim, er daufheyrðust við, þoldu landshöfðíngjar honum eigi jafndæmi ok rèttindi, reistu þeir her í móti honum, ok felldu hann á ríki sjálfs síns, varð hann fyrir þat heilagr; en Haraldr herjaði til ríkis sèr ok frægðar, ok braut allt fólk undir sik, þat er hann mátti, fèll hann ok á annarra konúnga eign; báðir voru þeir hversdagliga siðlátir ok veglátir, báðir voru þeir víðförlir ok framkvæmdarmiklir í athöfnum ok ráðum, ok vurðu af slíku víðfrægir ok ágætir[2].

125. Skúli konúngs fóstri var maðr vitr ok *skörúngr mikill, manna fríðastr sýnum*, hann gerðist forstjóri í hirð Ólafs konúngs, talaði á þíngum, ok rèð öllum landráðum með konúngi. Ólafr konúngr bauð at gefa Skúla fylki eitt í Noregi, þat er honum þætti bezt, með öllum tökum ok skyldum, þeim er konúngr átti. Skúli þakkaði konúngi vel boð sitt: en ek vil heldr beiða af yðr annarra hluta, segir hann, því at [þá er[3] konúngaskipti verðr[4], kann vera at gjöfin rjúfist; vil ek þiggja nökkurar

[1]) undir sik, *b. v. II.* [2]) *Af þessum kap. finnst einúngis byrjanin í M; allar vís. v. þar.* [3]) ef, *II.* [4]) í Noregi, *b. v. II*

eignir, þær sem nær liggja kaupstöðum þeim, sem þèr eruð vanir at sitja optast, ok taka jólaveizlur. Konúngr játtaði honum þessu, ok skeytti honum jarðir austr við landsenda, við Konúngahellu, ok við Osló, við Túnsberg, við Björgyn, ok norðr við Niðarós; þat voru náliga[1] hinar beztu eignir í hverjum stað, ok hafa þær eignir legit síðan undir þá menn, er af Skúla ætt eru komnir. Ólafr konúngr gipti Skúla frændkonu sína, Guðrúnu Nefsteinsdóttur; móðir Guðrúnar var Ísríðr, dóttir Sigurðar sýrs ok Ástu, móður hins heilaga Ólafs konúngs ok Haralds konúngs. Son Skúla ok Guðrúnar var Ásólfr á[2] Reini, hann átti Þóru, dóttur Skopta Ögmundarsonar, Þorbergssonar; son Ásólfs var Guttormr, faðir Bárðar, föður Ínga konúngs, ok Skúla hertoga.

1) allar, *b. v. H.* 2) ok, *A.*

# Af Magnúsi ok Ólafi Haraldssonum.

1. Magnús konúngr Haraldsson rèð einn fyrir[1] Noregi hinn næsta vetr[2] eptir fall Haralds konúngs, föður síns, en síðan rèð hann 2 vetr landi með Ólafi, bróður sínum; voru þeir þá 2 konúngar, hafði Magnús[3] hinn nörðra hlut lands, en [Ólafr hinn eystra[4]. Magnús konúngr átti son, er hèt Hákon, hann fóstraði Steigar-Þórir; Hákon var hit vænsta mannsefni. Eptir fall Haralds konúngs Sigurðarsonar taldi Sveinn Danakonúngr, at slitit væri friði milli Norðmanna ok Dana, sagði hann eigi leingr friðinn hafa verit settan, enn þeir lifði báðir, Haraldr konúngr ok Sveinn konúngr; voru þá útboð mikil í hvârutveggja ríkinu, höfðu Haraldssynir almenníng úti fyrir Noregi at liði ok skipum, sem Steinn segir:

Öll biðr Engla stillir
eggdjarfra lið seggja
sund fyrir sínu landi
sóknörr stika[5] dörrum;

[1]) vetr, *H.* [2]) *v. í H.* [3]) Olafr konúngr, *H.* [4]) Magnús enn syðra, *H.* [5]) stikka, *H.*

jörð mun eigi verða
auðsótt Fíla drottins,
sóknherðir veit sverða
sik beztan gram miklu.

[Sveinn konúngr hèlt sunnan með Danaher, vísar Steinn svâ til, at Sveinn konúngr hafi mætt nökkuru leiðángrsliði Ólafs konúngs, ok barizt við þá; hann segir svâ[1]:

Gengu danskir drengir,
dynr varð gjörr, með brynjur
utanborðs til jarðar,
úríks[2] málms[3] ok hjálma;
sukku sárir rekkar
sunnan hafs[4] til grunna,
hárr varp hausum þeirra
hranngarðr á þröm jarðar.

Þeir bræðr, Ólafr konungr ok Magnús, bjuggu her sinn [ok landvarnir[5] norðr í landi; svâ segir Steinn:

Sín óðul mun Sveini
sóknstrángr í Kaupángi,
þar er heilagr gramr hvílir,
hann er ríkr jöfur, banna;
ætt sinni mun unna
Ólafr konúngr hála,

---

1) *Istaðinn fyrir þetta frá [ hefir M:* oc enn kvað hann:

Veit ec hvar Olafr úti
óslækinn rauð mæki,
deilast mèr til mála
minni, fyrsta sinni:

hlaut til hafs fyr utan
Halland konúngr (branda)
fögr sverð (ruðo fyrðar)
fjölgóðr lituð blóði.

2) úrtgs, *M.* 3) máls, *A.* 4) niðr, *H.* 5) til landvarnar, *H.*

Úlfs þarf-at þar arfi
alls Noregs til kalla.

En er þeir spurðu at Sveinn konúngr fór sunnan með her sinn, hèldu þeir suðr með landi í móti, höfðu þeir allmikit lið; svâ segir Steinn:

Enn at gerva gunni
gramr bjóst við styr römmu[1],
herskildi bað halda
hraustgeðr[2] konúngr austan;
út færðu lið litlu
laung borð fyrir Stað norðan
tráðu[3] túnvöll reyðar
tveir döglíngar meira.

Þá fóru menn milli konúnga, ok báru sáttarboð í millum þeirra: sagði Ólafr konúngr ok Norðmenn, at þeir vildu halda þá sætt, sem fyrr var gjörr með þeim Haraldi konúngi ok Sveini, en berjast at öðrum kosti; lètu þat líkara at Dönum myndi þykkja Norðmenn gera sèr einn ærinn storm, ef þeir ættist íllt við, þótt Haraldr konúngr væri fráfallinn. En fyrir því at slík heitan[4] fylgdi sættarboðum af Ólafi konúngi, þá var þetta kveðit:

Varði ógnarorðum
Ólafr ok[5] friðmálum
jörð, svâ at eigi[6] þorði
allvaldr[7] tilkalla.

Var þá komit á stefnulagi, ok samin sætt milli

[1]) römmum, *H*; ramman, *M*. [2]) hraustgæðr, *H*. [3]) tjáðu, *H*. [4]) hétan, *H*. [5]) *v. í H*. [6]) engi, *M*, *Hk*. [7]) alvaldr, *A*; allvalda, *M*, *Hk*.

konúnga, ok friðr milli landa. Magnús konúngr fèkk vanheilendi, þat er menn kalla reform, ok sótti svâ mjök, at hann lagðist í rekkju af, ok lá nökkura hríð; hann andaðist norðr í Niðarósi, ok var þar jarðaðr, Magnús konúngr hafði verit vinsæll af allri alþýðu[1].

2. Ólafr var einn konúngr yfir Noregi eptir andlát Magnúsar, bróður síns. Svâ segir Steinn Herdísarson:

Heldr, sízt hári[2] foldu
heiptbráðr jöfurr náði,
(ætt þreifst Egða drottins)
ólaust konúngr stóli;
mætr hilmir verr málmi
(man ek skjöldúngs lof) köldum[3]
Rauma grund ok röndu[4],
ríklundaðr [veit undir[5].

Ólafr konúngr var mikill maðr á allan vöxt, ok vaxinn vel; þat var allra manna sögn, at eingi hefði sèt fegra mann eðr tígurligra[6] sýnum. Hann hafði gult hár sem silki, ok fór fagrliga, bjartan líkama, eygðr manna bezt, limaðr vel, fámálugr optast, ekki[7] talaðr á þíngum, glaðr við öl, málreitinn í kyrð ok blíðmæltr. Alla stund var hann friðsamr, meðan ríki hans stóð, því var hann kallaðr Ólafr kyrri; svâ segir Steinn:

[1]) *Einnig af þessum kap. finnst ekki nema stutt úgrip í M, með yfirskrift:* Saga Olafs konúngs kyrra. [2]) hari, *A.* [3]) köldu, *H.* [4]) rendu, *H.* [5]) veik undan, *H.* [6]) tíguligra, *H, M.* [7]) mjög, *b. v. H.*

Lönd vill þeingill þrænda
(þat líkar vel skötnum)
öll við ærna snilli
eggdjarfr í frið leggja:
hugnar þjóð, er[1] þegna
þrályndr til friðmála
kúgar Eingla ægir;
Ólafr borinn sólu.

Þat var forn siðr í Noregi[2], at konúngs hásæti var á [miðjum lángpalli[3] í veizlustofum, sat þar drottníng til vinstri handar konúngi, var þat kallat konúngs öndvegi; þótti þat sæti vegligast útífrá hvârntveggja veg, er næst var öndvegi, en úvegligast þat er næst var dyrum, en dyrr voru á báðum endum stofunnar, skyldi konúngssæti vera á þann bekk er vissi móti sólu. Annat öndvegi var á hinn úæðra pall[4] gegnt konúngi, skyldi þar sitja hinn æðsti ráðgjafi konúngs fyrir hans ádrykkju, ok þótti þat mest virðíng at sitja fyrir konúngs ádrykkju, sem Arnórr jarlaskáld segir:

Hèt ek þá er hvern vetr sátum
hrafns verðgjafa[5] jafnan
lið drakk gramr á góðar
gagnvert skipasagnir.

Hèr hrósar Arnórr því, at hann sat [í úæðra öndvegi[6] fyrir ádrykkju Þorfinns jarls, þá er

[1]) en, *H*; þat er, *M*. [2]) svâ ok í Danmörk ok Svíþjóðu, *b. v. M.* [3]) miðjan lángbekk, *H.* [4]) bekk, *H.* [5]) verð gefa, *H.* [6]) á enn óæðra bekk, *H.*

hann var með honum í Orkneyum. Ólafr konúngr lèt gera hápall um þverar veizlustofur, ok setti konúngs hásæti á miðjan þverpall; hann lèt ok fyrst gera ofnstofur ok steingólf um vetr sem sumar.

3. Um daga Ólafs konúngs voru settir kaupstaðir í Noregi at upphafi. Ólafr konúngr setti kaupstað í Björgyn[1], gerðist þar þá mikit setr [ríkra manna ok tilsiglíng[2] kaupmanna af öðrum löndum; hann lèt ok þar reisa Kristskirkju af grundvelli hinnar miklu steinkirkju, ok varð at henni lítit gert, en hann lèt algera trèkirkjuna af fornu Kristskirkjunni. Ólafr konúngr lèt setja miklagildi i Niðarósi ok mörg önnur í kaupstöðum, en áðr voru hvirfíngsdrykkjur; þá var Bæjarbót hin mikla hvirfíngsklokka í Niðarósi; hvirfíngsbræðr lètu þar gera Margrètarkirkju, steinkirkju[3]. Á dögum Ólafs konúngs hófust skytníngar ok leiðsludrykkjur í kaupstöðum; þá tóku menn upp sundrgerðir miklar, höfðu drambhosur lerkaðar at beini, sumir spentu gullhríngum at fótleggjum sèr, ok þá höfðu menn dragkyrtla latz at síðu, ermar 5 álna lángar ok svâ þraungar, at draga skyldi at við handtýgil, ok lerka allar at öxl; uppháfir skúar ok allir silkisaumaðir, en sumir gulllagðir, mörg önnur sundrgerð var þá. Ólafr konúngr var haldsamr á ríki sínu en

[1]) Björgvin, *H.* [2]) *v. í A.* [3]) *v. í H.*

mildr af lausafè við menn sína, sem Steinn segir:

Herþeingill gleðr hríngum
hoddörr, sá er rýðr odda[1],
bekksagnir lætr bragna
bragníngr gjöfum fagna;
Norðmönnum gefr nenninn
Noregs konúngr stórum,
örr er Eingla þverrir,
Ólafr borinn sólu.

Þá var ár mikit í Noregi ok margföld gæzka, svâ at á eingis konúngs æfi var þar alþýðu slíkt sællífi [sem um hans daga[2], síðan Haraldr var hinn hárfagri. Allr herr[3] unni Ólafi konúngi hugástum, þvíat hann skipaði mörgum hlutum til vægðar við fólkit, þeim er Haraldr konúngr hafði reist með freku, ok síðan haldit með ágirnd; sýndi Ólafr konúngr sínum mönnum fullkominn góðvilja ok friðsemd öllum landslýð, sem skilja má af sjálfs hans orðum, er hann mælti einn dag í miklagildi, þá er hann sat þar glaðr ok í góðu skapi með sínum vinum. Þá mæltu nökkurir menn til konúngs: herra! mikill fagnaðr er oss á því ok mörgum öðrum, er þú ert svâ blíðr ok fagnaðarsæll við allt fólk. Hví mun ek nú eigi kátr vera, er ek sit hèr með yðr í þeirri samkundu, sem helguð er hinum heilaga Ólafi konúngi, frænda mínum, ok sè ek á lýð mínum bæði gleði ok frelsi; á dögum

1) brodda, *H.* 2) alþýðunni, *H.* 3) lýðr, *H.*

föður míns var lýðr þessi undir miklum aga ok ótta, fálu þá flestir menn gull sitt ok gersimar, en nú sè ek á hverjum yðrum skína þat er á[1], yðvart frelsi ok fagnaðr er mèr gleði ok gaman.

4. Ólafr konúngr hafði þá hirðsiðu, at hann lèt standa fyrir borði sínu skutilsveina, ok skeinkja sèr með borðkerum, ok öllum tignum mönnum, þeim er at borði sátu með honum; hann hafði ok kertisveina, þá er kertum hèldu fyrir borði hans jafnmörgum sem tignir menn sátu upp. Þar var ok stallara stóll utar frá trapizu, er stallarar konúngs sátu á, ok aðrir gæðíngar, ok horfðu þeir innar móti hásætinu. Haraldr konúngr, faðir hans, ok aðrir konúngar fyrir honum voru vanir at drekka af dýrahornum, ok bera öl um eld, ok drekka minni á þann er gegnt sat; en Ólafr konúngr lèt hvern drekka á þann sem vildi; svá segir Stúfr skáld:

Vissa ek hildar hyssi[2]
(hann er nýzt at kanna)
af góðum byr Gríðar
gagnsælan mèr fagna;
þá er blóðstarabræðir
baugum grimmr at Haugi
gjarn með gyltu horni
gekk sjálfr á mik drekka.

Ólafr konúngr hafði hundrað hirðmanna[3] ok 60

---

1) þvíat, *b. v. H.* 2) hyssa, *H*, hvessi, *Hk.* 3) en forn lög voru til þess at konúngr skyldi hafa 60 hirðmanna, *b. v. M.*

gesta[1] ok[2] 60 húskarla, þeirra er flytja skyldu til garðsins slíkt er þurfti, eðr starfa annat, þat er konúngr vildi. En er bændr spurðu fyrir hvat hann hafði meira lið enn lög stóðu til, eðr fyrri konúngar höfðu haft, þá er hann fór á veizlur, er bændr gerðu honum. Konúngr svarar svå: eigi fær ek betr stýrt ríkinu [enn svå, at minni ógn stendr af mèr enn af feðr mínum, þótt ek hafi hálfu[3] fleira lið enn hann hafði[4], en eingi pyndíng[5] geingr mèr til þess við yðr, eðr þat at ek vili þraungva kosti yðrum.

5. Sveinn konúngr Úlfsson varð sóttdauðr 10 vetrum eptir fall Haraldanna, þarnæst var konúngr í Danmörk Haraldr hein, son hans, 4 vetr, þá Knútr hinn helgi, annarr son Sveins konúngs, 7 vetr; þá Ólafr, hinn þriði son Sveins konúngs, 8 vetr. Ólafr konúngr Haraldsson fèkk Íngiríðar[6], dóttur Sveins konúngs Úlfssonar, en Ólafr Danakonúngr Sveinsson fèkk Íngigerðar[7], dóttur Haralds konúngs, systur Ólafs Noregs konúngs. Ólafr konúngr Haraldsson, er sumir menn kölluðu Ólaf kyrra, en margir kölluðu Ólaf bónda, hann gat son við Þóru Jónsdóttur[8], sá var nefndr Magnús[9], sá sveinn var hinn fríðasti ok all-mannvænn, ok vógs upp í hirð Ólafs konúngs. Ólafr konúngr lèt gera

[1]) en áðr höfðu konúngar haft 30, *b. v. M.* [2]) hann hafði safnan, *M.* [3]) miklu, *H.* [4]) við tvö hundruð manna, en Haraldr konúngr við níotigo, *M.* [5]) pynting, *H.* [6]) Ingigerðar, *H.* [7]) Ingiríðar, *H.* [8]) dóttur Arna lága, *M.* [9]) er kallaðr var berføttr, *b. v. M.*

steinmustari í Niðarósi, ok setti í þeim stað sem fyrst hafði verit jarðaðr líkami hins heilaga Ólafs konúngs, var þaryfir sett altarið, sem gröptr konúngs hafði verit; sú kirkja var vígð til lofs ok dýrðar heilagri þrenníngu, var þá ok þagat flutt skrín Ólafs konúngs, ok sett þar yfir altari, vurðu þar þá margar jarteignir [at helgum dómi[1] Ólafs konúngs.

6. Ólafr hinn kyrri var vinr Knúts Danakonúngs, mágs síns, þeir mæltu mót með sèr, ok hittust í Elfinni, þar sem konúngar voru vanir at finnast. Talaði þá Knútr konúngr, at hann vildi at þeir gerði her vestr til Englands, slíks sem þeir áttu at hefna þar, [Ólafr konúngr at upphafi ok svâ Danakonúngar[2]. Gjör nú annathvârt, segir Knútr konúngr, at ek mun fá þèr 60 skipa, ok verþú höfðíngi fyrir ferðinni, ella mun ek gerast höfðíngi hersins, ok fá þú mèr til liðs 60 skipa. Þá mælti Ólafr konúngr: þetta mál, er þèr hafið uppborit, Knútr konúngr! er mèr skapfellt, en þat er mjök újafnt með oss; þèr frændr hafið borit til giptu, at vinna á Englandi mikla sæmd ok ríki, sem var Knútr konúngr ríki, nú er líkligt at þat muni í ætt hans gánga með yðr; en þá er Haraldr konúngr, faðir minn, fór vestr, var í landinu hit bezta mannval, svâ at slíks hefir eigi síðan kostr verit í Noregi, fyrst at upphafi foríngiun, slíkr sem var Haraldr konúngr, bæði at viti ok harðfeingi, var sú ferð

1) af heilagleik, *H.* 2) fyst at upphafi Haralds konúngs ok Dana gjörvallra, *H.*

at öllum hlutum vel útbúin, en gafst sem þèr vitið, at faðir minn fèkk þar bana. Nú kann ek ætla mitt ráð, hversu mjök ek er vanfærr, at gerast formaðr þessarrar ferðar, ok vil ek yðr til kjósa, at þèr farið með minni eflíngu. Fèkk Ólafr konúngr Knúti 60 stórskipa með góðum búnaði ok traustu liði, ok setti þarfyrir höfðíngja sína ok lenda menn; var þat mælt at sá herr væri stormannliga heiman búinn. Þat er ok sagt í Knútssögu, at Norðmenn einir rufu eigi leiðángrinn[1], þá er saman var kominn herinn, en Danir biðu eigi konúngs; ok þat virði Knútr konúngr við þá, ok gaf þeim heimleyfi, ok sendi Noregs konúngi ágætar gjafir fyrir sitt liðsinni, en lagði á Dani mikla reiði, ok stór fègjöld.

7. Þat var eitt sumar, at menn Ólafs konúngs höfðu farit ok dregit saman landskyldir hans, at konúngr frètti hvar þeim væri bezt fagnat. Þat var í einu fylki, sögðu þeir, þar er sá einn gamall búkarl, er veit fyrir marga hluti, höfum vèr margra hluta spurt hann, ok hefir hann ör leyst, ok þat hyggjum vèr at hann kunni fugls rödd at skilja. Konúngr mælti: hvat farit þèr með slíkt, ok mun þetta vera mikill hègómi. Þat bar til eitt sinn[2], at Ólafr konúngr fór fyrir land framm um sund nökkur, þá spurði hann: hvat bygð er hèr upp á landit? Menn hans svöruðu: herra! frá þessu fylki sögðum vèr yðr, at oss væri bezt fagnat. Konúngr mælti: hvat húsum er þat, sem hèr stendr upp frá ströndinni?

[1]) safnaðinn, *H.* [2]) sumar, *H.*

þeir svöruðu: þat hús á sá hinn fróði maðr, er vèr sögðum þèr frá. þeir sá þar eitt hross hjá húsinu; farið nú þá, segir konúngr, ok drepið hrossið. Eigi viljum vèr, sögðu þeir, gera honum skaða. Konúngr mælti: ek vil ráða, höggvið höfuð af hrossinu, ok varizt at blóð komi niðr, berið síðan höfuðit út á bátinn, ok komið undir þiljur niðr, svâ at eigi megi sjá, en færið búkinn út á skip vârt. þeir gerðu sem konúngr bauð. þá mælti konúngr: farið nú eptir bónda, ok segið honum ekki til, hvat þèr hafið gert við hrossit, þar skal líf yðvart viðliggja. þeir fóru ok sögðu bónda konúngs eyrindi, ok er hann kom mælti konúngr: hver á jörð þá er þú býr á? þèr eigið, herra! segir hann, ok takið leigur af. Konúngr mælti: seg oss leið framm fyrir nesit, þèr mun hèr vera kunnigt. Karl gekk í bátinn til konúngsmanna, er reyru fyrir skipinu, ok er hann hafði skamma hríð róið, flaug ein kráka framm yfir skipit, ok lèt illiliga; bóndi leit til hennar. Konúngr mælti: þykkir þèr, bóndi! athygli vert, [hvar krákan flýgr[1]? Eigi er þat síðr, segir bóndi, ok í því flaug önnur kráka yfir skipit, ok skrækti við. Bóndi gáði varla at róa, ok lèku lausar árarnar í höndum honum. Konúngr mælti: mikit finnst þèr um er kráka þessi skræktir. Bóndi svarar: ekki finnst mèr enn mikit um, þó er mèr nú grunr á hvat hon segir. þá flaug hin þriðja kráka, ok lagðist nær allt at skipinu, ok lèt sú verst; bóndi kastaði árunum, ok stóð upp í móti. Konúngr mælti: hvat segir krákan, bóndi! er þèr þykkir svâ mikils um vert? Hann svarar: eigi er vân at ek viti þat. Seg nú, segir konúngr. Bóndi svarar:

Segir vetrgömul,
veit ekki sú,
ok tvævetr segir[2],

1) er crákan scræcti, *M.* 2) *v. í H*; segr, *M.*

trúi ek eigi at[1] heldr,
en[2] þrèvetr segir[3],
þykkjat mèr líkligt[4]:
kveðr mik róa
á merar höfði,
en þik, konúngr!
þjóf míns fjár.

Hvat er nú, segir konúngr, viltu kalla mik þjóf, eigi mælist þèr þá vel til vâr. Svâ er, herra! segir bóndi, eigi er þat vel mælt, en haft munu þèr við mik hafa nökkurn prett. Svâ er bóndi, segir konúngr, gerðum vèr þetta til gamans ok til raunar, hvârt þú værir svâ vitr, sem oss var sagt, skal ek nú bæta þèr hross þitt. Veitti konúngr honum þá góðar gjafir, ok gaf honum upp landskyldir jarðar þeirrar, er hann bjó á. Sýndi Ólafr konúngr í þessu sem mörgu öðru, at hann var örvari af fè enn flestir konúngar; gaf hann ríkismönnum ok höfðíngjum ágæt skip ok aðrar gersimar, sem Steinn segir:

Gefr ættstuðill jöfra
örr ok steinda knörru,
hann vill hnöggvi sinnar,
hábrynjuð skip, synja[5];
þjóð nýtr Ólafs auðar,
annarr konúngr mönnum
sè þú hverr slíkt fè reiðir;
sik beztan gram miklu.

Hirð sína hèlt Ólafr konúngr fagrliga bæði at vâpnum ok klæðum umframm aðra konúnga; þess getr Steinn Herdísarson:

Hilmir gefr ok hjálma
hirð, svâ at eingis virðir,
konúngs prýða þau klæði
kynstórr fírum brynjur;

---

[1]) því, *H.* [2]) ef, *b. v. H.* [3]) segr, *M.* [4]) líkara, *H; en M hefir:* þiccira mèr glíclict. [5]) dynja, *H.*

dyggr lætr þúngar þiggja
þeingill af sèr dreingi
(vás launar svâ vísi
verðúng) Ha*mdis*[1] gerðar.

Öllum gaf hann þeim gull ok silfr eðr góða gripi, sem hann vildu athyllast, ok nökkut mannkaup var í; svâ segir Steinn:

Ólafr gefr, svâ at[2] jöfra
alls[3] eingi má snjallra,
höggvit gull til hylli
hildínga konr mildi;
gramr er heiðum himni,
hann er fremstr konúngmanna,
spyrrþú[4] hverr glíkt[5] mun gjörva
gjöflund, borinn undir[6].

8. Ólafr konúngr sat laungum í hèruðum at stórbúum, er hann átti; en er hann var austr á Ránríki at búi sínu ríku, þar sem heitir á Haukstöðum, þá tók hann sótt, þá er hann leiddi til bana; þá hafði hann verit konúngr at Noregi 6[7] vetr ok 20; en hann var til konúngs tekinn einum vetri eptir fall Haralds konúngs föður síns. Lík Ólafs konúngs var flutt norðr til Niðaróss, ok jarðat at Kristskirkju, þeirri er hann hafði gera látit. Hann var hinn vinsælasti konúngr, sem fyrr var sagt, ok hafði Noregr mikit auðgazt ok prýðst undir hans ríki.

---

[1]) Hars, *H*, *M*; Hálfs, *Hk*. [2]) *v. í Hk*. [3]) gallz, *M*; galli, *Hk*. [4]) spurþo, *M*. [5]) slíkt, *H*. [6]) *þannig M*, *H*, *Hk*; undan, *A*. [7]) 7, *M*.

